# ÍSLENDINGABÓK,

ER SKRIFAÐ HEFIR

## ARI ÞORGILSSON,

OG

# LANDNÁMABÓK.

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

**VALD. ÁSMUNDARSON.**

REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1891.

# FORMÁLI.

Íslendinga sögur hinar fornu gerast nú meir og meir fágætar meðal almennings, með því að hinar eldri útgáfur eru löngu uppseldar og slitnar. Þær sögur, sem aftr komið hafa út á síðari árum, hafa flestar verið gefnar út í vísindalegum útgáfum og því orðið dýrari enn svo að almenningr hafi getað keypt þær. Til að bœta úr þessari þörf almennings hefir því *Sigurðr* bóksali *Kristjánsson* í Reykjavík ráðizt í að gefa út allar Íslendinga sögur í ódýrum alþýðuútgáfum.

Þetta fyrirtœki hefir fengið góð og greið svör hjá almenningi, og kemr hér fyrsta sögubókin, sem er Íslendingabók og Landnáma. Í boðsbréfinu var gert ráð fyrir að byrja á öðru, enn af því að Íslendingabók og Landnáma eru upphöf að hinum fornu íslensku sögum, þótti best fara á því að láta þessi rit fara á undan.

Það er í raun og veru engu minni vandi að gefa út alþýðu-útgáfu af fornsögum enn vísindalega útgáfu. Við alþýðu-útgáfur eða texta-útgáfur er ekki síðr margs að gæta; það er ekki vandaminna að velja um, þegar alt

verðr að vera sem styzt, og ekki má tilfœra frásagnamun eða orðamun eftir hinum ýmsu handritum. Það er ólaglegt og í alla staði óvísindalegt, að hrœra mörgum handritum saman í einni útgáfu, án þess að geta þess hvaðan hvað eina sé tekið, enn undir eins og farið er að tilfœra þess konar að mun, getr útgáfan naumast heitið textaútgáfa.

Með því að ætlast er til, að sú útgáfu-röð af öllum Íslendinga sögum, sem byrjar á þessari bók, verði svo ódýr, að allr þorri almennings geti keypt hana, verðr því ekki hér við komið, að taka upp frásagnamun og orðamun eftir hinum ýmsu handritum, nema sem minst að verða má, og setr kostnaðarmaðrinn þessi skilyrði. Þó munu fyllri eða réttari frásagnir eða einstök orð, sem finnast réttari í öðrum handritum sögu þessarar enn því sem aðallega er fylgt, tekin upp í textann, og verða þá slíkar viðbœtr eða leiðréttingar, svo og tilgátur allar, auðkendar með öðru letri, og þess getið í formála bókarinnar, hvaðan þetta sé tekið, eða hvernig á því standi.

Um þessa útgáfu af Íslendingabók og Landnámabók er það skjótast að segja, að hér er prentað eftir útgáfu þeirri sem fornfræðafélagið lét prenta 1843 (Íslendingasögur I. bindi) og Jón Sigurðsson hefir að unnið. Íslendingabók er hér prentuð eftir hinni stafréttu útgáfu, sem þar er prentuð aftan við Landnámu á blaðsíðunum 362—383, enn stafsetningin þó samrœmd nokkuð, og er í því fylgt útgáfu Dr. Finns Jónssonar, Khöfn 1887. Í prentsmiðjunni var ekki nóg til af stafnum ǫ, og er því ö haft í staðinn.

enn ǫ er allstaðar haft til að tákna hljóð það sem breytist við eftirfaranda u, eins og er í útgáfu Dr. Finns Jónssonar.

Landnámabók er hér prentuð eftir meginmálinu í útgáfunni frá 1843. Þó hafa verið teknir inn í meginmálið nokkrir viðaukar eftir Melabók, úr orðamunargreinunum neðanmáls, og eru þessir kaflar og orð prentuð með skáletri og í milli hornklofa. Hið annað sem í þessari útgáfu er prentað með skáletri eru kaflar úr Hauksbók, hinir sömu, sem þannig eru teknir upp í meginmálið í útgáfu Jóns Sigurðssonar.

Hin elzta gerð af landnámabók er eftir Sturlu lögmann Þórðarson. Það er þessi gerð Landnámabókar, sem meginmálið í Khafnar útg. 1843 er tekið eftir. Þar næst ritaði Styrmir hinn fróði Landnámabók; hún er ekki lengr til. Þá ritaði Haukr lögmaðr Landnámabók (um 1300), sem er enn til, og er sumt í henni talið vera með eiginhendi Hauks, og hafði hann fyrir sér Sturlubók og Styrmisbók, „ok hafða ek þat ór hvárri, sem framar greindi, enn mikill þorri var þat, er þær sögðu eins báðar, ok því er þat ekki at undra, þó þessi landnámabók sé lengri enn nokkur önnur“, segir hann. Haukr segir og, að Ari prestr hinn fróði og Kolskeggr hinn vitri hafi fyrst skrifað um landnám, og má því ætla, að hin upphaflegasta Landnámabók sé samin af þeim. Auk þessara Landnámabóka, sem hér hafa nefndar verið, má telja fleiri gerðir af þeim, sem ekki hafa annað um fram hinar, enn ættatölur. Svo er t. d. Melabók, sem til er í brotum.

Ættatölurnar í Landnámu þurfa rannsókna við, því að

þær munu vera rangar á sumum stöðum. Hér hafa að eins verið leiðréttar fáeinar villur, og eru þessar leiðréttingar með skáletri. Væri ættatölurnar úr Landnámu rannsakaðar nákvæmlega og bornar saman við ættatölur í öðrum sögum, einkanlega Sturlunga sögu, mundi mega lagfœra ýmislegt.

Stafsetningin á þessari útgáfu er ekki samrœmd, enda er það ekki hœgt, og þykir réttara að halda misjöfnum rithætti handritanna á einstökum orðum. Fáein mannanöfn munu ef til vill vera rangt rituð. Nafnið Hallsteinn hefir verið haft um Hástein Atlason ens mjóva, því að bæði er svo ritað í Melabók og Flóamannasögu. Mannsnafnið Vali á bls. 71 og víðar á víst að vera *Váli*; mannsnafnið Armóðr á bls. 101 og víðar á að vera *Arnmóðr*, og mannsnafnið Bruni á bls. 107 og víðar á víst að vera *Brúni*. Viðrnefnið *spörr* (Þórólfr spörr) á bls. 100 og víðar er ranghneigt í handritum, og á eignarfallið víst að vera *spörs*, enn ekki *sparrar*. Viðnefnið *rúmgylta* (Þuríðr rúmgylta) er líklega réttara *rymgylta*, sem sum handrit hafa.

Misprentanir þessar hefi ég orðið var við: Kapítulatöl vantar við 7., 8., 9. og 15. kap. í I. hluta Landnámabókar. Á bls. 56 stendr Ísrauðr, á að vera *Ísrøðr*. Bls. $60_7$: Hitardalr á að vera *Hitárdalr*. Bls. $70_7$: Bersa á að vera *bersa*. Bls. $76_6$: Selþórssonar á að vera Selþórissonar. Bls. 124: II. (þar sem þriðji hlutr Ldn. hefst) á að vera III. Bls. $169_{19}$: ek á að vera *ok*. Bls. 174: Véþorn á að vera *Véþormr*, þar sem það stendr á þeirri bls. og eins á bls. 222. Enn þar á móti er *Véþorn* á bls. 110

tilgáta fyrir *Vepörn*, sem stendr í útg. 1843. Bls. $220_6$: Naddoðarssynir, á að vera *Naddoðarsynir*.

Í vísnaskýringunum hefir verið fylgt skýringum dr. Jóns Þorkelssonar rektors og í tímatalinu dr. Guðbrandi Vigfússyni.

Þess er ekki að vænta, að útgáfa þessi fullnœgi þeim kröfum, sem vísindalegum útgáfum hlýða, sem eru tífalt dýrari. Hún er ætluð alþýðu, og henni á hún að geta orðið að notum. Landnámabók er eitt af þeim fornritum, sem mestr vandi er að fást við, ef rækilega skyldi rannsaka hana og leiðrétta eftir hinum ýmsu handritum, og hér gat ekki verið um slíkt að rœða.

---

# TÍMATAL.

870. Ísland fundið.
874. Ingólfr byggir í Reykjavík.
877. Ketill hæingr nemr Rangárvöllu.
878. Skalla Grímr nemr land um Borgarfjörð og Mýrar.
884. Þórólfr mostrarskegg nemr land við Breiðafjörð sunnan fram.
886. Björn enn austrœni nemr land við Breiðafjörð sunnan fram.
Um 890. Ingimundr enn gamli nemr land um Húnavatnssýslu. Helgi enn magri nemr Eyjafjörð.
890--920. Hefjast landnám um Austfjörðu.
Um 892. Uðr en djúpauðga nemr land í Breiðafjarðardölum.
Um 900. Bygðir Vestfirðir.
900—910. Numin lönd í Skagafirði.
927. Úlfljótr hefir út lög.
929. Grímr geitskör(?) kannar Ísland.
930. Lokið landnámum að mestu. Alþingi sett.
982—983. Eiríkr enn rauði finnr Grœnland.
985—986. Eiríkr enn rauði nemr land á Grœnlandi.
1000. Kristni lögtekin á alþingi.



ÍSLENDINGA BÓC gørþa ec fyrst byscopom ǫrom Þorláki oc Katli, oc sýndac bæþi þeim oc Sæmundi presti. en meþ þuí at þeim lícaþi suá at hava eþa þar viþr auka, þá scrifaþa ec þessa of et sama far, fyr útan áttar tölo oc conunga ævi, oc iócc þuí es mér varþ síþan cunnara oc nú es gørr sagt á þessi an á þeiri. en huatki es missagt es í frœþom þessom, þá es scyllt at hava þat heldr, es sannara raynisc.

Hálfdan huítbeinn Upplendinga conungr, sonr Óláfs trételgio Suía conungs, vas faþer Aysteins fretz, föþor Hálfdanar ens milda oc ens matarilla, föþor Goþroþar veiþiconungs, föþor Hálfdanar ens suarta, föþor Haralldz ens hárfagra, es fyrstr varþ þess kyns einn conungr at öllom Norvegi.

In hoc codice continentur capitula.[1]

Frá Íslanz bygþ .i. frá lannáms mönnom .ii. oc laga setning. frá alþingis setning .iii. frá misseris tali .iiii. frá fiórþunga deild .v. frá Grœnlanz bygþ .vi. frá þuí es cristni kom á Ísland .vii. frá byscopom útlendom .viii. frá Ísleifi byscopi .ix. frá Gizori byscopi *(.x.)*.

Incipit libellus Islandorum.[2]

1. Ísland bygþisc fyrst ýr Norvegi á dögom Haralllz ens hárfagra Hálfdanar sonar ens suarta í þann tíþ at ætlon oc tölo þeira Teitz, fóstra míns, þess mannz, es ec kunna spacastan, sonar Ísleifs byscops, oc Þorkels, föþorbróþor míns, Gellissonar, es langt munþi fram, oc Þóríþar Snorra dóttor goþa, es bæþe vas margspöc oc óliúgfróþ, es Ívarr Ragnars sonr loþbrókar lét drepa Eadmund enn helga Engla conung. en þat vas .dccclxx. *vetra* eptir burþ cristz. at þuí es ritit es í sögu hans. Ingólfr hét maðr nórœnn, es sannlega es sagt at fœri fyrst þaþan til Íslanz, þá es Haralldr enn hárfagri vas .xvi. vetra gamall. en í annat sinn fǫm vetrom síþar. hann bygþi suþr í Raykiarvíc. þar es Ingólfshöfþi kallaþr, fyr austan Minþacsayri, sem hann

1) *þ. e.: Í þessi bók eru kapitular þessir.*

2) *þ. e.: Hér hefr Íslendingabók.*

kom fyrst á land, en þar Ingólfsfell, fyr vestan Ölfossǫ́, es hann lagþi sína eigo á síþan. í þann tíþ vas Ísland viþi vaxit á miþli fiallz oc fiöro. þá vǫ́ro hér menn cristner, þeir es Norþmenn kalla papa. en þeir fóro síþan á braut, af því at þeir vildo eigi vesa hér viþ heiþna menn, oc léto epter bœcr írscar oc bjöllor oc bagla. af því mátti scilia, at þeir vǫ́ro menn írskir. en þá varþ för manna mikil miöc út hingat ýr Norvegi, til þess unz conungrenn, Haralldr, bannaþi, af því at honom þótti landauþn nema. þá sættosc þeir á þat, at huerr maþr scylldi gialda conungi .v. aura, sá es eigi væri frá því scilіþr, oc þaþan fœri hingat. en suá es sagt, at Haralldr væri .lxx. vetra conungr oc yrþi átrœþr. þau hafa upphöf verit at gialldi því, es nú es kallat landaurar. en þar gallzk stundom meira, en stundom minna, unz Óláfr enn digri gørþi scýrt, at huerr maþr skylldi giallda conungi hálfa mörk, sá es fœri á miþli Norvegs oc Íslanz, nema conor eþa þeir menn, es hann næmi frá. suá sagþi Þorkell oss Gellissonr.

2. Hrollaugr, sonr Rögnvallz iarls á Mœri bygþi austr á Síþo. þaþan ero Síþomenn komner.

Ketilbiörn Ketilssonr, maþr nórœnn, bygþi suþr at Mosfelli eno øfra. þaþan ero Mosfellingar comner.

Oþr, dótter Ketils flatnefs, hersis nórœns, bygþi vestr í Breiþafirþi. þaþan ero Breiþfirþingar comner.

Helgi enn magri, nórœnn, sonr Ayvindar austmannz, bygþi norþr í Ayiafirþi. þaþan ero Ayfirþingar comner.

En þá es Ísland vas víþa bygt orþit, þá hafþi maþr austrœnn fyrst lög út hingat ýr Norvegi, sá es Úlfliótr hét, suá sagþi Teitr oss, oc vǫro þá Úlfliótzlög kölloþ, — hann vas faþer Gunnars, es Diúpdœler ero comner frá í Ayafirþi, — en þau vǫro flest sett at þuí, sem þá vǫro Golaþings lög, eþa rǫþ Þorleifs ens spaca Hörþacára sonar vǫro til, huar viþ scyldi auca eþa af nema eþa annan veg setia. Úlfljótr vas austr í Lóni. en suá es sagt, at Grímr geitscor væri fóstbróþir hans, sá es kannaþi Ísland alt at ráþi hans, áþr alþingi væri átt. en honom fecc huerr maþr penning til á landi hér, en hann gaf fé þat síþan til hofa.

3. Alþingi vas sett at ráþi Úlfliótz oc allra lanzmanna, þar es nú es. en áþr vas þing á Kialarnesi, þat es Þorsteinn Ingólfs sonr lannámamannz, faþer Þorkels mána lögsögumannz, hafþi þar, oc höfþingiar þeir es at þuí hurfu. en maþr hafþi secr orþit of þræls morþ eþa laysings, sá es land átti í Bláscógom. hann es nefndr Þórer croppinskeggi. en dóttorsonr hans es callaþr

Þorvalldr croppinskeggi, sá es fór síþan í Austfiörþo, oc brendi þar inni Gunnar bróþor sínn. suá sagþi Hallr Órœkiosonr. en sá hét Kolr, es myrþr vas. viþ hann es kend gea sú, er þar es kölloþ síþan Colsgea, sem hræen fundusc. land þat varþ síþan allzheriar fé. en þat lögþo lanzmenn til alþingis nayzlo. af þuí es þar almenning at viþa til alþingis í scógom, oc á heiþom hagi til hrossa hafnar. þat sagþi Úlfheþinn oss.

Suá hava oc spacer menn sagt, at á .lx. vetra yrþi Ísland albygt, suá at eigi væri meirr síþan. því nær tóc Hramn lögsögo, Hœings sonr lannámamannz, næstr Úlflióti, oc hafþi .xx. sumor. hann vas ýr Rangárhuerfi. þat vas .lx. vetra epter dráp Eadmundar conungs, vetri eþa tueim áþr Haralldr enn hárfagri yrþi dauþr at tölu spacra manna. Þórarinn Raga-bróþer, sonr Óleifs hialta, tóc lögsögo næstr Hramni, oc hafþi önnor .xx. hann vas borgfirþcr.

4. Þat vas oc þá, es ener spöcostu menn á landi hér hugþo tal í tueim misserom fióra daga ens fiórþa hundraþs, þat verþa vicor .ii. ens sétta tegar, en mǫnoþr .xii. þrítøgnáttar oc dagar .iiii. umbfram, þá mercþo þeir at sólargangi, at sumar munaþi aptr til várs, en þat cunni engi segia þeim, at degi einom vas fleira, an heilom vicom gegndi, í tueim misserom, oc þat olli. en maþr hét Þorsteinn surtr, hann vas breiþfirþcr, sonr

Hallsteins Þórólfs sonar mostrarsceggia, landnámamannz, oc Óscar Þorsteins dóttor ens rauþa. Hann draymdi þat, at hann hygþisc vesa at lögbergi, þá es þar vas fiölment, oc vaca, en hann hugþi alla menn aþra sova, en síþan hugþisc hann sofna, en hann hugþi þá alla menn aþra vacna. þann draum réþ Ósýfr Helgasonr, móþor faþer Gellis Þorkelssonar, suá, at aller menn mønþu *þögn varþa*[1], meþan hann mællti at lögbergi, en síþan, es hann þagnaþi, at þá møndi allir þat róma, es hann hefþi mællt. en þeir vǫro báþer spacer menn mjöc. en síþan es menn quǫmo til þings, þá leitaþi hann þess ráþs at lögbergi, at et siaunda huert sumar scylldi auka vico, oc freista, hvé þá hlýddi. en suá sem Ósýfr réþ draumenn, þá vöcnoþo aller menn viþ þat vel. oc vas þá þat þegar í lög leitt at ráþi Þorkels mána oc annara spacra manna. at rétto tali *ero* í huerio áre .v. dagar ens fiórþa hundraþs, ef eigi es hlaupár, en þá einom fleira, en at ǫro tali verþa .iiii. en þá es aycsc at ǫru tali et siaunda huert at vico, en øngo at hino, þá verþa .vii. ǫr saman iamnlöng at huǫrotueggia. en ef hlaupǫr verþa .ii. á miþli þeira, es auka scal, þá þarf auca et sétta.

5. Þinga deilld mikil varþ á miþli þeira Þórþar gellis, sonar Óleifs feilans ýr Breiþafirþi, oc Odz,

[1] Þögn varða. *Upphaflega tilgáta dr. Jóns Þorkelssonar rektors (í bréfi til Eiríks Magnússonar),* Þegn varð *hdr.*

þess es kallaþr vas Tungo-Oddr. hann vas borgfirþcr. Þorvalldr, sonr hans, vas at brenno Þorkels Blunnketilssonar meþ Hœsnaþóre í Örnólfsdali. en Þórþr geller varþ höfþingi at söcenni, af þuí at Hersteinn Þorkelssonr Blunnketilssonar átti Þórunni systordóttor hans. Hon vas Helgo dótter oc Gunnars, syster Jófríþar, es Þorsteinn átti, Egilssonr. en þeir vǫro sótter á þingi þuí, es vas í Borgarfirþi í þeim staþ, es síþan es kallat Þingnes. þat vǫro þá lög, at vígsacar scylldi sœkia á þuí þingi, es næst vas véttvangi. en þeir börþosc þar, oc mátti þinget eigi hayiasc at lögom. þar fell Þórólfr refr, bróþer Álfs í Dölum, ýr liþi Þórþar gellis. en síþan fóro sacarnar til alþingis, oc börþosc þeir þar þá enn. þá fello menn ýr liþi Odz. enda varþ secr hann Hœsnaþórer oc drepinn síþan, oc fleiri, þeir *es* at brennonni vǫro. þá talþi Þórþr geller tölo umb at lögbergi, hvé illa mönnum gegndi at fara í ócunn þing at sœkia of víg eþa harma sína, oc talþi, huat honom varþ fyrer, áþr hann mætti þuí máli til laga coma, oc quaþ ýmissa vandræþi møndo verþa, ef eigi réþisc bœtr á. þá vas landino scipt í fiórþunga, suá at .iii. urþu þing í hueriom fiórþungi, oc scylldo þingonautar eiga huar sacsócner saman, nema í Norþlendinga fiórþungi vǫro .iiii., af þuí at þeir urþu eigi á annat sátter. þeir, es fyr norþan vǫro Ayiafiörþ. villdo eigi þangat sœkia þinget, oc

eigi í Scagafiörþ, þeir es þar vǫro fyr vestan, en þó scylldi iömn dómnefna oc lögrétto scipon ýr þeira fiórþungi, sem ýr einom hueriom öþrom. en síþan vǫro sett fiórþungar þing. suá sagþi oss Úlfheþinn Gunnarssonr lögsögumaþr. Þorkell máni Þorsteinssonr Ingólfssonar tóc lögsögo epter Þórarin Raga-bróþor, oc hafþi .xv. sumor. þá hafþi Þorgeirr at Liósavatni Þorkelssonr .xvii. sumor.

6. Land þat es kallat es Grœnland fannzc oc bygþisc af Íslandi. Eiríkr enn rauþi hét maþr, breiþfirþcr, es fór út heðan þangat, oc nam þar land, es síþan es kallaþr Eiríksfiörþr; hann gaf namn landino, oc kallaþi Grœnland, oc quaþ menn þat mendo fýsa þangat farar, at landet ætti namn gótt. þeir fundu þar manna vister bæþi austr oc vestr á landi, oc keiplabrot oc steinsmíþi þat es af þuí má scilia, at þar hafþi þess conar þióþ farit, es Vínland hevir bygt oc Grœnlendingar calla Scrælinga. en þat vas, es hann tóc byggva landet, .xiiii. vetrom eþa .xv. fyrr an cristni quæmi hér á Ísland, at þuí es sá talþi fyr Þorkeli Gellissyni á Grœnlandi es siálfr fylgþi Eiríki enom rauþa út.

7. Óláfr conungr Trygguasonr Óláfs sonar Harallz sonar ens hárfagra com cristni í Norveg oc á Ísland. hann sendi hingat til lanz prest

þann es hét Þangbrandr oc hér kendi mönnom cristne, oc skírþi þá alla es viþ trú tóco. en Hallr á Síþo Þorsteinssonr lét scírasc snimhendis, oc Hiallti Sceggiasonr ýr Þiórsárdali, oc Gizorr enn huíti Teitzsonr Ketilbjarnarsonar frá Mosfelli, oc marger höfþingiar aþrer, en þeir vǫro þó fleiri, es í gegn mællto oc neitto. en þá es hann hafþi hér verit einn vetr eþa .ii., þá fór hann á braut, oc hafþi vegit hér .ii. menn eþa .iii., þá es hann höfþo nítt. en hann sagþi conunginom Óláfi, er hann com austr, alt þat, es hér hafþi yfer hann gingit, oc lét ørvænt at hér møndi cristni enn tacasc. en hann varþ viþ þat reiþr miöc, oc ætlaþi at láta meiþa eþa drepa ossa landa fyrer. þá es þar vǫro austr. en þat sumar et sama quǫmo útan héþan þeir Gizorr oc Hiallti, oc þǫgo þá undan viþ conungenn, oc héto honom umbsýslo sinni til á nýialeic, at hér yrþi enn viþ cristninni tekit, oc léto sér eigi annars vǫn, an þar møndi hlýþa, en et næsta sumar epter fóro þeir austan oc prestr sá, es Þormóþr hét, oc quǫmo þá í Vestmannaayiar, es .x. vicor vǫro af sumri, oc hafþi alt farizc vel at. sua quaþ Teitr þann segia, es siálfr vas þar. þá vas þat mællt et næsta sumar áþr í lögom, at menn scylldi suá coma til alþingis, es .x. vicor væri af sumri, en þangat til quǫmo menn vico fyrr. en þeir fóro þegar inn til meginlanz, oc síþan til alþingis, oc gǫto

at Hiallta, at hann vas epter í Laugardali meþ .xii. mann, af þuí at hann hafþi áþr secr orþit fiörbaugsmaþr et næsta sumar á alþingi of goþgǫ́. en þat vas til þess haft, at hann quaþ at lögbergi quiþling þenna

vilc eigi goþ gayia,
gray þycce mér Frayia.

en þeir Gizorr fóro, unz þeir quǫ́mo í staþ þann í hiá Ölfossvatni, es kallaþr es Vellankatla, oc gørþo orþ þaþan til þings, at á mót þeim scylldi coma aller fultingsmenn þeira, af þuí at þeir höfþo spurt, at andscotar þeira villdi veria þeim vígi þingvöllenn. en fyrr an þeir fœri þaþan, þá kom þar ríðandi Hiallti oc þeir es epter vǫro meþ honom. en síþan riþo þeir á þinget, oc quǫ́mo áþr á mót þeim frændr þeira oc viner, sem þeir höfþo æst, en ener heiþno menn hurfu saman meþ alvæpni, oc hafþi suá nær, at þeir møndi beriasc, at *eigi* of sá á miþli. en annan dag epter gingo þeir Gizorr oc Hiallti til lögbergis, oc bǫro þar upp erindi sín, en suá er sagt, at þat bæri frá, hué vel þeir mællto. en þat gørþisc af þuí, at þar nefndi annarr maþr at öþrom vátta, oc sögþosc hvárer ýr lögom viþ aþra, ener cristno menn oc ener heiþno, oc gingo síþan frá lögbergi. þá bǫþo ener cristno menn Hall á Síþo, at hann scylldi lög þeira upp segia, þau es cristninni scylldi fylgia. en hann laystisc þuí undan viþ þá, at hann caypti

at Þorgeiri lögsögomanni, at hann scylldi upp segia, en hann vas enn þá heiþinn. en síþan es menn quǫmo í búþer, þá lagþisc hann niþr, Þorgeirr, oc breiddi felld sinn á sic, oc hvílþi þann dag allan oc nǫttena epter oc quaþ ecki orþ, en of morgonenn epter settisc hann upp, oc gørþi orþ, at menn scylldi ganga til lögbergis. en þá hóf hann tǒlo sína upp, es menn quǫmo þar, oc sagþi, at honom þótti þá comit hag manna í ónýtt efni, ef menn scylldi eigi hava aller lög ein á landi hér, oc talþi fyr mönnom á marga vega, at þat scylldi eigi láta verþa, oc sagþi, at þat møndi at þuí ósætti verþa, es vísavǫn vas, at þær barsmíþer gerþisc á miþli manna, es landet ayddisc af. hann sagþi frá þuí, at conungar ýr Norvegi oc ýr Danmörco höfþo haft ófriþ oc orrostor á miþli sín langa tíþ, til þess unz lanzmenn gørþo friþ á miþli þeira, þótt þeir villdi eigi. en þat ráþ gørþisc suá, at af stundu sendosc þeir gersemar á miþli, enda hellt friþr sá, meþan þeir lifþo — „en nú þykker mér þat ráþ“, quaþ hann, „at vér látim oc eigi þá ráþa, es mest vilia í gegn gangasc, oc miþlom suá mǫl á miþli þeira, at huerer tueggio havi nacquat síns máls oc hövom aller ein lög oc einn siþ. þat mon verþa satt es vér slítom í sundr lögom, at vér monom slíta oc friþenn“. en hann lauc suá máli síno, at huárer tueggio iǫtto þuí, at aller scylldi ein lög hava, þau sem

hann réþi upp at segja. þá vas þat mællt í lögom, at aller menn scylldi cristner vesa oc scírn taca, þeir es áþr vǫro óscírþer á landi hér. en of barna útburþ scylldo standa en forno lög oc of hrossakiötz át. scylldo menn blóta á laun ef villdo, en varþa fiörbaugsgarþr, ef vǫttom of quæmi viþ. en síþar fǫm vetrom vas sú heiþni af numin sem önnor. þenna atburþ sagþi Teitr oss at þuí es cristni com á Ísland. en Óláfr Trygguasonr fell et sama sumar at sögo Sæmundar prestz. þá barþisc hann viþ Suein Harallzson Dana conung oc Óláf enn sœnsca, Eirícs son at Uppsölom Suía conungs, oc Eiríc, es síþan vas iarl at Norvegi, Hǫconarson. þat vas .cxx. vetra epter dráp Eadmundar, en .m. epter burþ cristz at alþýþo tali.

8. Þessi ero nömn byscopa þeira, es verit hava á Íslandi útlender, at sögo Teitz. Friþrecr com í heiþne hér, en þesser vǫro síþan: Biarnharþr enn bócvísi .v. ǫr. Colr fǫ ǫr. Hróþólfr .xix. ǫr. Jauhan enn írski fǫ ǫr. Biarnharþr .xix. ǫr. Heinrecr .ii. ǫr. enn quǫmo hér aþrer .v., þeir es byscopar quǫþosc vesa, Örnólfr oc Goþiscǫlcr. oc .iii. ermsker, Pétrús oc Ábrahám oc Stéphánús.

Grímr at Mosfelli Suertingssonr tóc lögsögo epter Þorgeir oc hafþi .ii. sumor, en þá fecc hann lof til þess, at Scapti Þórodzsonr hefþi,

systorson hans, af þuí at hann vas hásmæltr siálfr. Scapti hafþi lögsögo .xxvii. sumor. hann setti fimtardómslög, oc þat, at engi vegandi scylldi lýsa víg á hendr öþrom manni an sér. en áþr vǫro hér slíc lög of þat sem í Norvegi. á hans dögom urþu marger höfþingiar oc ríkismenn seker eþa landflótta of víg eþa barsmíþer af ríkis söcom hans oc landstiórn, en hann andaþisc á eno sama áre og Óláfr enn digri fell Harallzsonr Goþrøþarsonar Biarnarsonar Harallz sonar ens hárfagra, .xxx. vetrom síþar, an Óláfr felli Trygguasonr. þá tóc Steinn Þorgestessonr lögsögo oc hafþi .iii. sumor, þá hafþi Þorkell Tiörvasonr .xx. sumor. þá hafþi Geller Bölvercssonr .ix. sumor.

Ísleifr Gizorar sonr ens huíta vas vígþr til byscops á dögom Harallz Norvegs conungs Sigurþarsonar Hálfdanarsonar Sigurþar sonar hrísa Harallz sonar ens hárfagra, en es þat sǫ höfþingiar oc góþer menn, at Ísleifr vas myklo nýtri, an aþrer kennimenn, þeir es á þuísa landi næþi, þá selldo honom marger sono sína til læringar, oc léto vígia til presta; þeir urþu síþan vígþer .ii. til byscopa, Collr, es vas í Víc austr, oc Jóan at Hólom. Ísleifr átti .iii. sono, þeir urþu aller höfþingiar nýter, Gizorr byscop oc Teitr prestr, faþer Hallz, oc Þorvalldr. Teit fœddi Hallr í Haukadali, sá maþr, es þat vas al-

mællt, at milldastr væri oc ágæztr at góþo á landi hér ólærþra manna. ec kom oc til Hallz .vii. vetra gamall, vetri epter þat es Geller Þorkelssonr, föþor faþer minn oc fóstri andaþisc, oc vasc þar .xiiii. vetr. Gunnar enn spaci hafþi tekit lögsögo, þá es Geller lét af, oc hafþi .iii. sumor. þá hafþi Colbeinn Flosasonr .vi. þat sumar, es hann tóc lögsögo, fell Haralldr conungr á Englandi. þá hafþi Geller í annat sinn .iii. sumor. þá hafþi Gunnarr í annat sinn .i. sumar. þá hafþi Sighuatr Surtzsonr, systorson Colbeins, .viii. á þeim dögom com Sæmundr Sigfússonr sunnan af Fraclandi hingat til lanz, oc lét síþan vígiasc til prestz.

Ísleifr vas vígþr til byscops, þá es hann vas fimtøgr. þá vas Léó *nonus* páve. en hann vas enn næsta vetr í Norvegi, oc fór síþan út hingat. enn hann andaþisc i Scálahollti, þá es hann hafþi allz verit byscop .iiii. vetr oc .xx. suá sagþi Teitr oss. þat vas á dróttins degi .vi. nǫ́ttom epter hǫ́tíþ þeira Petars oc Pǫ́ls, .lxxx. vetra epter Ólafs fall Trygguasonar. þar vas ec þá meþ Teiti fóstra mínom .xii. vetra gamall. en Hallr sagþi oss suá, es bæþi vas minnigr oc ólyginn oc munþi siálfr þat, es hann vas scírþr, at Þangbrandr scírþi hann þrévetran. en þat vas vetri fyrr, an cristni væri hér í lög tekin. en hann gørþi bú þrítøgr oc bió .lxiiii. vetr í Haukadali, oc hafþi .xciiii vetr, þá es hann and-

aðisc, en þat vas of hǫtíþ Martens byscops á enom .x. vetri epter andlát *Ísleifs* byscops.

10. Gizorr byscop, sonr Ísleifs, vas vígþr til byscops at bœn lanzmanna á dögom Óláfs conungs Harallzsonar, .ii. vetrom epter þat, es Ísleifr andaþisc. þann vas hann annan hér á landi, en annan á Gautlandi. en þá vas namn hans rétt. at hann hét Gisrøþr. suá sagþi hann oss. Marcús Sceggiasonr hafþi lögsögo næstr Sighuati, oc tóc þat sumar, es Gizorr byscop hafþi einn vetr verit hér á landi, en fór meþ .iiii. sumor oc .xx. at hans sögo es scrifoþ ævi allra lögsögomanna á bóc þessi, þeira es vǫro fyr várt minni. en honom sagþi Þórarinn bróþer hans, oc Sceggi faþer þeira, oc fleiri spaker menn, til þeira ævi, es fyr hans minni vǫro, at þuí es Biarni enn spaki hafþi sagt, föþor faþer þeira, es munþi Þórarin lögsögomann oc .vi. aþra síþan. Gizorr byscop vas ástsælli af öllom lanzmönnom, an huerr maþr annarra, þeira es vér vitem hér á landi hava verit. af ástsælþ hans oc af tölom þeira Sæmundar, meþ umbráþi Marcús lögsögomannz, vas þat í lög leitt, at aller menn tölþo oc virþo alt fé sítt, oc sóro at rétt virt væri, huárt sem vas í löndom eþa í lausaaurom, oc gørþo tíund af síþan. þat ero miclar iartegner, huat hlýþner lanzmenn vǫro þeim manni, es hann com þuí fram, at fé alt vas virt meþ

suardögom, þat es á Íslandi vas, oc landet siálft, oc tíunder af gørvar, oc lög á lögþ, at suá scal vesa meþan Ísland es bygt. Gizorr byscop lét oc lög leggia á þat, at stóll byscops þess, es á Íslandi væri, scylldi í Scálahollti vesa, en áþr vas huergi, oc lagþi hann þar til stólsens Scálahollzland oc margra cynia auþœve önnor bæþi í löndom oc í lausom aurom. en þá es hǫnum þótti sá staþr hava vel at auþœvom þróazk, þá gaf hann meir an fiórþung byscopsdóms síns til þess, at helldr væri .ii. byscopsstólar á landi hér, an einn, suá sem Norþlendingar æsto hann til. en hann hafþi áþr látit telia búendr á landi hér, oc vǫro þá í Austfirþinga fiórþungi .vii. hundroþ heil, en í Rangæinga fiórþungi .x., en í Breiþ*firþ*inga fiórþungi .ix., en í Ayfirþinga fiórþungi .xii., en ótalþer vǫro þeir, es eigi ǫtto þingfarar caupi at gegna of alt Ísland.

Úlfheþinn Gunnars sonr ens spaca tóc lögsögo epter Marcús, oc hafþi .ix. sumor, þá hafþi Bergþórr Hramnssonr .vi., en þá hafþi Goþmundr Þorgeirssonr .xii. sumor. et fyrsta sumar, es Bergþórr sagþi lög upp, vas nýmæli þat gørt, at lög ǫr scylldi scriva á bóc at Hafliþa Mǫssonar of vetrenn epter at sögo oc umbráþi þeira Bergþórs oc annara spacra manna, þeira es til þess vǫro tecner. scylldu þeir gorva nýmæli þau öll í lögom, es þeim litisc þau betri, an en forno lög. scylldi þau segja upp et næsta sumar

epter í lögrétto, oc þau öll hallda, es enn meiri hlutr manna mællti þá eigi gegn. en þat varþ *fram at fara*, at þá vas scrifaþr Vígslóþi oc mart annat í lögom, oc sagt upp í lögrétto af kennimönnom of sumaret epter. en þat lícaþi öllom vel, oc mællti þuí mangi í gegn. þat vas oc et fyrsta sumar, es Bergþórr sagþi lög upp, þá vas Gizorr byscop óþingfœrr af sótt. þá sendi hann orþ til alþingis vinom sínom oc höfþingiom, at biþia scylldi Þorlác Rúnólfsson Þorleikssonar, bróþor Hallz í Haukadali, at hann scylldi láta vígiasc til byscops. en þat gørþo aller suá sem orþ hans quǫ́mo til, oc fecsc þat af þuí, at Gizorr hafþi siálfr fyrr miöc beþit, oc fór hann útan þat sumar, en kom út et næsta epter, oc vas þá vígþr til byscops. Gizorr vas vígþr til byscops þá es hann vas fertøgr. þá vas Grégóríús septimus páve. en síþan vas hann enn næsta vetr í Danmörco, oc kom of sumaret epter hingat til lanz. en þá es hann hafþi verit .xxiiii. vetr byscop, suá sem faþer hans, þá vas Jóan Ögmundarsonr vígþr til byscops fyrstr til stóls at Hólom. þá vas hann vetri miþr an hálfsextogr. en .xii. vetrom síþar, þá es Gizorr hafþi allz verit byscop .xxxvi. vetr. þá vas Þorlácr vígþr til byscops. hann lét Gizorr vígia til stóls í Scálahollti at sér lifanda. þá vas Þorlácr .ii. vetrom meirr an .xxx. en Gizorr byscop andaþ-

isc .xxx. nǫ́ttom síþar í Scálahollti á enom þriþia degi í vico .*v*. kalend. iunii.

Á þuí áre eno sama andaþisc Páschalis secundus páve, fyrr an Gizorr biscop, oc Baldvine Jórsala conungr, oc Arnaldus patriarcha í Híerúsalem, oc Philippús Suía conungr. en síþar et sama sumar Álexíus Grikkia conungr. þá hafþi hann .xxxviii. vetr setit at stóli í Miclagarþi. en .ii. vetrom síþar varþ allda mót. þá höfþo þeir Aysteinn oc Sigurþr verit .xvii. vetr conungar í Norvegi eptir Magnús föþor sínn, Óláfsson Haralłzsonar. þat vas .cxx. vetrom eptir fall Óláfs Trygguasonar, en .ccl. epter dráp Eadmundar Engla conungs. en .dxvi. vetrom epter andlát Grégóriús páva, þess es cristni com á England, at þuí es talit es. en hann andaþisc á öþro áre conungdóms Fócó keisara .dciiii. vetrom eptir burþ cristz at almannatali. þat verþr alt saman .mcxx. ǫ́r. hér lýcsc siá bóc.

---

Þetta es cyn byscopa Íslendinga oc áttar tala:

Ketilbiörn landnámsmaþr, sá es bygþi suþr at Mosfelli eno øfra, vas faþer Teitz. föþor Gizorar ens huíta, föþor Ísleifs. es fyrstr vas byscop í Scálahollte, föþor Gizorar byscops.

Hrollaugr landnámsmaþr, sá es bygþi austr

á Síþo, á Breiþabólstaþ, vas faþer Özorar, föþor Þórdísar, móþor Hallz á Síþo, föþor Egils, föþor Þorgerþar, móþor Jóans, es fyrstr vas byscop at Hólom.

Oþr landnámscona, es bygþi vestr í Breiþafirþi, í Huammi, vas móþer Þorsteins ens rauþa, föþor Óleifs feilans, föþor Þórþar gelles, föþor Þórhilldar riúpu, móþor Þórþar hesthöfþa, föþor Carlsefnes, föþor Snorra, föþor Hallfríþar, móþor Þorlács, es nú es byscop í Scálahollti, næstr Gizori.

Helgi enn magri landnámamaþr, sá es bygþi norþr í Eyiafirþi, í Cristnesi, vas faþer Helgo, móþor Einars, föþor Eyiólfs Valgerþarsonar, föþor Goþmundar, föþor Eyiólfs, föþor Þorsteins, föþor Ketils, es nú es byscop at Hólom, næstr Jóani.

---

Þessi ero nömn langfeþga Ynglinga oc Breiþfirþinga:

.i. Yngui Tyrkia conungr. .ii. Niörþr Suía conungr. .iii. Freyr. .iiii. Fiölner, sá es dó at Friþfróþa. .v. Suegþer. .vi. Vanlandi. .vii. Vísburr. .viii. Dómaldr. .ix. Dómarr. .x. Dyggue. .xi. Dagr. .xii. Alrecr. .xiii. Agne. .xiiii. Yngui. .xv. Jörundr. .xvi. Aun enn gamli. .xvii. Egill vendilcráca. .xviii. Óttarr. .xix. Aþísl at Uppsölom. .xx. Eysteinn. .xxi. Ynguarr. xxii. Brautönundr. .xxii. Ing-

ialdr enn illráþi. .xxiiii. Óláfr trételgia. .xxv. Hálfdan huítbeinn Upplendinga conungr. .xxvi. Goþrøþr. .xxvii. Óláfr. .xxviii. Helgi. .xxix. Ingialdr dóttorsonr Sigurþar Ragnars sonar loþbrócar. .xxx. Óleifr enn huíti. .xxxi. Þorsteinn enn rauþi. .xxxii. Óleifan feilan, es fyrstr bygþi þeira á Íslandi. .xxxiii. Þórþr geller. .xxxiiii. Eyiólfr, es skírþr vas í elli sínni, þá es cristni com á Ísland. .xxxv. Þorkell. .xxxvi. Geller, faþer þeira Þorkels, föþor Branz, oc Þorgils, föþor míns, en ec heitec **Are.**



# Landnámabók.

*Þetta er prologus fyri bôk þessi.*

Í aldarfarsbók þeiri. er Beda prestr heilagr gerði, er getið eylands þess er Týli heitir, ok á bókum er sagt at liggi sex dœgra sigling í norðr frá Bretlandi; þar sagði hann eigi koma dag á vetr, ok eigi nótt á sumar, þá er dagr er sem lengstr. Til þess ætla vitrir menn þat haft, at Ísland sé Týli kallat, at þat er víða á landinu er sól skínn um nætr, þá er dagr er sem lengstr, enn þat er víða um daga er sól sér eigi. þá er nótt er sem lengst. Enn Beda prestr andaðist .dccxxxv. árum eftir holdgan dróttins várs, at því er ritað er, ok meirr enn hundraði ára fyrr enn Ísland bygðist af Norðmönnum. Enn áðr Ísland bygðist af Noregi, váru þar þeir menn. er Norðmenn kalla Papa; þeir váru menn kristnir, ok hyggja menn at þeir hafi verit vestan um haf, því at fundust eftir þeim bœkr írskar, bjöllur ok baglar, ok enn

fleiri hlutir, þeir er þat mátti skilja at þeir váru Vestmenn; *þat fanst í Papey austr ok í Papíli;* er ok þess getit á bókum enskum, at í þann tíma var farit milli landanna.

# I.

**Hér hefr landnámabók, ok segir í hinum fyrsta capítula hvert skemst er frá Íslandi.**

**1.** Þá er Ísland fanst ok bygðist af Noregi, var Adríanus pávi í Róma, ok Jóhannes eftir hann, sá er enn átti var með því nafni í postulegu sæti; enn Hlöðvér Hlöðvésson keisari fyrir norðan fjall; enn Leó ok Alexandr son hans yfir Miklagarði; þá var Haraldr hárfagri konungr yfir Noregi, enn Eiríkr Eymundarson í Svíþjóð ok Björn son hans; enn Gormr enn gamli at Danmörk; enn Elfráðr enn ríki í Englandi ok Játvarðr son hans; enn Kjarvalr at Dýflinni; Sigurðr jarl enn ríki í Orkneyjum.

Svá segja vitrir menn, at ór Noregi frá Staði sé sjau dœgra sigling í vestr til Horns á Íslandi austanverðu; enn frá Snæfellsnesi, þar er skemst er, er fjogurra dœgra haf í vestr til Grœnlands. Enn svá er sagt, ef siglt er ór Björgyn rétt í vestr til Hvarfsins á Grœnlandi, at þá mun siglt vera tylft fyrir sunnan Ísland. *[Af Hernum í Noregi skal sigla jamn-*

*an í vestr til Hvarfs á Grœnlandi, ok er þá siglt fyrir norðan Hjaltland svá, at því at eins sé þat, at allgóð sé sjóvar sýn; enn fyrir sunnan Fæeyjar svá, at sjór er í miðjum hlíðum, enn svá fyrir sunnan Island, at þeir hafa af fugl ok hval].* Frá Reykjanesi á sunnanverðu Íslandi er fimm dœgra haf til Jolduhlaups á Írlandi, *í suðr; enn frá Langanesi á norðanverðu Islandi er* fjogurra dœgra haf norðr til Svalbarða í Hafsbotn; *enn dœgrsigling er til óbygða á Grœnlandi ór Kolbeinsey norðr.*

Svá er sagt, at menn skyldu fara ór Noregi til Færeyja; nefna sumir til Naddoð víking; enn þá rak vestr í haf, ok fundu þar land mikit; þeir gengu upp í Austfjörðum á fjall eitt hátt, ok sást um víða, ef þeir sæi reyki eða nökkur líkindi til þess at landit væri bygt; ok sá þeir þat ekki. Þeir fóru aftr um haustit til Færeyja; ok er þeir sigldu af landinu, fell snær mikill á fjöll, ok fyrir þat kölluðu þeir landit Snæland. Þeir lofuðu mjök landit. Þar heitir nú Reyðarfjall í Austfjörðum, er þeir höfðu at komit. Svá sagði Sæmundr prestr enn fróði.

Maðr hét Garðarr Svavarsson, sœnskr at ætt; hann fór at leita Snælands at tilvísan móður sínnar framsýnnar; hann kom at landi fyrir austan Horn et eystra; þar var þá höfn. Garðarr sigldi umhverfis landit, ok vissi at þat var eyland. Hann var um vetr einn norðr í Húsa-

vík á Skjálfanda ok gerði þar hús. Um várit, er hann var búinn til hafs, sleit frá honum mann á báti, er hét Náttfari, ok þræl ok ambátt. Hann bygði þar síðan er heitir Náttfaravík. Garðarr fór þá til Noregs ok lofaði mjök landit. Hann var faðir Una, föður Hróars Tungugoða. Eftir þat var landit kallat Garðarshólmr, ok var þá skógr milli fjalls ok fjöru.

**2.** Flóki Vilgerðarson hét maðr; hann var víkingr mikill; hann *[bjóst af Rogalandi at leita Snælands. Þeir lágu í Smjörsundi. Hann fekk at blóti miklu ok blótaði hrafna þrjá, þá er honum skyldu leið vísa, því at þá höfðu hafsiglingarmenn engir leiðarstein í þann tíma á Norðrlöndum. Þeir hlóðu þar varða, er blótit hafði verit, ok kölluðu Flókavarða; þat er þar er]* mætist Hörðaland ok Rogaland. Hann fór fyrst til Hjaltlands ok lá þar í Flókavági; þar týndist Geirhildr dóttir hans í Geirhildarvatni. Með Flóka var á skipi bóndi sá er Þórólfr hét, annarr Herjólfr. Faxi hét suðreyskr maðr, er þar var á skipi. *[Flóki sigldi þaðan til Færeyja ok gifti þar dóttur sína. Frá henni var Þrándr í Götu. Þaðan sigldi hann út í haf með hrafna þá þrjá, er hann hafði blótað í Noregi];* ok er hann lét lausan enn fyrsta, fló sá aftr um stafn; annarr fló í loft upp ok aftr til skips; enn þriði fló fram um stafn í þá átt sem þeir fundu

landit. Þeir kvámu austan at Horni, ok sigldu fyrir sunnan landit. Enn er þeir sigldu vestr um Reykjanes, ok upp lauk firðinum, svá at þeir sá Snæfellsnes, þá rœddi Faxi um: „Þetta mun vera mikit land, er vér höfum fundit; hér eru vatnföll stór“. Síðan er þat kallaðr Faxaóss. Þeir Flóki sigldu vestr yfir Breiðafjörð, ok tóku þar land sem heitir Vatnsfjörðr, við Barðaströnd. Þá var fjörðrinn fullr af veiðiskap, ok gáðu þeir eigi fyrir veiðum at fá heyjanna, ok dó alt kvikfé þeira um vetrinn. Vár var heldr kalt. Þá gekk Flóki upp á fjall eitt hátt, ok sá norðr yfir fjöllin fjörð fullan af hafísum; því kölluðu þeir landit Ísland, sem þat hefir síðan heitit. Þeir Flóki ætluðu brutt um sumarit, ok urðu búnir litlu fyrir vetr. *Þar sér enn skálatóft þeira inn frá Br[i]anslœk, ok svá hrófit, ok svá seyði þeira.* Þeim beit eigi fyrir Reykjanes, ok sleit frá þeim bátinn, ok þar á Herjólf. Hann tók þar *[land]*, sem nú heitir Herjólfshöfn. Flóki *[kom í Hafnarfjörð. Þeir fundu hval á eyri einni út frá firðinum ok kölluðu þar Hvaleyri. Þar fundust þeir Herjólfr]*. Flóki var um vetrinn í Borgarfirði. Þeir sigldu um sumarið eftir til Noregs. Ok er menn spurðu af landinu, þá lét Flóki illa yfir, enn Herjólfr sagði kost ok löst af landinu; enn Þórólfr kvað drjúpa smjör af hverju strái á landinu, því er

þeir höfðu fundit; því var hann kallaðr Þórólfr smjör.

3. Björnólfr hét maðr, enn annarr Hróaldr; þeir váru synir Hrómundar Greipssonar; þeir fóru af Þelamörk fyrir víga sakir, ok staðfestust í Dalsfirði á Fjölum. Sonr Björnólfs var Örn, faðir þeira Ingólfs ok Helgu, enn Hróalds son var Hróðmarr, faðir Leifs. Þeir Ingólfr ok Leifr fóstbrœðr fóru í hernað með sonum Atla jarls ens mjóva af Gaulum, þeim H*[all]*steini, ok Hersteini ok Hólmsteini. Með þeim fóru öll skifti vel; ok er þeir kvámu heim, mæltu þeir til samfara með sér annat sumar; enn um vetrinn gerðu þeir fóstbrœðr veizlu sonum jarlsins. At þeiri veizlu strengdi Hólmsteinn heit, at hann skyldi eiga Helgu Arnardóttur eða öngva konu ella. Um þessa heitstrenging fanst mönnum fátt; enn Leifr roðnaði á at sjá, ok varð fátt um með þeim Hólmsteini, er þeir skildu þar at boðinu.

4. Um várit eftir bjoggust þeir fóstbrœðr at fara í hernað, ok ætluðu til móts við sonu Atla jarls. Þeir fundust við Hísargafl, ok lögðu þeir Hólmsteinn brœðr þegar til orrostu við þá Leif. Enn er þeir höfðu barizt um hríð, kom at þeim Ölmóðr enn gamli, son Hörða-Kára, frændi Leifs, ok veitti þeim Ingólfi. Í þeiri orrostu fell Hólmsteinn, enn Hersteinn flýði. Þá fóru þeir Leifr í hernað. Enn um vetrinn

eftir fór Hersteinn at þeim Leifi, ok vildi drepa þá; enn þeir fengu njósn af för hans, ok gerðu[st] mót honum; varð þá enn orrosta mikil, ok fell þar Hersteinn. Eftir þat dreif at þeim fóstbrœðrum vinir þeira ór Firðafylki. Vóru þá menn sendir á fund Atla jarls ok H[all]steins at bjóða sættir, ok sættust þeir at því, at þeir Leifr guldu eignir sínar þeim feðgum. Enn þeir fóstbrœðr bjoggu skip mikit, er þeir áttu, ok fóru at leita lands þess er Hrafnaflóki hafði fundit ok þá var Ísland kallat. Þeir fundu landit, ok váru í Austfjörðum í Álftafirði enum syðra. Þeim virðist landit betra suðr enn norðr. Þeir váru einn vetr á landinu, ok fóru þá aftr til Noregs.

5. Eftir þat varði Ingólfr fé þeira til Íslands ferðar, enn Leifr fór í hernað í vestrvíking; hann herjaði á Írland, ok fann þar jarðhús mikit; þar gekk hann í, ok var myrkt, þar til er lýsti af sverði því er maðr helt á. Leifr drap þann mann ok tók sverðit, ok mikit fé af honum; síðan var hann kallaðr Hjörleifr. Hjörleifr herjaði víða um Írland, ok fekk þar mikit fé; þar tók hann þræla tíu, er svá hétu: Dufþakr ok Geirrøðr, Skjaldbjörn, Halldórr ok Drafdritr; eigi eru nefndir fleiri. Enn eftir þat fór Hjörleifr til Noregs ok fann þar Ingólf fóstbróður sinn. Hann hafði áðr fengit Helgu Arnardóttur, systur Ingólfs. Þenna vetr fekk Ing-

ólfr at blóti miklu, ok leitaði sér heilla um forlög sín; enn Hjörleifr vildi aldri blóta. Fréttin vísaði Ingólfi til Íslands. Eftir þat bjó sítt skip hvárr þeira mága til Íslands ferðar; hafði Hjörleifr herfang sítt á skipi, enn Ingólfr félags fé þeira, ok lögðu til hafs er þeir váru búnir.

6. Sumar þat, er þeir Ingólfr fóru til at byggja Ísland, hafði Haraldr hárfagri verit tólf ár konungr at Noregi; þá var liðit frá upphafi þessa heims sex þúsundir vetra ok sjautigir ok þrír vetr, enn frá holdgan dróttins átta hundruð ok sjautigir ok fjogur ár. Þeir höfðu samflot, þar til er þeir sá Ísland; þá skildi með þeim. Þá er Ingólfr sá Ísland, skaut hann fyrir borð öndugis súlum sínum til heilla; hann mælti svá fyrir, at hann skyldi þar byggja, er súlurnar kœmi á land. Ingólfr tók þar land, er nú heitir Ingólfshöfði; enn Hjörleif rak vestr fyrir land, ok fekk hann vatnfátt. Þá tóku þrælarnir írsku þat ráð, at knoða saman mjöl ok smjör, ok kölluðu þat óþorstlátt; þeir nefndu þat minþak; enn er þat var tilbúit, kom regn mikit, ok tóku þeir þá vatn á tjöldum; enn er minþakit tók at mygla, köstuðu þeir því fyrir borð, ok rak þat á land, þar sem nú heitir Minþakseyrr. Hjörleifr tók land við Hjörleifshöfða, ok var þar þá fjörðr, ok horfði botninn inn at höfðanum. Hjörleifr lét þar gera skála tvá, ok er önnur

tóftin átján faðma, enn önnur nítján. Hjörleifr sat þar um vetrinn. Enn um várit vildi hann sá; hann átti einn uxa, ok lét hann þrælana draga arðrinn. Enn er þeir Hjörleifr váru at skála, þá gerði Dufþakr þat ráð, at þeir skyldu drepa uxann, ok segja at skógarbjörn hefði drepit, enn síðan skyldu þeir ráða á þá Hjörleif, ef þeir leitaði bjarnarins. Eftir þat sögðu þeir Hjörleifi þetta. Ok er þeir fóru at leita bjarnarins, ok dreifðust í skóginn, þá sóttu þrælarnir at sérhverjum þeirra, ok myrðu þá alla, jafnmarga sér. Þeir hljópu á brutt með konur þeira ok lausafé ok bátinn. Þrælarnir fóru í eyjar, þær er þeir sá í haf til útsuðrs, ok bjoggust þar fyrir um hríð. Vífill ok Karli hétu þrælar Ingólfs; þá sendi hann vestr með sjó, at leita öndvegissúlna sinna; enn er þeir kómu til Hjörleifshöfða, fundu þeir Hjörleif dauðan; þá fóru þeir aftr, ok sögðu Ingólfi þau tíðindi; hann lét illa yfir drápi þeira Hjörleifs.

Eftir þat fór Ingólfr vestr til Hjörleifshöfða; ok er hann sá Hjörleif dauðan, mælti hann: „Lítit lagðist hér fyrir góðan dreng, er þrælar skyldu at bana verða, ok sé ek svá hverjum verða, ef eigi vill blóta“. Ingólfr lét búa gröft þeira Hjörleifs, ok sjá fyrir skipi þeira ok fjárhlut. Ingólfr gekk þá upp á höfðann, ok sá eyjar liggja í útsuðr til hafs; kom honum þat í hug, at þeir mundu þangat hlaupit hafa, þvíat bátrinn var

horfinn; fóru þeir at leita þrælanna, ok fundu þá þar sem Eið heitir í eyjunum; váru þeir þá at mat, er þeir Ingólfr kvámu at þeim. Þeir urðu felmzfullir, ok hljóp sinn veg hverr. Ingólfr drap þá alla. Þar heitir Dufþaksskor, er hann lézt. Fleiri hljópu þeir fyrir berg, þar sem við þá er kent síðan. Vestmannaeyjar heita þar síðan, er þrælarnir váru drepnir, þvíat þeir váru Vestmenn. Þeir Ingólfr höfðu með sér konur þeira, er myrðir höfðu verit; fóru þeir þá aftr til Hjörleifshöfða; var Ingólfr þar vetr annan; enn um sumarit eftir fór hann vestr með sjó. Hann var enn þriðja vetr undir Ingólfsfelli fyri vestan Ölfusá, *þar sem sumir segja hann sé heygðr*. Þau missari fundu þeir Vífill ok Karli öndvegissúlur hans við Arnarhvál fyri neðan heiði.

Ingólfr fór um várit ofan um heiði; hann tók sér bústað þar sem öndvegissúlur hans höfðu á land komit; hann bjó í Reykjarvík; þar eru enn öndvegissúlur hans í eldhúsi. Enn Ingólfr nam land milli Ölfusár ok Hvalfjarðar, fyri utan Brynjudalsá, milli ok Öxarár, ok öll nes út. Þá mælti Karli: „Til ils fóru vér um góð heruð, er vér skulum byggja útnes þetta". Hann hvarf á brutt ok ambátt með honum. Vífli gaf Ingólfr frelsi, ok bygði hann at Vífilstóftum; við hann er kent Vífilsfell; þar bjó *hann* lengi, *ok* varð skilríkr maðr. Ingólfr lét gera skála

á Skálafelli: þaðan sá hann reyki við Ölfusvatn ok fann þar Karla.

Ingólfr var frægastr allra landnámsmanna, þvíat hann kom hér at óbygðu landi, og bygði fyrstr landit; gerðu þat aðrir landnámsmenn eftir hans dœmum. Ingólfr átti Hallveigu Fróðadóttur, systur Lofts ens gamla. Þeira son var Þorsteinn, er þing lét setja á Kjalarnesi, áðr alþingi var sett. Son Þorsteins var Þorkell máni lögsögumaðr, er einn heiðinna manna hefir bezt verit siðaðr, at því er menn vita dœmi til. Hann lét sik bera í sólargeisla í banasótt sinni, ok fal sik á hendi þeim guði, er sólina hafði skapat; hafði hann ok lifat svá hreinlega, sem þeir kristnir menn, er bezt eru siðaðir. Son hans var Þormóðr, er þá var allsherjargoði er kristni kom á Ísland. Hans son var Hamall, faðir Más ok Þormóðar ok Torfa. *Sigurðr var son Más, faðir Hamals, föður Guðmundar, föður Þormóðar Skeiðagoða.*

**10.** Björn buna hét hersir ágætr í Noregi, son Veðrar-Gríms, hersis ór Sogni. Móðir Gríms var Hervör, dóttir Þorgerðar Eylaugsdóttur, hersis ór Sogni. Frá Birni er því nær alt stórmenni komit á Íslandi. Hann átti Vélaugu, *systur Vémundar ens gamla;* þau áttu þrjá sonu: einn var Ketill flatnefr, annarr Hrappr, þriði Helgi; þeir váru ágætir menn, ok er frá þeira afkvæmi mart sagt í þessi bók.

Þórðr skeggi hét maðr; hann var son Hrapps, Bjarnarsonar bunu. Þórðr átti Vilborgu Ósvaldsdóttur. Helga hét dóttir þeira; hana átti Ketilbjörn enn gamli. Þórðr fór til Íslands, ok nam land með ráði Ingólfs í hans landnámi á milli Úlfarsár ok Leiruvágs. Hann bjó á Skeggjastöðum. Frá Þórði er mart stórmenni komit á Íslandi.

**11.** Hallr goðlauss hét maðr; hann var son Helga goðlauss. Þeir feðgar vildu eigi blóta ok trúðu á mátt sinn. Hallr fór til Íslands, ok nam land með ráði Ingólfs frá Leiruvági til Mógilsár. Son Halls var Helgi, er átti Þuríði Ketilbjarnardóttur. Þeira son var Þórðr í Álfsnesi, er átti Guðnýju Hrafnkelsdóttur. Hallr bjó í Múla.

Haraldr enn hárfagri herjaði vestr um haf, sem ritat er í sögu hans. Hann lagði undir sik allar Suðreyjar, svá langt vestr, at engi *Noregs konungr* hefir síðan lengra eignazt. Enn er hann fór vestan, slógust í eyjarnar víkingar ok Skotar ok Írar, ok herjuðu ok rændu víða. Ok er þat spurði Haraldr konungr, sendi hann vestr Ketil flatnef, son Bjarnar bunu, at vinna aftr eyjarnar. Ketill átti Yngvildi, dóttur Ketils veðrs, hersis af Hringaríki. Þeira synir váru þeir Björn enn austrœni ok Helgi bjóla. Uðr en djúpauðga ok Þórunn hyrna váru dœtr þeira. Ketill fór vestr, enn setti eftir Björn son sinn;

hann lagði undir sik allar Suðreyjar, ok gerðist höfðingi yfir, enn galt øngva skatta konungi, sem ætlat var; tók þá konungr undir sik eignir hans, ok rak á brutt Björn son hans.

Helgi bjóla, son Ketils flatnefs, fór til Íslands ór Suðreyjum. Hann var með Ingólfi enn fyrsta vetr, ok nam með hans ráði Kjalarnes alt, milli Mógilsar ok Mýdalsár; hann bjó at Hofi. Hans son var Víga-Hrappr ok Kollsveinn, faðir Eyvindar hjalta, föður Kollsveins, föður Þorgerðar, móður Þóru, móður Ögmundar, föður Jóns byskups ens helga.

**12.** Örlygr hét son Hrapps Bjarnarsonar bunu; hann var at fóstri með enum *helga* Patreki byskupi í Suðreyjum. *Hann* fýstist at fara til Íslands, ok bað at byskup sæi um með honum. Byskup lét hann hafa með sér kirkjuvið ok járnklokku, ok plenarium ok mold vígða, er hann skyldi leggja undir hornstafina. Byskup bað hann þar land nema, er hann sæi fjöll tvau af hafi, ok byggja undir enu syðra fjallinu, ok skyldi dalr í hvárutveggja fjallinu; hann skyldi þar taka sér bústað ok láta þar kirkju gera ok eigna enum helga Kolumba. Með Örlygi var á skipi maðr sá er Kollr hét, fóstbróðir hans; annarr Þorbjörn spörr, þriði Þorbjörn tálkni, ok bróðir hans Þorbjörn skúma; þeir váru synir Böðvars blöðruskalla. Þeir Örlygr létu í haf, ok fengu útivist harða, ok vissu eigi hvar þeir fóru; þá

hét Örlygr á Patrek byskup til landtöku sér, at hann skyldi af hans nafni gefa örnefni þar sem hann tœki land. Þeir váru þaðan frá lítla hríð úti, áðr þeir sá land, ok váru komnir vestr um landit. Þeir tóku þar sem heitir Örlygshöfn, enn fjörðinn inn frá kölluðu þeir Patreksfjörð. *Enn Kollr hét á Þór. Þá skildi í storminum, ok kom hann þar sem Kollsvík heitir ok braut hann þar skip sitt.* Þar váru þeir um vetr; enn um várit bjó Örlygr skip sitt; enn hásetar hans námu þar sumir land, sem enn mun sagt verða. Örlygr sigldi vestan fyri Barð; enn er hann kom suðr um Snætellsjökul á fjörðinn, sá hann fjöll tvau ok dal í hvárutveggja. *Þar fell útbyrðis járnklokkan ok sökk niðr.* Þar kendi hann land þat, er honum var til vísat. Hann helt þá at enu syðra fjallinu, ok var þat Kjalarnes, ok hafði Helgi brœðrungr hans numit þar áðr. *[Enn þeir sigldu inn eftir firðinum ok tóku þar land sem nú heitir Sandvík á Kjalarnesi; þar lá þá járnklokkan í þarabrúki].* Örlygr var með Helga enn fyrsta vetr, enn um várit nam hann land at ráði Helga frá Mógilsá til Ós*víf*rslœkjar ok bjó at Esjubergi. Hann lét þar gera kirkju, sem mælt var. *[Hjálp hét kona hans; þeira son var Valþjófr, er fulltíða kom til Islands með Örlygi]* faðir Valbrands, föður Torfa. *[Síðan átti Örlygr Isgerði, dóttur Þormóðar Bresasonar. Þeira son var Geirmundr, faðir Halldóru, er átti Þjóstólfr*

*son Bjarnar gullbera. Þeira son var Þorleifr, er bjó at Esjubergi eftir Geirmund móðurföður sinn].* Þeir Örlygr frændr trúðu á Kolumba *[þó at þeir væri óskírðir. Þorleifr var trollaukinn, ok tók þó kristni; frá honum eru Esbergingar ok mart manna komit. Dóttir Örlygs ens gamla ok Isgerðar]* var Vélaug, er átti Gunnlaugr ormstunga, sonr Hrómundar í Þverárhlíð; þeira dóttir var Þuríðr dylla, móður Illuga ens svarta á Gilsbakka.

**13.** Svartkell hét maðr katneskr; hann *[fór af Englandi til Islands ok]* nam land fyrir innan Mýdalsá milli *ok* Eilífsdalsár, ok bjó at Kiðjafelli fyrst, enn síðan á Eyri. Hans son var Þorkell faðir Glúms, er svá baðst fyrir at krossi: „Gott ey gömlum mönnum, gott ey ungum mönnum“. Hann var faðir Þórarins, föður Glúms *á Vatnlausu. Arnleif hét systir Svartkels, er átti Þórólfr viligisl, faðir Kleppjárns ens gamla ór Flókadal; þeira dóttir var Hallgerðr, er átti Bergþórr Kollsson.*

Valþjófr, son Örlygs ens gamla frá Esjubergi, nam Kjós alla, ok bjó at Meðalfelli. *[Þorbjörn kollr hét son hans, faðir Hallveigar, er átti Þórðr lambi; þat er Valþýfinga kyn. Signý hét dóttir Valþjófs, er Signýjarstaðir eru við kendir; hana átti Grímkell, son Bjarnar gullbera; þeira synir váru þeir Hörðr, er drepinn var í Geirshólmi, ok Gnúpr faðir]* Birnings, föður Gnúps,

föður Eiríks Grœnlendinga byskups. *[Valbrandr hét annarr son Valþjófs, faðir Torfa, er fyrst bjó á Möðruvöllum. Þeir feðgar gerðu félag við Tungu-Odd; af því bjoggu þeir síðan á Breiðabólstað í Reykjardal hinum nørðra. Torfi var faðir Þorkels at Skáneyju, er átti Arngerði dóttur Þorkels Svartkelssonar].*

**14.** Hvamm-Þórir nam land á milli Laxár ok Forsár, ok bjó í Hvammi. Þórir deildi við Ref enn gamla um kú þá er Brynja hét; við hana er dalrinn kendr; hon gekk þar úti með xl nauta, ok váru öll frá henni komin. Þeir Refr ok Þórir börðust hjá Þórishólum; þar fell Þórir ok átta menn hans.

Þorsteinn, son Sölmundar Þórólfssonar smjörs, nam land milli Botnsár ok Forsár: Brynjudal allan. Hann átti Þorbjörgu kötlu, dóttur Helga skarfs, *Geirleifssonar, er nam Barðaströnd;* þeira son var Refr enn gamli *[er bjó at Múla í Brynjudal]*, er Bryndœlir eru frá komnir. Nú eru taldir þeir menn, er búit hafa í landnámi Ingólfs, vestr frá honum.

Maðr hét Avangr, írskr at kyni; hann bygði fyrst í Botni; þar var þá svá stórr skógr, at hann gerði þar af hafskip, *ok hlóð þar sem nú heitir Hlaðhamarr.* Hans son var Þorleifr, faðir Þuríðar, er átti Þormóðr Þjóstarson á Álftanesi, ok Iðunnar Molda-Gnúps dóttur. Sonr Þormóðar var Börkr, faðir Þórðar, föður Auðunar

í Brautarholti. Kolgrímr enn gamli, son Hrólfs hersis, nam land út frá Botnsá til Kalmansár, ok bjó á Ferstiklu. Hann átti Gunnvöru, dóttur Hróðgeirs ens spaka; þeira börn vóru þeir Þórhalli, faðir Kolgríms, föður Steins, föður Kvists, er Kvistlingar eru frá komnir. Bergþóra var dóttir Kolgríms ens gamla, er átti Refr í Brynjudal.

[ *Þormóðr hinn gamli ok Ketill Bresa synir fóru af Irlandi til Islands, ok námu Akranes alt, á milli Örriðaár ok Kalmansár; þeir váru írskir; Kalman var ok írskr, er áin er við kend, ok bjó fyrst í Katanesi. Þeir brœðr skiftu löndum með sér, svá at Þormóðr átti fyri sunnan Reyni, ok til Kalmansár, ok bjó at Hólmi hinum iðra, enn Ketill bróðir hans átti fyri vestan Reyni ok fyri norðan Akrafell til Örriðaár. Bersi hét son hans, faðir Þorgests, föður Stara at Hólmi, föður Knattar, föður Ásdísar, er átti Klængr Snæbjarnar son, sonar Hafnar-Orms. Geirlaug var dóttir Þormóðs hins gamla, móðir Tungu-Odds. Jörundr hinn kristni var son Ketils Bresa sonar; hann bjó í Jörundarholti; það er nú kallat í Görðum. Hann helt vel kristni til dauðadags, ok var einsetumaðr í elli sinni. Son Jörundar var Kleppr, faðir Einars, föður Narva. Hávarr hét annarr son Klepps, faðir Þorgeirs. Eðna hét dóttir Ketils Bresasonar; hon var gift á Irlandi þeim manni, er Konáll hét; þeira son*

*var Ásólfr alskik, er í þann tíma fór af Írlandi til Islands ok kom út austr í Ósum á Austfjörðum. Hann var frændi Jörundar í Görðum ok var kristinn ok vildi ekki eiga við heiðna menn ok eigi vildi hann þiggja mat at þeim. Þeir fóru tólf saman austan, þar til er þeir kómu at garði Þorgeirs ens hörðska í Holti undir Eyjafjöllum, ok settu þar tjald sitt. Enn förunautar hans þrír vóru þá sjúkir; þeir önduðust þar; enn Jón prestr Þorgeirsson, faðir Gríms í Holti, fann bein þeira ok flutti til kirkju. Síðan gerði Ásólfr sér skála, því nær sem nú er kirkju hornit at Ásólfsskála, at ráði Þorgeirs, þvíat Þorgeirr vildi þá eigi hafa við hús sín].*

**16.** *[Á fell við skála Ásólfs sjálfan. Þat var öndverðan vetr. Áin varð þegar full með fiskum. Þorgeirr sagði, at þeir sæti í veiðistöð hans. Síðan fór Ásólfr brott þaðan, ok gerði annan skála vestar við aðra á; sú heitir Irá, því at þeir váru menn írskir. Enn er menn kómu til árinnar, var hon full með fiskum, svá at slíkt undr þóttust menn eigi sét hafa, enn brottu var alt ór hinni eystri ánni. Þá ráku heraðsmenn þá brott þaðan, ok fór hann þá til hins vestasta skálans; fór alt á sömu leið. Bœndr kölluðu þá fjölkunga, enn Þorgeirr kvezt hyggja at þeir mundu vera góðir menn. Um várit fóru þeir brott, ok vestr á Akranes. Hann gerði bú at Hólmi á kirkjobólstað. Hans son var Sölvi, faðir Þór-*

*hildar, er átti Brandr, son Þorgríms Kjallakssonar; þeira son Þorleifr, faðir Bárðar, föður Jófríðar, er átti Árni Torfason; þeira dóttir Helga, er átti Arngrímr Guðmundarson. Enn er Ásólfr eldist, gerðist hann einsetumaðr. Þar var kofi hans sem nú er kirkjan; þar andaðist hann, ok var þar grafinn at Hólmi. Enn þá er Halldórr, son Illuga hins rauða, bjó þar, þá vandist fjóskona ein at þerra fœtr sína á þúfu þeiri, er var á leiði Ásólfs. Hana dreymdi at Ásólfr ávítaði hana um það, er hon þerði fœtr sína saurga á húsi hans: „enn þá munu vit sátt“, segir hann, „ef þú segir Halldóri draum þinn“. Hon sagði honum, ok kvað hann ekki mark at því er konor dreymdi, ok gaf ekki gaum at. Enn er Hróðólfr byskup fór brott ór Bœ, þar er hann hafði búit um xix ár, þá vóru þar eftir munkar þrír; einn þeira dreymdi at Ásólfr mælti við hann: „Sentu húskarl þinn til Halldórs at Hólmi ok kaup at honum þúfu þá er á fjósgötu er, ok gef við mörk silfrs“. Munkrinn gerði svá. Húskarlinn gat keypt þúfuna, ok gróf síðan jörðina, ok hitti þar manns bein; hann tók þau upp ok fór heim með. Ena næstu nótt eftir dreymdi Halldór at Ásólfr kom at honum, ok kvezt bæði augu mundu sprengja ór hausi honum nema hann keypti bein hans slíku verði sem hann seldi. Halldór keypti bein Ásólfs, ok lét gera at tréskrín ok setja yfir altari. Halldórr sendi Illuga son sinn útan eftir*

*kirkjuviði: enn er hann fór út aftr, er hann kom millim Reykjaness ok Snjófjallsness, þá náði hann eigi fyri stýrimönnum at taka land þar er hann vildi. Þá bar hann fyri borð kirkjuviðinn allan ok bað þar koma sem Ásólfr vildi. Enn Austmenn kómu vestr í Vaðil. Enn þrimr nóttum síðar kom viðrinn á Kirkjusand at Hólmi, nema tvau tré kómu á Raufarnes á Mýrum. Halldórr lét gera kirkjo xxx álna og viði þakta. ok helgaði Kolumba með guði].*

**17.** Bekan hét maðr, er land nam í landnámi Ketils, frá Berjadalsá til Örriðaár, ok bjó at Bekansstöðum.

Fiðr enn auðgi Halldórsson, Högnasonar, *fór ór Stafangri til Islands; hann átti Þórvöru dóttur Þorbjarnar frá Mosfelli, Hraðasonar,* Hann nam land fyrir sunnan Laxá ok til Kalmansár ok bjó at Miðfelli. Hans son var Þorgeirr, faðir Jósteins, föður Þórunnar, móður Guðrúnar, móður Sæmundar, föður Brands byskups. *Skeggi í Skógum var son Þórunnar, faðir Styrmis ok Bolla í Skógum.*

*Hallkell, er nam Hvítársíðu, bjó fyrst á Akranesi, á Hallkelsstöðum, áðr Bresasynir ráku hann brott. Enn er hann fór eftir fé sínu, því er þar hafði sjálfala úti gengit, var hann drepinn ok er þar heygðr.*

Hafnar-Ormr nam lönd um Melahverfi út til Örriðaár ok Laxár, ok inn til Andakílsár, ok

bjó í Höfn. Hans son var Þorgeirr höggvinkinni, faðir Þórunnar, móður Þórunnar, móður Jósteins, föður Sigurðar, föður Bjarnheðins. Þorgeirr höggvinkinni var hirðmaðr Hákonar konungs Aðalsteinsfóstra; hann fekk á Fitjum kinnarsár ok orð gott.

Brœðr tveir bjoggu í landnámi þeira Finns ok Orms: Hróðgeirr enn spaki í Saurbœ, enn Oddgeirr at Leirá; enn þeir Finnr ok Ormr keyptu þá brutt, því at þeim þótti þar þrönglent. Þeir Hróðgeirr brœðr námu síðan lönd í Flóa, Hraungerðingahrepp; bjó Hróðgeirr í Hraungerði, enn Oddgeirr í Oddgeirshólum; hann átti dóttur Ketils gufu. *[Hafnar-Ormr er heygðr þar í höfðanum framfrá bœnum í Höfn sem hann tók land].*

18. Úlfr hét maðr, sonr Brunda-Bjálfa, ok Hallberu, dóttur Úlfs ens óarga ór Hrafnistu; Úlfr átti Salbjörgu, dóttur Berðlu-Kára; hann var kallaðr Kveldúlfr. Þórólfr ok Skalla-Grímr váru synir þeira. Haraldr konungr hárfagri lét drepa Þórólf norðr í Alöst á Sandnesi af rógi Hildiríðarsona; þat vildi Haraldr konungr eigi bœta; þá bjoggu þeir Grímr ok Kveldúlfr kaupskip ok ætluðu til Íslands, því at þeir höfðu þar spurt til Ingólfs vinar síns. Þeir lágu til hafs í Sólundum; þar tóku þeir knör þann er Haraldr konungr lét taka fyrir Þórólfi, þá er

menn hans váru nýkomnir af Englandi, ok drápu þar Hallvarð harðfara ok Sigtrygg snarfara, er því höfðu valdit. Þar drápu þeir ok sonu Guðorms, Sigurðarsonar hjartar, brœðrunga konungs. ok alla skipshöfn þeira, nema tvá menn, er þeir létu segja konungi tíðindin. Þeir bjoggu hvárttveggja skipit til Íslands ok þrjá tigu manna á hváru; stýrði Kveldúlfr því er þá var fengit. Grímr enn háleyski, Þórisson, Gunnlaugssonar, Hrólfssonar. Ketilssonar kjölfara, var forráðamaðr með Kveldúlfi á því skipi er hann stýrði; þeir vissust jafnan til í hafinu; ok er mjök sóttist hafit, þá tók Kveldúlfr sótt; hann bað þess, at kistu skyldi gera at líki hans, ef hann dœi, ok bað svá segja Grími syni sínum, at hann tœki skamt þaðan bústað á Íslandi, er kista hans kœmi á land, ef þess yrði auðit. Eftir þat andaðist Kveldúlfr, ok var skotit fyrir borð kistu hans. Þeir Grímr heldu suðr um landit, þvíat þeir höfðu spurt at Ingólfr bygði sunnan á landinu. Sigldu þeir vestr fyrir Reykjanes, og stefndu þar inn á fjörðinn; skyldi þá með þeim, svá at hvárigir vissu til annarra. Sigldu þeir Grímr enn háleyski alt inn á fjörðinn, þar til er þraut sker öll, ok köstuðu þá akkerum sínum. Enn er flóð gerði, fluttust þeir upp í árós einn, ok leiddu þar upp skipit sem gekk; sú á heitir nú Gufá; báru þeir þar á land föng sín; enn er þeir könnuðu landit, þá höfðu þeir

skamt gengit út frá skipinu, áðr þeir fundu kistu Kveldúlfs rekna í vík eina; þeir báru hana á þat nes er þar var, ok hlóðu at grjóti.

**19.** Skalla-Grímr kom þar at landi er nú heitir Knarrarnes á Mýrum; síðan kannaði hann landit, ok var þar mýrlendi mikit ok skógar víðir, langt á milli fjalls ok fjöru; enn er þeir fóru inn með firðinum, kómu þeir á nes þat er þeir fundu álftir; þat kölluðu þeir Álftanes. Þeir léttu eigi fyrr enn þeir fundu þá Grím enn háleyska; sögðu þeir Grími alt um ferðir sínar, ok svá hver orð Kveldúlfr hafði sent Grími syni sínum. Skalla-Grímr gekk til at sjá, hvar kistan hafði á land komit; hugðist honum svá, at skamt þaðan mundi vera bólstaðr góðr. Skalla-Grímr var þar um vetrinn, sem hann kom af hafi, ok kannaði þá alt herað; hann nam land útan frá Selalóni ok et efra til Borgarhrauns, ok suðr alt til Hafnarfjalla; herað alt svá vítt sem vatnföll deila til sjóvar; hann reisti bœ hjá vík þeiri, er kista Kveldúlfs kom á land, ok kallaði at Borg; ok svá kallaði hann fjörðinn Borgarfjörð. Síðan skipaði hann heraðit sínum félögum, ok þar námu margir menn síðan land með hans ráði. Skalla-Grímr gaf land Grími enum háleyska fyri sunnan fjörð, á milli Andakílsár ok Grímsár; hann bjó á Hvanneyri. Úlfr hét son hans, faðir Hrólfs í Geitlandi.

Þorbjörn svarti hét maðr; hann keypti land

at Hafnar-Ormi inn frá Selaeyri ok upp til Forsár; hann bjó á Skeljabrekku; hans son var Þorvarðr, er átti Þórunni, dóttur Þorbjarnar ór Arnarholti; þeira synir váru þeir Þórarinn blindi ok Þorgils orraskáld, er var með Óláfi kvaran í Dýflinni.

Skorri, leysingi Ketils gufu, nam Skorradal fyri ofan vatn, ok var þar drepinn.

Björn gullberi nam Reykjardal enn syðra *[frá Grímsá til Flókadalsár]* ok bjó á Gullberastöðum; Hans son var Grímkell goði í Bláskógum; hann átti Signýju Valbrandsdóttur, Valþjófssonar; þeira son var Hörðr, er var fyrir Hólmsmönnum. Björn gullberi átti Ljótunni *[Hrólfsdóttur]* systur Kolgríms ens gamla. Svarthöfði at Reyðarfelli var annarr son þeira; hann átti Þuríði Tungu-Odds dóttur; þeira dóttir Þórdís, er átti Guðlaugr enn auðgi; Þjóstólfr var enn þriði son Bjarnar, fjórði Geirmundr.

Þorgeirr meldun þá lönd öll at Birni fyrir ofan Grímsá; hann bjó í Tungufelli; hann átti Geirbjörgu, dóttur Bálka ór Hrútafirði; þeira son Véleifr enn gamli.

Flóki *[leysingi Ketils gufu, bróðir Skorra]* nam Flókadal *[allan á milli Flókadalsár ok Geirsár ok bjó í Hrísum]* ok var þar drepinn.

**20.** Óleifr hjalti hét maðr göfugr; hann kom skipi sínu í Borgarfjörð, ok var enn fyrsta vetr með Skalla-Grími; hann nam land at ráði Skalla-

gríms milli Grímsár ok Geirsár, ok bjó at Varmalœk; hans synir váru þeir Ragi í Laugardal ok Þórarinn lögsögumaðr, er átti Þórdísi, dóttir Óláfs feilans; þeira dóttir Vígdís, er átti Steinn Þorfinnsson. Son Raga var Guðormr, faðir Gunnvarar, móður Þórnýjar, móður Þorláks, föður Rúnólfs, föður Þorláks byskups.

Ketill blundr ok Geirr son hans kvámu til Íslands, ok váru með Skallagrími enn fyrsta vetr; þá fekk Geirr Þórunnar, dóttur Skalla-Gríms. Um várit eftir vísaði Grímr þeim til landa, ok námu þeir upp frá Flókadalsá til Reykjadalsár, ok tungu þá alla upp til Rauðsgils, ok Flókadal allan fyrir ofan brekkur. Ketill bjó í Þrándarholti; við hann er kent Blundsvatn; þar bjó hann síðan. Geirr enn auðgi, son hans, bjó í Geirshlíð, enn átti annat bú á Reykjum enum efrum; hans synir váru þeir Þorgeirr blundr ok Blundketill, ok Svarðkell á Eyri; dóttir Geirs var Bergdís, er Gnúpr átti Flókason í Hrísum; þeirar ættar var Þóroddr hrísablundr.

Önundr breiðskeggr var son Úlfars Úlfssonar Fitjumskeggja, Þórissonar hlammanda; Önundr nam tungu alla milli Hvítár ok Reykjadalsár, ok bjó á Breiðabólstað; hann átti Geirlaugu, dóttur Þormóðar á Akranesi, systur Bersa; þeira son var Tungu-Oddr; enn Þórodda hét dóttir þeira; hennar fekk Torfi son Valbrands Val-

þjófssonar, Örlygssonar frá Esjubergi, ok fylgði henni heiman hálfr Breiðabólstaðr ok Hálsaland með. Hann gaf Signýju systur sinni Signýjarstaði, ok bjó hon þar. Torfi drap Kroppsmenn tólf saman; ok hann réð mest fyrir drápi Hólmsmanna; ok hann var á Hellisfitjum, ok Illugi enn svarti ok Sturla goði, þá er þar váru drepnir átján Hellismenn; enn Auðun Smiðkelsson brendu þeir inni á Þorvarðsstöðum. Sonr Torfa var Þorkell at Skáney. Tungu-Oddr átti Jórunni Helgadóttur; þeira börn váru þau: Þorvaldr, er réð brennu Blundketils, ok Þóroddr, er átti Jófríði Gunnarsdóttur; þeira dóttir Húngerðr, er átti Svertingr Hafrbjarnarson. Dóttir Tungu-Odds *var* Þuríðr, er átti Svarthöfði, ok Jófríðr, er Þorfinnr Selþórisson átti, ok Hallgerðr, er Hallbjörn átti, son Odds frá Kiðjabergi. Kjölvör var móðursystir Tungu-Odds, er bjó á Kjölvararstöðum, móðir Þorleifar, móður Þuríðar, móður þeira Gunnhildar, er Kali átti, ok Glúms föður Þórarins, föður Glúms at Vatnlausu.

**21.** Rauðr hét maðr, er nam land upp frá Rauðsgili til Giljá, ok bjó at Rauðsgili; hans synir váru þeir Úlfr á Úlfstöðum ok Auðr á Auðstöðum fyrir norðan á, er Hörðr vá; þar hefst saga Harðar Grímkelssonar ok Geirs.

Grímr hét maðr, er nam land et syðra upp frá Giljum til Grímsgils, ok bjó við Grímsgil; hans synir váru þeir Þorgils auga á Augastöðum,

ok Hrani á Hranastöðum, faðir Gríms, er kallaðr var Stafngrímr; hann bjó á Stafngrímsstöðum; þar heitir nú á Sigmundarstöðum; þar gagnvart fyrir norðan Hvítá við sjálfa ána er haugr hans; þar var hann veginn.

Þorkell kornamúli nam ás enn syðra upp frá Kollslœk til Deildargils, ok bjó í Ási; hans son var Þorbergr kornamúli, er átti Álöfu elliðaskjöld, dóttur Ófeigs ok Ásgerðar, systur Þorgeirs gollnis; börn þeira váru þau Eysteinn ok Hafþóra, er átti Eiðr Skeggjason, er síðan bjó í Ási; þar dó Miðfjarðar-Skeggi, ok er þar haugr hans fyri neðan garð. Annarr son Skeggja var Kollr, er bjó at Kollslœk. Synir Eiðs *váru* Eysteinn ok Illugi.

Úlfr, son Gríms ens háleyska ok Svanlaugar, dóttur Þormóðar af Akranesi, systur Bersa, *(hann)* nam land milli Hvítár ok suðrjökla, ok bjó í Geitlandi; hans synir váru þeir Hrólfr enn auðgi, faðir Halldóru, er átti Gizurr hvíti; þeira dóttir Vilborg, er átti Hjalti Skeggjason. Annarr son hans var Hróaldr, faðir Hrólfs ens yngra, er átti Þuríði Valþjófsdóttur, Örlygs*sonar* ens gamla; þeira börn váru þau: Kjallakr at Lundi í Syðradal, faðir Kolls, föður Bergþórs; annarr var Sölvi í Geitlandi, faðir Þórðar í Reykjaholti föður Magnúss, föður Þórðar, föður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona, *Sighvats ok Þórðar ok Snorra. Son Sighvats var Sturla, faðir Þur-*

*íðar, er herra Rafn átti; þeira börn Jón korpr, Hallkatla ok Valgerðr ok Þorgerðr. Synir Hallkötlu ok Jóns Pétrssonar váru þeir Sturla ok Pétr, ok Steinunn dóttir, er átti Guðmundr Þorsteinsson, Skeggjasonar.* Þriði son Hrólfs var Illugi enn rauði, er fyrst bjó í Hraunsási; hann átti þá Sigríði, dóttur Þórarins ens illa, systur Músa-Bölverks; þann bústað gaf Illugi Bölverki, enn Illugi fór þá at búa á Hofstöðum í Reykjadal, þvíat Geitlendingar áttu at halda upp hofi því at helmingi við Tungu-Odd. Síðan bjó Illugi at Hólmi iðra á Akranesi, þvíat hann keypti við Hólm-Starra bæði löndum ok konum ok fé öllu; þá fékk Illugi Jórunnar, dóttur Þormóðar Þjóstarssonar af Álftanesi; enn Sigríðr hengdi sig í hofinu, þvíat hon vildi eigi manna kaupit. Hrólfr enn yngri gaf Þórlaugu gyðju, dóttur sína, Oddi Ýrarsyni; því réðst Hrólfr vestr til Ballarár, ok bjó þar lengi síðan, ok var kallaðr Hrólfr at Ballará.

## II.

**Hér hefr upp landnám í Vestfirðinga fjórðungi, er mart stórmenni hefir bygðan.**

**1.** Maðr hét Kalman, suðreyskr at ætt; hann fór til Íslands ok kom í Hvalfjörð, ok sat við

Kalmansá. Þar druknuðu synir hans tveir á Hvalfirði. Enn síðan nam hann land fyrir vestan Hvítá á milli Fljóta ok Kalmanstungu alla, ok svá alt austr undir jökla sem grös eru vaxin, ok bjó í Kalmanstungu. Hann druknaði í Hvítá, er hann hafði farit suðr í Hraun at hitta friðlu sína, ok er haugr hans á Hvítárbakka fyrir sunnan. Hans son var Sturla goði, er bjó á Sturlustöðum uppi undir Tungufelli, upp frá Skáldskelmisdal; enn síðan bjó hann í Kalmanstungu. Hans son var Bjarni, er deildi við Hrólf enn yngra ok sonu hans um Tunguna lítlu; þá hét Bjarni at taka kristni; eftir þat braut Hvítá út farveg þann er nú fellr hún; þá eignaðist Bjarni Tunguna lítlu, ok ofan um Grindr ok Sölmundarhöfða. Kýlan hét bróðir Kalmans; hann bjó fyrir neðan Kollshamar; hans son var Kári, er deildi við Karla Konálsson á Karlastöðum, leysingja Hrólfs ór Geitlandi, um oxa, ok reyndist svá at Karli átti. Síðan eggjaði Kári þræl sinn til at drepa Karla; þrællinn lét sem hann œrr væri, ok hljóp suðr um hraun; Karli sat á þreskildi; þrællinn hjó hann banahögg; síðan drap Kári þrælinn. Þjóðólfr, sonr Karla, drap Kýlan Kárason í Kýlanshólum. Síðan brendi Þjóðólfr Kára inni þar sem nú heitir á Brennu. Bjarni Sturluson tók skírn, ok bjó á Bjarnastöðum í Tungunni lítlu, ok lét þar gera kirkju.

Þrándr nefja hét maðr ágætr, faðir Þorsteins, er átti Lofthœnu dóttur Arinbjarnar hersis ór Fjörðum. Systir Lofthœnu var Arnþrúðr, er átti Þórir hersir Hróaldsson; var þeira son Arinbjörn hersir. Móðir þeira Arnþrúðar var Ástríðr slœkidrengr, dóttir Braga skálds ok Lofthœnu, dóttur Erps lútanda. Sonr Þorsteins ok Lofthœnu var Hrosskell, er átti Jóreiði Ölvésdóttur, Finnasonar, Möttulssonar konungs; Hallkell hét son þeira. Hrosskell fór til Íslands, og kom í Grunnafjörð; hann bjó fyrst á Akranesi; þá ömuðust þeir Ketill brœðr við hann; síðan nam hann Hvítársíðu milli Kjarrár ok Fljóta; hann bjó á Hallkellsstöðum, ok Hallkell son hans eftir hann, ok átti hann Þuríði dyllu, dóttur Gunnlaugs ór Þverárhlíð ok Vélaugar Örlygsdóttur frá Esjubergi. Hrosskell gaf land Þorvarði, föður Smiðkels, föður þeira Þórarins ok Auðunar, er réðu fyrir Hellismönnum; hann bjó á Þorvarðsstöðum, ok átti Fljótsdal allan upp með Fljótum. Hrosskell gaf Þorgauti, skipverja sínum, land niðri í Síðu; hann bjó á Þorgautsstöðum; hans synir váru Gíslar tveir. Börn þeira Hallkels ok Þuríðar váru þau Þórarinn ok Finnvarðr, Tindr ok Illugi enn svarti, ok Gríma, er átti Þorgils Arason. Þórarinn vá Músa-Bölverkr, er hann bjó í Hraunsási; þá lét hann gera þar virki, ok veitti Hvítá í gegnum

ásinn, enn áðr fell hon um Melrakkadal ofan; Illugi ok Tindr sóttu Bölverk í virkit.

2. Ásbjörn hinn auðgi Harðarson keypti land fyrir sunnan Kjarrá, upp frá Sleggjulœk til Hvítbjarga; hann bjó á Ásbjarnarstöðum; hann átti Þorbjörgu, dóttur Miðfjarðar-Skeggja; þeira dóttir var Ingibjörg, er átti Illugi enn svarti.

Örnólfr hét maðr, er nam Örnólfsdal ok Kjarradal fyrir norðan upp til Hvítbjarga; Ketill blundr keypti land at Örnólfi, alt fyrir norðan Klif, ok bjó í Örnólfsdal; Örnólfr gerði þá bú upp í Kjarradal, þar er nú heita Örnólfsstaðir. Fyrir ofan Klif heitir Kjarradalr, því at þar váru hrískjörr ok smáskógar, milli Kjarrár ok Þverár, svo at þar mátti eigi byggja. Blundketill var maðr stórauðigr; hann lét ryðja víða í skógum og byggja.

Hrómundr hét bróðir Gríms ens háleyska, son Þóris Gunnlaugssonar, Hrólfssonar, Ketilssonar kjölfara; Hrómundr kom skipi sínu í Hvítá; hann nam Þverárdal og Þverárhlíð ofan til Hallarmúla ok fram til Þverár; hann bjó á Hrómundarstöðum; þar er nú kallat at Karlsbrekku. Hans son var Gunnlaugr ormstunga, er bjó á Gunnlaugsstöðum fyrir sunnan Þverá; hann átti Vélaugu, sem fyrr er ritat, *Örlygsdóttur frá Esjubergi*; *þeira dóttir Þuríðr, móðir Illuga ens svarta, föður Hermundar, föður Hreins, föður Styrmis, föður Hreins ábóta, föð-*

*ur Valdísar, móður Snorra á Melum, föður Hallberu, er Markús Þórðarson átti.* Högni hét skipveri Hrómundar; hann bjó á Högnastöðum; hans son var Helgi at Helgavatni, faðir Arngríms goða, er var at Blundketils brennu; Högni var bróðir Finns ens auðga.

Ísleifr ok Ísrauðr, brœðr tveir, námu land ofan frá Sleggjulœk, milli Örnólfsdalsár ok Hvítár, et nyrðra ofan til Rauðalœkjar, enn et syðra ofan til Hörðhóla; Ísleifr bjó á Ísleifsstöðum, enn Ísrauðr á Ísrauðarstöðum, ok átti land et syðra með Hvítá; hann var faðir Þorbjarnar, föður Ljóts á Veggjum, er fell í Heiðarvígi.

Ásgeirr hét skipverí Hrómundar, er bjó á Hamri upp frá Helgavatni; hann átti Hildi stjörnu, dóttur Þorvalds Þorgrímssonar brækis; þeira synir váru þeir Steinbjörn hinn sterki ok enn stórhöggvi, ok Þorvarðr, faðir Mæfu, er Hrifla átti, ok Þorsteinn enn þrið; fjórði Helgi, faðir Þórðar, föður Skáld-Helga.

3. Arnbjörg hét kona; hon bjó at Arnbjargarlœk; hennar synir váru þeir Eldgrímr, er bjó á hálsinn upp frá Arnbjargarlœk, á Eldgrímsstöðum, ok Þorgestr, er fekk banasár, þá er þeir Hrani börðust, þar sem nú heitir Hranafall. Þórunn hét kona, er bjó í Þórunnarholti; hon átti land ofan til Víðilœkjar ok upp til

móts við Þuríði spákonu, systur sína, er bjó í Gröf; við hana er kendr Þórunnarhylr í Þverá, ok frá henni eru Hamarbyggjar komnir.

Þorbjörn, son Arnbjarnar Óleifssonar langháls, hann var bróðir Lýtings í Vápnafirði; Þorbjörn nam Stafaholtstungu milli Norðrár ok Þverár; hann bjó í Arnarholti; hans son var Teitr í Stafaholti, faðir Einars *[ok Þorvalds, föður Þórkötlu, er átti Hyrningr Kleppjárnsson]*.

Þorbjörn blesi nam land í Norðrárdal fyrir sunnan á, upp frá Króki, og Hellisdal allan, ok bjó á Blesastöðum; hans son var Gísli at Melum í Hellisdal; við hann eru kend Gíslavötn; annarr son Blesa var Þorfinnr á Þorfinnsstöðum, faðir Þorgerðar heiðarekkju, móður Þórðar erru, föður Þorgerðar, móður Helga at Lundi.

Geirmundr, son Gunnbjarnar gands, nam tunguna á milli Norðrár ok Sandár, ok bjó í Tungu; hans son var Brúni, faðir Þorbjarnar at Steinum, er fell í Heiðarvígi.

Örn enn gamli nam Sanddal ok Mjóvadal, ok svá Norðrárdal ofan frá Króki til Arnarbœlis, ok bjó á Háreksstöðum.

Rauða-Björn nam Bjarnardal, ok þá dali, er þar ganga af *[hann bjó at Dalsmynni; hann blés fyrstr manna rauða á Íslandi, ok var hann af því kallaðr Rauða-Björn]*, ok átti annat bú niðr

frá Mælifellsgili, enn annat niðri í heraði, sem ritat er.

Karl nam Karlsdal upp frá Hreðuvatni, ok bjó undir Karlsfelli; hann átti land ofan til Jafnaskarðs til móts við Grím.

Gríss ok Grímr hétu leysingjar Skalla-Gríms; þeim gaf hann lönd uppi við fjöll: Grísi Grísartúngu, enn Grími Grímsdal.

**4.** Bersi goðlauss hét maðr, son Bálka Blæingssonar ór Hrútafirði; hann nam Langavatnsdal allan ok bjó þar *[á Torfhvalastöðum]*. Hans systir var Geirbjörg, er átti Þorgeirr í Tungufelli; þeira son var Véleifr enn gamli. Bersi goðlauss fekk Þórdísar, dóttur Þórhadds ór Hitárdal, ok tók með henni Hólmslönd; þeira son var Arngeirr, faðir Bjarnar Hitdœlakappa.

Sigmundr hét einn leysingi Skalla-Gríms; honum gaf hann land milli Gljúfrár ok Norðrár; hann bjó at Haugum, áðr hann fœrði sik í Munoðarnes; við hann er kent Sigmundarnes.

Rauða-Björn keypti land at Skalla-Grími milli Gljúfrár ok Gufár; hann bjó at Rauða-Bjarnarstöðum upp frá Eskiholti; hans son var Þorkell trefill í Skarði ok *[Þorgeirr reyðr]*, Helgi í Hvammi ok Gunnvaldr, faðir Þorkels, er átti Helgu, dóttur Þorgeirs á Víðimýri.

*[Son Trefils var Þormóðr, er orti Hrafnsmál um Snorra goða].*

Þorbjörn krumr ok Þórðr beigaldi hétu brœðr

tveir; þeim gaf Skalla-Grímr lönd fyrir útan Gufá, ok bjó Þorbjörn í Hólum, enn Þórðr á Beigalda.

Þóri þurs ok Þorgeiri jarðlang ok Þorbjörgu stöng, systur þeirra, gaf Skalla-Grímr land upp með Langá fyrir sunnan; bjó Þórir á Þursstöðum, enn Þorgeirr á Jarðlangsstöðum, Þorbjörg í Stangarholti.

Einn maðr hét Áni, sá er Grímr gaf land ofan með Langá milli ok Hafslœkjar; hann bjó at Ánabrekku; hans son var Önundr sjóni, faðir Steinars ok Döllu, móður Kórmaks.

Þorfinnr enn strangi hét merkismaðr Þórólfs Skalla-Grímssonar; honum gaf Skalla-Grímr *Sæunni* dóttur sína, ok land fyrir útan Langá út til Leirulœkjar ok upp til fjalls; hann bjó at Forsi; þeira dóttir var Þórdís, móðir Bjarnar Hitdœlakappa.

Ingvarr hét maðr, faðir Beru, er Skalla-Grímr átti; honum gaf Grímr land á milli Leirulœkjar ok Straumfjarðar; hann bjó á Álftanesi. Önnur dóttir hans var Þórdís, er átti Þorgeirr lambi á Lambastöðum, faðir Þórðar, er þrælarnir Ketils gufu brendu inni. Son Þórðar var Lambi enn sterki.

Steinólfr hét maðr, er nam Hraundal hvárntveggja alt til Grjótár að leyfi Skalla-Gríms *[ok bjó í enum syðra Hraundal];* hann var faðir Þorleifs, er Hraundœlir eru frá komnir. *Þór-*

*unn hét dóttir Steinólfs, er átti Þorbjörn Vífilsson, faðir Þorgerðar, móður Ásmundar, föður Sveinbjarnar, föður Odds, föður Gró, móður Odds á Álftanesi.*

Þórhaddr, son Steins mjöksiglanda, Vígbjóðssonar, Böðmóðssonar ór Búlkarúmi, hann nam Hitardal til Grjótár et syðra, enn et ytra til Kaldár ok á milli Hitár ok Kaldár til sjóvar; hans son var Þorgeirr, faðir Hafþórs, föður Guðnýjar, móður Þorláks ens auðga: *föður Þorleifs beiskalda, föður Þorláks, föður Ketils, föður Valgerðar, móður þeira Narfasona, Þorláks ok Þórðar.* Þorgeirs synir váru þeir Grímr í Skarði ok Þórarinn, Finnbogi, Eysteinn, Gestr, Torfi.

Þorgils knappi, leysingi Kolla Hróaldssonar, nam Knappadal; hans synir váru þeir Ingjaldr ok Þórarinn *ok Þórir er bjó* at Ökrum, ok eignaðist land á milli Hitár ok Álftár, ok upp til móts við Steinólf. Son *Þóris* var Þrándr er átti Steinunni, dóttur Hrúts á Kambsnesi; þeira synir váru þeir Þórir ok.... Skúmr, faðir Torfa, föður Tanna; hans son var Hrútr, er átti Kolfinnu, dóttur Illuga ens svarta.

Nú eru þeir menn taldir, er lönd hafa bygt í landnámi Skalla-Gríms.

5. Grímr hét maðr, Ingjaldsson, Hróaldssonar ór Haddingjadal, bróðir Ása hersis; hann fór til Íslands í landaleit, ok sigldi fyrir norðan

landit; hann var um vetrinn í Grímsey á Steingrímsfirði; Bergdís hét kona hans, enn Þórir son þeira; Grímr røri til fiska um haustit með húskarla sína, enn sveinninn Þórir lá í stafni, ok var í selbelg, ok dreginn at hálsinum; Grímr dró marmennil, ok er hann kom upp, spurði Grímr: „Hvat spár þú oss um forlög vár, eðr hvar skulu vér byggja á Íslandi?“ Marmennill svarar: „Ekki þarf ek at spá yðr, enn sveininum er liggr í selbelginum; hann skal þar byggja ok land nema, er Skálm, merr yður, legst undir klyfjum“. Ekki fengu þeir fleiri orð af honum. Enn síðar um vetrinn røru þeir Grímr svá at sveinninn var á landi; þá týndust þeir allir. Þau Bergdís ok Þórir fóru um várit ór Grímsey, ok vestr yfir heiði til Breiðafjarðar; þá gekk Skálm fyrir ok lagðist aldri. Annan vetr váru þau á Skálmarnesi í Breiðafirði; enn um sumarit eftir snøru þau suðr; þá gekk enn Skálm fyrir, þartil er þau kvámu af heiðum suðr til Borgarfjarðar, þar sem sandmelir tveir rauðir stóðu fyrir; þar lagðist Skálm niðr undir klyfjum, undir enum ytra melnum; þar nam Þórir land fyrir sunnan Gnúpá til Kaldár, fyrir neðan Knappadal, milli fjalls ok fjöru; hann bjó at Rauðamel enum ytra; hann var höfðingi mikill. Þá var Þórir gamall ok blindr, er hann kom út síð um kveld, ok sá at maðr røri útan í Kaldárós á járnnökkva, mikill ok illilegr, ok

gekk þar upp til bœjar þess er í Hripi hét, ok gróf þar í stöðulshliði; enn um nóttina kom þar upp jarðeldr, ok brann þá Borgarhraun; þar var bœrinn, sem nú er borgin. Son Selþóris var Þorfinnr, er átti Jófríði, dóttur Tungu-Odds; þeira synir váru þeir Þorkell ok Þorgils, Steinn ok Galti, Ormr ok Þórormr ok Þórir. *Steinn Þorfinnsson var faðir Arnóru, móður Hallbjargar, móður Oddnýjar, móður Geirlaugar, móður Snœlaugar, móður Markúss á Melum.* Dóttir Þorfinns var *Þorbjörg*, er átti Þorbrandr ór Álftafirði. Þeir Selþórir frændr enir heiðnu dó í Þórisbjörg. Þeir Þorkell ok Þorgils, synir Þorfinns, áttu báðir Unni, dóttur Álfs ór Dǫlum. Skálm, merr Þóris, dó í Skálmarkeldu.

*Kolbeinn klakkhöfði Atlason, ór Atleyju af Fjölum, fór til Islands, ok keypti lönd öll millum Kaldár ok Hitár fyrir neðan Sandbrekku, ok bjó á Kolbeinsstöðum; hans son var Finnbogi í Fagraskógi ok Þórðr skáld.*

**6.** Þormóðr ok Þórðr gnúpa, synir Odds ens rakka, Þorviðarsonar, Freyviðarsonar, Álfssonar af Vors, þeir brœðr fóru til Íslands ok námu land frá Gnúpá til Straumsfjarðarár; hafði Þórðr Gnúpudal, ok bjó þar; hans son var Skafti, faðir Hjörleifs goða, ok Finnu, er átti Refr enn mikli, faðir Steinunnar, móður Hofgarða-Refs. Þormóðr bjó á Rauðkollsstöðum; hann var kallaðr Þormóðr goði; hann átti Gerði,

dóttur Kjallaks ens gamla; þeira son var Guðlaugr enn auðgi; hann átt Þórdísi, dóttur Svarthöfða, Bjarnarsonar gullbera ok Þuríðar Tungu-Odds dóttur, er þá bjó í Hörgsholti. Guðlaugr enn auðgi sá, at Rauðamels lönd váru betri enn önnur lönd suðr þar í sveit; hann skoraði á Þorfinn til landa, ok bauð honum hólmgöngu; þeir fellu báðir á hólmi, enn Þuríðr Tungu-Odds dóttir grœddi þá báða ok sætti þá. Guðlaugr nam síðan land frá Straumfjarðará til Furu, milli fjalls ok fjöru, ok bjó í Borgarholti; frá honum eru Straumfirðingar komnir; hans son var Guðleifr, er skip átti annat,. enn annat Þórólfr, son Lofts ens gamla, þá er *þeir* börðust við Gyrð jarl Sigvaldason. Annarr son Guðlaugs var Þorfinnr, faðir Guðlaugs, föður Þórdísar, móður Þórðar, föður Sturlu í Hvammi. Valgerðr hét dóttir Guðlaugs ens auðga.

Vali enn sterki hét hirðmaðr Haralds konungs ens hárfagra; hann vá víg í véum ok varð útlægr; hann fór til Suðreyja, ok staðfestist þar, enn synir hans þrír fóru til Íslands; Hlíf hestageldir var móðir þeira; hét einn Atli, annarr Alfarinn, þriði Auðun stoti: þeir fóru allir til Íslands. Atli Valason ok Ásmundr, son hans, námu land frá Furu til Lýsu. Ásmundr bjó í Langaholti at Þórutóftum; hann átti Langaholts-Þóru. Þá er Ásmundr eldist, bjó hann í Öxl, enn Þóra bjó þá eftir, ok lét gera skála

sinn um þvera þjóðbraut, ok lét þar jafnan standa borð, enn hon sat úti á stóli ok laðaði þar gesti, hvern er mat vildi eta. Ásmundr var heygðr í Ásmundarleiði, ok lagðr í skip, ok þræll hans hjá honum. Vísu þessa heyrði *(kona)* kveðna í haugi hans er *(hon)* gekk hjá:

Einn byggi ek, stoð steina,
stafnrúm Atals hrafni;
*skal-at* of þegn á þiljum
þrangbý*lt* á mar ranga.
Rúm er böðvitrum betra
brimdýris kná*um* stýr*i*
(lifa man þat með lofðum
lengr), enn ilt of gengi.

*[Atli var son Ásmundar, faðir Surts, föður Guðleifs, föður Guðbrands, föður Surts smiðs, föður Eyjólfs prests munks].* Eftir þat var leitat til haugsins, ok var þrællinn tekinn ór skipinu.

Hrólfr enn digri, son Eyvindar eikikróks, *bróðir Illuga Fellsgoða austan af Síðu,* nam land frá Lýsu til Hraunhafnarár; hans son var Helgi í Hofgörðum, faðir Finnboga ok Bjarnar ok Hrólfs. Björn var faðir Gests, föður Skáld-Refs.

7. Sölvi hèt maðr, er nam land milli Hellis ok Hraunhafnar; hann bjó í Brenningi, enn síðar á Sölvahamri, því at hann þóttist þar vera gagnsamari.

Sigmundr, son Ketils þistils, þess er numit hafði Þistilsfjörð norðr, hann átti Hildigunni; Sigmundr

nam land á milli Hellishrauns ok Beruvíkrhrauns; hann bjó at Laugarbrekku, ok er þar heygðr; hann átti þrjá sonu; einn var Einarr, er síðan bjó at Laugarbrekku. Þeir feðgar seldu Lónland Einari, er síðan bjó þar; hann var kallaðr Lón-Einarr. *[Hval rak á fjöru hans, ok skar hann af nakkvat: hann sleit veðr út, ok rak á land Einars Sigmundarsonar. Lón-Einarr taldi fjölkyngi Hildigunnar því valda. Enn þá er hvalinn hafði út tekit frá Lón-Einari, fór hann at leita, ok kom svá at at Einarr Sigmundarson skar hvalinn með húskarla sína. Hann hjó þegar einn þeira banahögg. Laugarbrekku-Einarr bað nafna sinn frá fara: „því at yðr man eigi duga at at sækja.“ Lón-Einarr hvarf frá, því at hann var liðvani. Einarr Sigmundarson flutti heim hvalinn].* Eftir andlát Sigmundar fór Einarr til Laugarbrekku með sjaunda mann, ok stefndi Hildigunnium fjölkyngi; *[hon var dóttir Beinis Mássonar, Naddoðarsonar ór Færeyjum];* enn Einarr, son hennar, var eigi heima; hann kom heim, þá er Lón-Einarr var nýfarinn á braut; Hildigunnr sagði honum þessi tíðindi, ok færði honum kyrtil nýgervan. Einarr tók skjöld sinn ok sverð ok verkhest, ok reið eftir þeim; hann sprengdi hestinn á Þúfubjörgum. *[Þá rann Einarr sem hann mátti; enn þá er hann kom hjá Dröngum, sá hann trollkarl sitja þar á uppi, ok láta róa fætr, svá at þeir tóku brimit,*

*ok skeldi þeim saman, svá at sjódrif varð af, ok kvað vísu:*

*Vark þars fell af fjalli*
*flóðkorn jötuns móður*
*hám bergrisa ór himni*
*heiðins á nóleiðar.*
*Gørir fár jötunn fleiri,*
*fold ífinga, moldu*
*hömlu heiðar þrumlu*
*hamváta mér báta.*

*Einarr gaf engan gaum at þessu. Þeir fundust þar sem heita Mannfallsbrekkur ok börðust þar. Enn kyrtil Einars bitu eigi járn. Fjórir menn fellu af Lón-Einari, enn tveir flýðu.]* Þeir nafnar sóttust lengi, áðr sundr gekk bróklindi Lón-Einars; ok er hann tók þar til, hjó nafni hans hann banahögg. Þræll Laugarbrekku-Einars hét Hreiðarr; hann hljóp eftir þeim, ok sá af Þúfubjörgum, hvar þrælar Lón-Einars fóru; hann rann eftir þeim, ok drap þá báða í Þrælavík. Fyrir þat gaf Einarr honum frelsi, ok land svá vítt, sem hann fengi gert um þrjá daga; þat heitir Hreiðarsgerði, er hann bjó síðan. Einarr at Laugarbrekku átti Unni, dóttur Þóris, bróður Ásláks í Langadal. Hallveig var dóttir þeira, er Þorbjörn Vífilsson átti. Breiðr hét annarr son Sigmundar, bróðir *Einars;* hann átti Gunnhildi, dóttur Ásláks ór Langadal; þeira son var Þormóðr, er átti Helgu Önundardóttur, systur Skáld-Hrafns; þeira dóttir Herþrúðr, er Símon

átti; þeira dóttir Gunnhildr er Þorgils átti; þeira dóttir Valgerðr, móðir Finnboga ens ramma, Geirssonar. Þorkell hét enn þriði son Sigmundar; hann átti Jóreiði, dóttur *Tinds* Hallkelssonar. Laugarbrekku-Einarr var heygðr skamt frá Sigmundarhaugi, ok er haugr hans ávalt grœnn vetr ok sumar. Þorkell hét son Laugarbrekku-Einars; hann átti Grímu Hallkelsdóttur, fyrr enn Þorgils Arason; Finnvarðr var son þeira. Önnur dóttir Laugarbrekku-Einars var Arnóra, er átti Þorgeirr Vífilsson; þeira dóttir var Ingveldr, er átti Þorsteinn, son Snorra goða. Inguðr var dóttir þeira, er átti Ásbjörn Arnórsson.

8. Grímkell hét maðr, son Úlfs kráku, Hreiðarssonar, bróður Gunnbjarnar, er Gunnbjarnarsker eru við kend; hann nam land frá Beruvíkrhrauni til Neshrauns, ok út um öndvert nes ok bjó at Saxahváli; hann rak á brutt þaðan Saxa Alfarinsson, Valasonar, ok bjó hann síðan í Hrauni hjá Saxahváli; Grímkell átti Þorgerði, dóttur Valþjófs ens gamla; þeira son var Þórarinn korni; hann var hamrammr mjök, ok liggr í Kornahaugi. *[Þat kvað maðr, er brotit hafði hauginn:*

*Hljóp ek í hauginn forna,*
*hvílt hefik lengr of morna,*
*lét ek á braut of borna*
*beltis hringju Korna].*

Þórarinn korni átti Jórunni dóttur Ein-

ars í Stafaholti; þeira dóttir var Járngerðr, er átti Úlfr Uggason. Klængr hét annarr son Grímkels; hann átti Oddfríði, dóttur Helga af Hvanneyri; son þeira var Kolli, er átti Þuríði, dóttur Ásbrands frá Kambi; þeira son var Skeggi, faðir Þorkötlu, er átti Illugi, son Þorvalds Tindssonar, faðir Gils er vá Gjafvald. Bárðr hét annarr son Kolla; hann átti Valgerði Viðarsdóttur; Vigdís var dóttir þeira, er átti Þorbjörn enn digri; þeira dóttir Þórdís, er átti Þorbrandr at Ölfusvatni; Þórir var son þeira, ok Bjarni á Breiðabólstað, ok Torfi, enn dóttir Valgerðr, er átti Rúnólfr byskups son. Ásdís hét önnur dóttir Bárðar; hana átti fyrr Þorbjörn Þorvaldsson, bróðir Mána-Ljóts sammœðri; þeira dóttir Þuríðr, er átti Þorgrímr Oddsson; börn þeira: Geirmundr í Mávahlíð, ok fjogrtán önnur. Ásdísi átti síðar Skúli Jörundarson Valgerðr frá Mosfelli var dóttir þeira.

Alfarinn Valason hafði fyrst numit nesit á milli Beruvíkrhrauns ok Ennis; hans synir váru þeir Höskuldr, er bjó at Höskuldsám, ok Ingjaldr, er bjó at Ingjaldshváli; enn Goti at Gotalœk, enn Hólmkell at Forsi við Hólmkelsá.

Óláfr belgr hét maðr, er nam land fyrir innan Enni alt til Fróðár, ok bjó í Óláfsvík.

9. Ormr enn mjóvi hét maðr, er kom skipi sínu í Fróðárós, ok bjó á Brimilsvöllum um hríð; hann rak á brutt Óláf belg, ok nam Vík-

ina gömlu milli Ennis ok Höfða, ok bjó þá at Fróðá. Hans son var Þorbjörn enn digri; hann átti fyrr Þuríði, dóttur Ásbrands frá Kambi, ok váru þeira börn: Ketill kappi, Hallsteinn ok Gunnlaugr, ok Þorgerðr, er átti Önundr sjóni. Þorbjörn átti síðar Þuríði, dóttur Barkar ens digra ok Þórdísar Súrsdóttur. Þorbjörn enn digri stefndi Geirríði Bægifótsdóttur um fjölkyngi, eftir þat er Gunnlaugr son hans dó af meini því er hann tók, þá er hann fór at nema fróðleik at Geirríði; hon var móðir Þórarins í Mávahlíð. Um þá sök var Arnkell goði kvaddr tólftar kvöð, ok bar hann af, þvíat Þórarinn vann eið at stalla hring, ok hratt svá málinu. Enn eftir þat hurfu Þorbirni stóðhross á fjalli; þat kendi hann Þórarni, ok fór í Mávahlíð ok setti duradóm. Þeir váru tólf, enn þeir Þórarinn váru sjau fyrir: Álfgeirr Suðreyingr ok Nagli ok Björn austmaðr ok húskarlar þrír; þeir hleyptu upp dóminum ok börðust þar í túninu; Uðr, kona Þórarins, hét á konur at skilja þá; einn maðr fell af Þórarni enn tveir af Þorbirni. Þeir Þorbjörn fóru á brutt, ok bundu sár sín hjá stakkgarði upp með Vágum. Hönd Uðar fanst í túni; því fór Þórarinn eftir þeim, ok fann þá hjá garðinum. Nagli hljóp grátandi um þá, ok í fjall upp. Þar vá Þórarinn Þorbjörn, ok særði Hallstein til ólífis; fimm menn fellu þar af Þorbirni. Þeir Arnkell og Vermundr veittu Þórarni, ok höfðu

setu at Arnkels. Snorri goði mælti eftir Þorbjörn, ok sekti þá alla, er at vígum höfðu verit, á Þórnesþingi. Eftir þat brendi hann skip þeira Álfgeirs í Salteyrarósi. Arnkell keypti þeim skip í Dögurðarnesi, ok fylgði þeim út um eyjar. Af þessu gerðist fjandskapr þeira Arnkels ok Snorra goða. Ketill kappi var þá útan; hann var faðir Hróðnýjar, er átti Þorsteinn son Víga-Styrs.

Sigurðr svínhöfði var kappi mikill; hann bjó á Kvernvágaströnd. Herjólfr son hans var þá átta vetra, er hann drap skógbjörn fyrir þat er hann hafði bitit geit fyrir honum; þar um *var* þetta kveðit:

> Bersi brunninrazi
> beit geit fyr Herjólfi,
> enn Herjólfr hokinrazi
> hefndi geitr á Bersa.

Þá var Herjólfr tólf vetra, er hann hefndi föður síns; hann var enn mesti afreksmaðr. Herjólfr fór til Íslands í elli sinni, ok nam land milli Búlandshöfða ok Kirkjufjarðar; hans son var Þorsteinn kolskeggr, faðir Þórólfs, föður Þórarins ens svarta Máhlíðings ok Guðnýjar, er átti Vermundr hinn mjóvi; þeira son Brandr enn örvi *ok dóttir Þorfinna, er átti Þorsteinn Kuggason.*

Vestarr, son Þórólfs blöðruskalla, átti Svönu Herrøðardóttur; þeira son var Ásgeirr. Vestarr fór til Íslands með föður sínn afgamlan, ok

nam Eyrarlönd ok Kirkjufjörð; hann bjó á Öndurðri-Eyri. Þeir Þórólfr feðgar eru heygðir á Skallanesi báðir. Ásgeirr Vestarsson átti Helgu Kjarlaksdóttur; þeira son var Þorlákr; hans son Steinþórr, ok þeira Þuríðar, dóttur Auðunar stota, ok Þórðr blígr, er átti Otkötlu Þorvaldsdóttur, Þormóðssonar goða; þriði var Þormóðr, er átti Þorgerði, dóttur Þorbrands ór Álftafirði; fjórði Bergþórr, er fell á Vigrafirði; systir þeira Helga, er átti Ásmundr Þorgestsson. Steinþórr átti Þuríði, dóttur Þorgils Arasonar; Gunnlaugr var son þeira, er átti Þuríði ena spöku, dóttur Snorra goða.

**10.** Kolr hét maðr, er nam land útan frá Fjarðarhorni til Trollaháls, ok út um Berserkseyri til Hraunsfjarðar; hans son var Þórarinn ok Þorgrímr; við þá er kent Kolssonafell. Þeir feðgar bjoggu allir at Kolgröfum; frá þeim eru Kolgreflingar komnir.

Auðun stoti, son Vala ens sterka, nam Hraunsfjörð allan fyrir ofan Hraun, á milli Svínavatns ok Trollaháls; hann bjó í Hraunsfirði, ok var mikill fyrir sér ok sterkr. Auðun átti Mýrúnu dóttur Maddaðar Írakonungs. Auðun sá um haust at hestr apal*d*grár rann ofan frá Hjarðarvatni ok til stóðhrossa hans; sá hafði undir stóðhestinn; þá fór Auðun til. ok tók enn grá hestinn, ok setti fyrir tveggja öxna sleða, ok ók saman alla töðu sína. Hestrinn var góðr

meðfarar um miðdegit; enn er á leið, steig hann í völlinn til hófskeggja; enn eftir sólar fall sleit hann allan reiðing ok hljóp til vatnsins; hann sást aldri síðan. Son Auðunar var Steinn, faðir Helgu, er átti Án í Hrauni; þeira son var Már, faðir Guðríðar, móður Kjartans ok Ánar í Kirkjufelli. Ásbjörn hét annarr son Auðunar, þriði Svarthöfði, enn dóttir Þuríðr, er átti Þorlákr son Ásgeirs á Eyri.

**11.** Björn hét son Ketils flatnefs ok Yngvildar, dóttur Ketils veðrs, hersis af Hringaríki. Björn sat eftir at eignum föður síns, þá er Ketill fór til Suðreyja; enn er Ketill helt sköttum fyrir Haraldi konungi enum hárfagra, þá rak konungr Björn son hans af eignum sínum, ok tók undir sik; þá fór Björn vestr um haf, ok vildi þar eigi staðfestast; því var hann kallaðr Björn enn austrœni; hann átti Gjaflaugu Kjallaksdóttur, systur Bjarnar ens sterka. Björn enn austrœni fór til Íslands, ok nam land á milli Hraunsfjarðar ok Stafár; hann bjó í Bjarnarhöfn á Borgarholti, ok hafði selför upp til Selja, ok átti rausnarbú; hann dó í Bjarnarhöfn ok er heygðr við Borgarlœk, þvíat hann einn var óskírðr barna Ketils flatnefs. Son þeira Bjarnar ok Gjaflaugar var Kjallakr enn gamli, er bjó í Bjarnarhöfn eftir föður sínn, ok Óttarr, faðir Bjarnar, föður Vigfúss í Drápuhlíð, er Snorri goði lét drepa. Annarr son Óttars

var Helgi; hann herjaði á Skotland, ok tók þar at herfangi Niðbjörgu, dóttur Bjólans konungs ok Kaðlinar, dóttur Göngu-Hrólfs; hann fekk hennar *ok* var son þeira Ósvífr enn spaki ok Einarr skálaglam, er druknaði á Einarsskeri í Selasundi, ok kom skjöldr hans í Skjaldey, enn feldr á Feldarhólm. Einarr var faðir Þorgerðar, móður Herdísar, móður Steins skálds. Ósvífr átti Þórdísi, dóttur Þjóðólfs ór Höfn; þeira börn váru þau: Óspakr, faðir Úlfs stallara, *föður Jóns á Reyrvelli, föður Erlends hímaldu, föður Eysteins erkibyskups*, ok Þórólfr, Torráðr, Einarr, Þorbjörn ok Þorkell; þeir urðu sekir um víg Kjartans Óláfssonar, ok Guðrún, móðir Gellis ok Bolla ok Þorleiks ok Þórðar kattar. Vilgeirr hét son Bjarnar ens austrœna. Kjallakr enn gamli átti Ástríði, dóttur Hrólfs hersis ok Öndóttar, systur Ölvés barnakarls; þeira son var Þorgrímr goði; hann átti *Þórhildi dóttur [Þorkels meinakrs];* váru synir þeira Víga-Styrr ok Vermundr mjóvi ok Brandr, faðir Þorleiks. Dœtr Kjallaks ens gamla: Gerðr, er Þormóðr goði átti, ok Helga, er Ásgeirr á Eyri átti.

**12.** Þórólfr, son Örnólfs fiskreka, bjó í Mostr; því var hann kallaðr Mostrarskegg; hann var blótmaðr mikill, ok trúði á Þór; hann fór fyrir ofríki Haralds konungs hárfagra til Íslands, ok sigldi fyrir sunnan land; enn er hann kom vestr fyrir Breiðafjörð, þá skaut hann fyrir borð önd-

vegis súlum sínum; þar var skorinn á Þórr; hann mælti svá fyrir, at Þórr skyldi þar á land koma sem hann vildi at Þórólfr bygði; hét hann því, at helga Þór alt landnám sitt, ok kenna við hann. Þórólfr sigldi inn á fjörðinn, ok gaf nafn firðinum, ok kallaði Breiðafjörð; hann tók land fyrir sunnan fjörðinn, nær miðjum firðinum; þar fann hann Þór rekinn í nesi einu; þat heitir nú Þórsnes. Þeir lendu þar inn frá í vágim, er Þórólfr kallaði Hofsvág; þar reisti hann bœ sinn, ok gerði þar hof mikit, ok helgaði Þór; þar heita nú Hofstaðir. Fjörðrinn var þá bygðr lítt eðr ekki. Þórólfr nam land frá Stafá inn til Þórsár, ok kallaði þat alt Þórsnes; hann hafði svá mikinn átrúnað á fjall þat, er stóð í nesinu, er hann kallaði Helgafell, at þangat skyldi engi maðr óþveginn líta, ok þar var svá mikil friðhelgi, at øngu skyldi granda í fjallinu, hvárki fé né mönnum, nema sjálft gengi á braut; þat var trúa þeira Þórólfs frænda, at þeir dœi allir í fjallit. Þar á nesinu, sem Þórr kom á land, hafði Þórólfr dóma alla, ok þar var sett heraðsþing með ráði allra sveitarmanna. Enn er menn váru þar á þinginu, þá skyldi víst eigi hafa álfreka á landi, ok var ætlat til þess sker þat, er Dritsker heitir, þvíat þeir vildu eigi saurga svá helgan völl sem þar var. Enn þá er Þórólfr var dauðr, enn Þorsteinn son hans var ungr, þá vildu þeir

Þorgrímr Kjallaksson ok Ásgeirr mágr hans eigi ganga í skerit örna sinna; þat þoldu eigi Þórsnesingar, er þeir vildu saurga svá helgan völl; því börðust þeir Þorsteinn þorskabítr ok Þorgeirr kengr við þá Þorgrím ok Ásgeir þar á þinginu um skerit, ok fellu þar nokkurir menn, enn margir urðu sárir, áðr þeir urðu skildir. Þórðr gellir sætti þá; ok með því hvárugir vildu láta af sínu máli. þá var völlrinn óheilagr af heiftar blóði. Þá var þat ráð tekit, at fœra brutt þaðan þingit, ok inn í nesit, þar sem nú er; var þar þá helgistaðr mikill, ok þar stendr enn Þórs steinn, er þeir brutu þá menn um, er þeir blótuðu; ok þar hjá er sá dómhringr, er menn skyldu til blóts dœma. Þar setti ok Þórðr gellir fjórðungsþing með ráði allra fjórðungsmanna. Son Þórólfs Mostrarskeggja var Hallsteinn Þorskafjarðargoði, faðir Þorsteins surts ens spaka; Ósk var móðir Þorsteins surts, dóttir Þorsteins rauðs. Annarr son Þórólfs var Þorsteinn þorskabítr; hann átti Þóru, dóttur Óláfs feilans, systur Þórðar gellis; þeira son var Þorgrímr, faðir Snorra goða, ok Börkr enn digri, faðir Sáms, er Ásgeirr vá.

**13.** Geirrøðr hét maðr, er fór til Íslands, ok með honum Finngeirr, sonr Þorsteins öndurs, ok Úlfarr kappi; þeir fóru af Hálogalandi til Íslands. Geirrøðr nam land inn frá Þórsá til Langadalsár; hann bjó á Eyri. Geirrøðr gaf

land Úlfari skipverja sínum tveimmegin Úlfarsfells ok fyrir innan fjall. Geirrøðr gaf Finngeiri löndd uppi um Álftafjörð; hann bjó þar er nú heitir á Kársstöðum; Finngeirr var faðir Þorfinns, föður Þorbrands í Álftafirði, er átti Þorbjörgu, dóttur Þorfinns Selþórssonar. Geirríðr hét systir Geirrøðar, er átt hafði Björn, son Bölverks blindingatrjónu; Þórólfr hét son þeira. Þau Geirríðr fóru til Íslands eftir andlát Bjarnar, ok váru enn fyrsta vetr á Eyri. Um várit gaf Geirrøðr systur sinni bústað í Borgardal, enn Þórólfr fór útan ok lagðist í víking. Geirríðr sparði ekki mat við menn, ok lét gera skála sínn um þjóðbraut þvera; hon sat á stóli ok laðaði úti gesti, enn borð stóð inni jafnan, ok matr á. Þórólfr kom til Íslands eftir andlát Geirríðar; hann skoraði á Úlfar til landa, ok bauð honum hólmgöngu; Úlfarr var þá gamall ok barnlauss; hann fell á hólmi, enn Þórólfr varð sárr á fœti, ok gekk haltr ávalt síðan; því var hann bægifótr kallaðr. Þórólfr tók lönd sum eftir Úlfar, enn sum Þorfinnr í Álftafirði; hann setti á leysingja sína Úlfar ok Örlyg. Geirrøðr á Eyri var faðir Þorgeirs kengs, er bœinn fœrði ór eyrinni upp undir fjallit; hann var faðir Þórðar, föður Atla. Þórólfr bægifótr var faðir Arnkels goða, ok Geirríðar, er átti Þórólfr í Mávahlíð. Synir Þorbrands í Álftafirði váru þeir Þorleifr kimbi ok

Þóroddr, Snorri, Þorfinnr, Illugi, Þormóðr; þeir deildu við Arnkel um arf leysingja sinna, ok váru at vígi hans með Snorra goða á Örlygstöðum. Eftir þat fór Þorleifr kimbi utan; þá laust Arnbjörn, son Ásbrands ór Breiðavík, hann með grautar þvöru; Kimbi brá á gaman; Þórðr blígr brá honum því á Þórsnesþingi, þá er hann bað Helgu, systur hans; þá lét Kimbi ljósta Blíg með sandtorfu. Af því gerðust deilur þeira Eyrbyggja ok Þorbrandssona ok Snorra goða; þeir börðust í Álftafirði ok á Vigrafirði.

Þorbergr hét maðr, er fór ór Íafirði til Íslands, ok nam Langadal hvárntveggja, ok bjó í enum ytra; hans son var Áslákr, er átti Arnleifu, dóttur Þórðar gellis; þeira börn váru þau Illugi enn rammi, ok Gunnhildr, er Breiðr átti fyrr, enn síðar Halldórr á Hólmslátri. Illugi enn rammi átti Guðleifu, dóttur Ketils smiðjudrumbs; þeira synir Eyjólfr ok Endriði, Kollr ok Gellir, enn dóttir Herþrúðr, er Þorgrímr Vermundarson átti, ens mjóva; ok Friðgerðr, er Oddr Draflason átti; ok Guðríðr, er Bergþórr, son Þormóðar Þorlákssonar, átti fyrr, enn síðar Jörundr í Skorradal; ok Jódís, er átti Már, son Illuga Arasonar; ok Arnleif, er átti Kollr, son Þórðar blígs. Frá Illuga eru Langdœlir komnir.

Steinn mjöksiglandi, Vigbjóðsson, bróðir Þóris haustmyrks, nam Skógarströnd til móts við

Þorberg, ok inn til Laxár; hann bjó á Breiðabólstað. Hans son var Þórhaddr í Hitárdal, ok Þorgestr, er átti Arnóru, dóttur Þórðar gellis; synir þeira: Steinn lögsögumaðr, ok Ásmundr, ok Hafliði, ok Þórhaddr.

14. Þorvaldr, son Ásvalds Úlfssonar, Öxna-Þórissonar, ok Eiríkr rauði, son hans, fóru af Jaðri fyrir víga sakir, ok námu land á Hornströndum, ok bjoggu at Dröngum; þar andaðist Þorvaldr. Eiríkr fekk þá Þjóðhildar, dóttur Jörundar Atlasonar ok Þorbjargar knarrarbringu, er þá átti Þorbjörn enn haukdœlski; réðst Eiríkr þá norðan, ok ruddi lönd í Haukadal; hann bjó á Eiríksstöðum hjá Vatnshorni. Þá feldu þrælar Eiríks skriðu á bœ Valþjófs á Valþjófsstöðum, enn Eyjólfr saurr, frændi hans, drap þrælana hjá Skeiðsbrekkum upp frá Vatnshorni. Fyrir þá sök vá Eiríkr Eyjólf saur; hann vá ok Hólmgöngu-Hrafn at Leikskálum. Geirsteinn ok Oddr á Jörva, frændr Eyjólfs, mæltu eftir hann; þá var Eiríkr gerr ór Haukadal; hann nam þá Brokey ok Øxney, ok bjó at Tröðum í Suðrey enn fyrsta vetr; þá léði hann Þorgesti setstokka; síðan fór Eiríkr í Öxney, ok bjó á Eiríksstöðum; þá heimti hann setstokkana, ok náði eigi; Eiríkr sótti setstokkana á Breiðabólstað, enn Þorgestr fór eftir honum; þeir börðust skamt frá garði at Dröngum; þar fellu tveir synir Þorgests ok nokkurir menn

aðrir. Eftir þat höfðu hvárirtveggju setu; Styrr veitti Eiríki, ok Eyjólfr ór Svíney ok synir Þorbrands ór Álftafirði ok Þorbjörn Vífilsson; enn Þorgesti veittu synir Þórðar gellis ok Þorgeirr ór Hitárdal, Áslákr ór Langadal ok Illugi son hans. Þeir Eiríkr urðu sekir á Þórsnesþingi; hann bjó skip í Eiríksvági; enn Eyjólfr leyndi honum í Dímunarvági, meðan þeir Þorgestr leituðu hans um eyjar. Þeir Þorbjörn ok Eyjólfr ok Styrr fylgðu Eiríki út um eyjar; hann sagði þeim, at hann ætlaði at leita lands þess, er Gunnbjörn son Úlfs kráku sá er hann rak vestr um Ísland, þá er hann fann Gunnbjarnarsker; hann kvaðst aftr mundu leita til vina sinna, ef hann fyndi landit. Eiríkr sigldi undan Snæfellsnesi, enn hann kom útan at Miðjökli, þar sem Bláserkr heitir; hann fór þaðan suðr með landi at leita þess ef þannig væri byggjandi. Hann var enn fyrsta vetr í Eiríksey, nær miðri enni vestri bygð; um várit eftir fór hann til Eiríksfjarðar, ok tók sér þar bústað; hann fór þat sumar í ena vestri óbygð, ok gaf víða örnefni. Hann var annan vetr í Eiríkshólmum við Hvarfsgnípu; enn et þriðja sumar fór hann alt norðr til Snæfells, ok inn í Hrafnsfjörð; þá lézt hann kominn fyrir botn Eiríksfjarðar; hvarf hann þá aftr, ok var enn þriðja vetr í Eiríksey fyrir mynni Eiríksfjarðar. Eftir um sumarit fór hann til Íslands, ok kom í Breiðafjörð; hann var þann

vetr á Hólmslátri með Ingólfi. Um várit börðust þeir Þorgestr, ok fekk Eiríkr þá ósigr; eftir þat váru þeir sættir. Þat sumar fór Eiríkr at byggja land þat, er hann hafði fundit, ok hann kallaði Grœnland, þvíat hann lét þat menn mjök mundu fýsa þangat, ef landit héti vel.

Svá segja fróðir menn, at þat sumar fóru xxv skipa til Grœnlands ór Breiðafirði ok Borgarfirði, en xiiij komust út; sum rak aftr, enn sum týndust; þat var xv vetrum fyrr enn kristni var í lög tekin á Íslandi.

Herjólfr hét maðr, Bárðarson, Herjólfssonar, frænda Ingólfs landnámamanns; þeim Herjólfi gaf Ingólfr land á milli Vágs ok Reykjaness. Herjólfr enn yngri fór til Grœnlands, þá er Eiríkr enn rauði bygði landit. Með honum var á skipi suðreyskr maðr kristinn, sá er orti Hafgerðinga drápu; þar er þetta stef í:

Mínar bið ek munkareyni
meinalausan farar beina,
heiðis haldi hárar foldar
hallar dróttinn yfir mér stalli.

Herjólfr nam Herjólfsfjörð, ok bjó á Herjólfsnesi; hann var enn göfgasti maðr.

Eiríkr nam síðan Eiríksfjörð, ok bjó í Brattahlíð, enn Leifr son hans eftir hann. Þessir menn námu land á Grœnlandi, er þá fóru út með Eiríki: Herjólfr Herjólfsfjörð; hann bjó á Herjólfsnesi; Ketill Ketilsfjörð; Hrafn Hrafns-

fjörð; Sölvi Sölvadal; Snorri Þorbrandsson Álftafjörð; Þorbjörn glora Siglufjörð; Einarr Einarsfjörð; Hafgrímr Hafgrímsfjörð ok Vatnahverfi; Arnlaugr Arnlaugsfjörð. Enn sumir fóru til vestri bygðar.

Maðr hét Þorkell farserkr, systrungr Eiríks rauða; hann fór til Grœnlands með Eiríki, ok nam Hvalseyjarfjörð ok víðast milli Eiríksfjarðar ok Einarsfjarðar, ok bjó í Hvalseyjarfirði; frá honum eru Hvalseyjarfirðingar komnir. Hann var mjök rammaukinn; hann lagðist eftir geldingi gömlum út í Hvalsey ok flutti útan á baki sér, þá er hann vildi fagna Eiríki frænda sínum, enn ekki var sæfœrt skip heima; þat er löng hálf vika. Þorkell var dysjaðr í túni í Hvalseyjarfirði, ok hefir jafnan gengit þar um hýbýli.

**15.** Ingólfr enn sterki nam land inn frá Laxá til Skraumuhlaupsár, ok bjó á Hólmslátri. Hans bróðir var Þorvaldr, faðir Þorleifs, er þar bjó síðan.

Óleifr enn hvíti hét herkonungr; hann var son Ingjalds konungs Helgasonar, Óláfssonar, Guðroðarsonar, Hálfdanarsonar hvítbeins Upplendinga konungs. Óleifr enn hvíti herjaði í vestrvíking, ok vann Dýflinni á Írlandi ok Dýflinnarskíri, ok gerðist þar konungr yfir; hann fekk Uðar ennar djúpauðgu, dóttir Ketils flatnefs; Þorsteinn rauðr hét son þeira. Óleifr fell

á Írlandi í orrostu, enn Uðr ok Þorsteinn fóru þá í Suðreyjar; þar fekk Þorsteinn Þuríðar dóttur Eyvindar austmanns, systur Helga ens magra; þau áttu mörg börn. Óláfr feilan hét son þeira, enn dœtr Gróa ok Álöf, Ósk ok Þórhildr, Þorgerðr ok Vígdís. Þorsteinn gerðist herkonungr; hann réðst til félags með Sigurði enum ríka, syni Eysteins glumru; þeir unnu Katanes ok Suðrland, Ros ok Merrhæfi, ok meirr enn hálft Skotland; gerðist Þorsteinn þar konungr yfir, áðr Skotar sviku hann, ok fell hann þar í orrostu. Uðr var þá á Katanesi, er hon spurði fall Þorsteins; hon lét þá gera knör í skógi á laun; enn er hann var búinn, helt hon út í Orkneyjar; þar gifti hún Gró, dóttur Þorsteins rauðs; hon var móðir Grelaðar, er Þorfinnr hausakljúfr átti. Eftir þat fór Uðr að leita Íslands; hon hafði á skipi með sér xx karla frjálsa.

**16.** Kollr hét maðr, Veðrar-Grímsson, Ásasonar, hersis; hann hafði forráð með Uði, ok var virðr mest af henni. Kollr átti Þorgerði, dóttur Þorsteins rauðs. Erpr hét leysingi Uðar; hann var son Mellduns jarls af Skotlandi, þess er fell fyrir Sigurði jarli enum ríka; móðir Erps var Myrgjol, dóttir Gljómals Írakonungs. Sigurðr jarl tók þau at herfangi ok þjáði. Myrgjol var ambátt konu jarls, ok þjónaði henni trúlega; hon var margkunnandi; hon varðveitti barn drotningar óborit, meðan hon var í laugu.

Síðan keypti Uðr hana dýrt, ok hét henni frelsi ef hon þjónaði svá Þuríði, konu Þorsteins rauðs, sem drotningu. Þau Myrgjol ok Erpr son hennar fór til Íslands með Uði. Uðr helt fyrst til Færeyja, og gaf þar Álofu, dóttur Þorsteins rauðs; þaðan eru Götuskeggjar komnir. Síðan fór hon að leita Íslands; hon kom á Vikarsskeið ok braut þar; fór hon þá á Kjalarnes til Helga bjólu, bróður síns; hann bauð henni þar með helming liðs síns, enn henni þótti þat varboðit, ok kvað hon hann lengi mundu lítilmenni vera. Hon fór þá vestr í Breiðafjörð til Bjarnar bróður síns; hann gekk mót henni með húskarla sína, ok lézt kunna veglyndi systur sinnar; bauð hann henni þar með alla sína menn, ok þá hún þat. Eftir um várit fór Uðr í landaleit inn í Breiðafjörð, ok lagsmenn hennar; þau átu dögurð fyrir sunnan Breiðafjörð, þar er nú heitir Dögurðarnes; síðan fóru þau inn eyjasund; þau lendu við nes þat, er Uðr tapaði kambi sínum; þat kallaði hon Kambsnes. Uðr nam öll Dalalönd í innanverðum firðinum frá Dögurðará til Skraumuhlaupsár; hon bjó í Hvammi við Örriðaárós; þar heita Uðartóftir; hon hafði bœnahald sitt á Krosshólum; þar lét hon reisa krossa, því at hon var skírð ok vel trúuð. Þar höfðu frændr hennar síðan átrúnað mikinn á hólana. Var þá gerr hörgr, er blót tóku til; trúðu þeir því at þeir dœi í hólana, ok þar var Þórðr gellir leiddr í

áðr hann tók mannvirðing, sem segir í sögu hans.

**17.** Uðr gaf lönd skipverjum sínum ok leysingjum.

Ketill hét maðr, er hon gaf land frá Skraumuhlaupsá til Hörðadalsár; hann bjó á Ketilsstöðum; hann var faðir Vestliða ok Einars, föður Kleppjárns ok Þorbjarnar, er Styrr vá, ok Þórdísar, móður Þorgests.

Hörðr hét skipveri Uðar; honum gaf hon Hörðadal; hans son var Ásbjörn, er átti Þorbjörgu, dóttur Miðfjarðar-Skeggja; þeira börn: Hnaki, hann átti Þorgerði, dóttur Þorgeirs höggvinkinna, ok Ingibjörg, er Illugi enn svarti átti.

Vífill hét leysingi Uðar; hann spurði þess Uði, hví hon gaf honum øngvan bústað, sem öðrum mönnum; hon kvað þat eigi skifta, kvað hann þar göfgan mundu þykkja sem hann væri; honum gaf hon Vífilsdal; þar bjó hann, ok átti deilur við Hörð. Son Vífils var Þorbjörn, faðGuðríðar, er átti Þorsteinn, son Eiríks ens rauða, *enn síðar Þorfinnr karlsefni; frá þeim eru* byskupar komnir: Björn, Þorlákr, Brandr. Annarr son Vífils var Þorgeirr, er átti Arnóru, dóttur Laugarbrekku-Einars; þeira dóttir Ingvildr, er átti Þorsteinn, son Snorra goða.

Hundi hét leysingi Uðar, skotskr; honum gaf hon Hundadal; þar bjó hann lengi.

Sökkólfr hét leysingi Uðar; honum gaf hon

Sökkólfsdal. Hann bjó á Breiðabólstað, ok er mart manna frá honum komit.

Erpi, syni Melldúns jarls, er fyrr var getit, gaf Uðr frelsi ok Sauðafells lönd. Frá honum eru Erplingar komnir. Ormr hét son Erps; annarr Gunnbjörn, faðir Arnóru, er átti Kolbeinn Þórðarson; þriði Ásgeirr, faðir Þórörnu, er átti Sumarliði Hrappsson; dóttir Erps var Halldís, er átti Álfr í Dölum; Dufnall var enn son Erps, faðir Þorkels, föður Hjalta, föður Beinis. Skati var enn son Erps, faðir Þórðar, föður Gísla, föður Þorgerðar.

Þorbjörn hét maðr, er bjó at Vatni í Haukadal; hann átti . . . . . . . . . . . . , ok var þeira dóttir Hallfríðr, er átti Höskoldr í Laxárdal; þau áttu mörg börn; Bárðr var son þeira, ok Þorleikr, faðir Bolla, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur; þeira synir váru þeir Þorleikr ok Höskuldr, Surtr ok Bolli; Herdís ok Þórgerðr dœtr þeira. Þórðr Ingunnarson átti fyrr Guðrúnu, ok váru þeira börn: Þórðr köttr ok Arnkatla. Þorkell Eyjólfsson átti Guðrúnu síðast; þeira börn: Gellir ok Rjúpa. Bárðr Höskuldsson var faðir Hallbjargar, er átti Hallr, son Víga-Styrs; Hallgerðr snúinbrók var dóttir Höskulds, ok Þorgerðr ok Þuríðr.

18. *Kollr nam Laxárdal allan ok* alt til Haukadalsár; hann var kallaðr Dala-Kollr; hann átti Þorgerði, dóttur Þorsteins rauðs; börn þeira váru

þau Höskuldr ok Gróa, er átti Véleifr enn gamli, ok Þorkatla, er Þorgeirr goði átti. Höskuldr átti Hallfríði, dóttur Þorbjarnar frá Vatni; Þorleikr var son þeira; hann átti Þuríði, dóttur Arnbjarnar Sléttu-Bjarnarsonar; þeira son var Bolli. Höskuldr keypti Melkorku, dóttur Mýrkjartans Írakonungs; þeira son var Óláfr pá ok Helgi; dœtr Höskulds Þuríðr ok Þorgerðr ok Hallgerðr snúinbrók. Óláfr átti Þorgerði, dóttur Egils Skalla-Grímssonar; þeira son Kjartan ok Halldórr, Steinþórr ok Þorbergr: dœtr Óláfs Þuríðr, Þorbjörg digra ok Bergþóra. Kjartan átti Hrefnu, dóttur Ásgeirs œðikolls; þeira son Ásgeirr ok Skúmr.

Herjólfr, son Eyvindar elds, fekk síðar *Þorgerðar*, dóttur Þorsteins rauðs; Hrútr var son þeira. Honum galt Höskuldr í móðurarf sinn Kambsness land milli Haukadalsár ok hryggjar þess, er gengr ór fjalli ofan í sjó. Hrútr bjó á Hrútsstöðum; hann átti Hallveigu, dóttur Þorgríms ór Þykkvaskógi, systur Armóðs ens gamla; þau áttu mörg börn; þeira son var Þórhallr, faðir Halldóru, móður Guðlaugs, föður Þórdísar, móður Þórðar, föður Sturlu í Hvammi. Grímr var ok sonr Hrúts, ok Már, Endriði ok Steinn, Þorljótr ok Jörundr, Þorkell, Steingrímr, Þorbergr, Atli, Arnórr, Ívarr, Kárr, Kúgaldi; enn dœtr: Bergþóra, Steinunn, Rjúpa, Finna, Ástríðr.

Uðr gaf Þórhildi, dóttur Þorsteins rauðs, Eysteini meinfret, syni Álfs ór Ostu; þeira son var Þórðr, faðir Kolbeins, föður Þórðar skálds, ok Álfr í Dölum; hann átti Halldísi, dóttur Erps; þeira son var Snorri, faðir Þorgils Höllusonar. Dœtr Álfs í Dölum váru þær Þorgerðr, er átti Ari Másson, ok Þórelfr, er átti Hávarr, son Einars Kleppssonar; þeira son Þorgeirr. Þórólfr refr var ok son Eysteins, er fell á Þingnes þingi ór liði Þórðar gellis, þá er þeir Tungu-Oddr börðust. Hrappr hét hinn fjórði Eysteins son.

Uðr gaf Ósk, dóttur Þorsteins, Hallsteini goða; þeira son var Þorsteinn surtr. Vigdísi Þorsteinsdóttur gaf Uðr Kampa-Grími; þeira dóttir Arnbjörg, er Ásólfr flosi átti í Höfða; þeira börn Oddr ok Vigdís, er átti Þorgeirr Kaðalsson.

**19.** Uðr fœddi Óláf feilan, son Þorsteins rauðs; hann fekk Álfdísar ennar barreysku, dóttur Konáls Steinmóðssonar, Ölvéssonar barnakarls. Sonr Konáls var Steinmóðr, faðir Halldóru, er átti Eilífr, son Ketils ens einhenda. Þeira börn Þórðr gellir ok Þóra, móðir Þorgríms, föður Snorra goða; hon var ok móðir Barkar ens digra, ok Más Hallvarðssonar. Ingjaldr ok Grani váru synir Óláfs feilans; Vigdís hét dóttir Óláfs feilans; . . . . . . . . . . . Helga hét en þriðja dóttir Óláfs; hana átti Gunnarr Hlífarson; þeira dóttir Jófríðr, er Þóroddr Tungu-Oddsson átti,

enn síðar Þorsteinn Egilsson; Þórunn var önnir dóttir Gunnars, er Hersteinn Blundketilsson átti; Rauðr ok Höggvandill váru synir Gunnars. Þórdís hét en fjórða dóttir Óláfs feilans; hana átti Þórarinn Ragabróðir; þeira dóttir var Vigdís, er Steinn Þorfinnsson átti, at Rauðamel.

Uðr var vegskona mikil; þá er hon var ellimóð, bauð hon til sín frændum sínum ok mágum ok bjó dýrlega veizlu; enn er þrjár nætr hafði veizlan staðit, þá valdi hon gjafir vinum sínum ok réð þeim heilræði; sagði hon, at þá skyldi standa veizlan enn þrjár nætr; hon kvað þat vera skyldu erfi sitt; þá nótt eftir andaðist hon ok var grafin í flœðarmáli, sem hon hafði fyrir sagt, þvíat hon vildi eigi liggja í óvígðri moldu, er hon var skírð. Eftir þat spiltist trúa frænda hennar.

Kjallakr hét maðr, son Bjarnar ens sterka, bróður Gjaflaugar, er átti Björn enn austrœni; hann fór til Íslands, ok nam land frá Dögurðará til Klofninga, ok bjó á Kjallaksstöðum; hans son var Helgi hrogn ok Þorgrímr þöngull undir Felli, Eilífr prúði, Ásbjörn vöðvi á Orrastöðum, Björn hvalmagi í Túngarði, Þorsteinn þynning, Gizurr glaði í Skoravík, Þorbjörn skrofuðr á Ketilsstöðum, Æsa í Svíney, móðir Eyjólfs ok Tin-Forna. Ljótólfr hét maðr; honum gaf Kjallakr bústað á Ljótólfsstöðum inn frá Kaldakinn; hans synir váru þeir Þorsteinn ok Björn ok Hrafsi;

hann var risa ættar at móðerni; Ljótólfr var járnsmiðr; þeir réðust út í Fellsskóga á Ljótólfsstaði. Vífill var vin þeira er bjó á Vífilstóftum. Þórunn at Þórunnartóftum var móðir Oddmars, ok fóstra Kjallaks, sonar Bjarnar hvalmaga. Álof, dóttir Þorgríms undir Felli, tók œrsl; þat kendu menn Hrafsa; enn hann tók Oddmar hjá hvílu hennar, ok sagði hann sik valda; þá gaf Þorgrímr honum Deildarey. Hrafsi kvaðst mundu höggva Oddmar á Birni eðr hann bœtti fyrir hann. Eigi vildi Kjallakr láta eyna. Hrafsi tók fé þeira ór torfnausti; Kjallakssynir fóru eftir ok náðu eigi. Eftir þat stukku þeir Eilífr ok Hrafsi í eyna; *ör kom í þarminn Eilífs í-grás, ok hamaðist hann; Björn hvalmagi vá* Björn Ljótólfsson at leik. Þeir Ljótólfr keyptu at Oddmari, at hann kœmi Birni í fœri. Kjallakr ungi rann eftir honum; eigi varð hann sóttr áðr þeir tóku sveininn ok vágu hann á Kjallakshóli; *hann var þá sjau vetra.* Eftir þat sóttu Kjallakssynir Ljótólf ok Þorstein í jarðhús í Fellsskógum, ok fann Eilífr annan munna; gekk hann á bak þeim ok vá þá báða. Hrafsi gekk inn á Orrastöðum at boði; hann var í kvenfötum; Kjallakr sat á palli með skjöld; Hrafsi hjó hann Ásbjörn banahögg ok gekk út um vegg. Þórðr Vífilsson sagði Hrafsa at uxi hans lægi í keldu; hann bar skjöld hans; Hrafsi fleygði honum fyrir kleif, er hann sá Kjallakssonu; eigi

gátu þeir *sótt* hann, áðr þeir feldu viðu at honum; Eilífr sat hjá er þeir *sóttu* hann.

Hjörleifr Hörða konungr átti Æsu ena ljósu; þeira son var Ótryggr, faðir Óblauðs, föður Högna ens hvíta, föður Úlfs ens skjálga. Annarr son Hjörleifs var Hálfr, er réð Hálfsrekkum; hans móðir var Hildr en mjóva, dóttir Högna í Njarðey. Hálfr konungr var faðir Hjörs konungs, þess er hefndi föður síns með Sölva Högnasyni. Hjörr herjaði á Bjarmaland; hann tók þar at herfangi Ljúfvinu, dóttur Bjarmakonungs; hon var eftir á Rogalandi þá er Hjörr konungr fór í hernað; þá ól hon sonu tvá; hét annar Geirmundr, enn annarr Hámundr; þeir váru svartir mjök; þá ól ok ambátt hennar son; sá hét Leifr, son Loðhattar þræls; Leifr var hvítr; því skifti drotning sveinum við ambáttina, ok eignaði sér Leif; enn er konungr kom heim, var hann illa við Leif, ok kvað hann vera smámannlegan. Næst er konungr fór í víking, bauð drotning heim Braga skáldi, ok bauð hann skynja um sveinana; þá váru þeir þrévetrir; hon byrgði sveinana í stufu hjá Braga, enn fal sik í pallinum. Bragi kvað þetta:

Tveir 'ro inni.
trúik báðum vel,
Hámundr ok Geirmundr,
Hjörvi bornir,
enn Leifr þriði
Loðhattarson,

**fœddir-at þú þann, kona,**
**fáir munu verri.**

Hann laust sprotanum á pall þann, er drotning var í. Þá er konungr kom heim, sagði drotning honum þetta, ok sýndi honum sveinana; hann lézt eigi slík heljarskinn sét hafa; því váru þeir svá síðan kallaðir báðir brœðr. Geirmundr heljarskinn var herkonungr; hann herjaði í vestrvíking, enn átti ríki á Rogalandi; enn er hann kom aftr, þá er hann hafði lengi í bruttu verit, þá hafði Haraldr konungr barizt í Hafrsfirði við Eirík Hörðakonung ok Súlka konung af Rogalandi ok Kjötva enn auðga, ok fengit sigr. Hann hafði þá lagt undir sik alt Rogaland, ok tekit þar marga menn af óðulum sínum; sá þá Geirmundr øngvan annan sinn kost enn ráðast brutt, því hann fekk þar øngvar sœmdir; hann tók þá þat ráð at leita Íslands; til ferðar réðust með honum þeir Úlfr enn skjálgi, frændi hans, ok Steinólfr enn lági, son Hrólfs hersis af Ögðum ok Öndóttar, systur Ölvés barnakarls. Þeir Geirmundr höfðu samflot, ok stýrði sínu skipi hvárr þeira; þeir tóku Breiðafjörð, ok lágu við Elliðaey; þá spurðu þeir at fjörðrinn var bygðr et syðra, enn lítt eða ekki et vestra. Geirmundr helt inn at Meðalfellsströnd, ok nam land frá Fábeinsá til Klofasteina; hann lagði í Geirmundarvág, enn var enn fyrsta vetr í Búðardal. Steinólfr nam land inn frá Klofasteinum, enn Úlfr

fyrir vestan fjörð, sem nú mun sagt verða. Geirmundi þótti landnám sitt of lítit, er hann hafði rausnar bú ok fjölment, svá at hann hafði lxxx frelsingja; hann bjó á Geirmundarstöðum undir Skarði.

Maðr hét Þrándr mjóbeinn; hann fór til Íslands með Geirmundi heljarskinni; hann var ættaðr af Ögðum; Þrándr nam eyjar fyrir vestan Bjarneyjaflóa, ok bjó í Flatey; hann átti dóttur Gils skeiðarnefs; þeira son var Hergils hnappraz, er bjó í Hergilsey; dóttir Hergils var Þorkatla, er átti Már á Reykjahólum; Hergils átti Þórörnu, dóttur Ketils ilbreiðs. Ingjaldr var son þeira, er bjó í Hergilsey, ok veitti Gísla Súrssyni; fyrir þat gerði Börkr enn digri af honum eyjarnar, enn hann keypti Hlíð í Þorskafirði; son hans var Þórarinn, er átti Þorgerði, dóttur Glúms *Geirasonar;* þeira son var *Helgu-*Steinarr; Þórarinn var með Kjartani í Svínadal, þá er hann fell. Þá bjó Þrándr mjóbeinn í Flatey, er Oddr skrauti ok Þórir, son hans, kvámu út; þeir námu land í Þorskafirði; bjó Oddr í Skógum, enn Þórir fór útan, ok var í hernaði; hann fekk gull mikit á Finnmörk; með honum váru synir Halls af Hofstöðum; enn er þeir kvámu til Íslands, kallaði Hallr til gullsins, ok urðu þar um deilur miklar; af því gerðist Þorskfirðinga saga. Gull-Þórir bjó á Þórisstöðum; hann átti Ingibjörgu, dóttur Gils skeið-

arnefs, ok var þeira son Guðmundr; Þórir var et mesta afarmenni.

**20.** Geirmundr fór vestr á Strandir, ok nam þar land frá Rýta-gnúp vestan til Horns, ok þaðan austr til Straumness; þar gerði hann fjogr bú: eitt í Aðalvík; þat varðveitti ármaðr hans; annat í Kjaransvík, þat varðveitti Kjaran, þræll hans; þriðja á almenningum enum vestrum; þat varðveitti Björn, þræll hans, er sekr varð um sauðatöku eftir dag Geirmundar; af hans sektarfé urðu almenningar; fjórða í Barðsvík; þat varðveitti Atli, þræll hans, ok hafði hann fjogrtán þræla undir sér. Enn er Geirmundr fór meðal búa sinna, hafði hann jafnan áttatigi manna; hann var vellauðigr at lausafé, ok hafði of kvikfjár; svá segja menn, at svín hans gengi á Svínanesi, enn sauðir á Hjarðarnesi, enn hann hafði selför í Bitru; sumir segja, at hann hafi ok bú átt í Selárdal á Geirmundarstöðum í Steingrímsfirði. Þat segja vitrir menn, at hann hafi göfgastr verit allra landnámsmanna á Íslandi; lítt átti hann hér deilur við menn; hann kom heldr gamall út. Þeir Kjallakr deildu um land þat, er var á meðal Klofninga ok Fábeinsár, ok börðust á ekrunum fyrir útan Klofninga; þar vildu hvárirtveggja sá; þar veitti Geirmundi betr. Þeir Björn enn austrœni ok Vestarr af Eyri sættu þá; þá lendi Vestarr í Vestarsnesi, er hann fór til fundarins. Geirmundr

fal fé sítt mikit í Andarkeldu undir Skarði; hann átti Herríði Gautsdóttur, Gautrekssonar. Ýr var dóttir þeira; síðan átti hann Þorkötlu, dóttur Ófeigs Þórólfssonar; þeira börn Geirríðr ok ....... Geirmundr andaðist á Geirmundarstöðum, ok er hann lagðr í skip þar út í skóginn frá garði.

**21.** Steinólfr enn lági, son Hrólfs hersis af Ögðum, nam land inn frá Klofasteinum til Grjótvallarmúla, ok bjó í Fagradal á Steinólfshjalla; hann gekk þar inn á fjallit, ok sá fyrir innan dal mikinn ok vaxinn allan viði; hann sá eitt rjóðr í dal þeim; þar lét hann bœ gera, ok kallaði Saurbœ, þvíat þar var mýrlent mjök, ok svá kallaði hann allan dalinn; þat heitir nú Torfnes, er bœrinn var gerr. Steinólfr átti Eirnýju Þiðrandadóttur; Þorsteinn búandi var son þeira, enn Arndís en auðga var dóttir þeira, móðir Þórðar, föður Þorgerðar, er Oddr átti; þeira son var Hrafn Hlymreksfari, er átti Vigdísi, dóttur Þórarins fýlsennis; þeira son var Snörtr, faðir Jódísar, er átti Eyjólfr Hallbjarnarson; þeira dóttir Halla, er átti Atli Tannason; þeira dóttir Yngvildr, er átti Snorri Húnbogason. Steinólfi hurfu svín þrjú; þau fundust tveim vetrum síðar í Svínadal, ok váru þau þá þrír tigir svína. Steinólfr nam ok Steinólfsdal í Króksfirði.

Sléttu-Björn hét maðr; hann átti Þuríði, dótt-

ur Steinólfs ens lága; hann nam með ráði Steinólfs enn vestra dal í Saurbœ; hann bjó á Sléttu-Bjarnarstöðum upp frá Þverfelli; hans son var Þjóðrekr, er átti Arngerði, dóttur Þorbjarnar Skjalda-Bjarnarsonar; þeira son var Víga-Sturla, er bœinn reisti á Staðarhóli, ok Knöttr, faðir Ásgeirs, ok Þorbjörn, ok Þjóðrekr, er borgin er við kend á Kollafjarðarheiði. Þjóðreki Sléttu-Bjarnarsyni þótti of þrönglent í Saurbœ; því réðst hann til Ísafjarðar. Þar gerðist saga þeira Þorbjarnar ok Hávarðar ens halta.

Óláfr belgr, er Ormr enn mjóvi rak á brutt ór Óláfsvík, nam Belgsdal, ok bjó á Belgstöðum, áðr þeir Þjóðrekr ráku hann á brutt; síðan nam hann inn frá Grjótvallarmúla, ok bjó í Óláfsdal; hans son var Þorvaldr, sá er sauðatökusök seldi á hendr Þórarni gjallanda Ögmundi Völusteinssyni; fyrir þat vá hann Ögmund á Þorskafjarðarþingi.

Gisl skeiðarnef nam Gilsfjörð, milli Óláfsdals ok Króksfjarðarmúla; hann bjó á Kleifum; hans son var Heðinn, faðir Halldórs Garpsdalsgoða, föður Þorvalds í Garpsdal, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur.

22. Þórarinn krókr nam Króksfjörð til Hafrafells frá Króksfjarðarnesi; hann deildi um Steinólfsdal við Steinólf enn lága, ok røri eftir honum með tíunda mann, er hann fór ór seli með sjaunda mann; þeir börðust við Fagradalsárós

á eyrinni; þá kómu menn til frá húsi at hjálpa Steinólfi; þar fell Þórarinn krókr, ok þeir fjórir, enn sjau menn af Steinólfi; þar eru kuml þeira.

Ketill ilbreiðr nam Berufjörð, son Þorbjarnar tálkna; hans dóttir var Þórarna, er átti Hergils hnappraz, son Þrándar mjóbeins. Ingjaldr hét son þeira; hann var faðir Þórarins, er átti Þorgerði dóttur Glúms Geirasonar; þeira son var Helgu-Steinarr. Þrándr mjóbeinn átti dóttur Gils skeiðarnefs; þeira dóttir var Þórarna, er átti Hrólfr, son Helga ens magra. Þorbjörg knarrarbringa var önnur dóttir Gils skeiðarnefs. Herfiðr hét son hans, er bjó í Króksfirði.

Úlfr enn skjálgi, son Högna ens hvíta, nam Reykjanes alt, milli Þorskafjarðar ok Hafrafells; hann átti Björgu, dóttur Eyvindar austmanns, systur Helga ens magra; þeira son var Atli rauði, er átti Þorbjörgu, systur Steinólfs lága; þeira son var Már á Hólum; hann átti Þorkötlu, dóttur Hergils hnappraz; þeira son var Ari; hann varð sæhafi til Hvítramannalands; þat kalla sumir Írland et mikla; þat liggr vestr í haf nær Vínlandi enu góða; þat er kallat sex dœgra sigling vestr frá Írlandi; þaðan náði Ari eigi á brutt at fara, ok var þar skírðr. Þessa sögu sagði fyrst Hrafn Hlymreksfari, er lengi hafði verit í Hlymreki á Írlandi. Svá kvað Þorkell Gellisson segja ís-

lenska menn, þá er heyrt höfðu frá segja Þorfinn í Orkneyjum, at Ari hefði kendr verit á Hvítramannalandi, ok náði eigi brutt at fara, enn var þar vel virðr. Ari átti Þorgerði dóttur Álfs ór Dölum; þeira son var Þorgils ok Guðleifr ok Illugi; þat er Reyknesinga ætt. Jörundr hét son Úlfs ens skjálga; hann átti Þorbjörgu knarrarbringu; þeira dóttir var Þjóðhildr, er átti Eiríkr rauði; þeira son Leifr enn heppni á Grœnlandi. Jörundr hét son Atla ens rauða; hann átti Þórdísi, dóttur Þorgeirs suðu; þeira dóttir var Otkatla, er átti Þorgils Kollsson. Jörundr var ok faðir Snorra.

**23.** Hallsteinn son Þórólfs Mostrarskeggs nam Þorskafjörð, ok bjó á Hallsteinsnesi; hann blótaði þar til þess at Þórr sendi honum öndvegissúlur; eftir þat kom tré á land hans, þat er var sextigi ok þriggja álna ok tveggja faðma digrt; þat var hatt til öndvegissúlna, ok eru þar af gervar öndvegissúlur nær á hverjum bœ um þverfjörðuna; þar heitir nú Grenitrésnes, er tréit kom á land. Hallsteinn hafði herjat á Skotland, ok tók þar þræla þá er hann hafði út; þá sendi hann til saltgerðar í Svefneyjar; þar höfðu þeir 'Hallsteins þræla hag' fram[1]. Hallsteinn átti Ósku, dóttur Þorsteins rauðs; þeira son var Þorsteinn *[surtr]*, er fann sumarauka. Þorsteinn

1) Orðin 'þ*ei*r Hallsteins þræla hag fr*a*m' eru líklega eitthvað misrituð.

surtr átti . . . . . . ; þeira son var Þórarinn, enn dóttir Þórdís, er átti Þorkell trefill, ok Ósk, er átti Steinn mjöksiglandi; Þorsteinn hvíti hét son þeira. Sámr hét son Þorsteins surts, óskilgetinn; hann deildi um arf Þorsteins við Trefil, því at hann vildi halda í hendr börnum Þórarins.

Þorbjörn loki hét maðr, son Böðmóðs ór Skut; hann fór til Íslands ok nam Djúpafjörð, ok Grónes til Gufufjarðar; hans son var Þorgils á Þorgilsstöðum í Djúpafirði, faðir Kolls, er átti Þuríði Þórisdóttur, Hallaðarsonar jarls, Rögnvaldssonar Mœrajarls; Þorgils var son þeira; hann átti Otkötlu, dóttur Jörundar Atlasonar ens rauða; þeira son var Jörundr; hann átti Hallveigu, dóttur Odda Ýrarsonar ok Ketils gufu. Snorri var Jörundarson; hann átti Ásnýju, dóttur Víga-Sturlu; þeira son var Gils, er átti Þórdísi Guðlaugsdóttur ok Þorkötlu Halldórsdóttur Snorrasonar goða; enn son Gils var Þórðr; hann átti Vigdísi Svertingsdóttur; þeira son var Sturla í Hvammi.

**24.** Ketill gufa hét maðr, Örlygsson, Böðvarssonar, Vígsterkssonar; Örlygr átti Signýju Óblauðsdóttur, systur Högna ens hvíta. Ketill son þeira kom út síð landnámatíðar; hann hafði verit í vestrvíking, ok haft *ór* vestrvíking þræla írska; hét einn Þormóðr, annarr Flóki, þriði Kori, fjórði Svartr, ok Skorrar tveir. Ketill

tók Rosmhvalanes; sat hann enn fyrsta vetr at Gufuskálum, enn um várit fór hann inn á Nes, ok sat á Gufunesi annan vetr; þá hljópu þeir Skorri enn ellri ok Flóki frá honum með konur tvær ok fé mikit; þeir váru á laun í Skorraholti, enn þeir váru drepnir í Flókadal ok Skorradal. Ketill fekk øngvan bústað á Nesjum, ok fór hann inn í Borgarfjörð, ok sat hinn þriðja vetr at Gufuskálum við Gufá; snemma um várit fór hann vestr í Breiðafjörð at leita sér landa; þar var hann á Geirmundarstöðum, ok bað Ýrar, dóttur Geirmundar, ok gat; vísaði hann þá Katli til landa fyrir vestan fjörð. Enn meðan Ketill var vestr, þá hljópu þrælar hans á braut, ok kvámu fram um nótt á Lambastöðum; þar bjó þá Þórðr, son Þorgeirs lamba ok Þórdísar Ingvarsdóttur, móðursystur Egils Skalla-Grímssonar; þrælarnir báru eld at húsum, ok brendu Þórð inni ok hjón hans öll; þeir brutu þar upp gervibúr, ok tóku vöru mikla ok lausafé; síðan ráku þeir heim hross ok klyfjuðu; þeir snøru á leið til Álftaness. Lambi enn sterki, son Þórðar, kom af þingi um morgininn, þá er þeir váru farnir á braut; hann fór eftir þeim, ok drifu þá menn til af bœjum; enn er þrælarnir sá þat, hljóp sinn veg hverr þeira. Þeir tóku Kora í Koranesi, enn sumir gengu á sund; Svart tóku þeir í Svartsskeri, enn Skorra í Skorrey fyrir Mýrum, enn

Þormóð út í Þormóðsskeri; þat er vika undan landi. Enn er Ketill gufa kom aftr, þá fór hann vestr fyrir Mýrar, ok var enn fjórða vetr á Snæfellsnesi at Gufuskálum; hann nam síðan Gufufjörð ok Skálanes til Kollafjarðar. Þau Ketill ok Ýri áttu tvá sonu: var Þórhallr annarr, faðir Hallvarar, er átti Börkr, son Þormóðar Þjóstarssonar; annarr var Oddi, er átti Þorlaugu Hrólfsdóttur frá Ballará, ok Þuríðar, dóttur Valþjófs Örlygssonar frá Esjubergi.

25 Kolli Hróaldsson nam Kollafjörð ok Kvígandanes ok Kvígandafjörð; hann seldi ýmsum mönnum landnám sitt *[enn hann fór í Laxárdal á Höskuldsstaði er hann kvángaðist. Hann var kallaðr Dala-Kollr; hans son var Höskuldr, er átti Hallfríði, dóttur Bjarnar, er nam Bjarnarfjörð fyrir norðan Steingrímsfjörð. Þeira son var Þorleikr, faðir Bolla, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur]*.

Knjúkr hét son Þórólfs sparrar, er út kom með Örlygi; hann var kallaðr Nesja-Knjúkr; hann nam nes öll til Barðastrandar frá Kvígandafirði, ok bjó . . . . . . . Annarr son Knjúks var Einarr, faðir Steinólfs, föður Salgerðar, móður Bárðar svarta. Þóra hét dóttir Knjúks, er átti Þorvaldr, son Þórðar Víkingssonar; þeira son var Mýra-Knjúkr, faðir Þorgauts, föður Steinólfs, föður Höllu, móður Steinunnar, móður Hrafns á Eyri *ok Herdísar, er átti Hallr Gizurarson lög-*

*maðr. Dóttir Rafns var Steinunn, móðir herra Rafns ok Höllu, ok Herdís, er Svarthöfði Dugfússon átti; þeira son Óli, er átti Salgerði Jónsdóttur; þeira dóttir Steinunn, er Haukr Erlendsson átti.* Knjúkr átti Eyju, dóttur Ingjalds Helgasonar magra; þeira son var Eyjólfr, faðir Þorgríms Kötlusonar. Glúmr átti fyrr Kötlu; ok var þeira dóttir Þorbjörg kolbrún, er Þormóðr orti um. Steingrímr hét son Þorgríms, faðir Yngvildar, er átti Úlfheðinn á Víðimýri.

Geirsteinn kjálki nam Kjálkafjörð ok Hjarðarnes með ráði Knjúks. Hans son var Þorgils, er átti Þóru, dóttur Vestars af Eyri; þeira son var Steinn enn danski; hann átti Hallgerði Örnólfsdóttur, Armóðssonar ens rauða. Örnólfr átti Vigdísi dóttur *Þorgils*. Vigdís hét dóttir Steins ens danska ok Hallgerðar, er átti Illugi Steinbjarnarson; þeira dóttir var Þórunn, móðir Þorgeirs langhöfða.

Geirleifr, son Eiríks Högnasonar ens hvíta, nam Barðaströnd milli Vatnsfjarðar ok Berghlíða; hann var faðir þeira Oddleifs ok Helga skarfs. Oddleifr var faðir Gests ens spaka ok Þorsteins ok Æsu, er átti Þorgils, son Gríms ór Grímsnesi; þeira synir váru þeir Jörundr í Miðengi ok Þórarinn at Búrfelli. Gestr átti . . . . . . . . .; váru þeira börn Þórðr ok Halla, er Snorri Dala-Álfsson átti. Þórgils var son þeira. Önnur dóttur Gests var Þórey, er Þor-

gils átti; Þórarinn var son þeira, faðir Jódísar, móður Illuga, föður Birnu, móður Illuga ok Arnórs ok Eyvindar, *föður Steingríms, föður Helgu, móður Jórunnar, móður Hauks Erlendssonar.* Helgi skarfr var faðir Þorbjargar kötlu, er átti Þorsteinn Sölmundarson; þeira synir Refr í Brynjudal ok Þórðr, faðir Illuga, föður Hróðnýjar, er Þorgrímr sviði átti. Þórdís hét önnur dóttir Helga skarfs, er átti Þorsteinn Ásbjarnarson ór Kirkjubœ austan; þeira son var Surtr, faðir Sighvats lögsögumanns. Geirleifr átti Jóru Helgadóttur. Þorfinnr hét enn þriði son Geirleifs; hann átti Guðrúnu Ásólfsdóttur; Ásmundr hét son þeira; hann átti Hallkötlu, dóttur Bjarnar Mássonar, Ásmundarsonar. Hlenni hét son þeira; hann átti Ægileifu, dóttur Þorsteins Kröflusonar. Þorfiðr var son þeira, faðir Þorgeirs langhöfða. Þorsteinn Oddleifsson var faðir Ísgerðar er átti Bölverkr, son Eyjólfs ens grá; þeira son Gellir lögsögumaðr. Vény var enn dóttir Þorsteins, móðir Þórðar krákunefs; þaðan eru Krákneflingar komnir.

**26** Armóðr enn rauði Þorbjarnarson, fóstbróðir Geirleifs, nam Rauðasand; hans synir váru þeir Örnólfr ok Þorbjörn, faðir Hrólfs ens rauðsenzka.

Þórólfr spörr kom út með Örlygi, ok nam Patreksfjörð fyrir vestan, ok Víkr fyrir vestan Barð nema Kollsvík; þar bjó Kollr, fóstbróðir

Örlygs. Þórólfr nam ok Keflavík fyrir sunnan Barð, ok bjó at Hvallátrum. Þeir Nesja-Knjúkr ok Ingólfr enn sterki ok Geirþjófr váru synir Þórólfs sparrar. Þórarna var dóttir Ingólfs, er Þorsteinn Oddleifsson átti.

Þorbjörn tálkni ok Þorbjörn skúmi, synir Böðvars blöðruskalla, kvámu út með Örlygi; þeir námu Patreksfjörð hálfan ok Tálknafjörð allan til Kópaness.

Ketill ilbreiðr, son Þorbjarnar tálkna, nam Dali alla frá Kópanesi til Dufansdals; hann gaf Þórörnu, dóttur sína, Hergilsi hnappraz; rézt hann þá suðr í Breiðafjörð, ok nam Berufjörð hjá Reykjanesi.

Örn hét maðr ágætr; hann var frændi Geirmundar heljarskinns; hann fór af Rogalandi fyrir ofríki Haraldar konungs; hann nam land í Arnarfirði svá vítt sem hann vildi; hann sat um vetrinn á Tjaldanesi, þvíat þar gekk eigi sól af um skammdegi.

Án rauðfeldr, son Gríms loðinkinna ór Hrafnistu, ok Helgu, dóttur Ánar bogsveigis, varð missáttr við Harald konung enn hárfagra, ok fór því ór landi í vestrvíking; hann herjaði á Írland, ok fekk þar Grelaðar, dóttur Bjartmars jarls; þau fóru til Íslands ok kvámu í Arnarfjörð vetri síðar enn Örn. Án var enn fyrsta vetr í Dufansdal; þar þótti Grelöðu illa ilmat ór jörðu. Örn spurði til Hámundar heljarskinns,

frænda síns, norðr í Eyjafirði, ok fýstist hann þangat; því seldi hann Áni rauðfeld lönd öll milli Langaness ok Stapa; Án gerði bú á Eyri; þar þótti Grelöðu hunangsilmr ór grasi. Dufan var leysingi Ánar; hann bjó eftir í Dufansdal. Bjartmarr var son Ánar, faðir Végesta tveggja ok Helga, föður Þuríðar arnkötlu, er átti Hergils; þeira dóttir var Þuríðr arnkatla, er átti Helgi Eyþjófsson. Þórhildr var dóttir Bjartmars, er átti Vésteinn Végeirsson; Vésteinn ok Uðr váru börn þeira. Hjallkárr var leysingi Ánar; hans son var Björn, þræll Bjartmars; hann gaf Birni frelsi; þá grœddi hann fé, enn Végestr vandaði um, ok lagði hann spjóti í gegnum, enn Björn laust hann með grefi til bana.

Geirþjófr Valþjófsson nam land í Arnarfirði: Forsfjörð, Reykjarfjörð, Trostansfjörð, Geirþjófsfjörð, ok bjó í Geirþjófsfirði; hann átti Valgerði dóttur Úlfs ens skjálga. Þeira son var Högni; hann átti Uði, dóttur Óláfs jafnakolls ok Þóru Gunnsteinsdóttur. Atli var son þeira; hann átti Þuríði Þorleifsdóttur, Eyvindarsonar knés ok Þuríðar rúmgyltu. Þorleifr átti Gró, dóttur Þórólfs brækis. Höskuldr var son Atla, faðir *Atla, föður* Bárðar ens svarta, *föður Sveinbjarnar, föður Rafns, föður Steinunnar, móður herra Rafns.*

27. Eiríkr hét maðr, er nam *Keldudal fyrir sunnan* Dýrafjörð ok Sléttanes til Stapa, ok til

Háls ens ytra í Dýrafirði; hann var faðir Þorkels, föður Þórðar, föður Þorkels, föður Steinólfs. föður Þórðar, föður Þorleifar, móður Þorgerðar, móður Þóru, móður Guðmundar gríss, *er átti Solveigu, dóttur Jóns Loftssonar. Þeira börn váru Magnús góði, ok Þorlákr, faðir Árna byskups, ok Þóra, móðir Gizurar jarls.* Þorleif var móðir Línu, móður Ceciliu, móður Bárðar ok Þorgerðar, er átti Björn enn enski; þeira börn váru þau Arnis ábóti ok Þóra, er átti Ámundi Þorgeirsson.

Vésteinn son Végeirs, bróðir Vébjarnar Sygnakappa, nam land milli Hálsa í Dýrafirði ok bjó í Haukadal; hann átti Þórhildi Bjartmarsdóttur; þeira börn Vésteinn ok Uðr. Þorbjörn súrr kom út at albygðu landi; honum gaf Vésteinn hálfan Haukadal; hans synir váru þeir Gísli ok Þorkell ok Ari, enn dóttir Þórdís, er Þorgrímr átti; þeira son Snorri goði. Síðan átti Þórdísi Börkr enn digri; þeira dóttir Þuríðr, er átti Þorbjörn digri, enn síðar Þóroddr skattkaupandi; þeira son var Kjartan at Fróðá.

Dýri hét maðr ágætr; hann fór af Sunnmœri til Íslands at ráði Rögnvalds jarls, enn fyrir ofríki Haralds konungs hárfagra. Dýri nam Dýrafjörð ok bjó at Hálsum; hans son var Hrafn á Ketilseyri, faðir Þuríðar, er átti Vésteinn Vésteinsson; þeira synir Bergr ok Helgi.

Þórðr hét maðr, Víkingsson, eðr son Haraldar

konungs hárfagra; *hann* fór til Íslands, ok nam land milli Þúfu á Hjallanesi ok Jarðfallsgils; hann bjó í Alviðru; Þórðr átti Þjóðhildi, dóttur Eyvindar austmanns, systur Helga ens magra. Þorkell Alviðrukappi enn auðgi var son þeira; hann átti . . . . . . . . Þórðr hét son þeira; annar Eyjólfr, faðir Gísla, er átti Hallgerði Vermundar dóttur ens mjóva; þeira son var Brandr faðir Guðmundar prests í Hjarðarholti, enn dóttir Þóra, er átti Brandr Þórhaddsson; þeira dóttir Steinvör, móðir Rannveigar, móður Sæhildar, er Gizurr átti. Helgi hét annarr son Eyjólfs; hans börn váru þau Óláfr ok Guðleif, er Fjarska-Fiðr átti. Þorvaldr hvíti hét annarr son Þórðar Víkingssonar; hann átti Þóru, dóttur Nesja-Knjúks; þeira son var Mýra-Knjúkr, faðir Þorgauts, föður Steinólfs, er átti Herdísi Tindsdóttur; þeira börn váru þau Þorkell á Mýrum, ok Halla, er átti Þórðr Oddleifsson. Annarr son Þorvalds hvíta var Þórðr örvöndr, er átti Ásdísi Þorgrímsdóttur, Harðrefssonar. Móðir Ásdísar var Rannveig, dóttir Grjótgarðar Hlaðajarls. Ásdís var móðir Úlfs stallara, enn systir Ljóts ens spaka, ok Halldísar, er Þorbjörn Þjóðreksson átti. Dóttir þeira Þórðar örvandar var Oddkatla, er átti Sturla Þjóðreksson; þeira son Þórðr, er átti Hallberu, dóttur Snorra goða; þeira dóttir Þuríðr, er átti Hafliði Másson. Snorri var son Þórðar Sturlusonar, er átti Oddbjörgu dótt-

ur Gríms Loðmundarsonar; þeira börn váru þau Flugu-Grímr ok Hallbera, er Mág-Snorri átti. Dœtr Sturlu váru sex: ein var Ásný, er Snorri Jörundarson átti; þeira dóttir Þórdís, móðir Höskulds læknis, *föður Margretar, móður Þorfinns ábóta.* Son þeira Snorra ok Ásnýjar var Gils, faðir Þórðar, föður Sturlu í Hvammi.

28. Ingjaldr Brunason nam Ingjaldssand milli Hjallaness ok Ófœru; hann var faðir Harðrefs, föður Þorgríms, föður þeira Ljóts ens spaka, sem áðr var ritat.

Ljótr enn spaki bjó á Ingjaldssandi, son Þorgríms Harðrefssonar, enn móðir hans var Rannveig, dóttir Grjótgarðar jarls. Þorgrímr gagarr var son Ljóts. Halldísi, systur Ljóts, átti Þorbjörn Þjóðreksson, enn Ásdísi, aðra systur Ljóts, nam Óspakr Ósvífrsson; um þá sök sótti Ljótr Óspak til sektar. Úlfr hét son þeira; þann fœddi Ljótr. Grímr kögr bjó á Brekku, hans synir váru þeir Sigurðr ok Þorkell, lítlir menn ok smáir. Þórarinn hét fóstrson Ljóts. Ljótr kaupir slátr at Grími til xx hundraða, ok galt lœk, er fell meðal landa þeira; sá hét Ósómi. Grímr veitti honum á eng sína ok gróf land Ljóts, enn hann gaf sök á því. ok var fátt með þeim. Ljótr tók við austmanni í Vaðli; sá lagði hug á Ásdísi. Gestr Oddleifsson sótti haustboð til Ljóts; þá kom þar Egill Völu-Steinsson, ok bað Gest at hann legði ráð til at föður hans bœtt-

ist helstríð, er hann bar um Ögmund son sinn. Gestr orti upphaf Ögmundar-drápu. Ljótr spurði Gest, hvat manna Þorgrímr gagarr mundi verða? Gestr kvað Þórarin fóstra hans frægra mundu verða, ok bað Þórarinn við sjá, at eigi vefðist hár þat um höfuð honum, er lá á tungu hans. Óvirðing þótti Ljóti þetta, ok spurði um morgininn, hvat fyrir Þorgrími lægi. Gestr kvað Úlf systurson hans mundu frægra verða. Þá varð Ljótr reiðr, ok reið þó á leið með Gesti, ok spurði: „Hvat man mér at bana verða?“ Gestr kvezt eigi sjá örlög hans, enn bað hann vera vel við nábúa sína. Ljótr spurði: „Munu jarðlýsnar, synir Gríms kögrs, verða mér að bana?“ „Sárt bítr soltin lús“, kvað Gestr. „Hvar man þat verða?“ kvað Ljótr. „Heðra nær“, kvað Gestr. Austmaðr reiddi Gest á heiði upp, ok studdi Gest á baki, er hestr rasaði undir honum. Þá mælti Gestr: „Happ sótti þik nú, enn brátt mun annat; gættu at þér verði þat eigi at óhappi“. Austmaðrinn fann grafsilfr, er hann fór heim, ok tók af tuttugu penninga, ok ætlaði at hann mundi feta til síðar; enn er hann leitaði, fann hann eigi; enn Ljótr fekk tekit hann, er hann var at grefti, ok gerði af honum þrjú hundruð fyrir hvern penning. Þat haust var veginn Þorbjörn Þjóðreksson. Um várit sat Ljótr at þrælum sínum á hæð einni; hann var í kápu, ok var höttrinn lerk-

aðr um hálsinn, ok ein ermr á. Þeir Kögrsynir hljópu á hæðina, ok hjoggu til hans báðir senn; eftir þat snaraði Þorkell höttinn at höfði honum. Ljótr bað þá láta gótt í búsifjum sínum, ok hröpuðu þeir af hæðinni á götu þá er Gestr hafði riðit; þar dó Ljótr. Þeir Grímssynir fóru til Hávarðar halta. Eyjólfr grái veitti þeim öllum, ok Steingrímr son hans.

29. Önundr Víkingsson, bróðir Þórðar í Alviðru, nam Önundarfjörð ok bjó á Eyri.

Hallvarðr súgandi var í orrostu mót Haraldi konungi í Hafrsfirði; hann fór af þeim ófriði til Íslands, ok nam Súgandafjörð ok Skálavík til Stiga, ok bjó þar.

Þuríðr sundafyllir, ok Völu-Steinn, son hennar, fóru af Hálogalandi til Íslands, ok námu Bolungarvík, ok bjoggu í Vatnsnesi; hon var því kölluð sundafyllir, at hon seiddi til þess í hallæri á Hálogalandi at hvert sund var fult af fiskum; hon setti ok Kvíarmið á Ísafjarðardjúpi, ok tók til á kollótta af hverjum bónda á Ísafirði. Synir Völu-Steins váru þeir Ögmundr ok Egill.

Helgi hét son Hrólfs ór Gnúpufelli; hann var getinn austr, ok upplenzkr at móðurætt. Helgi fór til Íslands at vitja frænda sinna; hann kom í Eyjafjörð ok var þá albygt; eftir þat vildi hann útan ok varð aftrreka í Súgandafjörð; hann var um vetrinn með Hallvarði, enn um

várit fór hann að leita sér bústaðar; hann fann fjörð einn, ok hitti þar skutil í flœðarmáli; þat kallaði hann Skutilsfjörð; þar bygði hann síðan. Hans son var Þorsteinn ógæfa; hann fór útan ok vá hirðmann Hákonar jarls Grjótgarðssonar, enn Eyvindr ráðgjafi jarlsins sendi Þorstein til handa Vébirni Sygnatrausta; hann tók við honum, enn Védís systir hans latti þess. Fyrir þat seldi Vébjörn eignir sínar ok fór til Íslands, er hann treystist eigi að halda manninn.

Þórólfr brækir nam suman Skutilsfjörð ok Skálavík ok bjó þar.

Eyvindr kné fór af Ögðum til Íslands, ok Þuríðr r*y*mgylta, kona hans; þau námu Álftafjörð ok Seyðisfjörð, ok bjoggu þar. Þeira son var Þorleifr, er fyrr var getit, ok Valbrandr, faðir Hallgríms ok Gunnars ok Bjargeyjar, er átti Hávarðr halti; þeira son var Óláfr.

Geirr hét maðr ágætr í Sogni; hann var kallaðr Végeirr, þvíat hann var blótmaðr mikill; hann átti mörg börn. Vébjörn Sygnakappi var elztr sona hans, ok Vésteinn, Véþormr, Vémundr Végestr, ok Véþorn, enn Védís dóttir. Eftir andlát Végeirs varð Vébjörn ósáttr við Hákon jarl, sem fyrr var getit; því fóru þau systkin til Íslands. Þau höfðu útivist harða ok langa; þau tóku um haustit Hlöðuvík fyri vestan Horn; þá fekk Vébjörn at blóti miklu; hann kvað Hákon þann dag blóta þeim til óþurftar. Enn er hann

var at blótinu, eggjuðu brœðr hans hann til brautfarar, ok gáði hann eigi blótsins, ok létu þeir út; þeir brutu þann dag skip sitt undir hömrum miklum í illviðri; þar komust þeir nauðulega upp, ok gekk Vébjörn fyrir; þat er nú kölluð Sygnakleif. Enn um vetrinn tók við þeim öllum Atli í Fljóti, þræll Geirmundar heljarskinns *[ok bað þau engu launa vistina; sagði Geirmund eigi vanta mat. Enn er Atli fann Geirmund, spurði Geirmundr, hví hann var svá djarfr at taka slíka menn upp á kost hans. Atli svaraði: „Því at þat man uppi meðan Island er bygt, hversu mikilsháttar sá maðr mundi vera, at einn þræll þorði at gera slíkt utan hans orlof“. Geirmundr svarar: „Fyrir þetta þitt tiltæki skaltu þiggja frelsi ok bú þetta, er þú hefir varðveitt; ok varð Atli]* síðan mikilmenni. Vébjörn nam um várit eftir land milli Skötufjarðar ok Hestfjarðar, svá vítt sem hann gengi um á dag, ok því meirr, sem hann kallaði Folafót. Vébjörn var vígamaðr mikill, ok er saga mikil frá honum. Hann gaf Védísi Grímólfi í Unaðsdal; þeir urðu missáttir, ok vá Vébjörn hann hjá Grímólfsvötnum; fyrir þat var Vébjörn veginn á fjórðungsþingi á Þórsnesi ok þrír menn aðrir.

Gunnsteinn ok Halldórr hétu synir Gunnbjarnar Úlfs sonar kráku, er Gunnbjarnarsker eru við kend; þeir námu Skötufjörð, ok Laugardal ok

Ögrvík til Mjóvafjarðar. Bersi var son Halldórs, faðir Þormóðar Kolbrúnarskálds. Þar í Laugardal bjó síðan Þorbjörn Þjóðreksson, er vá Óláf, son Hávarðar halta ok Bjargeyjar Valbrandsdóttur; þar af gerðist saga Ísfirðinga ok víg Þorbjarnar.

**30.** Snæbjörn son Eyvindar austmanns, bróðir Helga magra, nam land milli Mjóvafjarðar ok Langadalsár, ok bjó í Vatnsfirði; hans son var Hólmsteinn, faðir Snæbjarnar galta; móðir Snæbjarnar var Kjalvör, ok váru þeir Tungu-Oddr systrasynir. Snæbjörn var fóstraðr í Þingnesi með Þóroddi, *enn stundum var hann með Tungu-Oddi eða móður sinni.* Hallbjörn son Odds frá Kiðjabergi Hallkelssonar, bróður Ketilbjarnar ens gamla, fekk Hallgerðar, dóttur Tungu-Odds; þau váru með Oddi enn fyrsta vetr; þar var Snæbjörn galti. Óástúðlegt var með þeim hjónum. Hallbjörn bjó för sína um várit at fardögum; enn er hann var at búnaði, fór Oddr frá húsi til laugar í Reykjaholt; þar váru sauðahús hans; vildi hann eigi vera við er Hallbjörn fœri, þvíat hann grunaði hvort Hallgerðr mundi fara vilja með honum. Oddr hafði jafnan bœtt um með þeim. Þá er Hallbjörn hafði lagt á hesta þeira, gekk hann til dyngju, ok sat Hallgerðr á palli ok kembdi sér; hárit fell um alla hana ok niðr á gólfit; hon hefir kvenna bezt verit hærð á Íslandi með Hallgerði snúinbrók. Hall-

gríms milli Grímsár ok Geirsár, ok bjó at Varmalœk; hans synir váru þeir Ragi í Laugardal ok Þórarinn lögsögumaðr, er átti Þórdísi, dóttir Óláfs feilans; þeira dóttir Vígdís, er átti Steinn Þorfinnsson. Son Raga var Guðormr, faðir Gunnvarar, móður Þórnýjar, móður Þorláks, föður Rúnólfs, föður Þorláks byskups.

Ketill blundr ok Geirr son hans kvámu til Íslands, ok váru með Skallagrími enn fyrsta vetr; þá fekk Geirr Þórunnar, dóttur Skalla-Gríms. Um várit eftir vísaði Grímr þeim til landa, ok námu þeir upp frá Flókadalsá til Reykjadalsár, ok tungu þá alla upp til Rauðsgils, ok Flókadal allan fyrir ofan brekkur. Ketill bjó í Þrándarholti; við hann er kent Blundsvatn; þar bjó hann síðan. Geirr enn auðgi, son hans, bjó í Geirshlíð, enn átti annat bú á Reykjum enum efrum; hans synir váru þeir Þorgeirr blundr ok Blundketill, ok Svarðkell á Eyri; dóttir Geirs var Bergdís, er Gnúpr átti Flókason í Hrísum; þeirar ættar var Þóroddr hrísablundr.

Önundr breiðskeggr var son Úlfars Úlfssonar Fitjumskeggja, Þórissonar hlammanda; Önundr nam tungu alla milli Hvítár ok Reykjadalsár, ok bjó á Breiðabólstað; hann átti Geirlaugu, dóttur Þormóðar á Akranesi, systur Bersa; þeira son var Tungu-Oddr; enn Þórodda hét dóttir þeira; hennar fekk Torfi son Valbrands Val-

þjófssonar, Örlygssonar frá Esjubergi, ok fylgði henni heiman hálfr Breiðabólstaðr ok Hálsaland með. Hann gaf Signýju systur sinni Signýjarstaði, ok bjó hon þar. Torfi drap Kroppsmenn tólf saman; ok hann réð mest fyrir drápi Hólmsmanna; ok hann var á Hellisfitjum, ok Illugi enn svarti ok Sturla goði, þá er þar váru drepnir átján Hellismenn; enn Auðun Smiðkelsson brendu þeir inni á Þorvarðsstöðum. Sonr Torfa var Þorkell at Skáney. Tungu-Oddr átti Jórunni Helgadóttur; þeira börn váru þau: Þorvaldr, er réð brennu Blundketils, ok Þóroddr, er átti Jófríði Gunnarsdóttur; þeira dóttir Húngerðr, er átti Svertingr Hafrbjarnarson. Dóttir Tungu-Odds *var* Þuríðr, er átti Svarthöfði, ok Jófríðr, er Þorfinnr Selþórisson átti, ok Hallgerðr, er Hallbjörn átti, son Odds frá Kiðjabergi. Kjölvör var móðursystir Tungu-Odds, er bjó á Kjölvararstöðum, móðir Þorleifar, móður Þuríðar, móður þeira Gunnhildar, er Kali átti, ok Glúms föður Þórarins, föður Glúms at Vatnlausu.

**21.** Rauðr hét maðr, er nam land upp frá Rauðsgili til Giljá, ok bjó at Rauðsgili; hans synir váru þeir Úlfr á Úlfstöðum ok Auðr á Auðstöðum fyrir norðan á, er Hörðr vá; þar hefst saga Harðar Grímkelssonar ok Geirs.

Grímr hét maðr, er nam land et syðra upp frá Giljum til Grímsgils, ok bjó við Grímsgil; hans synir váru þeir Þorgils auga á Augastöðum,

ok Hrani á Hranastöðum, faðir Gríms, er kallaðr var Stafngrímr; hann bjó á Stafngrímsstöðum; þar heitir nú á Sigmundarstöðum; þar gagnvart fyrir norðan Hvítá við sjálfa ána er haugr hans; þar var hann veginn.

Þorkell kornamúli nam ás enn syðra upp frá Kollslœk til Deildargils, ok bjó í Ási; hans son var Þorbergr kornamúli, er átti Álöfu elliðaskjöld, dóttur Ófeigs ok Ásgerðar, systur Þorgeirs gollnis; börn þeira váru þau Eysteinn ok Hafþóra, er átti Eiðr Skeggjason, er síðan bjó í Ási; þar dó Miðfjarðar-Skeggi, ok er þar haugr hans fyri neðan garð. Annarr son Skeggja var Kollr, er bjó at Kollslœk. Synir Eiðs *váru* Eysteinn ok Illugi.

Úlfr, son Gríms ens háleyska ok Svanlaugar, dóttur Þormóðar af Akranesi, systur Bersa, *(hann)* nam land milli Hvítár ok suðrjökla, ok bjó í Geitlandi; hans synir váru þeir Hrólfr enn auðgi, faðir Halldóru, er átti Gizurr hvíti; þeira dóttir Vilborg, er átti Hjalti Skeggjason. Annarr son hans var Hróaldr, faðir Hrólfs ens yngra, er átti Þuríði Valþjófsdóttur, Örlygs*sonar* ens gamla; þeira börn váru þau: Kjallakr at Lundi í Syðradal, faðir Kolls, föður Bergþórs; annarr var Sölvi í Geitlandi, faðir Þórðar í Reykjaholti föður Magnúss, föður Þórðar, föður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona, *Sighvats ok Þórðar ok Snorra. Son Sighvats var Sturla, faðir Þur-*

*íðar, er herra Rafn átti; þeira börn Jón korpr, Hallkatla ok Valgerðr ok Þorgerðr. Synir Hallkötlu ok Jóns Pétrssonar váru þeir Sturla ok Pétr, ok Steinunn dóttir, er átti Guðmundr Þorsteinsson, Skeggjasonar.* Þriði son Hrólfs var Illugi enn rauði, er fyrst bjó í Hraunsási; hann átti þá Sigríði, dóttur Þórarins ens illa, systur Músa-Bölverks; þann bústað gaf Illugi Bölverki, enn Illugi fór þá at búa á Hofstöðum í Reykjadal, þvíat Geitlendingar áttu at halda upp hofi því at helmingi við Tungu-Odd. Síðan bjó Illugi at Hólmi iðra á Akranesi, þvíat hann keypti við Hólm-Starra bæði löndum ok konum ok fé öllu; þá fékk Illugi Jórunnar, dóttur Þormóðar Þjóstarssonar af Álftanesi; enn Sigríðr hengdi sig í hofinu, þvíat hon vildi eigi manna kaupit. Hrólfr enn yngri gaf Þórlaugu gyðju, dóttur sína, Oddi Ýrarsyni; því réðst Hrólfr vestr til Ballarár, ok bjó þar lengi síðan, ok var kallaðr Hrólfr at Ballará.

## II.

**Hér hefr upp landnám í Vestfirðinga fjórðungi, er mart stórmenni hefir bygðan.**

**1.** Maðr hét Kalman, suðreyskr at ætt; hann fór til Íslands ok kom í Hvalfjörð, ok sat við

Kalmansá. Þar druknuðu synir hans tveir á Hvalfirði. Enn síðan nam hann land fyrir vestan Hvítá á milli Fljóta ok Kalmanstungu alla, ok svá alt austr undir jökla sem grös eru vaxin, ok bjó í Kalmanstungu. Hann druknaði í Hvítá, er hann hafði farit suðr í Hraun at hitta friðlu sína, ok er haugr hans á Hvítárbakka fyrir sunnan. Hans son var Sturla goði, er bjó á Sturlustöðum uppi undir Tungufelli, upp frá Skáldskelmisdal; enn síðan bjó hann í Kalmanstungu. Hans son var Bjarni, er deildi við Hrólf enn yngra ok sonu hans um Tunguna lítlu; þá hét Bjarni at taka kristni; eftir þat braut Hvítá út farveg þann er nú fellr hún; þá eignaðist Bjarni Tunguna lítlu, ok ofan um Grindr ok Sölmundarhöfða. Kýlan hét bróðir Kalmans; hann bjó fyrir neðan Kollshamar; hans son var Kári, er deildi við Karla Konálsson á Karlastöðum, leysingja Hrólfs ór Geitlandi, um oxa, ok reyndist svá at Karli átti. Síðan eggjaði Kári þræl sinn til at drepa Karla; þrællinn lét sem hann œrr væri, ok hljóp suðr um hraun; Karli sat á þreskildi; þrællinn hjó hann banahögg; síðan drap Kári þrælinn. Þjóðólfr, sonr Karla, drap Kýlan Kárason í Kýlanshólum. Síðan brendi Þjóðólfr Kára inni þar sem nú heitir á Brennu. Bjarni Sturluson tók skírn, ok bjó á Bjarnastöðum í Tungunni lítlu, ok lét þar gera kirkju.

Þrándr nefja hét maðr ágætr, faðir Þorsteins, er átti Lofthœnu dóttur Arinbjarnar hersis ór Fjörðum. Systir Lofthœnu var Arnþrúðr, er átti Þórir hersir Hróaldsson; var þeira son Arinbjörn hersir. Móðir þeira Arnþrúðar var Ástríðr slœkidrengr, dóttir Braga skálds ok Lofthœnu, dóttur Erps lútanda. Sonr Þorsteins ok Lofthœnu var Hrosskell, er átti Jóreiði Ölvésdóttur, Finnasonar, Möttulssonar konungs; Hallkell hét son þeira. Hrosskell fór til Íslands, og kom í Grunnafjörð; hann bjó fyrst á Akranesi; þá ömuðust þeir Ketill brœðr við hann; síðan nam hann Hvítársíðu milli Kjarrár ok Fljóta; hann bjó á Hallkellsstöðum, ok Hallkell son hans eftir hann, ok átti hann Þuríði dyllu, dóttur Gunnlaugs ór Þverárhlíð ok Végaugar Örlygsdóttur frá Esjubergi. Hrosskell gaf land Þorvarði, föður Smiðkels, föður þeira Þórarins ok Auðunar, er réðu fyrir Hellismönnum; hann bjó á Þorvarðsstöðum, ok átti Fljótsdal allan upp með Fljótum. Hrosskell gaf Þorgauti, skipverja sínum, land niðri í Síðu; hann bjó á Þorgautsstöðum; hans synir váru Gíslar tveir. Börn þeira Hallkels ok Þuríðar váru þau Þórarinn ok Finnvarðr, Tindr ok Illugi enn svarti, ok Gríma, er átti Þorgils Arason. Þórarinn vá Músa-Bölverkr, er hann bjó í Hraunsási; þá lét hann gera þar virki, ok veitti Hvítá í gegnum

ásinn, enn áðr fell hon um Melrakkadal ofan; Illugi ok Tindr sóttu Bölverk í virkit.

2. Ásbjörn hinn auðgi Harðarson keypti land fyrir sunnan Kjarrá, upp frá Sleggjulœk til Hvítbjarga; hann bjó á Ásbjarnarstöðum; hann átti Þorbjörgu, dóttur Miðfjarðar-Skeggja; þeira dóttir var Ingibjörg, er átti Illugi enn svarti. Örnólfr hét maðr, er nam Örnólfsdal ok Kjarradal fyrir norðan upp til Hvítbjarga; Ketill blundr keypti land at Örnólfi, alt fyrir norðan Klif, ok bjó í Örnólfsdal; Örnólfr gerði þá bú upp í Kjarradal, þar er nú heita Örnólfsstaðir. Fyrir ofan Klif heitir Kjarradalr, þvíat þar váru hrískjörr ok smáskógar, milli Kjarrár ok Þverár, svo at þar mátti eigi byggja. Blundketill var maðr stórauðigr; hann lét ryðja víða í skógum og byggja.

Hrómundr hét bróðir Gríms ens háleyska, son Þóris Gunnlaugssonar, Hrólfssonar, Ketilssonar kjölfara; Hrómundr kom skipi sínu í Hvítá; hann nam Þverárdal og Þverárhlíð ofan til Hallarmúla ok fram til Þverár; hann bjó á Hrómundarstöðum; þar er nú kallat at Karlsbrekku. Hans son var Gunnlaugr ormstunga, er bjó á Gunnlaugsstöðum fyrir sunnan Þverá; hann átti Vélaugu, sem fyrr er ritat, *Örlygsdóttur frá Esjubergi*; *þeira dóttir Þuríðr*, *móðir Illuga ens svarta*, *föður Hermundar*, *föður Hreins*, *föður Styrmis*, *föður Hreins ábóta*, *föð-*

*ur Valdísar, móður Snorra á Melum, föður Hallberu, er Markús Þórðarson átti.* Högni hét skipveri Hrómundar; hann bjó á Högnastöðum; hans son var Helgi at Helgavatni, faðir Arngríms goða, er var at Blundketils brennu; Högni var bróðir Finns ens auðga.

Ísleifr ok Ísrauðr, brœðr tveir, námu land ofan frá Sleggjulœk, milli Örnólfsdalsár ok Hvítár, et nyrðra ofan til Rauðalœkjar, enn et syðra ofan til Hörðhóla; Ísleifr bjó á Ísleifsstöðum, enn Ísrauðr á Ísrauðarstöðum, ok átti land et syðra með Hvítá; hann var faðir Þorbjarnar, föður Ljóts á Veggjum, er fell í Heiðarvígi.

Ásgeirr hét skipveri Hrómundar, er bjó á Hamri upp frá Helgavatni; hann átti Hildi stjörnu, dóttur Þorvalds Þorgrímssonar brækis; þeira synir váru þeir Steinbjörn hinn sterki ok enn stórhöggvi, ok Þorvarðr, faðir Mæfu, er Hrifla átti, ok Þorsteinn enn þrið; fjórði Helgi, faðir Þórðar, föður Skáld-Helga.

3. Arnbjörg hét kona; hon bjó at Arnbjargarlœk; hennar synir váru þeir Eldgrímr, er bjó á hálsinn upp frá Arnbjargarlœk, á Eldgrímsstöðum, ok Þorgestr, er fekk banasár, þá er þeir Hrani börðust, þar sem nú heitir Hranafall. Þórunn hét kona, er bjó í Þórunnarholti; hon átti land ofan til Víðilœkjar ok upp til

móts við Þuríði spákonu, systur sína, er bjó í Gröf; við hana er kendr Þórunnarhylr í Þverá, ok frá henni eru Hamarbyggjar komnir.

Þorbjörn, son Arnbjarnar Óleifssonar langháls, hann var bróðir Lýtings í Vápnafirði; Þorbjörn nam Stafaholtstungu milli Norðrár ok Þverár; hann bjó í Arnarholti; hans son var Teitr í Stafaholti, faðir Einars *[ok Þorvalds, föður Þorkötlu, er átti Hyrningr Kleppjárnsson]*.

Þorbjörn blesi nam land í Norðrárdal fyrir sunnan á, upp frá Króki, og Hellisdal allan, ok bjó á Blesastöðum; hans son var Gísli at Melum í Hellisdal; við hann eru kend Gíslavötn; annarr son Blesa var Þorfinnr á Þorfinnsstöðum, faðir Þorgerðar heiðarekkju, móður Þórðar er*r*u, föður Þorgerðar, móður Helga at Lundi.

Geirmundr, son Gunnbjarnar gands, nam tunguna á milli Norðrár ok Sandár, ok bjó í Tungu; hans son var Brúni, faðir Þorbjarnar at Steinum, er fell í Heiðarvígi.

Örn enn gamli nam Sanddal ok Mjóvadal, ok svá Norðrárdal ofan frá Króki til Arnarbœlis, ok bjó á Háreksstöðum.

Rauða-Björn nam Bjarnardal, ok þá dali, er þar ganga af *[hann bjó at Dalsmynni; hann blés fyrstr manna rauða á Íslandi, ok var hann af því kallaðr Rauða-Björn]*, ok átti annat bú niðr

frá Mælifellsgili, enn annat niðri í heraði, sem ritat er.

Karl nam Karlsdal upp frá Hreðuvatni, ok bjó undir Karlsfelli; hann átti land ofan til Jafnaskarðs til móts við Grím.

Gríss ok Grímr hétu leysingjar Skalla-Gríms; þeim gaf hann lönd uppi við fjöll: Grísi Grísartungu, enn Grími Grímsdal.

**4.** Bersi goðlauss hét maðr, son Bálka Blæingssonar ór Hrútafirði; hann nam Langavatnsdal allan ok bjó þar *[á Torfhvalastöðum]*. Hans systir var Geirbjörg, er átti Þorgeirr í Tungufelli; þeira son var Véleifr enn gamli. Bersi goðlauss fekk Þórdísar, dóttur Þórhadds ór Hitárdal, ok tók með henni Hólmslönd; þeira son var Arngeirr, faðir Bjarnar Hitdœlakappa.

Sigmundr hét einn leysingi Skalla-Gríms; honum gaf hann land milli Gljúfrár ok Norðrár; hann bjó at Haugum, áðr hann fœrði sik í Munoðarnes; við hann er kent Sigmundarnes.

Rauða-Björn keypti land at Skalla-Grími milli Gljúfrár ok Gufár; hann bjó at Rauða-Bjarnarstöðum upp frá Eskiholti; hans son var Þorkell trefill í Skarði ok *[Þorgeirr reyðr]*. Helgi í Hvammi ok Gunnvaldr, faðir Þorkels, er átti Helgu, dóttur Þorgeirs á Víðimýri.

*[Son Trefils var Þormóðr, er orti Hrafnsmál um Snorra goða]*.

Þorbjörn krumr ok Þórðr beigaldi hétu brœðr

tveir; þeim gaf Skalla-Grímr lönd fyrir útan Gufá, ok bjó Þorbjörn í Hólum, enn Þórðr á Beigalda.

Þóri þurs ok Þorgeiri jarðlang ok Þorbjörgu stöng, systur þeirra, gaf Skalla-Grímr land upp með Langá fyrir sunnan; bjó Þórir á Þursstöðum, enn Þorgeirr á Jarðlangsstöðum, Þorbjörg í Stangarholti.

Einn maðr hét Áni, sá er Grímr gaf land ofan með Langá milli ok Hafslœkjar; hann bjó at Ánabrekku; hans son var Önundr sjóni, faðir Steinars ok Döllu, móður Kórmaks.

Þorfinnr enn strangi hét merkismaðr Þórólfs Skalla-Grímssonar; honum gaf Skalla-Grímr *Sæunni* dóttur sína, ok land fyrir útan Langá út til Leirulœkjar ok upp til fjalls; hann bjó at Forsi; þeira dóttir var Þórdís, móðir Bjarnar Hitdœlakappa.

Ingvarr hét maðr, faðir Beru, er Skalla-Grímr átti; honum gaf Grímr land á milli Leirulœkjar ok Straumfjarðar; hann bjó á Álftanesi. Önnur dóttir hans var Þórdís, er átti Þorgeirr lambi á Lambastöðum, faðir Þórðar, er þrælarnir Ketils gufu brendu inni. Son Þórðar var Lambi enn sterki.

Steinólfr hét maðr, er nam Hraundal hvárntveggja alt til Grjótár að leyfi Skalla-Gríms *[ok bjó í enum syðra Hraundal]*; hann var faðir Þorleifs, er Hraundœlir eru frá komnir. *Þór-*

*unn hét dóttir Steinólfs, er átti Þorbjörn Vífilsson, faðir Þorgerðar, móður Ásmundar, föður Sveinbjarnar, föður Odds, föður Gró, móður Odds á Álftanesi.*

Þórhaddr, son Steins mjöksiglanda, Vígbjóðssonar, Böðmóðssonar ór Búlkarúmi, hann nam Hitardal til Grjótár et syðra, enn et ytra til Kaldár ok á milli Hitár ok Kaldár til sjóvar; hans son var Þorgeirr, faðir Hafþórs, föður Guðnýjar, móður Þorláks ens auðga: *föður Þorleifs beiskalda, föður Þorláks, föður Ketils, föður Valgerðar, móður þeira Narfasona, Þorláks ok Þórðar.* Þorgeirs synir váru þeir Grímr í Skarði ok Þórarinn, Finnbogi, Eysteinn, Gestr, Torfi.

Þorgils knappi, leysingi Kolla Hróaldssonar, nam Knappadal; hans synir váru þeir Ingjaldr ok Þórarinn *ok Þórir er bjó* at Ökrum, ok eignaðist land á milli Hitár ok Álftár, ok upp til móts við Steinólf. Son *Þóris* var Þrándr er átti Steinunni, dóttur Hrúts á Kambsnesi; þeira synir váru þeir Þórir ok.... Skúmr, faðir Torfa, föður Tanna; hans son var Hrútr, er átti Kolfinnu, dóttur Illuga ens svarta.

Nú eru þeir menn taldir, er lönd hafa bygt í landnámi Skalla-Gríms.

5. Grímr hét maðr, Ingjaldsson, Hróaldssonar ór Haddingjadal, bróðir Ása hersis; hann fór til Íslands í landaleit, ok sigldi fyrir norðan

landit; hann var um vetrinn í Grímsey á Steingrímsfirði; Bergdís hét kona hans, enn Þórir son þeira; Grímr røri til fiska um haustit með húskarla sína, enn sveinninn Þórir lá í stafni, ok var í selbelg, ok dreginn at hálsinum; Grímr dró marmennil, ok er hann kom upp, spurði Grímr: „Hvat spár þú oss um forlög vár, eðr hvar skulu vér byggja á Íslandi?“ Marmennill svarar: „Ekki þarf ek at spá yðr, enn sveininum er liggr í selbelginum; hann skal þar byggja ok land nema, er Skálm, merr yður, legst undir klyfjum“. Ekki fengu þeir fleiri orð af honum. Enn síðar um vetrinn røru þeir Grímr svá at sveinninn var á landi; þá týndust þeir allir. Þau Bergdís ok Þórir fóru um várit ór Grímsey, ok vestr yfir heiði til Breiðafjarðar; þá gekk Skálm fyrir ok lagðist aldri. Annan vetr váru þau á Skálmarnesi í Breiðafirði; enn um sumarit eftir snøru þau suðr; þá gekk enn Skálm fyrir, þartil er þau kvámu af heiðum suðr til Borgarfjarðar, þar sem sandmelir tveir rauðir stóðu fyrir; þar lagðist Skálm niðr undir klyfjum, undir enum ytra melnum; þar nam Þórir land fyrir sunnan Gnúpá til Kaldár, fyrir neðan Knappadal, milli fjalls ok fjöru; hann bjó at Rauðamel enum ytra; hann var höfðingi mikill. Þá var Þórir gamall ok blindr, er hann kom út síð um kveld, ok sá at maðr røri útan í Kaldárós á járnnökkva, mikill ok illilegr, ok

gekk þar upp til bœjar þess er í Hripi hét, ok gróf þar í stöðulshliði; enn um nóttina kom þar upp jarðeldr, ok brann þá Borgarhraun; þar var bœrinn, sem nú er borgin. Son Selþóris var Þorfinnr, er átti Jófríði, dóttur Tungu-Odds; þeira synir váru þeir Þorkell ok Þorgils, Steinn ok Galti, Ormr ok Þórormr ok Þórir. *Steinn Þorfinnsson var faðir Arnóru, móður Hallbjargar, móður Oddnýjar, móður Geirlaugar, móður Snælaugar, móður Markúss á Melum.* Dóttir Þorfinns var *Þorbjörg*, er átti Þorbrandr ór Álftafirði. Þeir Selþórir frændr enir heiðnu dó í Þórisbjörg. Þeir Þorkell ok Þorgils, synir Þorfinns, áttu báðir Unni, dóttur Álfs ór Dölum. Skálm, merr Þóris, dó í Skálmarkeldu.

*Kolbeinn klakkhöfði Atlason, ór Atleyju af Fjölum, fór til Íslands, ok keypti lönd öll millum Kaldár ok Hitár fyrir neðan Sandbrekku, ok bjó á Kolbeinsstöðum; hans son var Finnbogi í Fagraskógi ok Þórðr skáld.*

**6.** Þormóðr ok Þórðr gnúpa, synir Odds ens rakka, Þorviðarsonar, Freyviðarsonar, Álfssonar af Vors, þeir brœðr fóru til Íslands ok námu land frá Gnúpá til Straumsfjarðarár; hafði Þórðr Gnúpudal, ok bjó þar; hans son var Skafti, faðir Hjörleifs goða, ok Finnu, er átti Refr enn mikli, faðir Steinunnar, móður Hofgarða-Refs. Þormóðr bjó á Rauðkollsstöðum; hann var kallaðr Þormóðr goði; hann átti Gerði,

dóttur Kjallaks ens gamla; þeira son var Guðlaugr enn auðgi; hann átt Þórdísi, dóttur Svarthöfða, Bjarnarsonar gullbera ok Þuríðar Tungu-Odds dóttur, er þá bjó í Hörgsholti. Guðlaugr enn auðgi sá, at Rauðamels lönd váru betri enn önnur lönd suðr þar í sveit; hann skoraði á Þorfinn til landa, ok bauð honum hólmgöngu; þeir fellu báðir á hólmi, enn Þuríðr Tungu-Odds dóttir grœddi þá báða ok sætti þá. Guðlaugr nam síðan land frá Straumfjarðará til Furu, milli fjalls ok fjöru, ok bjó í Borgarholti; frá honum eru Straumfirðingar komnir; hans son var Guðleifr, er skip átti annat, enn annat Þórólfr, son Lofts ens gamla, þá er *þeir* börðust við Gyrð jarl Sigvaldason. Annarr son Guðlaugs var Þorfinnr, faðir Guðlaugs, föður Þórdísar, móður Þórðar, föður Sturlu í Hvammi. Valgerðr hét dóttir Guðlaugs ens auðga.

Vali enn sterki hét hirðmaðr Haralds konungs ens hárfagra; hann vá víg í véum ok varð útlægr; hann fór til Suðreyja, ok staðfestist þar, enn synir hans þrír fóru til Íslands; Hlíf hestageldir var móðir þeira; hét einn Atli, annarr Alfarinn, þriði Auðun stoti: þeir fóru allir til Íslands. Atli Valason ok Ásmundr, son hans, námu land frá Furu til Lýsu. Ásmundr bjó í Langaholti at Þórutóftum; hann átti Langaholts-Þóru. Þá er Ásmundr eldist, bjó hann í Öxl, enn Þóra bjó þá eftir, ok lét gera skála

sinn um þvera þjóðbraut, ok lét þar jafnan standa borð, enn hon sat úti á stóli ok laðaði þar gesti, hvern er mat vildi eta. Ásmundr var heygðr í Ásmundarleiði, ok lagðr í skip, ok þræll hans hjá honum. Vísu þessa heyrði *(kona)* kveðna í haugi hans er *(hon)* gekk hjá:

Einn byggi ek, stoð steina,
stafnrúm Atals hrafni;
*skal-at* of þegn á þiljum
þr*a*ngbý*lt* á mar ranga.
Rúm er böðvitrum betra
brimdýris kná*um* stýr*i*
(lifa man þat með lofðum
lengr), enn ilt of gengi.

*[Atli var son Ásmundar, faðir Surts, föður Guðleifs, föður Guðbrands, föður Surts smiðs, föður Eyjólfs prests munks].* Eftir þat var leitat til haugsins, ok var þrællinn tekinn ór skipinu.

Hrólfr enn digri, son Eyvindar eikikróks, *bróðir Illuga Fellsgoða austan af Síðu*, nam land frá Lýsu til Hraunhafnarár; hans son var Helgi í Hofgörðum, faðir Finnboga ok Bjarnar ok Hrólfs. Björn var faðir Gests, föður Skáld-Refs.

7. Sölvi hèt maðr, er nam land milli Hellis ok Hraunhafnar; hann bjó í Brenningi, enn síðar á Sölvahamri, því at hann þóttist þar vera gagnsamari.

Sigmundr, son Ketils þistils, þess er numit hafði Þistilsfjörð norðr, hann átti Hildigunni; Sigmundr

arholti. Ingimundr nam Vatnsdal allan upp frá Helgavatni ok Urðarvatni fyrir austan; hann bjó at Hofi, ok fann hlut sinn, þá er hann gróf fyrir öndvegissúlum sínum. Þorsteinn var son þeira Vígdísar ok Jökull ok Þórir hafrsþjó ok Högni. Smiðr hét ambáttar son ok Ingimundar, enn dœtr Jórunn ok Þórdís.

3. Jörundr nam út frá Urðarvatni til Mógilslœkjar, ok bjó á Grund undir Jörundarfelli; hans son var Már á Másstöðum. Hvati nam út frá Mógilslœk til Giljár, ok bjó á Hvatastöðum. Ásmundr nam út frá Helgavatni um Þingeyrasveit ok bjó undir Gnúpi. Friðmundr nam Forsæludal. Eyvindr sörkvir nam Blöndudal; hans son var Hermundr ok Hrómundr enn halti. Ingimundr fann beru ok húna tvá hvíta á Húnavatni; eftir þat fór hann útan ok gaf Haraldi konungi dýrin; ekki höfðu menn í Noregi áðr séð hvíta björnu. Þá gaf Haraldr konungr Ingimundi skip með viðarfarmi, ok sigldi hann tveim skipum fyrir norðan land fyrstr manna fyrir Skaga, ok helt upp í Húnavatn; þar er Stígandahróf hjá Þingeyrum. Eftir þat var Hrafn austmaðr með Ingimundi; hann hafði sverð gótt; þat bar hann í hof; því tók Ingimundr af honum sverðit. Hallormr ok Þórormr brœðr kvámu út ok váru með Ingimundi; þá fekk Hallormr Þórdísar dóttur hans, ok fylgðu henni Kornsár lönd; þeira son var Þorgrímr Kornsárgoði. Þór-

ormr bjó í Þórormstungu. Ingimundi hurfu svín tíu, ok fundust annat haust í Svínadal, ok var þá hundrað svína; göltr hét Beigaðr; hann hljóp á Svínavatn ok svam þar til er af gengu klaufirnar; hann sprakk á Beigaðarhváli.

4. Hrolleifr enn mikli ok Ljót, móðir hans, kvámu út í Borgarfjörð; þau fóru norðr um sveitir ok fengu hvergi ráðstafa, áðr þau kvámu í Skagafjörð til Sæmundar. Hrolleifr var son Arnhallz, bróður Sæmundar; því vísaði hann þeim norðr á Höfðaströnd til Þórðar, enn hann fekk honum land í Hrolleifsdal, *ok* bjó hann þar. Hrolleifr fífldi Hróðnýju, dóttur Una ór Unadal; Oddr Unason sat fyrir honum ok vá Ljót systrung hans, enn særði hann á fœti, þvíat kyrtil hans bitu eigi járn. Hrolleifr vá Odd ok tvá menn aðra, enn tveir kvámust undan; fyrir þat gerði Höfða-Þórðr hann heraðssekan, svá vítt sem vatnsföll deila til sjóvar í Skagafirði; þá sendi Sæmundr Hrolleif til Ingimundar ens gamla; Ingimundr setti hann niðr í Oddsás gegnt Hofi. Hann átti veiði í Vatnsdalsá við Ingimund, ok skyldi hann ganga ór á fyrir Hofsmönnum, enn hann vildi eigi ór ganga fyrir sonum Ingimundar, ok börðust þeir um ána; þá var sagt Ingimundi; hann var þá blindr, ok lét hann smalasvein leiða hestinn undir sér á ána milli þeira. Hrolleifr skaut spjót*i* í gegnum hann; þeir fóru þá heim. Ingimundr sendi sveininn at

segja Hrolleifi, enn hann var dauðr í öndvegi, er synir hans kvámu heim. Hrolleifr sagði móður sínni; hon kvað þá reyna mundu, hvárt meira mætti gifta Ingimundarsona eða kunnusta hennar, ok bað hann fyrst á braut fara. Þorsteinn skyldi reyna eftir Hrolleifi ok hafa kostgrip af arfi. Eigi settust Ingimundarsynir í hásæti föður síns; þeir fóru norðr til Geirmundar, ok gaf Þorsteinn honum sex tigi silfrs til, at hann skyti Hrolleifi á braut; þeir röktu spor hans norðan um hálsa til Vatnsdals. Þorsteinn sendi húskarl sinn í Ás á njósn; hann kvað tólf vísur, áðr til dura var gengit, ok sá fatahrúgu á bröndum, ok kom undan rautt klæði; Þorsteinn kvað þar verit hafa Hrolleif: „ok mun Ljót hafa blótat til langlífis honum". Þeir fóru í Ás, ok vildi Þorsteinn sitja yfir dyrum, ok náði eigi fyrir Jökli, þvíat hann vildi þar vera. Maðr gekk út ok sást um; þá leiddi annarr Hrolleif eftir sér. Jökull brást við, ok feldi ofan skíðahlaða, enn gat kastat kefli til brœðra sínna. Eftir þat rann hann á Hrolleif, ok ultu þeir ofan fyrir brekkuna, ok varð Jökull efri; þá kom Þorsteinn at, ok neyttu þeir þá vápna. Þá var Ljót út komin ok gekk öfig; hon hafði höfuðit millum fóta sér enn klæðin á baki sér. Jökull hjó höfuð af Hrolleifi, ok rak í andlit Ljótu; þá kvaðst hon of sein orðit hafa: „nú mundi um snúast jörðin fyrir sjónum mínum, enn þér

mundut allir œrzt hafa“. Eftir þat kaus Þorsteinn Hofsland, enn Jökull hafði sverðit ok bjó í Tungu; Þórir hafði goðorð ok bjó at Und*orn*felli, ok gekk berserksgang; Högni hafði Stíganda, ok var farmaðr; Smiðr bjó á Smiðsstöðum. Þorsteinn átti Þuríði gyðju, dóttur Sölmundar í Ásbjarnarnesi; þeira son var Ingólfr hinn fagri ok Guðbrandr. Jökull var son Bárðar Jökulssonar, er Óláfr konungr hinn helgi lét drepa. Þat sagði Jökull stigamaðr at lengi mundi glapvíg haldast í ætt þeiri. *Þorgrímr bjó á Hjallalandi. Þeir synir Ingimundar ok Jörundarsynir börðust um Deildarhjalla, ok fell þar Högni ok leysingi Þorsteins, enn ór Más liði dótturson Jörundar ok fimm menn aðrir. Jökull hjó Þorgrím á þjó ok flýðu á braut. Már galt átta tigi silfrs ok hafði Hjalla(land). Þeir Þorsteinn ok Jökull drápu Þórólf heljarskinn ok tvá menn aðra.*

*Þórólfr sleggja bjó á Sleggjustöðum, upp frá Helgavatni; hann elti á kaf Hallvarð, austmann Þorsteins, í fen fyri þeim brœðrum, ok banaði þeim báðum. Bergr enn rakki systrson Finnboga ens ramma frá Borg (kom út). Þorgrímr fekk dóttur Skíða af Skíðastöðum í Vatnsdal; þar sló Jökull Berg með sverðshjöltum at brúðlaupi; fyrir því skyldi Þorsteinn ganga undir jarðarmen þrjú á Húnavatns þingi, ok vildi eigi; þá skoraði Finnbogi á Þorstein til hólmgöngu,*

*enn Bergr á Jökul. Faxa-Brandr bjó fyrir ofan Hóla; hann fór til hólms með þeim Þorsteini í Víðidalsey; þar reisti Jökull níð Finnboga. Gróa ok Þórey kómu út; Gróa bjó á Gróustöðum hjá Hofi; Þórey bjó í Vestrhópi at Þóreyjargnúpi; þá gerði Gróa haustboð Þorsteini ok þeim bræðrum; Þorstein dreymdi þrisvar at hann skyldi eigi fara; þá hleypti Gróa skriðu á þá menn alla, er þar váru, af fjölkyngi. Þá hét Þorsteinn á þann er sólina skapaði, at berserksgangr hyrfi af Þóri, at hann fæddi upp Þorkel kröflu Þorgrímsson frá Kornsá, ok komst svá at goðorði. Ingólfr orti um Valgerði Óttarsdóttur mansöngsdrápu; þá sótti Óttarr Ingólf ok ónýttist þat. Þá andaðist Þórir, enn Óttarr réðst á braut. Guðbrandr bjó á Guðbrandsstöðum. Þórir varð sekr um konu; hann var flugumaðr til Ingólfs at ráði Óttars; hann hljóp til Guðbrands, enn Guðbrandr vá hann. Þá vildu þeir gera til Óttars ok náðu eigi. Óttarr galt fimm hundruð silfrs. Enn Svartr kom út á Minþakseyri ór Suðreyjum brotnu skipi; hann var flugumaðr (til Ingólfs ok Guðbrands). Hestar váru í dyngju. Ingólfr varaðist (enn Svartr vá) Guðbrand meðal sels ok vetrarhúsa; þar lá ok Svartr eftir á Svartsmýri; þá galt Óttarr þrjú hundruð silfrs. Þá fekk Ingólfr Hildar Ólafsdóttur frá Haukagili. Ingólfr vá tvá menn í einu höggi af Hellismönnum í seli í Miklagili, ok þrjá*

*menn aðra; þar fell förunautr hans, enn hann varð sárr mjök, ok dó litlu síðar.*

Þorgils gjallandi bjó at Svínavatni, er út kom með Auðuni skökli; hans synir váru þeir Digr-Ormr, er vágu Skarpheðinn Véfreðarson á Vatnsskarði, *ok Þorkell. Glæðir var bróðurson hans enn systurson Guðmundar ens ríka. Þorkell (krafla) vá Þorkel frá Helgavatni at mannfundi at Kornsá, ellefu vetra gamall; síðan fór Þorkell útan, ok var með Sigurði Hlöðvéssyni. Þorkell Þorgilsson fekk Hildar, dóttur Þórorms frá Þórormstungu; at því brúðlaupi vá Þorkell (krafla) Glæði. Hildr Hermundardóttir, Eyvindarsonar, fylgði honum; hann falst í Kröfluhelli undir forsi í Vatnsdalsá. Þórdís spákona réð ráð til, at Þorkell skyldi ljósta sprota hennar í höfuð Guðmundi (ríka) at dómi, er Hegnöðr hét, ok mundi hann þá eigi at mæla, enn (þeir) tóku tvau hundruð silfrs. Þá tók Þorkell við Hofslandi ok goðorði, ok hafði meðan hann lifði; hann fekk Vigdísar, dóttur Óláfs frá Haukagili. Í þann tíma kom út Friðrekr biskup með Þorvaldi Koðránssyni, ok var at Giljá með þeim Ormi Koðránssyni feðgum: biskup var at haustboði at Óláfs, ok vígði byskup þar elda; þar váru ok berserkir tveir, ok hét Haukr hvárrtveggja; þeir váðu eldinn ok brunnu báðir, ok heitir þar síðan Haukagil; þá tók Þorkell skírn ok allir Vatnsdælar. Hann*

*lét kirkju gera at Hofi, ok reitti þar gröft öllum þingmönnum sínum.*

5. Eyvindr auðkúla hét maðr; hann nam allan Svínadal ok bjó á Auðkúlustöðum; Þorbjörn kolka hét maðr; hann nam Kolkumýrar, ok bjó þar meðan hann lifði.

Eyvindr sörkvir nam Blöndudal, sem fyrr er ritat; hans son var Hrómundr enn halti, er vá Högna Ingimundarson, þá er þeir Már ok Ingimundarsynir börðust um Deildarhjalla; því var hann gerr ór Norðlendinga fjórðungi. Hans synir váru þeir Hásteinn ok Þorbjörn, er börðust við Sleitu-Helga í Hrútafirði. Annarr son Eyvindar var Hermundr, faðir Hildar, er átti Åvaldi Ingjaldsson; þeira börn váru þau Kolfinna, er átti Gríss Semingsson, ok Brandr, er vá Galta Óttarsson á Húnavatnsþingi fyrir níð Hallfreðar.

Ævarr hét maðr, son Ketils helluflaga ok Þuríðar, dóttur Haraldar konungs gullskeggs ór Sogni. Ævarr átti . . . . . . . . . . þeira son var Véfrøðr. Synir Ævars laungetnir váru þeir Karli ok Þorbjörn strjúgr ok Þórðr mikill. Ævarr fór til Íslands ór víkingu, ok synir hans aðrir enn Véfrøðr; með honum fór út Gunnsteinn, frændi hans, ok Auðólfr ok Gautr, enn Véfrøðr var eftir í víkingu; Ævarr kom skipi sínu í Blönduós; þá váru numin lönd fyrir vestan Blöndu. Ævarr fór upp með Blöndu at leita sér landnáms, enn er hann kom þar sem heita

Móbergsbrekkur, setti hann niðr stöng háva, ok kveðst þar taka Véfrøði syni sínum bústað. Síðan nam hann Langadal allan upp þaðan ok svá þar fyri norðan háls; þar skifti hann löndmeð skipverjum sínum. Ævarr bjó í Ævarsskarði. Véfrøðr kom út síðar í Gönguskarðsárós ok gekk norðan til föður síns, ok kendi faðir hans hann eigi. Þeir glímdu, svá at upp gengu stokkar allir í húsinu, áðr Véfrøðr sagði til sín. Hann gerði bú at Móbergi, sem ætlat var, enn Þorbjörn strúgr á Strúgsstöðum, enn Gunnsteinn á Gunnsteinsstöðum, Karli á Karlastöðum, Þórðr á Mikilsstöðum, Auðólfr á Auðólfsstöðum. Gautr bygði Gautsdal; hann var einhendr. Þeir Eyvindr sörkvir fóru sér sjálfir, ok vildu eigi lifa Ingimund enn gamla. Haukr bjó þar sem nú heita Hauksgrafir. Véfrøðr átti Gunnhildi, dóttur Eiríks ór Guðdölum, systur Hólmgöngu-Starra. Þeira synir váru þeir Úlfheðinn, er þeir Þjóstólfr vágu við Grindarlœk, ok Skarpheðinn, er þeir Digr-Ormr vágu í Vatnsskarði, ok Húnrøðr faðir Más, föður Hafliða. *Halldóra hét dóttir Húnrøðar, móðir Vigdísar, móður Úlfheðins, föður Rafns, föður Hallberu, móður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum.*

Holti hét maðr, er nam Langadal ofan frá Móbergi, ok bjó á Holtastöðum; hann var faðir Ísrøðar, föður Ísleifs, föður Þorvalds, föður Þór-

arins ens spaka. Dóttir Þorvalds var Þórdís, er átti Halldórr, son Snorra goða. Þeira dœtr váru þær Þorkatla, er átti Guðlaugr Þorfinnsson í Straumsfirði; þaðan eru Sturlungar komnir ok Oddverjar. Önnur var Guðrún, er átti Kjartan Ásgeirsson ór Vatnsfirði; þeira *son* Þorvaldr *faðir* Ingiríðar, er Guðlaugr prestr átti.

*Fóstólfr ok Þjóstólfr bjoggu í Engihlíð í Langadal; þeir tóku við sekum manni, þeim er Þorgrímr hét; þann vágu þeir Húnrøðr ok Þórólfr leikgoði á Kili. Eftir þat vágu þeir Fóstólfr ok Þjóstólfr Úlfheðin, bróður Húnrøðar hjá Grindalœk; þeir bjoggu þá í Holti, enn Finnr Jörundarson á Breiðabólstað í Vestrhópi, frœndi Fóstólfs, barg þeim, enn Þorkell krafla kom þeim útan. Úlfheðinn leyndi sári sínu, ok bað eigi til hefnda at leita, kvað engum auðit mundu verða. Síðan vága þeir Fóstólfr austr í Noregi Skúm, leysingja Húnrøðar, vellauðgan at fé, enn sendu alt féit út Húnrøði, ok þá sættust þeir heilum sáttum.*

Hólmgöngu-Máni hét maðr, er nam Skagaströnd fyrir vestan inn til Forsár, enn fyrir austan til Mánaþúfu, ok bjó í Mánavík; hans dóttur átti Þorbrandr í Dölum, faðir Mána, föður Kálfs skálds.

**6.** Eilífr örn hét maðr, son Atla Skíðasonar ens gamla, Bárðarsonar í Ál. Son Eilífs arnar var Koðrán at Giljá ok Þjóðólfr goði at Hofi á

Skagaströnd, ok Eysteinn, faðir Þorvalds tinteins ok Þorsteinn heiðmennings ok Arnar í Fljótum. Eilífr nam land inn frá Mánaþúfu til Gönguskarðsár, ok Laxárdal, ok bjó þar. Eilífr átti Þorlaugu dóttur Sæmundar ór Hlíð; þeira synir váru þeir Sölmundr, faðir Guðmundar, föður þeira Víga-Barða ok brœðra hans; annarr var Atli enn rammi, er átti Herdísi, dóttur Þórðar frá Höfða; þeira börn váru þau Þorlaug, er átti Guðmundr enn ríki, og Þórarinn, er átti Höllu, dóttur Jörundar háls; son þeira var Styrbjörn, er átti Yngvildi, dóttur Steinrøðar Heðinssonar frá Heðinshöfða; þeira dóttir Arndís, er átti Hamall Þormóðarson, Þorkelssonar mána.

Sæmundr enn suðreyski, félagi Ingimundar ens gamla, sem ritat er, hann kom skipi sínu í Gönguskarðsárós. Sæmundr nam Sæmundarhlíð alla til Vatnsskarðs, fyrir ofan Sæmundarlœk, ok bjó á Sæmundarstöðum; hans son var Geirmundr, er þar bjó síðan. Dóttir Sæmundar var Reginleif, er átti Þóroddr hjálmr; þeira dóttir Hallbera, móðir Guðmundar ens rika, föður Eyjólfs, föður Þóreyjar, móður Sæmundar ens fróða. Arnalldr hét annarr son Sæmundar, faðir Rjúpu, er átti Þorgeirr, son Þórðar frá Höfða; þeira son var Halldórr frá Hofi.

Skefill hét maðr, er skipi sínu kom í Gönguskarðsárós á enni sömu viku ok Sæmundr; enn

meðan Sæmundr fór eldi um landnám sitt, þá nam Skefill land alt fyrir útan Sauðá; þat tók hann af landnámi Sæmundar at ólofi hans, ok lét Sæmundr þat svábúit vera.

Úlfljótr hét maðr; hann nam Langaholt alt fyrir neðan Sæmundarlœk.

Þorkell vignir, son Skíða ens gamla, hann nam land um Vatnsskarð alt ok Svartárdal; hans son var Arnmóðr skjálgi, faðir Galta, föður Þorgeirs, föður Styrmis, föður Halls, föður Kolfinnu.

Álfgeirr hét maðr, er nam um Álfgeirsvöllu ok upp til Mælifellsár, ok bjó á Álfgeirsvöllum.

Þórviðr hét maðr, sá er land nam upp frá Mælifellsá til Giljár.

Hrosskell hét maðr, er nam Svartárdal allan ok Ýrarfellslönd öll með ráði Eiríks; hann nam ofan til Gilhaga ok bjó at Ýrarfelli. Hann átti þræl þann, er Roðrekr hét; hann sendi hann upp eftir Mælifellsdal í landaleitan suðr á fjöll; hann kom til gils þess er verðr suðr frá Mælifelli, ok nú heitir Roðreksgil; þar setti hann niðr staf nýbirktan, er þeir kölluðu landkönnuð, ok eftir þat snýr hann aftr.

7. Eiríkr hét maðr ágætr; hann fór af Noregi til Íslands; hann var son Hróalds Geirmundarsonar, Eiríkssonar örðigskeggja. Eiríkr nam land frá Giljá um Goðdali alla ok ofan til

Norðrár; hann bjó at Hofi í Goðdölum. Eiríkr átti Þuríði dóttur Þórðar skeggja, systur Helgu, er Ketilbjörn átti enn gamli at Mosfelli; börn þeira Eiríks váru þau Þorkell ok Hróaldr, Þorgeirr ok Hólmgöngu-Starri ok Gunnhildr. Þorgeirr Eiríksson átti Yngvildi Þorgeirsdóttur; þeira dóttir Rannveig, er átti Bjarni Brodd-Helgason. Gunnhildi Eiríksdóttur átti Véfrøðr Ævarsson.

Vékell enn hamrammi hét maðr, er land nam ofan frá Gilja til Mælifellsár, ok bjó at Mælifelli; hann spurði til ferða Roðreks; þá fór hann lítlu síðar suðr á fjöll í landaleitan; hann kom til hauga þeira, er nú heita Vékelshaugar; hann skaut milli hauganna ok hvarf þaðan aftr. Enn er þetta spurði Eiríkr í Goðdölum, sendi hann þræl sinn suðr á fjöll, er hét Rönguðr; fór hann enn í landaleit; hann kom suðr til Blöndukvísla, ok fór þá upp með á þeiri, er fellr fyrir vestan Hvinverjadal, ok vestr á hraunit milli Reykjavalla ok Kjalar, og kom þar á manns spor, ok skildi at þau lágu sunnan at; hann hlóð þar vörðu þá er nú heitir Rangaðar varða; þaðan fór hann aftr, ok gaf Eiríkr honum frelsi fyrir ferð sína, ok þaðan af tókust ferðir um fjallit milli Sunnlendinga ok Norðlendinga.

Kráku-Hreiðarr hét maðr, enn Ófeigr lafskegg faðir hans, son Öxna-Þóris; þeir feðgar bjoggu

skip sitt til Íslands; enn er þeir kvámu í landsýn, gekk Hreiðarr til siglu, ok sagðist eigi mundu kasta öndvegissúlum fyrir borð; kveðst þat þykkja ómerkilegt at gera ráð sitt eftir því; kveðst heldr mundu heita á Þór, at hann vísaði honum til landa, ef áðr væri numit. Enn hann kom í Skagafjörð ok sigldi upp á Borgarsand til brots; Hávarðr hegri kom til hans, ok bauð honum til sín, ok þar var hann um vetrinn í Hegranesi. Um várit spurði Hávarðr, hvat hann vildi ráða sinna, enn hann kveðst ætla að berjast við Sæmund til landa; enn Hávarðr latti þess, ok kvað þat illa gefizt hafa; bað hann fara á fund Eiríks í Goðdölum ok taka ráð af honum; „því hann er vitrastr maðr í heraði þessu.“ Hreiðarr gerði svá. Enn er hann *fann* Eirík, latti hann þessa ófriðar, ok kvað þat óhent at menn deildi, meðan svá væri mannfátt á landi; kveðst heldr vilja gefa honum tunguna alla niðr frá Skálamýri; kvað Þór þangat hafa vísat honum, ok þar stafn á horft, þá er hann sigldi upp á Borgarsand; kvað honum ærit þat landnám ok hans sonum. Þenna kost þekkist Hreiðarr, ok bjó á Steinsstöðum; hann kaus at deyja í Mælifell. Son hans var Ófeigr þunnskeggr, faðir Bjarnar, föður Tungu-Steins.

8. Önundr víss hét maðr, er land nam upp frá Merkigili enn eystra dal alt fyrir austan;

enn þá er Eiríkr vildi til fara at nema dalinn allan alt fyrir vestan, þá feldi Önundr blótspán til, at hann skyldi verða víss, hvern tíma Eiríkr mundi til fara at nema dalinn, ok varð þá Önundr skjótari, ok skaut yfir ána með tundröru ok helgaði sér svá landit fyrir vestan, ok bjó milli á.

Kári hét maðr, er nam land á milli Norðrár ok Merkigils, ok bjó í Flatatungu; hann var kallaðr Tungu-Kári; frá honum eru Silfrstæðingar komnir.

Þorbrandr örrek nam upp frá Bólstaðará Silfrastaðahlíð alla, ok Norðrárdal allan fyrir norðan ok bjó á Þorbrandsstöðum, ok lét þar gera eldhús svá mikit, at allir þeir menn, er þeim megin fóru, skyldu þar bera klyfjar í gegnum, ok vera öllum matr heimill; við hann er kend Örreksheiði upp frá Hökustöðum; hann var enn göfgasti maðr ok enn kynstœrsti.

Maðr hét Hjálmólfr, er land nam um Blönduhlíð; hans son var Þorgrímr kuggi, faðir Odds í Axlarhaga, föður Sela-Kálfs; þaðan eru Axlhegingar komnir.

Þórir dúfunef var leysingi Öxna-Þóris; hann kom skipi sínu í Gönguskarðsárós; þá var bygt herað alt fyrir vestan; hann fór norðr yfir Jökulsá at Landbroti, ok nam land á milli Glóðafeykisár ok Djúpár, ok bjó á Flugumýri. Í þann tíma kom út skip í Kolbeinsárósi, hlaðit kvikfé,

enn þeim hvarf í Brimnesskógum unghryssi eitt; enn Þórir dúfunef keypti vonina ok fann síðan; þat var allra hrossa skjótast, ok var kölluð Fluga. Örn hét maðr; hann fór landshorna í millum, ok var fjölkunnigr; hann sat fyri Þóri í Hvinverjadal, er hann skyldi fara suðr um Kjöl, ok veðjaði við Þóri hvárs þeira hross mundi skjótara, þvíat hann hafði allgóðan hest, ok lagði hvárr þeira við hundrað silfrs. Þeir riðu báðir suðr um Kjöl, þar til er þeir kvámu á skeið þat er síðan var kallat Dúfunefs-skeið; enn eigi varð minni skjótleiksmunr hrossa enn Þórir kom í móti Erni á miðju skeiði. Örn undi svá illa við félát sitt at hann vildi eigi lifa, ok fór upp undir fjallit, er nú heitir Arnarfell, ok týndi sér þar sjálfr, enn Fluga stóð þar eftir, þvíat hon var mjök móð. Enn er Þórir fór af þingi, fann hann hest föxóttan ok grán hjá Flugu; við þeim hafði hon fengit; undir þeim var alinn Eiðfaxi, er utan var fœrðr ok varð sjau manna bani við Mjörs á einum degi, ok lézt hann þar sjálfr. Fluga týndist í feni á Flugumýri.

Kollsveinn enn rammi hét maðr, er nam land á milli Þverár ok Gljúfrár, ok bjó á Kollsveinsstöðum yfir frá Þverá; hann hafði blót á Hofsstöðum.

9. Gunnólfr hét maðr, er nam land milli Þverár ok Glóðafeykisár, ok bjó í Hvammi.

Gormr hét hersir ágætr í Svíþjóð; hann átti

Þóru, dóttur Eiríks konungs at Uppsölum; Þorgils hét son þeira; hann átti Elínu, dóttur Burisláfs konungs ór Görðum austan ok Ingigerðar, systur Dagstyggs Risakonungs. Synir þeira váru þeir Hergrímr ok Herfinnr, er átti Höllu dóttur Heðins ok Arndísar Heðinsdóttur. Gróa hét dóttir Herfinns ok Höllu; hana átti Hróarr; þeira son Sléttu-Björn, er land nam fyrst á milli Grjótár ok Deildarár, áðr þeir Hjalti ok Kolbeinn kvámu út; hann bjó á Sléttu-Bjarnarstöðum. Hann átti . . . . ; þeira börn váru Örnólfr, er átti Þorljótu dóttur Hjalta Skálpssonar, ok Arnbjörn, er átti Þorlaugu Þórðardóttur frá Höfða ok Arnoddr; hann átti Þórnýju, dóttur Sigmundar Þorkelssonar, er Glúmr vá. Arnfríðr hét dóttir Sléttu-Bjarnar, er Spak-Böðvarr átti, son Öndotts. Öndottr kom út í Kolbeinsárósi, ok kaupir land at Sléttu-Birni ofan frá Hálsgröf enum eystra megin ok út til Kolbeinsáróss, *enn* enum vestra megin ofan frá lœk þeim, er verðr út frá Nautabúi, ok inn til Gljúfrár, ok bjó í Viðvík.

Sigmundr á Vestfold átti Ingibjörgu, dóttur Rauðs ruggu í Naumudal, systur Þorsteins svarfaðar; þeira son var Kolbeinn; hann fór til Íslands ok nam land á milli Grjótár ok Deildarár, Kolbeinsdal ok Hjaltadal.

Hjalti, son Þórðar skálps, kom til Íslands ok nam Hjaltadal at ráði Kolbeins, ok bjó at

Hofi; hans synir váru þeir Þorvaldr ok Þórðr, ágætir menn. Þat hefir erfi verit ágætast á Íslandi, er þeir erfðu föður sinn, ok váru þar MCC boðsmanna, ok váru allir virðingamenn með gjöfum brutt leiddir. At erfi færði Oddr Breiðfirðingr drápu, þá er hann hafði ort um Hjalta. Áðr hafði Glúmr Geirason stefnt Oddi til Þorskafjarðarþings; þá fóru Hjaltasynir norðan skipi til Steingrímsfjarðar, ok gengu norðan um heiðina, þar sem nú er kölluð Hjaltdœla laut; enn er þeir gengu á þingit, váru þeir svá vel búnir at menn hugðu at Æsir væri komnir. Þar um er þetta kveðit:

Mangi hugði manna,
morðkannaðir, annat,
ísarnmeiðr enn Æsir
almœrir þar fœri,
þás á Þorskafjarðar
þing með ennitinglum
holtvartaris Hjalta
harðfengs synir gengu.

Frá Hjaltasonum er mikil ætt komin ok göfig.

Þórðr hét maðr ágætr; hann var son Bjarnar byrðusmjörs, Hróaldssonar hryggs, Bjarnarsonar járnsíðu, Ragnarssonar loðbrókar; Þórðr fór til Íslands, ok nam Höfðaströnd í Skagafirði á milli Unadalsár ok Hrolleifsdalsár, ok bjó at Höfða. Þórðr átti Þorgerði, dóttur Þóris hímu ok Friðgerðar, dóttur Kjarvals Írakonungs; þau áttu nítján börn. Björn var son þeira; hann átti

Þuríði, dóttur Refs frá Barði, ok váru þeira börn Arnórr kerlingarnef ok Þórdís, móðir Orms, föður Þórdísar, móður Bótólfs, föður Þórdísar, móður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona. Þorgeirr hét annarr son Þórðar; hann átti Rjúpu, dóttur Arnhallz Sæmundarsonar; þeira son Halldórr at Hofi. Snorri var enn þriði; hann átti Þórhildi rjúpu, dóttur Þórðar gellis. Þeira son var Þórðr hesthöfði, *faðir Karlsefnis, er fann Vínland hit góða, föður Bjarnar, föður Steinunnar, konu Þorsteins rangláts, föður Guðrúnar, móður Höllu, móður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends sterka.* Þorvaldr holbarki var enn fjórði; hann kom um haust eitt á Þorvaldsstaði til Smiðkels, ok dvaldist þar um hríð; þá fór hann upp til hellisins Surts ok færði þar drápu þá er hann hafði ort um jötuninn í hellinum. Síðan fekk hann dóttur Smiðkels, ok var þeira dóttir Jórunn, móðir Þorbrands í Skarfsnesi. Bárðr var enn fimti son Þórðar; hann átti Þórörnu, dóttur Þórodds hjálms; þeira son var Daði skáld. Söxólfr var enn sétti son Þórðar, sjaundi Þorgrímr, átti Hróarr, níundi Knörr, tíundi Þormóðr skalli, ellefti Steinn. Dóttir Þórðar var Þórlaug, er átti Arnbjörn Sléttu-Bjarnarson; þeira dóttir Guðlaug, er átti Þorleikr Höskuldsson; þeira son Bolli. Herdís var önnur dóttir Þórðar; hana átti Atli enn rammi; Þorgríma skeiðarkinn var en þriðja,

fjórða Arnbjörg, fimta Arnleif, sétta Ásgerðr, sjaunda Þuríðr, átta Friðgerðr í Hvammi. *Son Arnórs Björnssonar, Þórðarsonar, var Eldjárn, faðir Halls, föður Ragnhildar, móður Rafns, föður Hallberu, móður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum.* Hrolleifr enn mikli bygði Hrolleifsdal, sem ritat er, áðr Þórðr gerði hann norðan fyrir víg Odds Unasonar; þá fór hann í Vatnsdal.

**11.** Friðleifr hét maðr, gauzkr at föðurkyni, enn Bryngerðr hét móðir hans, ok var hon flæmsk; Friðleifr nam Sléttahlíð alla ok Friðleifsdal milli Friðleifsdalsár ok Stafár, ok bjó í Holti; hans son var Þjóðarr, faðir Ara ok Bryngerðar, móður Tungu-Steins.

Flóki, son Vilgerðar Hörða-Káradóttur, fór til Íslands ok nam Flókadal milli Flókadalsár ok Reykjarhóls; hann bjó á Mói. Flóki átti Gró, systur Þórðar frá Höfða; þeira son var Oddleifr stafr, er bjó á Stafshóli ok deildi við Hjaltasonu; dóttir Flóka var Þjóðgerðr, móðir Koðráns, föður Þjóðgerðar, móður Koðráns, föður Kárs í Vatnsdal.

Þórðr knappr hét maðr sœnskr, son Bjarnar at Haugi; annarr hét Nafar-Helgi; þeir fóru samskipa til Íslands, ok kvámu við Haganes. Þórðr nam land upp frá Stíflu til Tunguár ok bjó á Knappsstöðum; hann átti Æsu, dóttur Ljótólfs goða; þeira son var Hafr, er átti Þuríði,

dóttur Þorkels ór Goðdölum; þeira son var Þórarinn, faðir Ófeigs. Nafar-Helgi nam land fyrir austan, upp frá Haganesi til Flókadalsár fyrir neðan Barð ok upp til Tunguár, ok bjó á Grindli; hann átti Gró ena snarskygnu; þeira börn váru þau: Þórhrólfr ok Arnórr, er barðist við Friðleif á Stafshóli; ok Þorgerðr, er átti Geirmundr Sæmundarson; ok Úlfhildr, er átti Arnórr Skefilsson í Gönguskarði; þeira son var Þorgeirr ofláti, er vá Blót-Má at Móbergi. Þórunn blákinn var ein.

Bárðr Suðreyingr nam land upp frá Stíflu til Mjóvadalsár; hans son var Hallr mjódœlingr, faðir Þuríðar, er átti Arnórr kerlingarnef.

Bruni enn hvíti hét maðr ágætr, son Háreks Upplendinga jarls; hann fór til Íslands af fýsi sínni ok nam land á milli Mjóvadalsár ok Úlfsdala; hann bjó á Brunastöðum; hann átti Arnóru, dóttur Þorgeirs ens óða, Ljótólfssonar goða; þeira synir váru þeir Ketill ok Úlfheðinn ok Þórðr, er Barðverjar eru frá komnir.

Úlfr víkingr ok Óláfr bekkr fóru samskipa til Íslands. Úlfr nam Úlfsdali ok bjó þar. Óláfr bekkr var son Karls ór Bjarkey af Hálogalandi; hann vá Þóri enn svarta, ok varð fyrir þat útlægr. Óláfr nam alla dali fyrir vestan, ok Óláfsfjörð suman til móts við Þormóð, ok bjó at Kvíabekk; hans synir váru þeir Steinmóðr,

faðir Bjarnar, ok Grímólfr, ok Arnoddr, faðir Vilborgar, móður Karls ens rauða.

Þormóðr enn rammi hét maðr; hann vá Gyrð, móðurföður Skjálgs á Jaðri, ok varð fyrir þat landflótti ok fór til Íslands; hann kom skipi sínu í Siglufjörð ok sigldi inn at Þormóðseyri, ok kallaði af því Siglufjörð; hann nam Siglufjörð allan á milli Úlfsdala *ok Hvanndala*, ok bjó á Siglunesi; hann deildi um Hvanndali við Óláf bekk, ok varð sextán manna bani, áðr þeir sættust, enn þá skyldi sítt sumar hvárr hafa. Þormóðr var son Haralds víkings, enn hann átti Arngerði, systur Skíða ór Skíðadal; þeira synir váru þeir Arngeirr enn hvassi, ok Narfi, faðir Þrándar, föður Hríseyjar-Narfa, ok Alrekr, er barðist í Sléttahlíð við Knör Þórðarson.

Gunnólfr enn gamli, son Þorbjarnar þjóta ór Sogni, hann vá Végeir, föður Vébjarnar sygnakappa, ok fór síðan til Íslands; hann nam Óláfsfjörð fyrir austan upp til Reykjaár, ok út til Vámúla, ok bjó á Gunnólfsá. Hann átti Gró, dóttur Þorvarðs frá Urðum; þeira synir váru þeir Steinólfr, Þórir ok Þorgrímr.

12. Björn hét maðr ágætr á Gautlandi; hann var son Hrólfs frá Ám; hann átti Hlíf, dóttur Hrólfs Ingjaldssonar, Fróða sonar konungs; Eyvindr hét son þeira. Björn varð ósáttr um jörð við Sigfast, mág Sölvars Gautakonungs, ok brendi Björn hann inni með þrim tigum manna. Síð-

an fór Björn til Noregs með tólfta mann, ok tók við honum Grímr hersir, son Kolbjarnar sneypis, ok var *hann* með honum einn vetr; þá vildi Grímr drepa Björn til fjár; því fór Björn til Öndotts kráku, er bjó í Hvinisfirði á Ögðum, ok tók hann við honum. Björn var á sumrum í vestrvíking, enn á vetrum með Öndótti, þartil er Hlíf. kona hans, andaðist á Gautlandi; þá kom Eyvindr. son hans, austan, ok tók við herskipum föður síns; enn Björn fekk Helgu, systur Öndotts kráku, ok var þeira son Þrándr. Eyvindr fór þá í vestrvíking, ok hafði útgerðir fyrir Írlandi; hann fekk Rafórtu, dóttur Kjarvals Írakonungs, ok staðfestist þar; því var hann kallaðr Eyvindr austmaðr. Þau Rafórta áttu son þann er Helgi hét; hann seldu þau til fóstrs í Suðreyjar; enn er þau kómu þar út tveim vetrum síðar, þá var hann sveltr, svá at þau kendu hann eigi; þau höfðu hann bruttu með sér, ok kölluðu hann Helga enn magra. Hann var fœddr á Írlandi; enn er hann var roskinn, gerðist hann virðingamaðr mikill; hann fekk þá Þórunnar hyrnu, dóttur Ketils flatnefs, ok átti þau mörg börn; Hrólfr ok Ingjaldr hétu synir þeira.

Helgi enn magri fór til Íslands með konu sína og börn; þar var ok með honum Hámundr heljarskinn, mágr hans, er átti Ingunni, dóttur Helga. Helgi var blandinn mjök í trú; hann trúði á Krist, enn hét á Þór til sjófara ok harð-

ræða. Þá er Helgi sá Ísland, gekk hann til frétta við Þór, hvar land skyldi taka, enn fréttin vísaði honum norðr um landit; þá spurði Hrólfr, son hans, hvárt Helgi mundi halda í Dumbshaf, ef Þórr vísaði honum þangat, þvíat skipverjum þótti mál ór hafi, er áliðit var mjök sumarit. Helgi tók land fyrir útan Hrísey, enn fyrir innan Svarfaðardal; hann var enn fyrsta vetr á Hámundarstöðum. Þeir fengu vetr mikinn. Um várit gekk Helgi upp á Sólarfjall, þá sá hann at svartara var miklu at sjá inn til fjarðarins, er þeir kölluðu Eyjafjörð af eyjum þeim er þar lágu úti fyrir. Eftir þat bar Helgi á skip sítt alt þat er hann átti; enn Hámundr bjó eftir. Helgi lendi þá við Galtarhamar; þar skaut hann á land svínum tveimr, ok hét göltrinn Sölvi; þau fundust þrimr vetrum síðar í Sölvadal, *ok* váru þá saman lxx svína. Helgi kannaði um sumarit herað alt, ok nam allan Eyjafjörð milli Sigluness ok Reynisness, ok gerði eld mikinn við hvern vatnsós ok helgaði sér svá alt herað. Hann sat þann vetr at Bíldsá, enn um várit færði Helgi bú sitt í Kristsnes, ok bjó þar meðan hann lifði. Í búfærslunni varð Þórunn léttari í Þórunnareyju í Eyjafjarðará; þar fæddi hún Þorbjörgu hólmasól. Helgi trúði á Krist ok kendi því við hann bústað sínn. Eftir þetta tóku menn at byggja í landnámi Helga at hans ráði.

**13.** Maðr hét Þorsteinn svarfaðr, son Rauðs ruggu í Naumudal; hann átti Hildi, dóttur Þráins svarta þurs. Þorsteinn fór til Íslands ok nam Svarfaðardal at ráði Helga. Börn hans váru þau Karl enn rauði, er bjó á Karlsá, ok Guðrún, er átti Hafþórr víkíngr; þeira börn váru þau Klaufi ok Gróa, er átti Gríss gleðill. Atli illingr hét maðr; hann drap Hafþór, enn setti Karl í járn; þá kom Klaufi á óvart, ok drap Atla, enn tók Karl ór járni. Klaufi átti Yngvildi rauðkinn, dóttur Ásgeirs rauðfeldar, systur þeira Óláfs völubrjóts ok Þorleifs; fyrir þeim hjó hann jafnabelg, er þeir tóku í landi hans. Þá kvað Þorleifr þetta:

Belg hjó fyr mér
bøggvir snöggvan,
enn fyr Óláfi
ál ok verju;
svá skal verða,
ef vér lifum,
við böl búinn
bøggvir höggvinn.

Þar af gerðist Svarfdœla saga.

Karl hét maðr *[Steinrøðarson]*, er nam Strönd alla út frá Upsum til Mígandi.

Hámundr heljarskinn, son Hjörs konungs, miðlaði lönd við Örn, frœnda sínn, þá er hann kom vestan, þann er numit hafði Arnarfjörð, ok bjó hann í Arnarnesi; hans dóttir var Iðunn, er átti Ásgeirr rauðfeldr. Son Arnar var Narfi,

er Narfasker eru við kend; hann átti Úlfeiði, dóttur Ingjalds ór Gnúpufelli; þeira synir váru þeir Ásbrandr, faðir Hellu-Narfa, ok Eyjólfr, faðir Þor*valds* í Haga, ok Helgi, faðir Gríms á Kálfskinni.

Galmi hét maðr, er nam Galmaströnd, á milli Þorvaldsdalsár ok Reistarár; hans son var Þorvaldr, faðir Orms, föður Barna-Þórodds, föður Þórunnar, móður Dýrfinnu, móður Þorsteins smiðs Skeggjasonar; Þorvaldi gaf Hámundr land milli Reistarár ok Hörgár, enn hann hafði áðr búit í Þorvaldsdal.

Geirleifr hét maðr; hann nam Hörgárdal upp til Myrkár; hann var Hrappsson ok bjó í Haganum forna; hans son var Björn enn auðgi, er Auðbrekkumenn eru frá komnir.

**14.** Maðr hét Þórðr slítandi; hann nam Hörgárdal upp frá Myrká ok ofan til Dranga öðrummegin; hans son var Örnólfr, er átti Yngvildi allrasystur; þeira synir váru þeir Þórðr ok Þorvarðr í Kristnesi, ok Steingrímr at Kroppi. Þórðr slítandi gaf Skólm, frænda sínum, af landnámi sínu; hans son var Þórálfr enn sterki, er bjó at Myrká.

Þórir þursasprengir hét maðr; hann var fœddr í Ömd á Hálogalandi, ok varð missáttr við Hákon jarl Grjótgarðsson, ok fór af því til Íslands; hann nam Öxnadal allan, ok bjó at Vatnsá; hans son var Steinrøðr enn rammi, er mörgum

manni vann bót, þeim er aðrar meinvættir gerðu mein. Geirhildr hét fjölkunnig kona ok meinsöm; þat sá ófreskir menn, at Steinrøðr kom at henni óvarri, enn hon brá sér í nautsbelgs líki vatnsfulls. Steinrøðr var járnsmiðr; hann hafði járngadd mikinn í hendi; um fund þeira er þetta kveðit:

Fork lætr æ sem orkar
atglamrandi hamra
á glotkylli gjalla
Geirhildar hví meira.
Járnstafr skapar œrna
(eru sollin rif trolli)
hár á Hjaltaeyri
hríð kerlingar síðu.

Dóttir Steinrøðar var Þorljót, er átti Þorvarðr í Kristnesi.

Auðólfr hét maðr; hann fór af Jaðri til Íslands ok nam Hörgárdal niðr frá Þverá til Bægisár, ok bjó at enni syðri Bægisá; hann átti Þórhildi, dóttur Helga ens magra; þeira dóttir var Yngvildr, er átti Þóroddr hjálmr, faðir Arnljóts, föður Halldórs, *föður Einars, föður Jórunnar, móður Halls, föður Gizurar, föður Þorvalds, föður Gizurar jarls.*

Eysteinn son Rauðúlfs Öxna-Þórissonar nam land niðr frá Bægisá til Kræklingahlíðar, ok bjó at Lóni; hans son var Gunnsteinn, er átti Hlíf, dóttur Heðins ór Mjólu; þeira börn váru

þau Halldóra, er Víga-Glúmr átti, ok Þorgrímr ok Grímr eyrarleggr.

Eyvindr hani hét maðr göfigr; hann kom út síð landnámatíðar; hann átti skip við Þorgrím Hlífarson; hann var frændi Öndottssona; þeir gáfu honum land, ok bjó hann í Hanatúni, ok var kallaðr Túnhani; þar er nú kallat Marbœli. Hann átti Þórnýju, dóttur Stórólfs Öxna-Þórissonar; hans son var Snorri Hlíðmannagoði.

**15.** Öndottr kráka, er fyrr var getit, gerðist ríkr maðr; enn er Björn mágr hans andaðist, þá kallaði Grímr hersir konungi allan arf hans, er hann var útlendr, enn synir hans váru fyrir vestan haf. Öndottr hélt fénu til handa Þrándi systursyni sínum; enn er Þrándr frá andlát föður síns, þá sigldi hann ór Suðreyjum svá mikla sigling, at fyrir þat var hann kallaðr Þrándr mjöksiglandi. Enn er hann hafði við erfð tekit, þá fór hann til Íslands ok nam fyrir sunnan land, sem enn mun sagt verða; enn fyrir þá sök vá Grímr Öndott, er hann náði eigi fénu í konungs trausti; enn á enni sömu nótt bar Signý, kona Öndotts, á skip alt lausafé sítt, ok fór með sonu þeira, Ásgrím ok Ásmund, til Sighvats föður síns, enn sendi sonu sína til Heðins fóstra síns í Sóknadal, enn þeir undu þar eigi, ok vildu fara til móður sinnar, ok kvámu at jólum til Ingjalds tryggva í Hvini; hann tók við þeim af áeggjun Gyðu konu sínn-

ar. Um sumarit eftir gerði Grímr hersir veizlu Auðuni, jarli Haralds konungs, enn þá nótt er ölhita var at Gríms, brendu Öndottssynir hann inni, ok tóku síðan bát Ingjalds, fóstra síns, ok røru á braut. Auðun kom til veizlu sem ætlat var, ok misti þar vinar í stað; þá kvámu Öndottssynir þar snemma um morguninn at svefnbúri því er Auðun lá í, ok skutu stokki á hurð. Ásmundr varðveitti húskarla jarls tvá, enn Ásgrímr setti spjótsodd fyrir brjóst jarli, ok bað hann reiða föðurgjald; hann seldi fram þrjá gullhringa ok guðvefjarskikkju, enn Ásgrímr gaf jarli nafn ok kallaði Auðun geit. Síðan fóru þeir í Súrnadal til Eiríks ölfúss, lends manns, ok tók hann við þeim; þar bjó Hallsteinn hestr, annarr lendr maðr, ok höfðu þeir jóladrykkju saman, ok veitti Eiríkr fyrr vel ok trúlega, enn Hallsteinn veitti síðar óvingjarnlega; hann laust Eirík með dýrshorni; fór Eiríkr þá heim, enn Hallsteinn sat eftir með húskarla sína; þá gekk Ásgrímr inn einn, ok veitti Hallsteini mikit sár, enn þeir þóttust veita Ásgrími bana, enn hann komst út ok til skógar, ok grœddi kona hann í jarðhúsi, svá at hann varð heill. Þat sumar fór Ásmundr til Íslands, ok hugði Ásgrím bróður sinn dauðan. Helgi enn magri gaf Ásmundi Kræklingahlíð, ok bjó (hann) at Glerá enni syðri; enn þá er Ásgrímr varð heill, gaf Eiríkr honum langskip, ok herj-

aði hann vestr um haf, enn Hallsteinn dó ór sárum. Enn er Ásgrímr kom ór hernaði, gifti Eiríkr honum Geirhildi dóttur sína; þá fór Ásgrímr til Íslands; hann bjó at Glerá enni nørðri. Haraldr konungr sendi Þorgeir enn hvinverska til Íslands at drepa Ásgrím; hann var of vetr á Kili í Hvinverjadal, ok kom øngvu fram um hefndina. Sonr Ásgríms var Elliða-Grímr, faðir Ásgríms *ok* Sigfúss, föður Þorgerðar, móður Gríms, föður Svertings, föður Vigdísar, móður Sturlu í Hvammi.

**16.** Helgi enn magri gaf Hámundi, mági sínum, land milli Merkigils ok Skjálgdalsár, ok bjó hann á Espihóli enum syðra; hans son var Þórir, er þar bjó síðan; hann átti Þórdísi Kaðalsdóttur; þeira son var Þórarinn á Espihóli enum nyrðra, ok Þorvaldr krókr á Grund, enn Þorgrímr í Möðrufelli var eigi hennar son; Vigdís var dóttir þeira.

Helgi gaf Þóru, dóttur sína, Gunnari, syni Úlfljóts, er lög hafði út ok land upp frá Skjálgdalsá til Háls; hann bjó í Djúpadal; þeira börn váru þau Þorsteinn, Ketill ok Steinmóðr, enn dœtr Yngvildr ok Þórlaug.

Helgi gaf Auðuni rotni, syni Þórólfs smjörs, Þorsteins sonar skrofa, Gríms sonar kambans, Helgu dóttur sína, ok land upp frá Hálsi til Villingadals; hann bjó í Saurbœ. Þeira börn váru þau Einarr, faðir Eyjólfs Valgerðarsonar,

ok Vigdís, móðir Halla ens hvíta, föður Orms, föður Gellis, föður Orms, föður Halla, föður Þorgeirs, föður Þorvarðs ok Ara, föður Guðmundar biskups. *Einarr Auðunarson átti Valgerði Rúnólfsdóttur; þeira son Eyjólfr, (er) átti Hallberu Þóroddsdóttur hjálms, ok bjoggu þau á Jórunnarstöðum langa æri, enn síðan á Möðruvöllum. Hallfríðr var dóttir Einars Eyjólfssonar, móðir Halldórs, föður Snorra, föður Guðrúnar, móður Hreins ábóta, föður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson. Vigfúss Víga-Glúmsson vá Barð, son Halla ens hvíta, ok er um hann ort Bárðar drápa, er þetta er stef í:*

*Bároðr of rístr báru*
*brautland varar andri.*

*Enn Brúsi bróðir Bárðar ok Orms, orti vísu þessa, þá er Glúmr stökk af þinginu:*

*Höfum vér vegs af vígum*
*— veit ek orð á því — borða-*
*stóðs við stýrimeiða*
*stafns, göndul, hlut jafnan;*
*þó hykk fúrviðu fóru*
*fleygarðs enn mik varði*
*beiðihlökk fyr brekku*
*bliks harðara miklu.*

Hámundr heljarskinn fekk Helgu Helgadóttur eftir andlát Ingunnar, systur hennar, ok var þeira dóttir Yngvildr, er kölluð var allrasystir, er Örnólfr átti.

Helgi gaf Hrólfi, syni sínum, öll lönd fyrir austan Eyjafjarðará, frá Arnarhváli upp, ok bjó hann í Gnúpufelli, ok reisti þar hof mikit: hann átti Þórörnu, dóttur Þrándar mjóbeins; þeira börn váru þau Hafliði enn örvi ok Valþjófr, Viðarr, Grani ok Böðvarr, Ingjaldr ok Eyvindr, enn dóttir Guðlaug, er Þorkell enn svarti átti. Valþjófr var faðir Helga, föður Þóris, föður Arnórs, föður Þuríðar, móður Þórdísar, móður Vigdísar, móður Sturlu í Hvammi.

Helgi enn magri gaf Ingjaldi, syni sínum, land út frá Arnarhváli til Þverár ennar ytri; hann bjó at Þverá enni efri, ok reisti þar hof mikit; hann átti Salgerði Steinólfsdóttur; þeira son Eyjólfr, faðir Víga-Glúms, ok Steinólfr, faðir Þórarins illa ok Arnórs ens góða, Rauðæings. Víga-Glúmr var faðir Más, föður Þorkötlu, móður Þórðar, föður Sturlu.

Helgi gaf Hlíf, dóttur sína, Þorgeiri, syni Þórðar bjálka, ok land út frá Þverá til Varðgjár; þau bjoggu at Fiskilœk; börn þeira Þórðr ok Helga.

Skagi Skoftason hét maðr ágætr á Mœri; hann varð ósáttr við Eystein glumru ok fór af því til Íslands; hann nam at ráði Helga Eyjafjarðarströnd ena eystri, út frá Varðgjá til Fnjóskadalsár, ok bjó í Sigluvík; hans son var Þorbjörn, faðir Heðins ens milda, er Svalbarð lét

gera sextán vetrum fyrir kristni; hann átti Ragnheiði, dóttur Eyjólfs Valgerðarsonar.

17. Þórir snepill hét maðr, son Ketils brimils; hann bjóst til Íslandsfarar; Gautr hét skipveri hans; enn er þeir lágu til hafs, kvámu at þeim víkingar ok vildu ræna þá, enn Gautr laust stafnbúann þeira með hjálmunveli, ok lögðu víkingar við þat frá; síðan var hann kallaðr Hjálmun-Gautr. Þeir Þórir fóru til Íslands, ok kvámu skipi sínu í Skjálfandafljótsós. Þórir nam Kaldakinn á milli Skuggabjarga ok Ljósavatnsskarðs; hann nam þar eigi yndi ok fór á braut; þá kvað hann þetta:

Hér liggr, kjóla keyrir,
Kaldakinn of aldr,
enn vér *höld*um heilir
Hjálmun-Gautr á braut.

Þórir nam síðan Hnjóskadal allan til Ódeilu, ok bjó at Lundi; hann blótaði lundinn. Hans sonr var Ormr töskubak, faðir Hlenna ens gamla, ok Þorkell svarti í Hleiðrargarði; hann átti Guðlaugu Hrólfsdóttur; þeira synir Öngull enn svarti, ok Hrafn, faðir Þórðar at Stokkahlöðum, ok Guðríðr, er átti Þorgeirr goði at Ljósavatni.

Þengill mjöksiglandi fór af Hálogalandi til Íslands; hann nam land at ráði Helga út frá Hnjóská til Grenivíkr; hann bjó í Höfða; hans synir váru þeir Vémundr, faðir Ásólfs í Höfða

ok Hallsteinn, er þetta kvað, þá er hann sigldi af hafi ok frá andlát föður síns:

Drúpir Höfði,
dauðr er Þengill,
hlæja hlíðir
við Hallsteini.

Þormóðr hét maðr, er nam Grenivík ok Hvallátr, ok Strönd alla út til Þorgeirsfjarðar; hans son var Snörtr, er Snertlingar eru frá komnir.

Þorgeirr hét maðr, er nam Þorgeirsfjörð ok Hvalvatnsfjörð.

Loðinn öngull hét maðr; hann var fœddr í Öngley á Hálogalandi; hann fór fyrir ofríki Hákonar jarls Grjótgarðssonar til Íslands, ok dó í hafi; enn Eyvindr son hans nam Flateyjardal upp til Gunnsteina, ok blótaði þá; þar liggr Ódeila á milli ok landnáms Þórir snepils. Ásbjörn dettiáss var son Eyvindar, faðir Finnboga ens ramma, *föður Narfa, föður Yngvildar, móður Jódísar, móður Höllu, móður Þorgils, föður Geirnýjar, móður Valgerðar, móður Helgu, er átti Snorri Markússon á Melum.*

**18.** Bárðr, son Heyjangrs-Bjarnar, kom skipi sínu í Skjálfandafljótsós, ok nam Bárðardal allan upp frá Kálfborgará ok Eyjardalsá, ok bjó at Lundarbrekku um hríð; þá markaði hann at veðrum, at landviðri váru betri enn hafviðri, ok ætlaði af því betri lönd fyrir sunnan heiði. Hann

sendi sonu sína suðr um gói. Þá fundu þeir góibeytla ok annan gróðr; enn annat vár eftir þá gerði Bárðr kjálka hverju kykvendi, því er gengt var, ok lét hvat draga sitt fóðr ok fjárhlut; hann fór Vonarskarð, þar er síðan heitir Bárðargata; hann nam síðan Fljótshverfi, ok bjó at Gnúpum; þá var hann kallaðr Gnúpa-Bárðr. Hann átti mörg börn; hans son var Sigmundr, faðir Þorsteins, er átti Æsu, dóttur Hrólfs rauðskeggs; þeira dóttir var Þórunn, er átti Þorkell leifr, ok var þeira son Þorgeirr goði at Ljósavatni. Annarr son Bárðar var Þorsteinn, faðir Þóris, er var á Fitjum með Hákoni konungi, ok skar rauf á oxahúð, ok hafði þá hlíf; því var hann Leðrháls kallaðr; hann átti Fjörleifu Eyvindardóttur; þeira synir váru þeir Hávarðr í Fellsmúla, Herjólfr at Mývatni, Ketill í Húsavík, Vémundr kögr, er átti Halldóru, dóttur Þorkels svarta, ok Áskell ok Háls; hann bjó á Helgastöðum.

*Kampa-Grímr fór ór Suðreyjum til Íslands, ok velkti þá úti alt sumar, ok braut skip sitt við Skjálfandafljótsós; hann nam Kaldakinn í annat sinn ok seldi ymsum mönnum síðan; hans dóttir var Arnbjörg, er Ásólfr í Höfða átti.*

Þorfiðr máni hét maðr, son Áskels torfa; hann nam land fyrir neðan Eyjardalsá til Landamóts, ok sumt um Ljósavatnsskarð, ok bjó at Öxará.

Þórir, son Gríms gráfeldarmúla af Rogalandi,

nam um Ljósavatnsskarð; hans son var Þorkell leifr enn hávi, faðir Þorgeirs goða. Þorgeirr átti fyrst Guðríði, dóttur Þorkels svarta; þeira synir Þorkell hákr ok Höskuldr, Tjörfi, Kolgrímr, Þorsteinn ok Þorvarðr, enn dóttir Sigríðr. Síðan átti hann Álfgerði, dóttur Arngeirs ens austrœna; Þorgeirr átti ok Þorkötlu, dóttur Dala-Kolls; synir hans ok þeira kvenna váru þeir Þorgrímr, Þorgils, Óttarr; þessir váru laungetnir: Þorgrímr ok Finni enn draumspaki; hans móðir hét Lecný, útlend.

Heðinn ok Höskuldr, synir Þorsteins þurs, fóru til Íslands ok námu fyrir innan Tunguheiði. Heðinn bjó at Heðinshöfða ok átti Guðrúnu; þeira dóttir var Arnríðr, er Ketill Fjörleifarson átti; Guðrún var dóttir þeira, er Hrólfr átti *[í Gnúpufelli]*. Höskuldr nam lönd öll fyrir austan Laxá ok bjó í Skörðuvík; við hann er kent Höskuldsvatn, þvíat hann druknaði þar. Í þeira landnámi er Húsavík, er Garðarr hafði vetrsetu. Son Höskulds var Hróaldr, er átti Ægileifu, dóttur Hrólfs Helgasonar.

**19.** Vestmaðr ok Úlfr fóstbrœðr fóru einu skipi til Íslands; þeir námu Reykjadal allan fyrir vestan Laxá upp til Vestmannsvatns. Vestmaðr átti Guðlaugu. Úlfr bjó undir Skrattafelli; hann átti . . . . . . . . ; þeira son Geirólfr, er átti Vígdísi Konálsdóttur síðar enn Þorgrímr; þeira son Hallr.

Þorsteinn höfði hét maðr; hann var hersir á Hörðalandi; hans synir váru þeir Eyvindr ok Ketill hörðski. Eyvindr fýstist til Íslands eftir andlát föður síns, enn Ketill bað hann nema báðum þeim land, ef honum sýndist síðar at fara. Eyvindr kom í Húsavík skipi sínu, ok nam Reykjadal upp frá Vestmannsvatni; hann bjó at Helgastöðum ok er þar heygðr. Náttfari, er með Garðari hafði út farit, eignaði sér áðr Reykjadal, ok hafði merkt á viðum, enn Eyvindr rak hann á braut ok lét hann hafa Náttfaravík. Ketill fór út at orðsendingu Eyvindar; hann bjó á Einarsstöðum; hans son var Konáll *ok* Þorsteinn, faðir Einars, er þar bjó síðan. Sonr Eyvindar var Áskell goði, er átti dóttur Grenjaðar; þeira synir Þorsteinn ok Víga-Skúta. Dóttir Eyvindar var Fjörleif. Konáll átti Oddnýju Einarsdóttur, systur Eyjólfs Valgerðarsonar; þeira börn váru þau Einarr, er átti sex sonu, ok dóttur Þóreyju, er átti Steinólfr Másson, ok önnur Eydís, er Þorsteinn goði átti ór Ásbjarnarvík. Þórðr Konálsson var faðir Sokka á Breiðamýri, föður Konáls. Dóttir Konáls var Vigdís, er átti Þorgrímr, son Þorbjarnar skaga, ok var þeira son Þorleifr Geirólfsstjúpr.

Grenjaðr hét maðr, Hrappsson, bróðir Geirleifs; hann nam Þegjandadal ok Kraunaheiði, Þorgerðarfell ok Laxárdal neðan; *hann bjó á Grenjaðarstöðum;* hann átti Þorgerði, dóttur Helga

hests; þeira son var Þorgils vámúli, faðir Önundar, föður Hallberu, móður Halldóru, móður Þorgerðar, móður Halls ábóta, ok Hallberu, er átti Hreinn Styrmisson.

Böðólfr hét maðr, son Gríms Grímólfssonar af Ögðum, bróðir Böðmóðs; hann átti Þórunni, dóttur Þórólfs ens fróða; þeira son var Skeggi. Þau fóru öll til Íslands, ok brutu skip sitt við Tjörnes, ok váru at Auðólfsstöðum enn fyrsta vetr; hann nam Tjörnes alt á milli Tunguár ok Óss. Böðólfr átti síðar Þorbjörgu hólmasól, dóttur Magr-Helga; þeira dóttir var Þorgerðr, er átti Ásmundr Öndottsson; *þeira son Þorleifr, faðir Þuríðar, er átti Valla-Ljótr.*

Skeggi Böðólfsson nam Kelduhverfi upp til Kelduness, ok bjó í Miklagarði; hann átti Helgu, dóttur Þorgeirs at Fiskilœk; þeira son var Þórir farmaðr; hann lét gera knör í Sogni; þann vígði Sigurðr biskup; af þeim knerri eru brandar veðrspáir fyrir durum í Miklagarði. Um Þóri orti Grettir þetta:

Ríðk-at ek rœkimeiðum
randar hóts á móti
(sköpuð er þessum þegni
þraut): ferr ek einn á brautu.
Vilk-at ek Viðris bálka
vinnendr spaka finna
(ek man þér eigi þykkja
ørr); leitak mér føra.

Hnekkik frá þar er flokkar

fara Þóris mjök stórir;
*er-a mér í þys þeira*
*þerfilegt at hverfa.*
*Forðumk frægra virða*
*fund, á ek veg til lundar*
*(verð ek Heimdala at hirða*
*hjör); björgum svá fjörvi.*

*Án hét son Þóris, faðir Arnar, föður Ingibjargar, móður Skúms, föður Þorkels ábóta.*

**20.** Máni hét maðr, hann var fœddr í Ömd á Hálogalandi; hann fór til Íslands ok braut við Tjörnes, ok bjó at Máná nökkura vetr; síðan hrak Böðólfr hann á braut þaðan, ok nam hann þá fyrir neðan Kálfborgará, milli Fljóts ok Rauðaskriðu, ok bjó at Mánafelli; hans son var Ketill, er átti Valdísi Þorbrandsdóttur, er keypti Rauðaskriðulönd at Mána; hans dóttir var Dalla, systir Þorgeirs Galtasonar; hana átti Þorvaldr Hjaltason.

Ljótr óþveginn hét maðr, er nam Kelduhverfi upp frá Keldunesi; hans son var Gríss, faðir Galta í Ási; hann var vitr maðr ok vígamaðr mikill.

Önundr nam Kelduhverfi frá Keldunesi, ok bjó í Ási; hann var son Blæings Sótasonar, bróðir Bálka í Hrútafirði. Dóttir Önundar var Þorbjörg, er átti Hallgils Þorbrandsson ór Rauðaskriðu.

Þorsteinn, son Sigmundar Gnúpa-Bárðasonar, bjó fyrst at Mývatni; hans son var Þorgrímr,

faðir Arnórs í Reykjahlíð, er átti Þorkötlu, dóttur Böðvars Hrólfssonar ór Gnúpufelli; Böðvarr var son þeira.

Þorkell enn hávi kom ungr til Íslands, ok bjó fyrst at Grœnavatni, er gengr af Mývatni. Sigmundr hét son hans; hann átti Vigdísi, dóttur Þóris af Espihóli; hann vá Glúmr á akrinum. Dóttir Þorkels var Arndís, er átti Vigfúss, bróðir Víga-Glúms. Þorkell gat son í elli sinni; sá hét Dagr; hann var faðir Þórarins, er átti Yngvildi, dóttur Halls af Síðu, síðar enn Eyjólfr enn halti.

Geiri hét maðr norrœnn, er fyrstr bjó fyrir sunnan Mývatn á Geirastöðum; hans son var Glúmr ok Þorkell. Þeir feðgar börðust við Þorberg höggvinkinna ok feldu Þorstein son hans; fyrir þau víg váru þeir gervir norðan ór sveitum. Geiri sat um vetr á Geirastöðum við Húnavatn; síðan fóru þeir í Breiðafjörð, ok bjoggu i Geiradal í Króksfirði. Glúmr fekk Ingunnar, dóttur Þórólfs Véleifssonar; þeira börn váru þau Þórðr, er átti Guðrúnu Ósv*í*f*r*sdóttur, ok Þorgerðr, er átti Þórarinn Ingjaldsson; þeira son Helgu-Steinarr.

Torf-Einarr jarl gat dóttur í œsku; sú hét Þórdís; hana fœddi Rögnvaldr jarl, ok gifti hana Þorgeiri klaufa; þeira son var Einarr; hann fór til Orkneyja at finna frændr sína; þeir vildu eigi taka við frændsemi hans; þá kaupir Ein-

arr í skipi með brœðrum tveimr, Vestmanni ok Vémundi; þeir fóru til Íslands ok sigldu fyrir norðan landit, ok vestr um Sléttu í fjörðinn; þeir settu öxi í Reistargnúp ok kölluðu því Öxarfjörð; þeir settu örn upp fyrir vestan, ok kölluðu þar Arnarþúfu; enn í þriðja stað settu þeir kross; þar nefndu þeir Krossás; svá helguðu þeir sér allan Öxarfjörð. Börn Einars váru þau Eyjólfr, er Galti Grísarson vá, ok Ljót, móðir Hróa ens skarpa, er hefndi Eyjólfs ok vá Galta. Synir Glíru-Halla, Brandr ok Bergr, váru dóttursynir Ljótar; þeir fellu í Böðvarsdal.

Reistr, son Bjarneyja-Ketils ok Hildar, systur Ketils þistils, faðir Arnsteins goða, hann nam land á milli Reistargnúps ok Rauðagnúps ok bjó í Leirhöfn.

Arngeirr hét maðr, er nam Sléttu alla milli Hávararlóns ok Sveinungsvíkr; hans börn váru þau Þorgils ok Oddr ok Þuríðr, er Steinólfr í Þjórsárdal átti. Þeir Arngeirr ok Þorgils gengu heiman í fjúki at leita fjár, ok kvámu eigi heim; Oddr fór at leita þeira ok fann þá báða örenda, ok hafði hvítabjörn drepit þá, ok lá þá á pasti, er hann kom at. Oddr drap björninn ok fœrði heim, ok segja menn at hann æti allan, ok kallaðist þá hefna föður síns, er hann drap björninn, enn þá bróður síns, er hann át hann. Oddr var síðan illr ok ódæll við at eiga; hann var hamramr svá mjök, at hann gekk heiman ór

Hraunhöfn um kveldit. enn kom um morgininn eftir í Þjórsárdal til liðs við systur sína, er Þjórsdœlir vildu berja grjóti í hel.

Sveinungr nam Sveinungsvík, enn Kolli Kollavík, ok bjó þar hvárr sem við er kent síðan. Ketill þistill nam Þistilsfjörð, milli Hundsness ok Sauðaness; hans son var Sigmundr, faðir Laugarbrekku-Einars.

Nú eru rituð landnám í Norðlendinga fjórðungi, ok eru þessir þar ágætastir landnámsmenn: Auðun skökull, Ingimundr, Ævarr, Sæmundr, Eiríkr í Goðdölum, Höfða-Þórðr, Helgi enn magri, Eyvindr Þorsteins son höfða; enn þar váru MCC bónda þá er talit var.

# IV.

**Þessir menn hafa land numit í Austfirðingafjórðungi. er nú munu upp taldir, ok ferr hvat af hendi norðan til fjórðungamóts, frá Langanesi á Sólheimasand, ok er þat sögn manna at þessi fjórðungr hafi fyrst albygðr orðit.**

**1.** Gunnólfr kroppa hét maðr, son Þóris haukness, hersis; hann nam Gunnólfsvík ok Gunnólfsfell ok Langanes alt fyrir útan Helkunduheiði, ok bjó í Fagravík; hans son var Skúli herkja, faðir Geirlaugar.

Finni hét maðr, er nam Finnafjörð ok Viðfjörð; hans son var Þórarinn, faðir Sigurðar, föður Glíru-Halla.

Hróðgeirr enn hvíti Hrappsson nam Sandvík fyrir norðan Digranes, alt til Viðfjarðar, ok bjó á Skeggjastöðum; hans dóttir var Ingibjörg, er átti Þorsteinn enn hvíti; *hon var móðir Þorgils, föður Helga, föður Bjarnar, föður Yngvildar, móður Ámunda, föður Guðrúnar, móður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúss á Melum.* Alrekr var bróðir Hróðgeirs, er út kom með honum; hann var faðir Ljótólfs goða í Svarfaðardal.

Eyvindr vápni ok Refr enn rauði, synir Þorsteins þjokkubeins, bjoggust til Íslands af Strind ór Þrándheimi, þvíat þeir urðu missáttir við Harald konung, ok hafði sítt skip hvárr þeira. Refr varð aftrreka, ok lét konungr drepa hann, enn Eyvindr kom í Vápnafjörð ok nam fjörðinn allan frá Vestradalsá, ok bjó í Krossavík enni iðri; hans son var Þorbjörn.

Steinbjörn kortr hét son Refs ens rauða; hann fór til Íslands ok kom í Vápnafjörð. Eyvindr föðurbróðir hans gaf honum land alt milli Vápnafjarðarár ok Vestradalsár; hann bjó at Hofi. Hans synir váru þeir Þormóðr stikublígr, er bjó í Sunnudal; annarr Refr á Refsstöðum; þriði Egill á Egilsstöðum, faðir Þórarins ok Þrastar ok Hallbjarnar ok Hallfríðar, er átti Þorkell Geitisson.

Hróaldr bjóla var fóstbróðir Eyvindar vápna; hann nam land fyrir vestan Vestradalsá, dalinn hálfan, ok Selárdal allan út til Digraness; hann bjó á Torfastöðum. Hans son var Ísrøðr, faðir Gunnhildar, er átti Oddi, son Ásólfs í Höfða. *Gunnhildr var móðir Gríms, föður Halldóru, móður Markúss, föður Valgerðar, móður Böðvars, föður Þórðar prests, föður Markúss á Melum.*

Ölvér enn hvíti hét maðr, son Ósvalds Öxna-Þórissonar; hann var lendr maðr ok bjó í Álmdölum; hann varð ósáttr við Hákon jarl Grjótgarðsson, ok fór á Yrjar ok dó þar, enn Þorsteinn enn hvíti, son hans, fór til Íslands, ok kom skipi sínu í Vápnafjörð eftir landnám; hann keypti land af Eyvindi vápna, ok bjó á Tóftavelli fyrir útan Síreksstaði nökkura vetr, áðr hann komst at Hofslöndum, með því móti at hann heimti leigufé sítt at Steinbirni kort, enn hann hafði ekki til at gjalda nema landit; þar bjó Þorsteinn .LX. vetra síðan ok var vitr maðr ok góðr. Hann átti Ingibjörgu, dóttur Hróðgeirs ens hvíta; þeira börn váru þau Þorgils ok Þórðr, Önundr, Þorbjörg ok Þóra. Þorgils átti Ásvöru, dóttur Þóris Graut-Atlasonar; þeira son var Brodd-Helgi. Hann átti fyrr Höllu Lýtingsdóttur, Arnbjarnarsonar; þeira son var Víga-Bjarni. Hann átti Rannveigu, dóttur Eiríks ór Goðdölum; þeira son var Skegg-Broddi

enn dóttir Yngvildr, er átti Þorsteinn Hallsson. Skegg-Broddi átti Guðrúnu, dóttur Þórarins sælings ok Halldóru Einarsdóttur; þeira börn Þórir ok Bjarni húslangr. Þórir átti Steinunni, dóttur Þorgríms ens háva; þeira dóttir var Guðrún, er átti Flosi Kolbeinsson; þeira son var Bjarni, faðir Bjarna, er átti Höllu Jörundardóttur; þeira börn váru þau Flosi prestr ok Torfi prestr, Einarr brúðr ok Guðrún, er Þórðr Sturluson átti, ok Goðrún, er Einarr Bergþórsson átti, ok Helga, móðir Sigríðar Sighvatsdóttur. *Flosi prestr átti Ragnhildi, dóttur Barkar á Baugsstöðum; þeira börn Bjarni ok Einarr, Halla, móðir herra Kristofórus, ok Þórdís, móðir frú Ingigerðar, móður frú Guðrúnar ok Hallberu. Valgerðr var dóttir Flosa, móðir herra Erlends sterka, föður Hauks ok Valgerðar.*

2. Þorsteinn torfi ok Lýtingr brœðr fóru til Íslands. Lýtingr nam Vápnafjarðarströnd alla ena eystri, Böðvarsdal ok Fagradal, ok bjó í Krossavík; frá honum eru Vápnfirðingar komnir. *Hans son var Geitir, faðir Þorkels, föður Ragneiðar, móður Höllu, móður Bótólfs, föður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúss á Melum.*

Þorfiðr hét maðr, er fyrst bjó á Skeggjastöðum at ráði Þórðar hálma; hans son var Þorsteinn fagri, er vá Einar, son Þóris Graut-Atla-

sonar, ok brœðr hans tveir, Þorkell ok Heðinn, er vágu Þorgils, föður Brodd-Helga.

Þorsteinn torfi nam Hlíð alla útan frá Ósfjöllum ok upp til Hvannár, ok bjó at Forsvelli; hans son var Þorvaldr, faðir Þorgeirs, föður Hallgeirs, föður Hrapps á Forsvelli.

Hákon hét maðr, er nam Jökulsdal allan fyrir vestan Jökulsá ok fyrir ofan Teigará, ok bjó á Hákonarstöðum; hans dóttir var Þorbjörg, er áttu synir Brynjólfs ens gamla, Gunnbjörn ok Hallgrímr. Teigr lá ónuminn millum Þorsteins torfa ok Hákonar; þann lögðu þeir til hofs, ok heitir sá nú Hofsteigr.

Skjöldólfr Vémundarson, bróðir Berðlu-Kára, nam Jökulsdal fyrir austan Jökulsá upp frá Knefilsdalsá, ok bjó á Skjöldólfsstöðum; hans börn váru þau Þorsteinn, er átti Fastnýju Brynjólfsdóttur, ok Sigríðr, móðir Bersa Özurarsonar.

Þórðr hét maðr, son Þórólfs hálma, bróðir Helga bunhauss; hann nam Tungulönd öll á milli Lagarfljóts ok Jökulsár, fyrir útan Rangá; hans son var Þórólfr hálmi, er átti Guðríði Brynjólfsdóttur; þeira son var Þórðr þvari, faðir Þórodds, föður Brands, föður Steinunnar, móður Rannveigar, móður Sæhildar, er Gizurr átti.

Özurr slagakollr nam land milli Ormsár ok

Rangár; hann átti Guðnýju Brynjólfsdóttur; þeira son var Ásmundr, faðir Marðar.

Ketill ok Graut-Atli, synir Þóris þiðranda, fóru ór Veradal til Íslands, ok námu land í Fljótsdal fyrr enn Brynjólfr kom út, Lagarfljótsstrandir báðar. Ketill nam fyrir vestan Fljót á milli Hengiforsár ok Ormsár. Ketill fór útan, ok var með Véþorni, syni Vémundar ens gamla; þá keypti hann at Véþorni Arneiði, dóttur Ásbjarnar jarls skerjablesa, er Hólmfastr son Véþorns, hafði hertekit, þá er þeir Grímr, systurson Véþorns, drápu Ásbjörn jarl. Ketill keypti Arneiði, dóttur Ásbjarnar, tveim hlutum dýrra enn Véþorn mat hana í fyrstu; enn er kaupit var orðit, þá gerði Ketill brúðkaup til Arneiðar. Eftir þat fann hon grafsilfr mikit undir viðarrótum; þá bauð Ketill at flytja hana til frænda sínna, enn hon kaus þá honum at fylgja. Þau fóru út ok bjoggu á Arneiðarstöðum; þeira son var Þiðrandi, faðir Ketils í Njarðvík. *Jóreiðr var dóttir Þiðranda, móðir Þorsteins, föður Guðríðar, móður Rannveigar, móður Salgerðar, móður Guðrúnar, móður Hreins ábóta, föður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum.*

3. Graut-Atli nam ena eystri strönd Lagarfljóts, alt á milli Giljár ok Vallaness, fyrir vestan Öxnalœk; hans synir váru þeir Þorbjörn ok Þórir, er átti Ásvöru Brynjólfsdóttur.

Þorgeirr Vestarson hét maðr göfigr; hann átti þrjá sonu: var einn Brynjólfr enn gamli, annarr Ævarr enn gamli, þriði Herjólfr. Þeir fóru allir til Íslands á sínu skipi hverr þeira. Brynjólfr kom skipi sínu í Eskifjörð, ok nam land fyrir ofan fjall, Fljótsdal allan fyrir ofan Hengiforsá, fyrir vestan, enn fyrir ofan Gilsá, fyrir austan, Skriðudal allan, ok svá Völluna út til Eyvindarár, ok tók mikit af landnámi Una Garðarssonar, ok bygði þar frændum sínum ok mágum; hann átti þá tíu börn, enn síðan fekk hann Helgu, er átt hafði Herjólfr, bróðir hans, ok áttu þau þrjú börn; þeira son var Özurr, faðir Bersa, föður Hólmsteins, föður Órœkju, föður Hólmsteins, föður Helgu, móður Hólmsteins, föður Hallgerðar, móður Þorbjargar, er átti Loftr byskupsson.

Ævarr enn gamli, bróðir Brynjólfs, kom út í Reyðarfirði, ok fór upp um fjall; honum gaf Brynjólfr Skriðudal allan fyrir ofan Gilsá; hann bjó á Arnallzstöðum; hann átti tvá sonu, enn dœtr þrjár.

Ásrøðr hét maðr, er fekk Ásvarar Herjólfsdóttur, bróðurdóttur Brynjólfs ok stjúpdóttur; henni fylgðu heiman öll lönd milli Gilsár ok Eyvindarár; þau bjoggu á Ketilsstöðum. Þeira son var Þorvaldr holbarki, faðir Þorbergs, föður Hafljóts, föður Þórhadds skálar. Dóttir Holbarka var Þórunn, er átti Þorbjörn Graut-Atla-

son; önnur Ástríðr, móðir Ásbjarnar loðinhöfða, föður Þórarins í Seyðarfirði, föður Ásbjarnar, föður Kolskeggs ens fróða ok Ingileifar, móður Halls, föður Finns lögsögumanns.

Hrafnkell hét maðr, Hrafnsson; hann kom út síð landnámatíðar; hann var enn fyrsta vetr í Breiðdal, enn um várit fór hann upp um fjall; hann áði í Skriðudal ok sofnaði; þá dreymdi hann at maðr kom at honum ok bað hann upp standa ok fara braut sem skjótast; hann vaknaði ok fór braut. Enn er hann var skamt kominn, þá hljóp ofan fjallit alt, ok varð undir göltr ok griðungr, er hann átti. Síðan nam Hrafnkell Hrafnkelsdal ok bjó á Steinrøðarstöðum; hans son var Ásbjörn, faðir Helga, ok Þórir, faðir Hrafnkels goða, föður Sveinbjarnar, *föður Þorsteins , föður Bótólfs, föður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúss á Melum.*

Uni, son Garðars er fyrst fann Ísland, fór til Íslands með ráði Haralds konungs hárfagra, ok ætlaði at leggja undir sik landit, enn síðan hafði konungr heitit honum at gera hann jarl sinn. Uni tók land þar sem nú heitir Unaóss, ok húsaði þar; hann nam sér land til eignar fyrir sunnan Lagarfljót, alt herað til Unalækjar. Enn er landsmenn vissu ætlun hans, tóku þeir at ýfast við hann, ok vildu eigi selja honum kvikfé eðr vistir, ok mátti hann eigi þar hald-

ast. Uni fór í Álftafjörð enn syðra; hann náði þar eigi at staðfestast; þá fór hann austan með tólfta mann, ok kom at vetri til Leiðólfs kappa í Skógahverfi; hann tók við þeim. Uni þýddist Þórunni, dóttur Leiðólfs, ok var hon með barni um várit; þá vildi Uni hlaupast á braut með sína menn; enn Leiðólfr reið eftir honum, ok fundust þeir hjá Flangastöðum ok börðust þar, því at Uni vildi eigi aftr fara með Leiðólfi; þar fellu nökkurir menn af Una, enn hann fór aftr nauðigr, þvíat Leiðólfr vildi at hann fengi konunnar ok staðfestist ok tœki arf eftir hann. Nökkuru síðar hljóp Uni á braut, þá er Leiðólfr var eigi heima, enn Leiðólfr reið eftir honum, þá er hann vissi, ok fundust þeir hjá Kálfagröfum; var hann þá svá reiðr at hann drap Una ok förunauta hans alla. Sonr Una ok Þórunnar var Hróarr Tungugoði; hann tók arf Leiðólfs allan, ok var et mesta afarmenni; hann átti dóttur Hámundar, systur Gunnars frá Hlíðarenda; þeira son var Hámundr enn halti, er var enn mesti vígamaðr. Tjörvi enn háðsami ok Gunnarr váru systursynir Hróars. Tjörvi bað Ástríðar mannvitsbrekku Móðólfsdóttur, enn brœðr hennar Ketill ok Hrólfr synjuðu honum konunnar, enn þeir gáfu hana Þóri Ketilssyni; þá dró Tjörvi líkneski þeira á kamarsvegg, ok hvert kveld, er þeir Hróarr gengu til kamars, þá hrækti hann

í andlit líkneski Þóris, enn kysti hennar líkneski, áðr Hróarr skóf af. Eftir þat skar Tjörvi þau á hnífskefti sínu ok kvað þetta:

Vér höfum þar *með* Þóri
(þat var sett við glettu)
auðar unga Þrúði
áðr á vegg of fáða.
Nú hefik rastakarns ristit
(réð ek *mart við Syn bjarta*
hauka skofts) á hefti
Hlín ölbœkis mínu.

Héraf gerðust víg þeira Hróars ok systursona hans.

Þorkell fullspakr hét maðr, er nam Njarðvík alla ok bjó þar; hans dóttir var Þjóðhildr, er átti Ævarr enn gamli, ok var þeira dóttir Yngvildr, móðir Ketils í Njarðvík, Þiðrandasonar.

Vetrliði hét maðr, son Arnbjarnar Ólafs sonar langháls, bróðir þeira Lýtings, Þorsteins torfa ok Þorbjarnar í Arnarholti; Óláfr langháls var son Bjarnar reyðarsíðu; Vetrliði nam Borgarfjörð ok bjó þar.

Þórir lína hét maðr, er nam Breiðavík, ok bjó þar; hans synir váru þeir Sveinungr ok Gunnsteinn.

Nú hefir Kolskeggr fyrir sagt heðan frá um landnám.

5. Þorsteinn kleggi nam fyrst Húsavík ok

bjó þar; hans son var Án, er Húsvíkingar eru frá komnir.

Loðmundr enn gamli hét maðr, enn annarr Bjólfr, fóstbróðir hans; þeir fóru til Íslands af Vors, af Þulunesi. Loðmundr var rammaukinn mjök ok fjölkunnigr; hann skaut fyrir borð öndvegissúlum sínum í hafi ok kvaðst þar byggja skyldu sem þær ræki á land. Enn þeir fóstbræðr tóku Austfjörðu, ok nam *Loðmundr* Loðmundarfjörð, ok bjó þar þenna vetr; þá frá hann til öndvegissúlna sínna fyrir sunnan land. Eftir þat bar hann á skip öll föng sín; enn er segl var dregit, lagðist hann niðr, ok bað øngvan mann vera svá djarfan at hann nefndi *sik*. Enn er hann hafði skamma hríð legit, varð gnýr mikill; þá sá menn at skriða mikil hljóp á bœ þann er Loðmundr hafði búit á; eftir þat settist hann upp, ok tók til orða: „Þat er álag mitt, at þat skip skal aldri heilt af hafi koma, er hér siglir út“. Hann helt síðan suðr fyrir Horn ok vestr með landi, alt fyrir Hjörleifshöfða, ok lendi nökkuru vestar; hann nam þar land sem súlurnar höfðu komit, ok á milli Hafrsár ok Fúlalœkjar; þat heitir nú Jökulsá á Sólheimasandi; hann bjó í Loðmundarhvammi, ok kallaði þar Sólheima. Þá er Loðmundr var gamall, bjó Þrasi í Skógum; hann var ok fjölkunnigr; þat var eitt sinn at Þrasi sá um morgun vatnahlaup mikit; hann veitti vatnit með fjölkyngi

austr fyrir Sólheima; enn þræll Loðmundar sá, ok kvað *falla* sjó norðan um landit at þeim. Loðmundr var þá blindr; hann bað þrælinn fœra sér í dælukeri þat er hann kallaði sjó; ok er hann kom aftr, sagði Loðmundr: „Ekki þikki mér þetta sjór“. Síðan bað hann þrælinn fylgja sér til vatnsins: „ok stikk stafsbroddi mínum í vatnit“; hringr var í stafnum, ok helt Loðmundr tveim höndum um stafinn, enn beit í hringinn; þá tóku vötnin at falla vestr aftr fyrir Skóga; síðan veitti hvárr þeira vötnin frá sér, þar til er þeir fundust við gljúfr nökkur; þá sættust þeir á þat, at áin skyldi þar falla sem skemst væri til sjóvar. Sú er nú kölluð Jökulsá, ok skilr landsfjórðunga. *[Í þeim vatnagangi varð Sólheimasandr. Son Loðmundar var Sumarliði, faðir Þorsteins holmunz, föður Þóru, móður Steins Brandssonar, föður Þóru, er átti Skafti lögmaðr].*

**6.** Bjólfr, fóstbróðir Loðmundar, nam Seyðarfjörð allan, ok bjó þar alla ævi; hann gaf Helgu dóttur sína, Áni enum ramma, ok fylgði henni heiman öll en nyrðri strönd Seyðarfjarðar, til Vestdalsár. Ísólfr hét sonr Bjólfs, er þar bjó síðan, ok Seyðfirðingar eru frá komnir.

Eyvindr hét maðr, er út kom með Brynjólfi, ok færði síðan bygð sína í Mjóvafjörð ok bjó þar; hans son var Hrafn, er seldi Mjóvafjarðar-

land Þorkatli klöku, er *þar* bjó síðan; frá honum er Klökuætt komin.

Egill enn rauði hét maðr, er nam Norðrfjörð ok bjó á Nesi út; hans son var Óláfr, er Nesmenn eru frá komnir.

Freysteinn enn fagri hét maðr; hann nam Sandvík, ok bjó á Barðsnesi, Viðfjörð ok Hellisfjörð; frá honum eru Sandvíkingar ok Viðfirðingar ok Hellisfirðingar komnir.

Þórir enn hávi ok Krumr, þeir fóru af Vors til Íslands; ok þá er þeir tóku land, nam Þórir Krossavík á milli Gerpis ok Reyðarfjarðar; þaðan eru Krossvíkingar komnir; enn Krumr nam land á Hafranesi ok til Þernuness ok alt et ytra, bæði Skrúðey ok aðrar úteyjar, ok þrjú lönd öðrum megin gegnt Þernunesi; þaðan eru Krymlingar komnir.

Ævarr var fyrst í Reyðarfirði, áðr hann fór upp um fjall; enn Brynjólfr í Eskifirði, áðr hann fór upp at byggja Fljótsdal, sem áðr var ritat.

Vémundr hét maðr, er nam Fáskrúðsfjörð allan, ok bjó þar alla ævi; hans son var Ölmóðr, er Ölmœðlingar eru frá komnir.

Þórhaddr enn gamli var hofgoði í Þrándheimi á Mœri; hann fýstist til Íslands ok tók áðr ofan hofit, ok hafði með sér hofsmoldina ok súlurnar; enn hann kom í Stöðvarfjörð, ok lagði Mœrina-helgi á allan fjörðinn, ok lét øngu tor-

týna þar nema kvikfé heimilu; hann bjó þar alla ævi, ok eru frá honum Stöðfirðingar komnir.

7. Hjalti hét maðr, er nam Kleifarlönd ok allan Breiðdal þar upp frá; hans son var Kolgrímr, er mart er manna frá komit.

Herjólfr hét maðr, er nam land alt út til Hvalsnesskriðna; hans son var Vápni er Væpnlingar eru frá komnir.

Herjólfr, bróðir Brynjólfs, nam Heydalalönd fyrir neðan Tinnudalsá ok út til Ormsár; hans son var Özurr, er Breiðdœlir eru frá komnir.

Skjöldólfr hét maðr, er nam Stræti alt fyrir útan Gnúp, ok inn öðrum megin til Óss ok til Skjöldólfsness hjá Fagradalsá í Breiðdali; hans son var Háleygr, er þar bjó síðan; frá honum er Háleygjaætt komin.

Þjóðrekr hét maðr; hann nam fyrst Breiðdal allan, enn hann stökk braut þaðan fyrir Brynjólfi, ok ofan í Berufjörð, ok nam alla ena nyrðri strönd Berufjarðar, ok fyrir sunnan um Búlandsnes, ok inn til Rauðaskriðna öðrum megin, ok bjó þrjá vetr þar sem nú heitir Skáli; síðan keypti Björn enn hávi jarðir at honum, ok eru frá honum Berufirðingar komnir.

Björn sviðinhorni hét maðr, er nam Álftafjörð enn nyrðra, inn frá Rauðaskriðum, ok Sviðinhornadal.

Þorsteinn trumbubein hét frændi Böðvars ens hvíta, ok fór með honum til Íslands; hann nam

land fyrir utan Leiruvág til Hvalsnesskriðna; hans son var Kollr enn grái, faðir Þorsteins, föður Þorgríms í Borgarhöfn, föður Steinunnar, er átti Gizurr byskup.

Böðvarr enn hvíti var son Þorleifs miðlungs, Böðvarssonar snæþrymu, Þorleifssonar hvalaskúfs, Ánssonar, Arnarsonar hyrnu, konungs, Þórissonar konungs, Svína-Böðvarssonar, Kaunssonar konungs, Sölga sonar konungs, Hrólfs sonar ór Bergi, ok Brandönundr, frændi hans, fóru af Vors til Íslands ok kvámu í Álftafjörð enn syðra. Böðvarr nam land inn frá Leiruvági, dali þá alla er þar liggja, ok út öðrum megin til Múla ok bjó at Hofi; hann reisti þar hof mikit. Sonr Böðvars var Þorsteinn, er átti Þórdísi, dóttur Özurar keiliselgs, Hrollaugssonar; þeira son var Síðu-Hallr; hann átti Jóreiði Þiðrandadóttur, ok er þaðan mikil ætt komin. Son þeira var Þorsteinn, faðir Ámunda, föður Guðrúnar, móður Þórdísar, móður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona.

Brandönundr nam land fyrir norðan Múla-Kambsdal ok Melrakkanes, ok inn til Hamarsár, ok er mart manna frá honum komit.

Þórðr skeggi, son Hrapps, Bjarnar sonar bunu, hann átti Vilborgu Ósvaldsdóttur ok Úlfrúnar Játmundardóttur. Þórðr fór til Íslands ok nam land í Lóni, fyrir norðan Jökulsá, milli ok Lónsheiðar, ok bjó í Bœ tíu vetr eða lengr; þá frá

hann til öndvegissúlna sínna fyrir neðan heiði í Leiruvági; þá réðst hann vestr þannig, ok bjó á Skeggjastöðum, sem fyrr er ritat; hann seldi þá Lónlönd Úlfljóti, er lög flutti út hingat. *[Bjó Þórðr þó nokkora vetr síðan í Lóni].* Dóttir Þórðar var Helga, er Ketilbjörn enn gamli átti at Mosfelli. — *Þat var upphaf enna heiðnu laga, at menn skyldu eigi hafa höfuðskip í hafi, enn ef þeir hefði, þá skyldi þeir af taka höfuð, áðr þeir kœmi í lands sýn, ok sigla eigi at landi með gapandi höfðum eða gínandi trjónum, svá at landvættir fælist við. Baugr tvíeyringr eða meiri skyldi liggja í hverju höfuðhofi á stalla; þann baug skyldi hverr goði hafa á hendi sér til lögþinga allra, þeira er hann skyldi sjálfr heyja, ok rjóða hann þar áðr í roðru nautsblóðs, þess er hann blótaði þar sjálfr. Hverr sá maðr, er þar þurfti lögskil af hendi at leysa at dómi, skyldi áðr eið vinna at þeim baugi, ok nefna sér vátta tvá eða fleiri; „nefni ek í þat vætt", skildi hann segja, „at ek vinn eið at baugi, lögeið; hjálpi mér svá Freyr ok Njörðr ok hinn almáttki Áss, sem ek man svá sök þessa sœkja, eða verja, eða vitni bera, eða kviðu, eða dóma, sem ek veit réttast ok sannast ok helzt at lögum, ok öll lögmæt skil af hendi leysa þau er undir mik koma, meðan ek er á þessu þingi." Þá var landinu skift í fjórðunga, ok skyldu vera þrjú þing í fjórðungi, enn þrjú höfuðhof í þingsókn hverri; þar váru menn*

*valdir til at geyma hofanna at viti ok réttlæti: þeir skyldu nefna dóma á þingum, ok stýra sakferli; því váru þeir guðar kallaðir: hverr maðr skyldi gefa toll til hofs, sem nú til kirkju tíund.*

8. Þorsteinn leggr, son Bjarnar blátannar, fór ór Suðreyjum til Íslands, ok nam lönd öll fyrir norðan Horn til Jökulsár í Lóni, ok bjó í Böðvarsholti þrjá vetr, enn seldi síðan löndin ok fór aftr í Suðreyjar.

Rögnvaldr jarl á Mœri *(var)* son Eysteins glumru, Ívars sonar Upplendingajarls, Hálfdanar sonar ens gamla; Rögnvaldr átti Ragnhildi, dóttur Hrólfs nefju; þeira son var Ívarr, er fell í Suðreyjum með Haraldi konungi enum hárfagra; annarr var Göngu-Hrólfr, er vann Norðmandí; frá honum eru Rúðujarlar komnir ok Englakonungar; þriði var Þórir jarl þegjandi, er átti Álöfu árbót, dóttur Haralds konungs hárfagra, ok var þeira dóttir Bergljót, móðir Hákonar jarls ens ríka. Rögnvaldr jarl átti friðlusonu þrjá: hét einn Hrollaugr, annar Einarr, þriði Hallaðr; sá veltist ór jarlsdómi í Orkneyjum. Ok er Rögnvaldr jarl frá þat, þá kallaði hann saman sonu sína, ok spurði hverr þeira þá vildi til eyjanna; enn Þórir bað hann sjá fyrir um sína för; jarlinn kvað honum vel fara, enn kvað hann þar skyldu ríki taka eftir sinn dag. Þá gekk Hrólfr fram, ok bauð sik til farar; Rögnvaldr kvað honum vel hent fyrir sakir afls ok

hreysti, enn kveðst ætla at meiri ofsi væri í skapi hans, enn hann mætti þegar at löndum setjast. Þá gekk Hrollaugr fram, ok spurði ef hann vildi at hann fœri; Rögnvaldr kvað hann ekki mundu jarl verða: „hefir þú þat skap, er engi styrjöld fylgir; munu vegir þínir liggja til Íslands; muntu þar göfigr þikkja á því landi, ok verða kynsæll, enn engi eru hér forlög þín“. Þá gekk Einarr fram ok mælti: „Láttu mik fara til Orkneyja: ek mun þér því heita, er þér mun bezt þikkja, at ek mun aldri aftr koma þér í augsýn“. Jarlinn svarar: „Vel þikki mér at þú farir brutt, enn lítils er mér ván at þér, þvíat móðurætt þín er öll þrælborin“. Eftir þat fór Einarr vestr, ok lagði undir sik eyjarnar, sem segir í sögu hans. Hrollaugr fór þá til Haralds konungs ok var með honum um hríð, þvíat þeir feðgar kómu eigi skapi saman eftir þetta.

**9.** Hrollaugr fór til Íslands með ráði Haralds konungs, ok hafði með sér konu sína ok sonu; hann kom austr at Horni ok skaut þar fyrir borð öndvegissúlum sínum, ok bar þær á land í Hornafirði, enn hann rak undan ok vestr fyrir land; fekk hann þá útivist harða ok vatnfátt. Þeir tóku land vestr í Leiruvági á Nesjum; var hann þar enn fyrsta vetr; þá frá hann til öndugissúlna sínna ok fór austr þannveg; var hann annan vetr undir Ingólfsfelli. Síðan

fór hann austr í Hornafjörð, ok nam land austan frá Horni til Kvíár, ok bjó fyrst undir Skarðsbrekku í Hornafirði, enn síðan á Breiðabólstað í Fellshverfi. Þá hafði hann lógat þeim löndum, er norðr váru frá Borgarhöfn, enn hann átti til dauðadags þau lönd, er suðr váru frá Hreggsgerðismúla. Hrollaugr var höfðingi mikill ok helt vingan við Harald konung, enn fór aldri útan *[ok eigi vitjaði hann Rögnvalds jarls föður síns, því at honum var ótítt við stjúpmóður sína]*. Haraldr konungr sendi Hrollaugi *[gersimar á deyjanda degi,]* sverð ok ölhorn ok gullhring, þann er vá fimm aura; sverð þat átti Kolr, son Síðu-Halls, enn Kolskeggr enn fróði hafði sét hornit. Hrollaugr var faðir Özurar keiliselgs, er átti Gró, dóttur Þórðar illuga; dóttir þeira var Þórdís, móðir Halls á Síðu. Annarr son Hrollaugs var Hróaldr, faðir Óttars hvalróar, föður Guðlaugar, móður Þorgerðar, móður Járngerðar, móður Valgerðar, móður Böðvars, föður Guðnýjar, móður Sturlusona. Önundr var enn þriði son Hrollaugs. Hallr á Síðu átti Jóreiði Þiðrandadóttur; þeira son var Þorsteinn, faðir Magnúss, föður Einars, föður Magnúss byskups. Annarr son Halls var Egill, faðir Þorgerðar, móður Jóns byskups ens helga. Þorvarðr Hallsson var faðir Þórdísar, móður Jórunnar, móður Halls prests, föður Gizurar, föður Magnúss byskups *ok Þorvalds, föður Gizurar jarls.*

Yngvildr Hallsdóttir var móðir Þóreyjar, móður Sæmundar prests ens fróða. Þorsteinn Hallson var faðir Guðríðar, móður Jóreiðar, móður Ara prests ens fróða. Þorgerðr Hallsdóttir var móðir Yngvildar, móður Ljóts, föður Járngerðar, móður Valgerðar, móður Böðvars, föður Guðnýjar, móður Sturlusona.

**10.** Ketill hét maðr, er Hrollaugr seldi Hornafjarðarströnd *útan frá Horni* ok inn til Hamra; hann bjó at Meðalfelli; frá honum eru Hornfirðingar komnir.

Auðunn enn rauði keypti land at Hrollaugi útan frá hömrum ok út öðrum megin til Viðborðs; hann bjó í Hofsfelli ok reisti þar hof mikit; frá honum eru Hofsfellingar komnir.

Þorsteinn enn skjálgi keypti land at Hrollaugi, alt frá Viðborði suðr um Mýrar ok til Heinabergsár; hans son var Vestmarr, er Mýramenn eru frá komnir.

Úlfr enn vorski keypti land at Hrollaugi suðr frá Heinabergsá til Hreggerðismúla, ok bjó at Skálafelli *fyrstr manna; frá honum eru Vorsar komnir. Síðan færði Úlfr bú sitt í Papíli ok bjó á Breiðabólstað, ok er þar haugr hans ok svá Þorgeirs haugr. Þorgeirr var son Vorsa-Úlfs, er bjó at Hofi í Papíli.*

Þórðr illugi, son Eyvindar eykikróks, braut skip sitt á Breiðasandi; honum gaf Hrollaugr land milli Jökulsár ok Kvíár, ok bjó hann und-

ir Felli við Breiðá; hans synir váru þeir Örn enn sterki, er deildi við Þórdísi Jarlsdóttur, systur Hrollaugs, ok Eyvindr smiðr. Dœtr hans váru þær Gróa, er Özurr átti, ok Þórdís, móðir Þorbjargar, móður Þórdísar, móður Þórðar illuga, er vá Víga-Skútu.

Ásbjörn hét maðr, son Heyangrs-Bjarnar, hersis ór Sogni; hann var son Helga Helgasonar, Bjarnar sonar bunu. Ásbjörn fór til Íslands ok dó í hafi, enn Þorgerðr kona hans ok synir þeira kvámu út. *[Enn þat var mælt at kona skyldi eigi víðara nema land, enn leiða mætti kvígu tvævetra várlangan dag sólsetra millum, halfstalit naut ok haft vel. Því leiddi Þorgerðr kvígu sína undan Tóftafelli, skamt frá Kvíá, ok í Kiðjaleit hjá Jökulsfelli fyrir vestan. Þorgerðr nam því land um]* alt Ingólfshöfðahverfi á milli Kvíár ok Jökulsár, ok bjó hon at Sandfelli, ok Guðlaugr, son þeira Ásbjarnar, eftir hana; frá honum eru Sandfellingar komnir. Annarr son þeira var Þorgils, er Hnappfellingar eru frá komnir; þriði var Özurr, faðir Þórðar Freysgoða, er mart manna er frá komit.

Helgi hét annarr son Heyjangrs-Bjarnar; hann fór til Íslands ok bjó at Rauðalœk; hans son var Hildir, er Rauðlœkingar eru frá komnir.

Bárðr var enn þriði son Heyjangrs-Bjarnar, er fyrr er getit; hann nam fyrst Bárðardal norðr, enn síðan fór hann norðr um Vánarskarð Bárðar-

götu, ok nam Fljótshverfi alt, ok bjó at Gnúpum; þá var hann kallaðr Gnúpa-Bárðr. Hans synir váru þeir Þorsteinn ok Sigmundr, þriði Egill, fjórði Gísli, fimti Nefsteinn, sétti Þorbjörn krumr, sjaundi Hjörr, átti Þorgrímr, níundi Björn, faðir Geira at Lundum, föður Þorkels læknis, föður Geira, föður Þorkels kanoka, vinar Þorláks byskups ens helga; hann setti regúlastað í Þjokkabœ.

**11.** Eyvindr karpi nam land milli Almannafljóts ok Geirlandsár, ok bjó at Forsi, fyrir vestan Móðólfsgnúp; hans synir váru þeir Móðólfr, faðir þeira Hrólfs ok Ketils ok Ástríðar mannvitsbrekku; annarr var Önundr, faðir Þraslaugar, móður Tyrfings ok Halldórs, föður Tyrfings, föður Teits. *Áðr Almannafljót hlypi var þat kallat Raftalœkr.*

Maðr hét Ketill enn fífiski, son Jórunnar mannvitsbrekku, dóttur Ketils flatnefs; hann fór af Suðreyjum til Íslands; *hann* var kristinn; hann nam land milli Geirlandsár ok Fjarðarár, fyrir ofan Nýkoma. Ketill bjó í Kirkjubœ; þar höfðu áðr setit Papar, ok eigi máttu þar heiðnir menn búa. Ketill var faðir Ásbjarnar, föður Þorsteins, föður Surts, föður Sighvats lögsögumanns, föður Kolbeins *[föður Guðrúnar, móður Narfa ok Loðmundar Skeggjasonar]*. Hildr hét dóttir Ásbjarnar, móðir Þóris, föður Hildar, er Skarpheðinn átti. Þorbjörg hét dóttir Ketils ens fífiska; hana átti Váli,

son Loðmundar ens gamla. *[Þórðr hét son Surts ór Kirkjubœ, faðir Guðrúnar, móður Þóru, móður Þorsteins holmuns, föður Gunnhildar, móður Jódísar, móður Vilborgar, móður Magnúss, föður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum].*

Böðmóðr hét maðr, er land nam milli Drífandi ok Fjarðarár, ok upp til Böðmóðshorns; hann bjó í Böðmóðstungu; hans son var Óleifr, er Óleifsborg er við kend; hann bjó í Holti. Hans son var Vestarr, faðir Helga, föður Gró, er Glœðir átti.

Eysteinn enn digri fór af Sunnmœri til Íslands; hann nam land fyrir austan Geirlandsá til móts við Ketil enn fíñska, ok bjó í Geirlandi; hans son var Þorsteinn frá Keldugnúpi; *[hann var faðÞorkels, föður Þorsteins frá Keldugnúpi, föður Þoríðar, móður Álofar, móður Guðrúnar, móður Þorvalds, föður Ingiríðar, móður Ástríðar, móður Ingibjargar, móður Þuríðar, móður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum].*

Eysteinn son Hrana Hildissonar paraks, fór ór Noregi til Íslands; hann kaupir lönd at Eysteini digra, þau er hann hafði numit, ok kvað vera Meðallönd; hann bjó at Skarði. Hans börn váru þau Hildir ok Þorljót, er átti Þorsteinn at Keldugnúpi. Hildir vildi fœra bú sítt í Kirkjubœ eftir Ketil, ok hugði at þar mundi heiðinn maðr mega búa; enn er hann kom nær at tún-

garði, varð hann bráðdauðr; þar liggr hann í Hildishaugi.

Vilbaldr hét maðr, bróður Áskels hnokkans; hann fór af Írlandi til Íslands, ok hafði skip þat er hann kallaði Kúða. ok kom í Kúðafljótsós; hann nam Tunguland á milli Skaftár ok Hólmsár, ok bjó á Búlandi; hans börn váru þau Bjólan, faðir Þorsteins, ok Ölvér muðr, ok Bjollok, er átti Áslákr örgoði.

Leiðólfr kappi hét maðr; hann nam land fyrir austan Skaftá til Drífandi, ok bjó at Á fyrir austan Skaftá, út frá Skál, enn annat bú átti hann á Leiðólfsstöðum undir Leiðólfsfelli, ok var þar þá mart bygða. Leiðólfr var faðir Þórunnar, móður Hróars Tungugoða. Hróarr átti Arngunni Hámundardóttur, systur Gunnars frá Hlíðarenda; þeira börn váru þau Hámundr halti ok Ormhildr. Vébrandr hét son Hróars ok ambáttar. Hróarr tók Þórunni brún, dóttur Þorgils ór Hvammi í Mýdal; Þorfinnr hét son þeira. Hróarr bjó fyrst í Ásum; síðan tók hann Lómagnúpslönd af Eysteini, syni Þorsteins titlings ok Uðar Eyvindardóttur, systur þeira Móðólfs ok Branda. Þraslaug var dóttur Þorsteins titlings, er átti Þórðr freysgoði. Önundr töskubak, frændi Þorsteinsbarna, skoraði Hróari á hólm á Skaftafellsþingi, ok fell at fótum Hróari. Þorsteinn Upplendingr tók Þórunni brún ok flutti útan; Hróarr fór ok útan; þá drap hann Þröst berserk á

hólmi, er nauðga vildi eiga Sigríði konu hans, enn þeir Þorsteinn sættust. Móðólfssynir váru at vígi Hróars, ok Þórir, mágr þeira, Brandr frá Gnúpum ok Steinólfr búi hans. Hámundr hefndi þeira Hróars.

**12.** Ísólfr hét maðr; hann kom út síð landnámatíðar ok skoraði á Vilbald til landa eðr hólmgöngu, enn Vilbaldr vildi eigi berjast ok fór brutt af Búlandi; hann átti þá land milli Hólmsár ok Kúðafljóts. Enn Ísólfr fór á Búland ok átti land milli Kúðafljóts ok Skaftár. Hans son var Hrani á Hranastöðum, enn dóttir Björg, er átti Önundr son Eyvindar karpa; Þraslaug var dóttir þeira, er átti Þórarinn son Ölvés í Höfða.

Hrafn hafnarlykill var víkingr mikill; hann fór til Íslands ok nam land milli Hólmsár ok Eyjarár ok bjó í Dynskógum; hann vissi fyrir elds uppkvámu ok færði bú sitt í Lágey; hans son var Áslákr örgoði, er Lágeyingar eru frá komnir.

Maðr hét Hrólfr höggvandi; hann bjó á Norðmœri, þar sem hét Moldatún; hans synir váru þeir Vémundr ok Molda-Gnúpr; þeir váru vígamenn miklir ok járnsmiðir. Vémundr kvað þetta, er hann var í smiðju:

Ek bar einn
af ellifu
bana orð.
Blástu meir!

Gnúpr fór til Íslands fyrir vígasakir þeira brœðra, ok nam land milli Kúðafljóts ok Eyjarár, ok Álftave ralt; þar var þá vatn mikit ok álftveið*r* á. Molda-Gnúpr seldi mörgum mönnum af landnámi sínu, ok gerðist þar fjölbygt, áðr jarðeldr rann þar ofan, enn þá flýðu þeir vestr til Höfðabrekku, ok gerðu þar tjaldbúðir, er heitir á Tjaldavelli; enn Vémundr, son Sigmundar kleykis, leyfði þeim eigi þarvist; þá fóru þeir í Hrossagarð ok gerðu þar skála, ok sátu þar um vetrinn, og gerðist þar ófriðr með þeim ok vígafar. Enn um várit eftir fóru þeir Molda-Gnúpr vestr í Grindavík ok staðfestust þar; þeir höfðu fátt kvikfjár. Þeir váru þá fulltíða synir Molda-Gnúps, Björn ok Gnúpr, Þorsteinn hrunguir ok Þórðr leggjaldi. Björn dreymdi um nótt at bergbúi kœmi at honum ok bauð at gera félag við hann, enn hann þóttist játa því; eftir þat kom hafr til geita hans, ok tingaðist þá svo skjótt fé hans, at hann varð skjótt vellauðigr; síðan var hann Hafr-Björn kallaðr. Þat sá ófreskir menn, at landvættir allar fylgðu Hafr-Birni til þings, enn þeim Þorsteini ok Þórði til veiða*r* ok fisk*i*. Hafr-Björn átti *Jórunni, stjúpdóttur Gnúps bróður síns;* þeira son var Svertingr er átti Húngerði, dóttur Þórodds Tungu-Oddssonar ok Jófríðar Gunnarsdóttur; þeira dóttir Þorbjörg móðir Sveinbjarnar, föður Bótólfs, föður Þórdísar, móður Helgu, móður Guð-

nýjar, móður Sturlusona. Gnúpr Molda-Gnúpsson átti Arnbjörgu Raþormsdóttur. Iðunn var dóttir Molda-Gnúps, er átti Þjóstarr á Álftanesi. Þormóðr var son þeira, sem fyrr er ritat.

**13.** Eysteinn hét maðr, son Þorsteins drangakarls; hann fór til Íslands af Hálogalandi ok braut skip sitt, enn meiddist sjálfr í viðum. Hann bygði Fagradal, enn kerlingu eina rak af skipinu í Kerlingarfjörð; þar er nú Höfðársandr. Ölvér son Eysteins nam land fyrir austan Grímsá; þar hafði engi maðr þorat at nema fyrir landvættum, síðan Hjörleifr var drepinn. Ölvér bjó í Höfða; hans son var Þórarinn í Höfða, bróðir sammœðri Halldórs Örnólfsonar, er Mörðr órœkja vá undir Hömrum, ok Arnórs, er þeir Flosi ok Kolbeinn, synir Þórðar Freysgoða, vágu á Skaftafells þingi.

Sigmundr kleykir, son Önundar bílds, nam land milli Grímsár ok Kerlingarár, er þá fell fyrir vestan Höfða; frá Sigmundi eru þrír byskupar komnir; Þorlákr ok Páll ok Brandr.

Björn hét maðr, auðigr ok ofláti mikill; hann fór til Íslands af Valldresi, ok nam land milli Kerlingarár ok Hafrsár, ok bjó at Reyni; hann átti ilt við Loðmund enn gamla. Frá Reyni-Birni er enn helgi Þorlákr byskup kominn *[langfeðgum at telja]*.

Loðmundr enn gamli nam land milli Hafrsár ok Fúlalœkjar, sem fyrr er ritat; þat er þá hét

Fúlalœkr er nú kölluð Jökulsá á Sólheimasandi, er skilr landsfjórðunga.

Loðmundr enn gamli á Sólheimum átti sex sonu eðr fleiri: Váli hét son hans, faðir Sigmundar, er átti Oddlaugu, dóttur Eyvindar ens eyverska. Sumarliði hét annarr son Loðmundar, faðir Þorsteins holmunns í Mörk, föður Þóru, móður Steins, föður *Þóru, móður* Surts ens hvíta Skaftastjúps; hann var Sumarliðason; Skafti lögsögumaðr átti Þóru síðar enn Sumarliði; þat segir í Ölfusinga kyni. Vémundr hét enn þriði son Loðmundar, faðir Þorkötlu, er átti Þorsteinn vífill; þeira dóttir var Arnkatla, móðir Hróa ok Þórdísar, er átti Steinn Brandsson; þeira dóttir var Þóra, er átti *Sumarliði ok Skafti lögsögumaðr.* Ari hét enn fjórði, Hróaldr hét enn fimti, Ófeigr hét enn sétti son Loðmundar, laungetinn; hann átti Þraslaugu, dóttur Eyvindar eyverska, systur Oddlaugar; frá þeim öllum er mart manna komit.

Nú eru rituð landnám í Austfirðinga fjórðungi, eftir því sem vitrir menn ok fróðir hafa sagt; hefir í þeim fjórðungi mart stórmenni verit síðan, ok þar hafa margar stórar sögur gerzt. Enn þessir hafa þar stœrstir landnámsmenn verit: Þorsteinn hvíti, Brynjólfr enn gamli, Graut-Atli ok Ketill Þiðrandasynir, Hrafnkell goði, Böðvarr enn hvíti, Hrollaugr, son Rögnvalds jarls, Özurr, son Ásbjarnar Heyjangrs-Bjarnarsonar, er Freys-

gyðlingar eru frá komnir, Ketill enn fíflski, Leiðólfr kappi.

---

# V.

**Hér hefjast upp landnám í Sunnlendinga fjórðungi, er með mestum blóma er alls Íslands fyrir landskosta sakir ok höfðingja þeira er þar hafa bygt, bæði lærðir ok ólærðir.**

**1.** *Austfirðir bygðust fyrst á Islandi, enn á millum Hornafjarðar ok Reykjaness varð seinast albygt; þar réð veðr ok brim landtöku manna fyrir hafnleysis sakir ok öræfis. Sumir þeir er fyrstir kómu út bygðu næstir fjöllum, ok merkðu at því landskostina, at kvikféit fýstist frá sjónum til fjallanna. Þeim mönnum er síðar kómu út þóttu hinir numit hafa of víða land er fyrri kómu, enn á þat sætti Haraldr konungr þá hinn hárfagri, at engi skyldi víðara nema enn hann mætti eldi yfir fara á degi með skipverjum sínum. Menn skyldu elda gera, þá er sól væri í austri; þar skyldi gera aðra reyki, svá at hvára sæi frá öðrum, enn þeir eldar, er gervir váru þá er sól var í austri, skyldi brenna til nætr; síðan skyldu þeir ganga til þess er sól væri í vestri, ok gera þar aðra elda.*

Þrasi hét maðr, son Þórólfs *(Herjólfssonar?)*

hornabrjóts; hann fór af Hörðalandi til Íslands, ok nam land milli Kaldaklofsár ok Jökulsár; hann bjó í Skógum enum eystrum; hann var rammaukinn mjök, ok átti deilur við Loðmund enn gamla, sem áðr er ritat. Sonr Þrasa var Geirmundr, faðir Þorbjarnar, föður Brands í Skógum, *[föður Skeggja í Skógum, föður Bolla í Skógum, föður Skeggja, föður Hildar, er átti Njáll í Skógum Sigmundarson; þeirra son Skeggi, faðir Eyjólfs, föður Brands, er nú býr í Skógum].*

Hrafn enn heimski hét maðr, son Valgarðs Vémundar sonar orðlokars, Þórólfs sonar váganefs, Hrœreks sonar slöngvandbauga, Haralds sonar hilditannar Danakonungs; hann fór ór Þrándheimi til Íslands, ok nam land milli Kaldaklofsár ok Lambafellsár; hann bjó at Rauðafelli enu eystra ok var et mesta göfigmenni; hans börn váru þau Jörundr goði ok Helgi bláfauskr ok Freygerðr.

2. Ásgeirr kneif hét maðr, son Óleifs hvíta Skæringssonar, Þórólfssonar; móðir hans var Þórhildr, dóttir Þorsteins haugabrjóts; Ásgeirr fór til Íslands ok nam land milli Lambafellsár ok Seljalandsár, ok bjó þar er nú heitir at Auðnum; hans son var Jörundr ok Þorkell, faðir Ögmundar, föður Jóns byskups ens helga. Dóttir Ásgeirs var Helga, móðir Þórunnar, móður Þorláks, föður Þórhalls, föður Þorláks byskups ens helga.

Þorgeirr enn hörðski, son Bárðar blönduhorns, fór ór Viggjum ór Þrándheimi til Íslands; hann keypti land at Ásgeiri kneif milli Lambafellsár ok Írarár, ok bjó í Holti. Fám vetrum síðar fekk hann Ásgerðar, dóttur Asks ens ómálga, ok váru þeira synir Þorgrímr enn mikli ok Holta-Þórir, faðir Þorleifs kráks ok Skorar-Geirs.

Ófeigr hét ágætr maðr í Raumsdœlafylki; hann átti Ásgerði dóttur Asks ens ómálga. Ófeigr varð missáttr við Harald konung hárfagra, ok bjóst af því til Íslandsferðar; enn er hann var búinn, sendi Haraldr konungr menn til hans, ok var (hann) tekinn af lífi, enn Ásgerðr fór út með börn þeira, ok með henni Þórólfr, bróðir hennar laungetinn. Ásgerðr nam land millum Seljalandsmúla ok Markarfljóts, ok Langanes alt upp til Joldusteins, ok bjó norðan í Katanesi. Börn Ófeigs ok Ásgerðar váru Þorgeirr gollnir ok Þorsteinn flöskuskegg, Þorbjörn kyrri ok Álof elliðaskjöldr, er átti Þorbergr kornamúli; þeira börn Eysteinn ok Hafþóra, er Eiðr Skeggjason átti. Þorgerðr var ok Ófeigs dóttir, er átti Fiðr Otkelsson.

Þórólfr, bróðir Ásgerðar, nam land at ráði hennar fyrir vestan Fljót milli Deildará tveggja, ok bjó í Þórólfsfelli; hann fœddi þar Þorgeir gollni, son Ásgerðar, er þar bjó síðan; hans son var Njáll, er inni var brendr.

Ásbjörn Reyrketilsson ok Steinfiðr bróðir hans námu land fyrir ofan Krossá fyrir austan Fljót. Steinfiðr bjó á Steinfinnsstöðum, ok er ekki manna frá honum komit. Ásbjörn helgaði landnám sitt Þór ok kallaði Þórsmörk; hans son var Ketill enn auðgi, er átti Þuríði Gollnisdóttur; þeira börn váru þau Helgi ok Ásgerðr.

3. Ketill hæingr hét ágætr maðr í Naumdœlafylki, son Þorkels Naumdœla jarls ok Hrafnhildar, dóttur Ketils hæings ór Hrafnistu. Ketill bjó þá í Naumudal, er Haraldr konungr hárfagri sendi þá Hallvarð harðfara ok Sigtrygg snarfara til Þórólfs Kveldúlfssonar, frænda Ketils; þá dró Ketill lið saman ok ætlaði at veita Þórólfi, enn Haraldr konungr fór et efra um Eldueið, ok fekk skip í Naumdœlafylki ok fór svá norðr í Alost á Sandnes, ok tók þar af lífi Þórólf Kveldúlfsson; fór þá norðan et ytra ok fann þá marga menn, er til liðs ætluðu við þá Þórólf; hnekti konungr þeim þá. Enn litlu síðar fór Ketill hæingr norðr í Torgar, ok brendi inni Hárek ok Hrœrek Hildiríðarsonu, er Þórólf höfðu rœgðan dauðarógi; enn eftir þat réð Ketill til Íslandsferðar með Ingunni konu sína ok sonu þeira. Hann kom skipi sínu í Rangárós, ok var enn fyrsta vetr at Hrafnstóftum. Ketill nam öll lönd á milli Þjórsár ok Markarfljóts; þar námu síðan margir göfgir menn með ráði Hæings. Ketill eignaði sér eink-

um land milli Rangár ok Hróarslœkjar, alt fyrir neðan Reyðarvatn, ok bjó at Hofi. Þá er Ketill hafði fœrt flest föng sín til Hofs, varð Ingunn léttari, ok fœddi þar Hrafn, er fyrst sagði lög upp á Íslandi; því heitir þar at Hrafnstóftum. Hæingr hafði undir sik lönd öll fyrir austan Rangá ena eystri ok Vatnsfell, til lœkjar þess er fellr fyrir útan Breiðabólstað, ok fyrir ofan Þverá, alt nema Dufþaksholt ok Mýrina; þat gaf hann þeim manni er Dufþakr hét; hann var hamrammr mjök. Helgi hét annarr son Hæings; hann átti Valdísi Jólgeirsdóttur; þeira dóttir var Helga, er átti Oddbjörn askasmiðr; við hann er kent Oddbjarnarleiði. Börn þeira Oddbjarnar ok Helgu váru þau Hróaldr, Kolbeinn, Kolfinna ok Ásvör. Stórólfr var enn þriði son Hæings; hans börn váru þau Ormr enn sterki ok Otkell ok Hrafnhildr, er átti Gunnarr Baugsson; þeira son var Hámundr, faðir Gunnars at Hlíðarenda. Vestarr hét enn fjórði son Hæings, hann átti Móeiði; þeira dóttir var Ásný, er átti Ófeigr grettir; þeira börn váru þau Ásmundr skegglauss, Ásbjörn, Aldís, móðir Valla-Brands ok Ásvör, móðir Helga ens svarta; Æsa hét ein. Herjólfr hét enn fimti son Hæings, faðir Sumarliða, föður Vetrliða skálds; þeir bjoggu í Sumarliðabœ; þar heitir nú undir Brekkum. Vetrliða vágu þeir Þangbrandr prestr ok Guðleifr Arason af Reykjahólum um níð. Sæ-

björn goði var son Hrafns Hæingssonar, er átti Unni, dóttur Sigmundar; þeira son Arngeirr.

Sighvatr rauði hét maðr göfigr á Hálogalandi; hann átti Rannveigu, dóttur Eyvindar lamba ok Sigríðar, er átt hafði Þórólfr Kveldúlfsson; Rannveig var systir Finns ens skjálga. Sighvatr fór til Íslands at fýsn sinni, ok nam land at ráði Hæings í hans landnámi fyrir vestan Markarfljót, Einhyrningsmörk fyrir ofan Deildará, ok bjó í Bólstað; hans son (var) Sigmundr faðir Marðar gígju, ok Sigfúss í Hlíð ok Lambi á Lambastöðum, ok Rannveig, er átti Hámundr Gunnarsson ok Þorgerðr, er átti Önundr bíldr í Flóa. Annarr son Sighvats var Bárekr, faðir Þórðar, föður Steina.

Jörundr goði, son Hrafns ens heimska, bygði fyrir vestan Fljót, þar er nú heitir á Svertingsstöðum; hann reisti þar hof mikit. Bjórr lá ónuminn fyrir austan Fljót milli Krossár ok Joldusteins; þat land fór Jörundr eldi, ok lagði til hofs. Jörundr átti *Þuríði, dóttur Þorbjarnar ens gaulverska;* þeira son var Valgarðr goði, faðir Marðar, ok Úlfr örgoði, er Oddverjar eru frá komnir ok Sturlungar; mart stórmenni er frá Jörundi komit á Íslandi.

Þorkell bundinfóti nam land at ráði Hæings umhverfis Þríhyrning, ok bjó þar undir fjallinu; hann var hamrammr mjök. Börn Þorkels váru

þau Börkr blátannarskegg, faðir Starkaðar undir Þríhyrningi, ok Þórný, er átti Ormr enn sterki, ok Dagrún, móðir Bersa.

4. Baugr hét maðr, fóstbróðir Hæings; hann fór til Íslands, ok var enn fyrsta vetr á Baugsstöðum, enn annan með Hæingi; hann nam Fljótshlíð alla at ráði Hæings ofan um Breiðabólstað til móts við Hæing, ok bjó at Hlíðarenda; hans son var Gunnarr í Gunnarsholti ok Eyvindr at Eyvindarmúla; þriði Steinn enn snjalli, ok *Hildr dóttir*, er átti Örn í Vælugerði. Þeir Steinn enn snjalli ok Sigmundr, son Sighvats rauða, áttu för útan af Eyrum, ok kvámu til Sandhólaferju allir senn, Sigmundr ok förunautar Steins, ok vildu hvárir fyrr fara yfir ána; þeir Sigmundr stökuðu húskörlum Steins, ok ráku þá frá skipinu; þá kom Steinn at, ok hjó þegar Sigmund banahögg. Um víg þetta urðu Baugssynir allir sekir ór Hlíðinni; fór Gunnarr í Gunnarsholt, enn Eyvindr undir Fjöll austr í Eyvindarhóla, enn Snjallsteinn í Snjallsteinshöfða. Þat líkaði illa *[Þorgerði]* dóttur Sigmundar, er föðurbani hennar fór út þannig, ok eggjaði Önund, bónda sinn, at hefna Sigmundar. Önundr fór með þrjá tigu manna í Snjallshöfða ok bar þar eld at húsum. Snjallsteinn gekk út ok gafst upp; þeir leiddu hann í höfðann, ok vágu hann þar; eftir víg þat mælti Gunnarr; hann átti þá Hrafnhildi Stórólfsdóttur, systur Orms ens sterka. Hámundr

var son þeira. Þeir váru báðir afreksmenn at afli ok vænleik. Önundr varð sekr um víg Snjallsteins; hann sat með fjölmenni tvá vetr. Örn í Vælugerði, mágr Gunnars, helt njósnum til Önundar. Eftir jól enn þriðja vetr fór Gunnarr með þrjá tigu manna at Önundi, at tilvísan Arnar; Önundr fór frá leik með tólfta mann til hrossa sinna; þeir fundust í Orrostudal; þar fell Önundr með fjórða mann, enn einn af Gunnari. Gunnarr var í blárri kápu; hann reið upp eftir Holtum til Þjórsár, ok skamt frá ánni fell hann af baki, ok var þá örendr af sárum. Þá er synir Önundar vóxu upp, Sigmundr kleykir ok Eilífr auðgi, sóttu þeir Mörð gígju at eftirmáli, frænda sinn. Mörðr kvað þat óhœgt um sekjan mann; þeir kváðu sér við Örn verst líka, er þeim sat næst. Mörðr lagði þat til, at þeir skyldu fá Erni skóggangssök, ok koma honum svá ór heraði. Önundarsynir tóku beitingamál á hendr Erni, ok varð hann svá sekr, at Örn skyldi falla óheilagr fyrir Önundarsonum hvarvetna nema í Vælugerði ok i örskotshelgi við landeign sína. Önundarsynir sátu jafnan um hann, enn hann gætti sín vel. Svá fengu þeir fœri á Erni, at hann rak naut ór landi sínu; þá vágu þeir Örn, ok hugðu menn at hann mundi óheilagr fallit hafa. Þorleifr gneisti, bróðir Arnar, keypti at Þormóði Þjóstarssyni, at hann helgaði Örn; Þormóðr var þá kominn út á Eyr-

um; hann skaut þá skot svá langt af handboga at fall Arnar varð í örskotshelgi hans. Þá mæltu þeir Hámundr Gunnarsson ok Þorleifr eftir Örn, enn Mörðr veitti þeim brœðrum; þeir guldu eigi fé, enn skyldu vera heraðssekir ór Flóa; þá bað Mörðr til handa Eilífi Þorkötlu Ketilbjarnardóttur, ok fylgðu henni heiman Höfðalönd, ok bjó Eilífr þar; enn til handa Sigmundi bað hann Arngunnar, dóttur Þorsteins drangakarls, ok réðst hann austr í sveit; þá gifti Mörðr ok Rannveigu, systur sína, Hámundi Gunnarssyni, ok réðst hann þá aftr í Hlíðina, ok var þeira son Gunnarr at Hlíðarenda.

Hildir ok Hallgeirr ok Ljót, systir þeira, váru kynjuð af Vestrlöndum; þau fóru til Íslands, ok námu land milli Fljóts ok Rangár, Eyjasveit alla upp til Þverár. Hildir bjó í Hildisey; hann var faðir Móeiðar. Hallgeirr bjó í Hallgeirsey; hans dóttir var Mábil, er átti Helgi Hæingsson; enn Ljót bjó á Ljótarstöðum.

**5.** Dufþakr í Dufþaksholti var leysingi þeira brœðra; hann var hamrammr mjök, ok svá var Stórólfr Hæingsson; hann bjó þá at Hváli; þá skildi á um beitingar. Þat sá ófreskr maðr um kveld nær dagsetri, at björn mikill gekk frá Hváli, enn griðungr frá Dufþaksholti, ok fundust á Stórólfsvelli, ok gengust at reiðir, ok mátti björninn meira. Um morguninn var þat sét, at dalr var þar eftir, er þeir höfðu fundizt, sem

um væri snúit jörðinni, ok heitir þar nú Öldugröf; báðir váru þeir meiddir.

Ormr ánauðgi, son Bárðar Bárekssonar, bróðir Hallgríms sviðbálka, bygði fyrst Vestmannaeyjar, enn áðr var þar veiðistöð ok lítil vetrseta eðr engi; hans dóttir var Halldóra, er átti Eilífr Valla-Brandsson.

Eilífr ok Björn, brœðr, fóru ór Sogni til Íslands; Eilífr nam Odda enn lítla upp til Reyðarvatns ok Víkingslœkjar; hann átti Helgu, dóttur Önundar bílds; þeira son var Eilífr ungi, er átti Oddnýju, dóttur Odds ens mjóva; þeira dóttir var Þuríðr, er átti Þorgeirr í Odda; þeira dóttir var Helga.

Björn bjó í Svínhaga, ok nam land upp með Rangá; hans börn váru þau Þorsteinn, faðir Gríms holtaskalla, ok Hallveig, móðir Þórunnar, móður Guðrúnar, móður Sæmundar, föður Brands byskups.

Kolr hét maðr, son Óttars ballar; hann nam land fyrir austan Reyðarvatn ok Stotalœk fyrir vestan Rangá, ok Tröllaskóg, ok bjó at Sandgili; hans son var Egill, er sat fyrir Gunnari Hámundarsyni *hjá Knafahólum*, ok fell þar sjálfr ok austmenn tveir með honum, ok Ari húskarl hans, enn Hjörtr, bróðir Gunnars af hans liði. *Synir Gunnars váru þeir Hrani ok Hámundr. Gunnarr barðist við Otkel ór Kirkjubœ við garð at Hofi, ok fell Otkell þar ok Skamkell. Geirr*

*goði ok Gizurr hvíti ok Ásgrímr Elliðagrímsson, ok Störkuðr undan Þríhyrníngi, son Barkar blátannarskeggs, Þorkelssonar bundinfóta, er átti Þuríði Egilsdóttur frá Sandgili, þeir fóru um Leiðarskeið, ok kómu um nótt með þrjá tigu manna til Hlíðarenda, enn Gunnarr var fyrir með einn karlmann fulltíða; tveir menn fellu ór liði Geirs, enn sextán urðu sárir, áðr Gunnarr fell.*

Hrólfr rauðskeggr hét maðr; hann nam Hólmslönd öll milli Fiskár ok Rangár, ok bjó at Forsi; hans börn váru þau Þorsteinn rauðnefr, er þar bjó síðan, ok Þóra, móðir Þorkels mána, ok Æsa, móðir Þórunnar, móður Þorgeirs at Ljósavatni, ok Helga, móðir Odds frá Mjósyndi. Dóttir Odds var Ásborg, er átti Þorsteinn goði, faðir Bjarna ens spaka, föður Skeggja, föður Markúss lögsögumanns. Þorsteinn rauðnefr var blótmaðr mikill; hann blótaði forsinn, ok skildi bera leifar allar á forsinn; hann var ok framsýnn mjök. Þorsteinn lét telja sauði sína ór rétt tuttugu hundruð, enn þá hljóp alla réttina þaðan af; því var sauðrinn svá margr, at hann sá á haustum, hverir feigir váru ok lét þá skera. Enn et síðasta haust er hann lifði, þá mælti hann í sauðarétt: „Skeri þér nú sauði þá er þér vilit; feigr em ek nú, eðr allr sauðrinn elligar, nema bæði sé“. Enn þá nótt er hann andaðist, rak sauðinn allan í forsinn.

6. Úlfr gyldir hét hersir ríkr á Þelamörk; hann hjó á Fíflavöllum; hans son var Ásgrímr, er þar bjó síðan. Haraldr konungr hárfagri sendi Þórorm frænda sinn ór Þrumu, at heimta skatt af Ásgrími, enn hann galt eigi; þá sendi hann Þórorm annat sinn til höfuðs honum, ok drap hann þá Ásgrím. Þá var Þorsteinn, son Ásgríms, í víkingu, enn Þorgeirr, annarr son hans, var tíu vetra. Nökkuru síðar kom Þorsteinn ór hernaði ok lagði til Þrumu, ok brendi Þórorm inni ok hjú hans öll, enn hjó búit ok rænti öllu lausafé. Eftir þat fór hann til Íslands, ok Þorgeirr, bróðir hans, ok Þórunn, móðursystir þeira; hon nam Þórunnarhálsa alla.

Þorgeirr keypti Oddalönd at Hrafni Hæingssyni, ok Strandir báðar ok Varmadal, ok alt milli Rangár ok Hróarslœkjar; hann bjó fyrst í Odda, ok fekk þá Þoríðar Eilífsdóttur.

Þorsteinn nam land at ráði Flosa, er numit hafði áðr Rangárvöllu, fyrir ofan Víkingslœk til móts við Svínhaga-Björn, ok bjó í Skarðinu eystra; um hans daga kom skip út í Rangárós; þar var á sótt mikil, enn menn vildu eigi hjálpa þeim; þá fór Þorsteinn til þeira, ok fœrði þá þangat er nú heita Tjaldstaðir, ok gerði þeim þar tjald, ok þjónaði þeim sjálfr, meðan þeir lifðu; enn þeir dó allir; enn sá er lengst lifði gróf niðr fé mikit, ok hefir þat ekki fundizt síðan. Af

þessum atburðum var Þorsteinn tjaldstœðingr kallaðr; hans synir váru þeir Gunnarr ok Skeggi.

7. Flosi hét maðr, son Þorbjarnar ens gaulverska; hann drap þrjá sýslumenn Haralds konungs hárfagra, ok fór eftir þat til Íslands; hann nam land fyrir austan Rangá, alla Rangárvöllu ena eystri; hans dóttir var Ásný, móðir Þoríðar er Valla-Brandr átti. Son Valla-Brands var Flosi, faðir Kolbeins, föður Guðrúnar, er Sæmundr fróði átti. *Flosi átti Guðrúnu Þórisdóttur, Skegg-Brodda sonar; þeira synir váru þeir Kolbeinn, er fyrr var nefndr, ok Bjarni, faðir Bjarna, föður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends, föður Hauks. Af því fór Loftr hinn gamli, systurson Flosa, at blóta á Gaulum, at Flosa var ófritt í Noregi. Flosi hinn norrœni átti Þórdísi ena miklu, dóttur Þórunnar ennar auðgu, Ketils dóttur hins einhenda; þeira dóttir var Ásný, er átti Þorgeirr.*

Ketill enn einhendi hét maðr, son Auðunar þunnkárs; hann nam Rangárvöllu alla ena ytri, fyrir ofan Lœkjarbotna ok fyrir austan Þjórsá, ok bjó at Á; hann átti Ásleifu Þorgilsdóttur. Þeira son var Auðun, faðir Brynjólfs, föður Bergþórs, föður Þorláks, föður Þórhalls, föður Þorláks byskups ens helga.

Ketill örriði, brœðrungr Ketils einhenda, nam land it ytra með Þjórsá ok bjó á Völlum enum ytrum; hans son var Helgi hrogn, er átti Helgu

dóttur Hrólfs rauðskeggs; þeira son var Oddr mjóvi, faðir Ásborgar, er átti Þorsteinn goði, ok Oddnýjar, er Eilífr ungi átti.

Ormr auðgi, son Úlfs hvassa, nam land með Rangá at ráði Ketils einhenda, ok bjó í Húsagarði ok Áskell, son hans, eftir hann, enn *[Brandr]* son *[Áskels]* reisti fyrst bœ á Völlum; frá honum eru Vallverjar komnir.

Þorsteinn lunan hét maðr norrœnn ok farmaðr mikill; honum var þat spáð, at hann mundi á því landi deyja, er þá var eigi bygt. Þorsteinn fór til Íslands í elli sinni með Þorgilsi, syni sínum; þeir námu enn efri hluta Þjórsárholta ok bjoggu í Lunansholti, ok þar var Þorsteinn heygðr. Dóttir Þorgils var Ásleif, er átti Ketill einhendi; synir þeira váru þeir Auðun, er áðr var nefndr, ok Eilífr, faðir Þorgeirs, föður Skeggja, föður Hjalta í Þjórsárdal; hann var faðir Jórunnar, móður Guðrúnar, móður Einars, föður Magnúss byskups.

Gunnsteinn berserkjabani, son Bölverks blindingatrjónu, drap tvá berserki, ok hafði annarr þeira áðr drepit Grjótgarð jarl í Sölva fyrir innan Agðanes. Gunnsteinn var síðan skotinn með öru finskri ór skógi á skipi sínu norðr í Hefni. Son Gunnsteins var Þorgeirr, er átti Þórunni ena auðgu, dóttur Ketils einhenda; þeira dóttir var Þórdís en mikla.

8. Ráþormr ok Jólgeirr, brœðr, kvámu vest-

an um haf til Íslands; þeir námu land milli Þjórsár ok Rangár; Ráþormr eignaðist land fyrir austan Rauðalœk, ok bjó í Vætleifsholti; hans dóttir var Arnbjörg, er átti Svertingr Hrolleifsson; þeira börn váru þau Grímr lögsögumaðr ok Jórunn. Síðar átti Arnbjörgu Gnúpr Molda-Gnúpsson, ok váru þeira börn Hallsteinn á Hjalla, ok Rannveig, móðir Skafta lögsögumanns, ok Geirný, móðir Skáld-Hrafns. Jólgeirr eignaðist land fyrir útan Rauðalœk ok til Steinslœkjar; hann bjó á Jólgeirsstöðum.

Áskell hnokan, son Dufþaks Dufnialssonar, Kjarvals sonar Írakonungs, hann nam land milli Steinslœkjar ok Þjórsár, ok bjó í Áskelshöfða; hans son var Ásmundr, faðir Ásgauts, föður Skeggja, föður Þorvalds, föður Þorlaugar, móður Þorgerðar, móður Jóns byskups ens helga.

Þorkell bjálfi, fóstbróðir Ráþorms, eignaðist lönd öll milli Rangár ok Þjórsár, ok bjó í Háfi; hann átti Þórunni eyversku; þeira dóttir var Þórdís, móðir Skeggja, föður Þorvalds í Ási; þaðan hafði Hjalti mágr hans reiðskjóta til alþingis, ok þeir tólf, þá er hann var út kominn með kristni, enn engi treystist annarr fyrir ofríki Rúnólfs Úlfssonar, er sektan hafði Hjalta um goðgá.

Nú eru ritaðir þeir menn, er lönd hafa numit í landnámi Ketils hæings.

Loftr, son Orms Fróðasonar, kom af Gaulum

til Íslands ungr at aldri, ok nam fyrir útan Þjórsá, milli Rauðár ok Þjórsár, ok upp til Skúfslœkjar, ok Breiðamýri ena eystri upp til Súluholts, ok bjó í Gaulverjabœ, ok Oddný, móðir hans, dóttir Þorbjarnar gaulverska. Loftr fór útan et þriðja hvert sumar fyrir hönd þeira Flosa beggja, móðurbróður síns, at blóta at hofi því er Þorbjörn móðurfaðir hans hafði varðveitt. Frá Lofti er mart stórmenni komit: Þorlákr enn helgi, Páll ok Brandr.

Þorviðr, son Úlfars, bróðir Hildar, fór af Vors til Íslands; enn Loftr frændi hans gaf honum land á Breiðamýri, ok bjó hann í Vorsabœ; hans börn váru þau Hrafn ok Hallveig, er átti Özurr enn hvíti; þeira son Þorgrímr kampi.

Þórarinn hét maðr, son Þorkels ór Alviðru, Hallbjarnarsonar Hörðakappa; hann kom skipi sínu í Þjórsárós, ok hafði þjórshöfuð á stafni, ok er þar áin við kend. Þórarinn nam land fyrir ofan Skúfslœk til Rauðár, með Þjórsá; hans dóttir var Heimlaug, er Loftr gekk at eiga sextugr.

9. Haraldr gullskeggr hét konungr í Sogni; hann átti Sólvöru, dóttur Hundólfs jarls, systur Atla jarls ens mjóva; þeira dœtr váru þær Þóra, er átti Hálfdan svarti Upplendingakonungr, ok Þuríðr, er átti Ketill helluflagi. Haraldr ungi var son þeira Hálfdanar ok Þóru; honum gaf Haraldr gullskeggr nafn sitt ok ríki. Haraldr kon-

ungr andaðist fyrstr þeira, enn þá Þóra, enn Haraldr ungi síðast; þá bar ríkit undir Hálfdan konung, enn hann setti yfir þat Atla jarl enn mjóva. Síðan fekk Hálfdan konungr Ragnhildar, dóttur Sigurðar hjartar, ok var þeira son Haraldr hárfagri. Þá er Haraldr konungr gekk til ríkis í Noregi, ok hann mægðist við Hákon jarl Grjótgarðsson, fekk hann Sygnafylki Hákoni jarli, mági sínum, er Haraldr konungr fór í Vík austr; enn Atli jarl vildi eigi af láta ríkinu, áðr hann fyndi Harald konung. Jarlarnir þreyttu þetta með kappi, ok drógust at her; þeir fundust á Fjölum í Stafanesvági ok börðust; þar fell Hákon jarl, enn Atli varð sárr, ok fluttr í Atley; hann dó þar ór sárum. Eftir þat helt Hásteinn ríkinu, þar til er Haraldr konungr ok Sigurðr jarl drógu herr at honum; Hallsteinn stökk þá undan, ok brá til Íslandsferðar; hann átti Þóru Ölvésdóttur; Ölvér ok Atli váru synir þeira. Hallsteinn skaut setstokkum fyrir borð í hafi at fornum sið; þeir kómu á Stálfjöru fyrir Stokkseyri, enn Hallsteinn kom í Hallsteinssund fyrir austan Stokkseyri, ok braut þar. Hallsteinn nam land milli Rauðár ok Ölfusár upp til Fyllarlœkjar, ok Breiðamýri alla upp at Holtum, ok bjó á Stjörnusteinum, ok svá Ölvér son hans, eftir hann; þar heita nú Ölvésstaðir. Ölvér hafði landnám alt fyrir útan Grímsá, Stokkseyri ok Ásgautsstaði, enn Atli átti alt

milli Grímsár ok Rauðár; hann bjó í Traðarholti. Ölvér andaðist barnlauss. Atli tók eftir hann lönd ok lausafé; hans leysingi var Brattr í Brattsholti ok Leiðólfr á Leiðólfsstöðum. Atli var faðir Þórðar dofna, föður Þorgils Errubeinsstjúps, *föður Gríms glammaðar, föður Ingjalds, föður Gríms, föður þeira Barkar ok Einars, föður Hallkötlu, er átti Rafn Sveinbjarnarson; þeira dóttir Steinunn, móðir herra Rafns, ok Herdís, móðir Ála, föður Steinunnar, er Haukr Erlendsson átti. Börkr Grímsson var faðir Ragnhildar, er Flosi Bjarnason átti; þeira börn Einarr ok Bjarni, ok Valgerðr, móðir herra Erlends, föður Hauks. Þórdís var önnur dóttir Flosa, móðir frú Ingigerðar, móður frú Guðrúnar ok Hallberu abbadísar; Halla var ok dóttir Flosa, móðir herra Kristóförus.*

Hallsteinn hét maðr, er fór ór Sogni til Íslands, mágr Hallsteins; honum gaf hann ytra hlut Eyrarbakka; hann bjó á Framnesi; hans son var Þorsteinn, faðir Arngríms, er veginn var at fauskagrefti; hans son Þorbjörn á Framnesi.

Þórir, son Ása hersis, Ingjaldssonar, Hróaldssonar, fór til Íslands ok nam Kallnesinga hrepp allan, upp frá Fyllarlœk, ok bjó at Selforsi; hans son var Tyrfingr, faðir Þuríðar, móður Tyrfings, föður Þorbjarnar prests ok Hámundar prests í Goðdölum.

Hróðgeirr enn spaki ok Oddgeirr, bróðir hans,

er þeir Fiðr enn auðgi ok Hafnar-Ormr keyptu brutt ór landnámi sínu, námu Hraungerðinga hrepp, ok bjó Oddgeirr í Oddgeirshólum; hans son var Þorsteinn öxnabroddr, faðir Hróðgeirs, föður Ögurs í Kambakistu; enn dóttir Hróðgeirs ens spaka var Gunnvör, er átti Kolgrímr enn gamli; þaðan eru Kvistlingar komnir.

Önundr bildr, er fyrr var getit, nam land fyrir austan Hróarslœk ok bjó í Önundarholti; frá honum er mart stórmenni komit, sem fyrr er ritat.

**10.** Özurr hvíti hét maðr, son Þorleifs ór Sogni. Özurr vá víg í véum á Upplöndum, þá er hann var í brúðför með Sigurði hrísa; fyrir þat varð hann landflótti til Íslands, ok nam fyrst öll Holtalönd milli Þjórsár ok Hraunslœkjar; þá var hann seytján vetra, er hann vá vígit. Hann fekk Hallveigar Þorviðardóttur; þeira son var Þorgrímr kampi, faðir Özurar, föður Þorbjarnar, föður Þórarins, föður Gríms Tófusonar. Özurr bjó í Kampaholti; hans leysingi var Böðvarr, er bjó í Böðvarstóftum við Víðiskóg; honum gaf Özurr hlut í skóginum, ok skildi sér eftir hann barnlausan. Örn ór Vælugerði, er fyrr er getit, stefndi Böðvari um sauðatöku; því handsalaði Böðvarr Atla Hallsteinssyni fé sitt, enn hann ónýtti mál fyrir Erni. Özurr andaðist, þá er Þorgrímr var ungr; þá tók Hrafn Þorviðarson við fjárvarðveizlu Þorgríms. Eftir andlát Böð-

vars taldi Hrafn til Víðiskógs, ok bannaði Atla, enn Atli þóttist eiga. Þeir Atli fjórir fóru eftir viði. Leiðólfr var með honum; smalamaðr sagði Hrafni þat, enn hann reið eftir þeim við átta mann. Þeir fundust í Orrostudal ok börðust þar; húskarlar Hrafns fellu tveir; hann varð sárr; einn fell af Atla, enn *hann* varð sárr banasárum ok reið heim; Önundr bíldr skildi þá ok bauð Atla til sín. Þórðr dofni, son Atla, var þá níu vetra; enn þá er hann var fimtán vetra, reið Hrafn í Einarshöfn til skips; hann var í blárri kápu ok reið heim um nótt. Þórðr sat einn fyrir honum hjá Haugavaði skamt frá Traðarholti, ok vá hann þar með spjóti; þar er Hrafns haugr fyrir austan götuna, enn fyrir vestan Hallsteins haugr ok Atla haugr ok Ölvés; vígin fellust í faðma. Þórðr hófst af þessu; hann fekk þá Þórunnar, dóttur Ásgeirs austmannaskelfis, er drap skipshöfn austmanna í Grímsárósi, fyrir rán þat er hann var ræntr austr. Þórðr hafði þá tvá vetr ok tuttugu, er hann keypti skip í Knarrarsundi ok vildi heimta arf sinn; þá fal hann fé mikit; því vildi Þórunn eigi fara, ok tók þá við löndum. Þorgils son Þórðar var þá tvævetr. Skip Þórðar hvarf. Vetri síðar kom Þorgrímr errubeinn til ráða með Þórunni, son Þormóðar ok Þuríðar Ketilbjarnardóttur; hann fekk Þórunnar, ok var þeira son Hæringr.

Óláfr tvennumbrúni hét maðr; hann fór af Lófót til Íslands; hann nam Skeið öll milli Þjórsár *ok Hvítár* til Sandlækjar; hann var hamrammr mjök. Óláfr bjó á Óláfsvöllum; hann liggr í Brúnahaugi undir Vörðufelli. Óláfr átti Áshildi, ok var þeira son Helgi trausti ok Þórir drífa, faðir Þorkels gullkárs, föður Orms, föður Helgu, móður Odds Hallvarðssonar. Vaði var enn þriði son Óláfs, faðir Gerðar. Þorgrímr lagði hug á Áshildi, þá er Óláfr var dauðr, enn Helgi vandaði um; hann sat fyrir Þorgrími við gatnamót fyrir neðan Áshildarmýri; Helgi bað hann láta af komum; Þorgrímr lézt eigi hafa barna skap; þeir börðust; þar fell Þorgrímr. Áshildr spurði, hvar Helgi hefði verit; hann kvað vísu:

Vark þars fell til fyllar
(fram sótti vinr dróttar)
Errubeinn, es unnar
ítr-tungur hátt sungu.
Ásmóðar gaf ek Óðni
arfa þróttar djarfan,
guldum gálgavaldi
Gauts tafn, enn ná hrafni.

Áshildr kvað hann hafa höggvit sér höfuðsbana. Helgi tók sér far í Einarshöfn. Hæringr, son Þorgríms, var þá sextán vetra er hann reið í Höfða at finna Teit Gizurarson með þriðja mann. Þeir Teitr riðu fimtán at banna Helga far; þeir fundust í Merkrhrauni upp frá Mörk við

Helgahvál; þeir Helgi váru þrír saman, komnir af Eyrum; þar fell Helgi ok maðr með honum ok einn af þeim Teiti; í faðma fellust víg þau. Sonr Helga var Sigurðr enn landverski ok Skefill enn haukdœlski, faðir Helga dýrs, er barðist við Sigurð, son Ljóts löngubaks, í Öxarárhólma á alþingi. Um þat orti Helgi þetta:

Band er á hœgri hendi
(hlaut ek sár af Tý báru
(lýg ek eigi þat) leygjar
linnvengis Bil) minni.

Hrafn var annarr son Skefils, faðir Gríms, föður Ásgeirs, föður Helga.

**11.** Þrándr mjöksiglandi Bjarnarson, bróðir Eyvindar austmanns, er fyrr er getit, hann var í Hafrsfirði mót Haraldi konungi, ok varð síðan landflótti, ok kom til Íslands síð landnámatíðar; hann nam land milli Þjórsár ok Laxár, ok upp til Kálfár ok til Sandlœkjar; hann bjó í Þrándarholti; hans dóttir var Helga, er Þormóðr skafti átti.

Ölvér barnakarl hét maðr ágætr í Noregi; hann var víkingr mikill; hann lét eigi henda börn á spjótaoddum, sem þá var víkingum títt; því var hann barnakarl kallaðr; hans synir váru þeir Steinólfr, faðir Unu, er átti Þorbjörn laxakarl, ok Einarr, faðir Ófeigs grettis ok Óleits breiðs, föður Þormóðar skafta. Steinmóðr

var enn þriði son Ölvés barnakarls, faðir Konáls, föður Álfdísar ennar bareysku, er Óleifr feilan átti. Son Konáls var Steinmóðr, faðir Halldóru, er átti Eilífr, son Ketils einhenda. Þeir frændr Ófeigr grettir ok Þormóðr skafti fóru til Íslands, ok váru enn fyrsta vetr með Þorbirni laxakarli, mági sínum; enn um várit gaf hann þeim Gnúpverjahrepp: Ófeigi enn ytra hlut milli Þverár ok Kálfár, ok bjó *hann* á Ófeigsstöðum hjá Steinsholti; enn Þormóði gaf hann enn eystra hlut, ok bjó hann í Skaftaholti. Dœtr Þormóðar váru þær Þórvör, móðir Þórodds goða, föður Lög-Skafta, ok Þórve, móðir Þorsteins goða, föður Bjarna ens spaka, *föður Skeggja, föður Markúss lögsögumanns. föður Valgerðar, móður Böðvars, föður Þórðar prests, föður Þorleifs í Görðum ok Markúss á Melum ok Böðvars í Bœ. Lög-Skafti var faðir Þorsteins holmun(n)s, föður Gunnhildar, móður Vilborgar, móður Magnúss, föður Snorra á Melum.* Ófeigr fell fyrir Þorbirni jarlakappa í Grettisgeil hjá Hæli. Dóttir Ófeigs var Aldís, móðir Valla-Brands.

Þorbjörn laxakarl nam Þjórsárdal allan ok Gnúpverjahrepp allan ofan til Kálfár, ok bjó enn fyrsta vetr at Miðhúsum; hann hafði þrjár vetrsetr, áðr hann kom í Haga; þar bjó hann til dauðadags; hans synir váru þeir Otkell í Þjórsárdal ok Þorkell trandill, ok Þorgils, faðir

Otkötlu, móður Þorkötlu, móður Þorvalds, föður Döllu, móður Gizurar byskups.

Þorbjörn jarlakappi hét maðr, norrœnn at kyni; hann fór ór Orkneyjum til Íslands; hann keypti land í Hrunamannahreppi at Mávi Nadd-oð*ar*ssyni, alt fyrir neðan Selslœk, á milli (ok) Laxár, ok bjó at Hólum; hans synir váru þeir Sölmundr, faðir Sviðu-Kára, ok Þormóðr, faðir Finnu, er átti Þórormr í Karlafirði; þeira dóttir var Álfgerðr, móðir Gests, föður Valgerðar, móður Þorleifs beiskalda, *föður Álfeiðar, móður Þorláks, föður Ketils prests, föður Herdísar, móður barna Páls byskups.*

Bröndólfr ok Már, Naddoð*ar* synir ok Jórunnar, dóttur Ölvés barnakarls, kómu til Íslandsbygðar snemma; þeir námu Hrunamannahrepp, svá vítt sem vötn deila. Bröndólfr bjó at Berghyl; hans synir váru þeir Þorleifr, faðir Bröndólfs, föður Þorkels skotakolls, föður Þórarins, föður Halls í Haukadal ok Þorláks, föður Rúnólfs, föður Þorláks byskups. Már bjó á Másstöðum; hans son var Beinir, faðir Kolgrímu, móður Skeggja, föður Hjalta.

Þorbrandr son Þorbjarnar ens óarga, ok Ásbrandr son hans, kómu til Íslands síð landnámatíðar, ok vísaði Ketilbjörn þeim til landnáms fyrir ofan múla þann er fram gengr hjá Stakksá ok til Kaldakvíslar, ok bjoggu í Haukadal. Þeim þóttu þau lönd of lítil, er tungan

eystri var þá bygð; þá jóku þeir landnám sitt, ok námu enn efra hlut Hrunamannahrepps, sjónhending ór Múla í Ingjaldsgnúp fyrir ofan Gyldarhaga. Börn Ásbrands váru Vébrandr ok Arngerðr. *Vébrandr var faðir Oddlaugar, er átti Svertingr Rúnólfsson.*

Eyfrøðr enn gamli nam tunguna eystri milli Kaldakvíslar ok Hvítár, ok bjó í Tungu; með honum kom út Drumboddr, er bjó á Drumboddsstöðum.

**12.** Ketilbjörn hét maðr ágætr í Naumudal; hann var Ketils son ok Æsu, dóttur Hákonar jarls Grjótgarðssonar; hann átti Helgu dóttur Þórðar skeggja. Ketilbjörn fór til Íslands, þá er landit var víða bygt með sjá; hann hafði skip þat er Elliði hét; hann kom í Elliðaárós fyrir neðan heiði; hann var enn fyrsta vetr með Þórði skeggja, mági sínum. Um várit fór hann upp um heiði at leita sér landskosta; þeir höfðu náttból ok gerðu sér skála; þar heitir nú Skálabrekka. Enn er þeir fóru þaðan, kvámu þeir at á þeiri, er þeir kölluðu Öxará; þeir týndu þar öxi sinni; þeir áttu dvöl undir fjallsmúla þeim er þeir nefndu Reyðarmúla; þar lágu þeim eftir áreyðar þær, er þeir tóku í ánni. Ketilbjörn nam Grímsnes alt upp frá Höskuldslœk, ok Laugardal allan, ok alla Biskupstungu upp til Stakksár, ok bjó at Mosfelli. Börn þeira váru þau Teitr ok Þormóðr, Þorleifr, Ketill, Þorkatla, Odd-

leif, Þorgerðr, Þuríðr. Skæringr hét einn son Ketilbjarnar laungetinn. Ketilbjörn var svá auðigr at lausafé, at hann bauð sonum sínum at slá þvertré af silfri í hofit, þat er þeir létu gera; þeir vildu þat eigi; þá ók hann silfrit upp á fjallit á tveimr öxnum, ok Haki, þræll hans, ok Bót, ambátt hans; þau fálu féit svá at eigi finst. Síðan drap hann Haka í Hakaskarði, enn Bót í Bótarskarði. Teitr átti Álöfu, dóttur Böðvars af Vors, Víkinga-Kárasonar; þeira son var Gizurr hvíti, faðir Ísleifs byskups, föður Gizurar byskups. Annarr son Teits var Ketilbjörn, faðir Kols, föður Þorkels, föður Kols Víkverjabyskups. Mart stórmenni er frá Ketilbirni komit.

Ásgeirr hét maðr, Úlfsson; honum gaf Ketilbjörn Þorgerði, dóttur sína, ok lét henni heiman fylgja Hlíðarlönd öll fyrir ofan Hagagarð; hann bjó í Hlíð enni ytri; þeira son var Geirr goði, ok Þorgeirr, faðir Bárðar at Mosfelli.

Eilífr auðgi, son Önundar bílds, fékk Þorkötlu Ketilbjarnardóttur, ok fylgðu henni heiman Höfðalönd; þar bjoggu þau; þeira son var Þórir, faðir Þórarins sælings.

Véþorn, son Vémundar ens gamla, var hersir ríkr; hann stökk fyrir Haraldi konungi austr á Jamtaland, ok ruddi þar merkr til bygðar. Hólmfastr hét son hans, enn Grímr hét systurson hans; þeir váru í vestrvíking, ok drápu í Suðreyjum Ásbjörn jarl skerjablesa, ok tóku þar at

herfangi Álöfu, konu hans, ok Arneiði, dóttur hans, ok hlaut Hólmfastr hana ok seldi hana í hendr föður sínum ok lét vera ambátt. Grímr fekk Álofar, dóttur Þórðar vaggagða, er jarl hafði átta. Grímr fór til Íslands ok nam Grímsnes alt upp til Svínavatns, ok bjó í Önduðunesi fjóra vetr, enn síðan at Búrfelli; hans son var Þorgils, er átti Æsu, systur Gests *[Oddleifssonar]*; þeira synir váru þeir Þórarinn at Búrfelli ok Jörundr í Miðengi.

Hallkell, bróðir Ketilbjarnar sammœddr, kom til Íslands, ok var með Ketilbirni enn fyrsta vetr; Ketilbjörn bauð at gefa honum land; Hallkatli þótti lítilmannlegt at þiggja land, ok skoraði á Grím til landa eðr hólmgöngu. Grímr gekk á hólm við Hallkel undir Hallkelshólum ok fell þar, enn Hallkell bjó þar síðan; hans synir váru þeir Otkell, er Gunnar Hámundarson vá, ok Oddr at Kiðjabergi, faðir Hallbjarnar, er veginn var við Hallbjarnarvörður, ok Hallkell, faðir Hallvarðar, föður Þorsteins, er Einarr Hjaltlendingr vá. Son Hallkels Oddssonar var Bjarni, faðir Halls, föður Orms, föður Bárðar, föður Valgerðar, móður Halldóru, er Magnús byskup Gizurarson átti.

Nú er komit at landnámi Ingólfs; enn þeir menn er nú eru taldir hafa bygt í hans landnámi.

**13.** Þorgrímr bíldr, bróðir Önundar bílds,

nam lönd öll fyrir ofan Þverá, ok bjó at Bíldsfelli; hans leysingi var Steinrøðr, son Melpatrix af Írlandi; hann eignaðist öll Vatnslönd, ok bjó á Steinrøðarstöðum; Steinrøðr var manna vænstr; hans son var Þormóðr, faðir Kárs, föður Þormóðar, föður Brands, föður Þóris, er átti Helgu Jónsdóttur.

*Hrolleifr, son Einars, Ölvés sonar barnakarls, kom í Leiruvág, þá er bygt var alt með sjó; hann nam lönd til móts við Steinrøð öll fyrir útan Exará, er fellr um Þingvöll, ok bjó í Heiðabœ nokkora vetr. Þá skoraði hann á Eyvind í Kvíguvágum til hólmgöngu eðr landsölu, enn Eyvindr kaus heldr at þeir keyptu löndum. Eyvindr bjó nökkora vetr síðan í Heiðarbœ, ok fór síðan á Rosmhvalanes til Bearskerja, enn Hrolleifr bjó síðan í Kvíguvágum, ok er þar heygðr; hans son var Svertingr, faðir Gríms lögsögumanns at Mosfelli.*

Ormr enn gamli *(var)* son Eyvindar jarls, Arnmóðs sonar jarls, Nereiðs sonar jarls ens gamla; Ormr nam land fyrir austan Varmá til Þverár, ok um Ingólfsfell alt, ok bjó í Hvammi; hans son var Darri, faðir Arnar. Eyvindr jarl var með Kjötva auðga mót Haraldi konungi í Hafrsfirði.

Álfr enn egðski stökk fyrir Haraldi konungi af Ögðum ór Noregi; hann fór til Íslands, ok kom skipi sínu í ós þann, er við hann er kendr ok Álfsós heitir; hann nam lönd öll fyrir útan

Varmá ok bjó at Gnúpum. Þorgrímr Grímólfsson var bróðurson Álfs; hann fór út með honum ok tók arf eftir hann, þvíat Álfr átti ekki barn. Sonr Þorgríms var Eyvindr, faðir Þórodds goða, ok Özurar, er átti Beru, dóttur Egils Skalla-Grímssonar. Móðir Þorgríms var Körmlöð, dóttir Kjarvals Írakonungs. *Dóttir Þórodds goða var Helga, móðir Gríms glömmuðs, föður Ingjalds, föður Gríms, föður Barkar, föður Ragnhildar, föður Valgerðar, móður herra Erlends, föður Hauks.*

**14.** Þórir haustmyrkr nam Selvág ok Krýsuvík, enn Heggr, son hans, bjó at Vági. Böðmóðr, annarr son hans, var faðir Þórarins, föður Súganda, föður Þorvarðar, föður Þórhildar, móður Sigurðar Þorgrímssonar.

Molda-Gnúpssynir bygðu Grindavík, sem fyrr er ritat.

Steinuðr en gamla, frændkona Ingólfs, fór til Íslands, ok var með Ingólfi enn fyrsta vetr; hann bauð at gefa henni Rosmhvalanes alt fyrir útan Hvassahraun, enn hon gaf fyrir heklu flekkótta, ok vildi kaup kalla; henni þótti þat óhættara við riftingum. *Steinunni hafði átt Herlaugr, bróðir Skalla-Gríms; þeira son var Njáll ok Arnórr.*

Eyvindr hét maðr, frændi Steinunnar ok fóstri; honum gaf hon land milli Kvíguvágabjarga ok Hvassahrauns; hans son var Egill, faðir Þórar-

ins, föður Sigmundar, föður Þórörnu, móður Þorbjarnar í Krýsuvík, *ok Álofar, móður Finns lögmanns, ok Freygerðar, móður Lofts, föður Guðlaugs smiðs.*

*Herjólfr, sá er fyrr var frá sagt, var frændi Ingólfs ok fóstbróðir; af því gaf Ingólfr honum land milli Reykjaness ok Vágs; hans son var Bárðr, faðir Herjólfs, þess er fór til Grœnalands ok kom í hafgerðingar. Á skipi hans var suðreyskr maðr; sá orti Hafgerðingadrápu; þar er þetta upphaf:*

*Allir hlýði ossu fulli*
*amra fjalla Dvalins hallar.*

Ásbjörn Özurarson, bróðurson Ingólfs, nam land milli Hraunsholtslœkjar ok Hvassahrauns, Álftanes alt, ok bjó á Skúlastöðum; hans son var Egill, faðir *Özurar, föður* Þórarins, föður Óláfs, föður Sveinbjarnar, föður Ásmundar, föður Sveinbjarnar, föður Styrkárs, *föður Hafr-Bjarnar, föður þeira Þorsteins ok Gizurar í Seltjarnarnesi.*

**15.** Nú er yfir farit um landnám þau, er vér höfum heyrt at verit hafi á Íslandi, enn þessir landnámsmenn hafa göfgastir verit í Sunnlendingafjórðungi: Hrafn enn heimski, Ketill hæingr, Sighvatr rauði, H*all*steinn Atlason, Ketilbjörn enn gamli, Ingólfr, Örlygr gamli, Helgi bjóla, Kolgrímr enn gamli, Björn gullberi, Önundr breiðskeggr.

Svá segja fróðir menn, at landit yrði albygt á sex tigum vetra, svá at eigi hefir síðan orðit fjölbygðra; þá lifðu enn margir landnámsmenn ok synir þeira. Þá er landit hafði sex tigu vetra bygt verit, váru þessir höfðingjar mestir á landinu: í Sunnlendinga fjórðungi: Mörðr gígja, Jörundr goði, Geirr goði, Þorsteinn Ingólfsson, Tungu-Oddr: enn í Vestfirðinga fjórðungi: Egill Skalla-Grímsson, Þorgrímr Kjallaksson, Þórðr gellir; enn norðr: Miðfjarðar-Skeggi, Þorsteinn Ingimundarson, Guðdœlir, Hjaltasynir, Eyjólfr Valgerðarson, Áskell goði; enn í Austfirðinga-fjórðungi: Þorsteinn hvíti, Hrafnkell goði, Þorsteinn, faðir Síðu-Halls, Þórðr Freysgoði. Hrafn Hæingsson hafði þá lögsögu.

Svá segja vitrir menn, at nökkurir landnámsmenn hafi skírðir verit, þeir er bygt hafa Ísland, flestir þeir er kvámu vestan um haf; er til þess nefndr Helgi magri ok Örlygr enn gamli. Helgi bjóla, Jörundr kristni, Uðr djúpauðga, Ketill enn fíflski, ok enn fleiri menn, er kvámu vestan um haf, ok heldu þeir sumir vel kristni til dauðadags; enn þat gekk óvíða í ættir, þvíat synir þeira sumra reistu hof ok blótuðu, enn land var alheiðit nær hundraði vetra.

# Viðbætir.

## 1. *Úr Skarðsárbók.*

Óaldar vetr varð mikill á Íslandi í heiðni, í þann tíma er Haraldr konungr gráfeldr fell, enn Hákon jarl tók ríki í Noregi; sá hefir mestr verit á Íslandi; þá átu menn hrafna ok melrakka, ok mörg óátan ill var etin, enn sumir létu drepa gamalmenni ok ómaga, ok hrinda fyri hamra; þá sultu margir menn til bana, enn sumir lögðust út at stela, ok urðu fyrir þat sekir ok drepnir; þá vágust skógarmenn sjálfir, því at þat var lögtekit at ráði Eyjólfs Valgerðarsonar, at hverr frelsti sik sá er þrjá dræpi seka.

Áttatigi vetra síðar varð annat óáran; þat hófst þann vetr er Ísleifr tók byskupsvígslu af Alberto Brima byskupi; þat var um daga Haralds konungs Sigurðarsonar. Enn þann fyrsta vetr er Ísleifr byskup var á Íslandi, var manndauði sem mestr á Íslandi af sulti; þá var alt þat etit er tönn festi á. Enn um sumarit lét byskup því heita á þingi, at menn skyldu fasta enn tólfta dag jóla um þrjú ár, þvíat svá var gert í Herfurðu, þar er byskup hafði í sköla verit, á Saxlandi. Þá var svá snæmikit hvarvetna at menn gengu flestir til alþingis; enn

er heitit var, batnaði þegar veðrátta, ok varð sumar hit bezta; enn vetrinn eftir var svá góðr at engi kom þeli í jörð, ok gengu menn berfœttir til tíða um jól, enn húsuðu ok lögðu garða á þorra. Hit næsta sumar eftir var þat í lög tekit, at jafnan skyldi fasta hinn tólfta dag jóla, ef eigi bæri á drottins dag. Son Ísleifs byskups var Gizurr byskup.

Bjarni Skegg-Broddason sótti eldhúsvið til Noregs ok gerði eldhús í Krossavík hálffertugt föðmum, enn fjogrtán alna hátt ok fjogrtán alna breitt; hann var því kallaðr Bjarni húslangr; hann druknaði með sjaunda mann á Skjálfanda, er hann fór til þings. Broddi Þórisson, bróðurson Bjarna húslangs, fœrði skálann mikla ór Krossavík til Hofs ok lét þar upp gera; hann var þá hálfþrítogr föðmum ok þrettán alna breiðr ok þrettán alna hár. Broddi var hinn mesti ágætismaðr, ok varð félauss; hann fór þá vestr til Hóla í Hjaltadal til Ketils byskups Þorsteinssonar ok andaðist þar með honum.

Sigurðr, son Sigmundar konungs, er kallaðr var Fáfnisbani ok Brynhildr Buðladóttir áttu dóttur þá er Áslaug hét; hon var fœdd með Heimi jarli í Hringdölum, þar til er hann var drepinn. Ragnarr loðbrók, son Sigurðar hrings, átti Þóru, dóttur Herrøðar Gautajarls; þeira börn váru Agnarr, ok Eiríkr ok Óluf, er átti Hunda-Steinarr Englajarl; þeira son var Björn,

faðir Auðunar skökuls, föður Þóru mosháls, móður Úlfhildar, er átti Guðbrandr kúla; þeira dóttir Ásta, móðir Óláfs konungs ens helga. Annarr son Hunda-Steinars ok Ólofar hét Eiríkr; hann var faðir Sigurðar bjóðaskalla, föður Víkinga-Kára, föður þeira Böðvars ok Vigfúss ok Eiríks á Ofrustöðum, föður Ástríðar, móður Óláfs konungs Tryggvasonar. Dóttir Vigfúss var Ástríðr, móðir Víga-Glúms, föður Vigfúss, föður Bergs, föður Steinunnar, móður Þorsteins rangláts, föður Guðrúnar, móður Höllu, móður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends lögmanns, föður herra Hauks lögmanns. Óluf hét dóttir Böðvars hersis, er átti Teitr Ketilbjarnarson frá Mosfelli; þeira son Gizurr hvíti, faðir Ísleifs byskups, föður Gizurar byskups. Ragnarr loðbrók átti síðar Áslaugu, dóttur Sigurðar Fáfnisbana; Sigurðr ormr í auga var son þeira, ok Hvítserkr ok Björn járnsíða, ok Ívarr hinn beinlausi ok Ragnhildr.

Hálfdan svarti Upplendingakonungr, son Guðrøðar ljóma, átti Þóru, dóttur Haralds gullskeggs Sygnakonungs, ok Sólvarar Hundólfsdóttur jarls ór Fjörðum, systur Atla jarls ens mjóva. Son þeira Hálfdanar og Þóru var Haraldr; enn er hann var ungr, þá andaðist móðir hans, enn sveinninn litlu síðar. Litlu síðar fekk Hálfdan Ragnhildar, dóttur Sigurðar hjartar; móðir Sigurðar var Áslaug, dóttir Sigurðar

orms í auga; þeira son var Haraldr enn hárfagri. Enn þá er hann var tíu vetra, þá druknaði Hálfdan, faðir hans, á Hringaríki, í vatni því er Rönd heitir, er hann ók eftir ísinum; þá brast ísinn, er þeir kómu á nautabrunna fyrir Sverðsstöðum í Rykinvík, ok druknaði hann þar ok alt lið hans; tók þá Haraldr konungsnafn. Enn þá er hann var tvítogr, þá lagði hann fyrst undir sik Sygnafylki; enn Atli jarl hafði aldri skatt goldit; enn síðan lagði hann undir sik allan Noreg, sem segir í sögu hans.

Vikarr hét konungr, son Haralds Egða konungs; hans son var Vatnarr konungr, sá er haug á fyrir sunnan Hákonarhellu. Enn kaupmaðr í Noregi var sá, er sagði sögu Vatnars, er þeir sigldu með landi fram, ok kallaði hann verit hafa ágætan mann; enn er hann lá við Vatnarshaug, dreymdi hann at Vatnarr konungr kom at honum ok mælti við hann: „Þú hefir sagt sögu mína, vil ek þat launa þér; leita þér feár í haugi mínum ok mantu finna“. Hann leitaði, ok fann þar mikit fé.

Svá er sagt, þá er Haraldr konungr harðráði lá við Glaumstein í Hallandi með her sinn, þeir sá þar haug mikinn á sjávarhellunni ok annan litlu ofar; hann spurði hverir þar væri leiddir, enn þat kunni enginn at segja; enn um nóttina eftir er hann hafði þessa spurt, dreymdi Sig-

urð enn hvíta at maðr kom at honum í herklæðum ok kvað þetta:

Snjallr á haug á hellu,
Hjaldr á búð til kalda,
veki þér í dag dreyra
drótt, nú er sigr á spjótum.
Valdr man hitt, at Hildar
hlæjandi rauð ek blæju
(skjöld nefni ek svá) sköfnum
skjóma, fyrstr at rómu.

Ena sömu nótt dreymdi Björn bukk, at annarr maðr kom at honum með hinum sama búningi, ok kvað vísu:

Mín stóð búð síz brœðra
branz gekk hvárr fyr annan
h*y*ll*r* ok heldum snjallir
hér (fellum þá) velli.
Hrósar hug fyr vísa
Hjaldr, eru víg til sjaldan;
gleðr oss þat, er val Viðri
veit ek þik gefa teitan.

Enn er Haraldr konungr kom til Noregs, þá sagði honum Kári enn svarti, frændi Þjóðólfs ór Hvini, at þeir váru synir Vatnars konungs þeir Snjallr ok Hjaldr, ok váru hinir mestu hermenn. Snjallr var faðir Einars, föður Ölvés barnakarls; hans son var Steinólfr ok Grímr ok Einarr, faðir þeira Hrolleifs, föður Svertings, föður Gríms at Mosfelli, ok Óleifs breiðs, föður þeira Þormóðs skafta ok Ófeigs grettis. Svá segja sumir menn, at Guðbrandr kúla væri

son Óleifs breiðs; enn Hjaldr var faðir Gríms, föður Bjarnar bunu. Björn buna átti Vélaugu, systur Vémundar hins gamla; þeira synir váru þeir Ketill flatnefr ok Hrappr ok Helgi, faðir Helga, föður Heyjangrs-Bjarnar, hverr er ríkr hersir ok ágætr var í Sogni.

Yxna-Þórir hét maðr ágætr á Ögðum ok auðigr; hann átti þar þær þrjár eyjar, er átta tigir yxna var í hverri; enn er Haraldr konungr hárfagri bað hann strandhöggs, þá gaf hann honum eina eyna ok alla yxnina með. Af því var hann kallaðr Yxna-Þórir, ok er frá honum komit mart stórmenni á Íslandi ok *í* Norvegi. Son Þóris var Ósvaldr, faðir Ölvés hins hvíta, föður Þorsteins hins hvíta, föður Þorgils, föður Brodd-Helga, föður Víga-Bjarna.

Á því ári er Gizurr byskup Ísleifsson andaðist gerði hallæri mikit á Íslandi; þá kom hríð svá mikil á dymbildögum at menn máttu eigi veita tíðir í kirkjum í sumum stöðum ok heruðum fyrir norðan land. Föstudag hinn langa tók upp knör undir Eyjafjöllum ok snøri á lofti ok kom hvalfandi niðr; hann var sex rúm ok tuttugu. Páskadaginn fyrsta máttu fáir menn tíðir sœkja at taka þjónustu, enn sumir urðu úti dauðir. Annat illviðri kom um sumarit eftir andlát hans, þann dag er menn riðu á þing; þá braut kirkju á Þingvelli, þá er Haraldr konungr Sigurðarson lét höggva viðinn til;

þat sumar fóru fjórir tigir skipa út hingat, ok braut mörg við land, enn sum týndust í hafi ok leysti sundr undir mönnum, enn átta ein kvámust brott, með þeim er áðr váru hér, ok kvámust þau engi fyrir Micháelsmessu af hafi; af þeim mannfjölda varð hallæri mikit hér á landi.

Þá er Gizurr byskup andaðist, váru þessir mestir höfðingjar á Íslandi: Hafliði Másson norðr, ok synir Ásbjarnar Arnórssonar í Skagafirði, Þorgeirr Hallason ok Ketill Þorsteinsson prestr; enn austr: Gizurr Einarsson, Sigmundr Þorgilsson; hann andaðist á því ári í Rómför; enn suðr: Hallr Teitsson, Skúli Egilsson; enn vestr: Styrmir Hreinsson, Halldórr Egilsson, Þorgils Oddason, Þórðr Gilsson, Þórðr Þorvaldsson ór Vatnsfirði. Einum vetri eftir andlát Gizurar byskups var Þorsteinn Hallvarðsson veginn, göfigr maðr; enn vetri eftir þat var þing fjölment; þau misseri hafði svá mikill manndauði verit, at Sæmundr prestr enn fróði sagði svá á þingi, at eigi mundi færri menn hafa andazt af sótt enn þá váru til þings komnir. Þat sumar var þröng mikil at dómum; þá særði Þorgils Oddason Hafliða Másson; þá varð um ekkert mál at lögum dœmt. Þorgils varð sekr um áverkann ok sat í sekt um vetrinn; þá var svá lítill vápnaburðr, at ein var stálhúfa á alþingi, ok reið drjúgum hverr bóndi til þings er þá var á Íslandi.

Þat vár er þrír vetr váru liðnir frá andláti Gizurar byskups, andaðist Jón byskup at Hólum níunda kalend. maji; þat sumar sat Hafliði Másson á efrum völlum með xcc manna, ok ætlaði at banna Þorgilsi Oddasyni þingreið; þar var með honum Hallr Teitsson ok Þórðr ór Vatnsfirði, mágr hans, ok margir aðrir höfðingjar; þat var hinn næsta dag fyrir Jónsmessu. Þorlákr byskup gekk þannig til með kennimenn, ok leitaði marga vega um sættir með þeim; enn er þat tjáði eigi, þá fyrirbauð hann þeim þar at sitja, ok lézt mundi bannsetja þá, ef þeir gengi eigi heim; þá kvað Hafliði at þeir skyldi heim ganga til búða. Þorgils reið á þing með sjau manna; með honum váru flestir höfðingjar ór Vestfirðinga fjórðungi nema Þórðr ór Vatnsfirði; enn er um sættir var leitat, var þat í meðal þeira, at Hafliði vildi hafa sjálfdœmi um alt, óskorat, enn Þorgils vildi undan taka goðorð ok staðfestu ok sektir allar; þann skakka gat Ketill prestr Þorsteinsson niðr feldan með umtölum sínum. Þat sumar var hann kosinn til byskups í stað Jóns byskups, ok fór útan. Þorgils handsalaði Hafliða sjálfdœmi, enn hann gerði sextigi hundraða sex álna aura vöruvirðs fjár í gulli ok brendu silfri eðr í rífum aurum, eðr í gripum þeim er honum þœtti gersimum sæta, ok hann virði sjálfr, eða þeir menn er hann tœki til; þetta fé handsöluðu sex menn ok unnu at

fimtardóms eið at þeir skyldu þetta fé gjalda sem fyrr var mælt. Þorgils ok Hafliði veittu sjálfir trygðir ok heldu vel sætt þessa. Hafliði Másson átti fyrr Þuríði, dóttur Þórðar Sturlusonar; Þórðr hét son þeira; hann átti Sólvöru dóttur Ásgríms Þórhallssonar; Ívarr hét son þeira. Hafliði átti síðar Rannveigu, dóttur Teits ór Haukadal; Sigríðr hét dóttir þeira, er átti Þórðr í Vatnsfirði; Þórðr ok Páll váru synir þeira. Valgerðr hét önnur dóttir þeira Hafliða; hana átti Ingimundr prestr Illugason ok Ornýjar, dóttur Þorkels Gellissonar; Illugi var son þeira, er druknaði þá er hann flutti lím til steinkirkju þeirar, er hann ætlaði at láta gera á Breiðabólstað í Vestrhópi.

Rögnvaldr jarl kali var veginn fimm nóttum eftir Máríumessu fyrri.

Óláfr konungr Tryggvason barðist á Orminum langa næsta dag eftir Máríumessu síðari.

Þessi eru nöfn byskupa þeira útlendra, er verit hafa á Íslandi: Friðrekr, Bjarnarðr, Óláfr Grœnlendingabyskup, Kolr, Roðólfr, Jón, Bjarnarðr, Heinrekr, Arnaldr Grœnlendingabyskup. Jón Grœnlendingabyskup ok Helgi Grœnlendingabyskup; verit hafa enn þeir fleiri er byskupar létust vera: Guðiskólkr, Örnólfr, ok fjórir af Armenia: Petrús, Stephánús ok Ábrahám.

Friðrekr byskup kom í heiðni til Íslands með Þorvaldi víðförla, ok var at Gilјá ok Lœkja-

móti; Bjarnaðr enn bókvísi var á Íslandi fimm vetr. *Hungrvaka segir, at Bjarnarðr Vilráðsson hinn bókvísi hafi verit af Englandi ok farit til Íslands af ráðum Óláfs konungs ens helga, því hann hafi með honum verit áðr.* Kolr fá ár; *hann var með Halli í Haukadal, ok er jarðaðr í Skálholti fyrstr byskupa, segir Hungrvaka.* Roðólfr nítján ár; *hann setti munklífi í Bœ í Borgarfirði; hann bjó ok á Lundi. Hungrvaka segir Úlfr byskup hafi verit af Rúðuborg ór Englandi, ok nefndr því Rúðuólfr.* Jón hinn saxneski fjogr ár; *Hungrvaka segir Jón írskan, ok farit heðan til Vindlands, kristnat þar, verit þar síðan píndr ok drepinn.* Heinrekr tvau ár. Bjarnarðr nítján ár; hann bjó at Gilja í Vatnsdal. *Hungrvaka talar svá um þenna Bjarnarð: hinn sjötti útlenzkr byskup var Bjarnvarðr byskup enn saxlenzki, er var með Magnúsi konungi enum góða, Óláfssyni, ok fór síðan til Islands, ok var á Islandi xx vetr; hann hafði tvá bústaði í Vatnsdal, at Giljá ok Steinstöðum (ek meina þat Steinnes); hann vígði marga hluti, þá er mörg merki hafa at vorðit: kirkjur ok klukkur, brúar ok brunna, vöð ok vötn, björg ok bjöllur, ok þikkja þessir hlutir hafa birt sanna tígn hans ok gœzku. Bjarnvarðr var á Islandi meðan Haraldr konungr var í Noregi Sigurðarson, þvíat þeir váru eigi samsáttir; síðan fór hann útan, ok til handa Óláfi konungi kyrra Haraldssyni, ok síðan fór*

*hann til Róms at bœn konungs, ok friðaði fyrir önduðum; enn er byskup kom aftr, þá skipaði konungr hann byskup í Selju, enn síðan fór hann í Björgvin ok andaðist þar, ok er einmælt hann hafi verit hinn mesti merkismaðr.*

## *2. Úr Melabók hinni yngri.*

Úlfljótr hét maðr norrœnn, systurson Þorleifs spaka; hann kom út í Lóni ok keypti land at Þórði skeggja alt fyrir austan Jökulsá. Enn þá er hann var nær hálfsextugr at aldri, fór hann útan ok var þrjá vetr með Þorleifi frænda sínum; þeir samanskrifuðu lög þau er hann hafði út ok þá váru kölluð Úlfljótslög. Enn er hann kom út, þá var sett alþingi, ok höfðu þá allir ein lög hér á landi, ok váru þau nokkurn veg samin eftir Gulaþingslögum. Landinu var skift í fjórðunga um daga Þórðar gellis; þá skyldu vera þrjú þing í hverjum fjórðungi, enn þrjú höfuðhof í hverri þingsókn; þar váru menn vandaðir til að varðveita hofin, at vitrleik ok réttlæti; þeir skyldu dóm nefna á þingum ok stýra sakferlum; því váru þeir goðar kallaðir ok hofgoðar, enn þeira tígn ok umdœmi kallat goðorð. Hverr skyldi ok gjalda hofstoll, eigi síðr enn nú kirkjutíund. Fé þat er til hofs var gefit skyldi hafa til mannfagnaðar, þar er blótveizlur váru. Norðlendinga fjórðungi var skift í fjogr þing; hann var stœrri enn hinir fjórðungarnir.

Þat er upphaf hinna heiðnu laga, at menn skyldu eigi hafa höfðuð skip í haf, enn ef þeir hefði, þá skyldu þeir af taka höfuðit áðr enn

þeir kœmi í landsýn, ok sigla eigi at landi með gapandi höfðum né gínandi trjónu, svá at landvættir fældist við.

Baugr tvíeyringr eðr meira skyldi liggja at hverju hofi á stalli; þann baug skyldi hverr goði hafa á hendi sér til lögþinga þeira allra, er hann skyldi sjálfr heyja, ok rjóða þar í rauðu blótnauts þess er hann blótaði.

Dómhringr var á þingstaðnum, er þeir menn váru í skipaðir, er þat straff höfðu, at þeir váru dœmdir til blóts. Á Þórnes þingi stendr steinninn eftir, sem þeir menn váru brotnir við, ok sér enn blóðlitinn á steininum, segir Eyrbyggja.

Sá maðr hverr, er lögskil þyrfti af hendi at leysa at dómi, skyldi áðr eið vinna at baugi, ok nefna sér vátta tvá eða fleiri, ok mæla svá: „Ykkr nefni ek í þat vætti", skyldi hann segja, „at ek vinn eið at baugi, lögeið; hjálpi mér svá Freyr ok Njörðr ok Áss hinn almáttki, sem ek mun þessa sök sœkja, eða verja, vitni eða vætti eða kviðu bera, eða dóm dœma, ok öll lögmæt skil af hendi leysa, þau er undir mik koma, meðan ek er á þessu þingi, sem ek veit réttast ok sannast ok helzt at lögum". Svá sagði vitr maðr, Þormóðr, er allsherjar goði var á Íslandi, at með þessum orðum ok þíngmörkum helguðu langfeðgar hans alþingi.

Böðvarr enn hvíti af Vors ór Noregi bygði fyrstr at Hofi; hann reisti þar hof, ok gerðist þar hofgoði; hann var faðir Þorsteins, föður Halls á Síðu.

Hof í Vatnsdal ok Hof á Kjalarnesi hafa hér á landi stœrst verit, einkum stórt hundrað fóta á lengð, þat syðra var ok sex tigu fóta breitt. Kór

eða goðastúka var hjá hverju hofi; þar váru í goðin; Þórr eða Júppíter var œðstr ok mest göfgaðr, þá Freyr, sonr Óðins, conditor, sá er fyrst bygði Uppsali í Svíaríki; ok þó eigi sé glögt að skilja, hvé mörg goð eða með hverju nafni þau hafi verit hér dýrkuð at sérhverju hofi, þá er þó í gömlum eiðstaf ánefndir þessir þrír: Freyr, Njörðr ok Áss, sem vér hyggjum þá meina með Óðin, af því hann var œðsti höfðingi hingat í Norðrlönd kominn ór Asía. Æsar eða Æsir kölluðust fleiri. Þessi goð stóðu á stalli eða hávum bekk; frammi fyrir þar stóð stalli með miklum hagleik, ok þiljaðr ofan með járni; þar skyldi á vera eldr, sá *er* aldri slöknaði; þat kölluðu þeir vígðan eld; á þeim stalli skyldi ok standa bolli mjök af kopar; þar skyldi í láta blóð þat alt, sem kœmi af fé því er þar var til gefit, eða mönnum þeim sem til blóts váru dœmdir; þat kölluðu þeir hlaut eða hlautbolla, enn hlautinni skyldi bæði dreifa yfir menn ok fé. Vatzhyrna.



# Vísnaskýringar.

**II, 6., 64:** Steinastoð[1], ek hyggi einn Atals hrafni[2] stafnrúm; skal-at þrangbýlt of þegn á þiljum á ranga mar[3]. Böðvitrum[4], knáum brimdýrs[5] stýri es betra rúm enn ilt of[6] gengi[7]: þat man lifa lengr (lengi) með lofðum.

1. *Steinastoð*, kvenkenning. — 2. *Atall*, sækonungr; Atals *hrafn*, skip. — 3. *ranga-marr*, skip. — 4. *böðvitr*, herkœnn (*böð* = orrusta). — 5. *brimdýr*, skip. — 6. *of* er hér sett til fyllingar til þess að samstöfur séu nógu margar. — 7. *gengi*, fylgd, föruneyti.

Kona, ég vildi mega búa einn í stafnrúmi skipsins; skyldi eigi vera þröngt um mig á þiljunum. Mér er betra að hafa (nóg) rúm enn ilt föruneyti (þræl): það mun lengi uppi vera.

**II, 7., 66:** Ek vas þar es flóðkorn[1] móður jötuns, heiðins bergrisa, fell af fjalli ór hám himni á nóleiðar[2]. Ífingafold[3], fár jötunn gørir fleiri báta hamváta mér moldu hömluþrumlu heiðar.

1. *flóðkorn*, steinn, bjarg. — 2. *nór*, skip; nóleiðar, skipsleiðar, sjór. — 3. *ífingafold*, kvenkenning; ífingr, höfuðdúkr. — 4. *hömlu-þrumla*, skip; hömlu-þrumlu heiðr, sjór.

Ég var þar er tröllkonu-bjarg úr fjalli féll úr háva lofti í sjó. Fáir jötnar gera fleiri báta alvota af sjó enn ég.

**II, 8.—9., 67 og 70.** Þessar vísur þurfa eigi skýringar við.

**II, 14., 80:** Ek bið meinalausan[1] munkareyni[2] beina farar mínar; dróttinn hárar foldarhallar[3] haldi heiðisstalli[4] yfir mér.

1. *meinalauss*, góðr. — 2. *munkareynir*, guð. — 3. *höll*, hvelfing; foldarhöll, himinn. — 4. *heiðir*, haukr; heiðisstallr, hönd.

Ég bið góðan guð (að) beina ferðir mínar; drottinn himinsins haldi hendi sinni yfir mér.

**II, 19., 90:** Þessi vísa þarf eigi skýringar við.

**II, 30., 113:** Ölkarma eik[1], línbundin erma Lofn[2], lætr mik leika fyr lesnis stafni[3] sínum; firrumk þat. Ek man aldrigi bíða bótir of brúði; böl gørir mik fölvan; harmr snertumk í hjarta hrót[4].

1. *ölkarma eik*, kvenkenning. — 2. *erma Lofn*, kvenkenning. — 3. *lesnis stafn*, höfuð? — 4. *hrót*, rót.

Hin línklædda kona lætr mig leika frammi fyrir sér; ég forðast það; ég mun aldrei bíða hennar bætr; harmrinn snertir hjartarætr mínar.

**II, 30., 114:** Þessi vísa þarf eigi skýringar við.

**II, 33., 120:** Ek heyri út bláfjallaðan[1] sára þorns[2] sveita svan gjalla, es mornar; bráð vekr borginmóða[3]. Svá gól Gunnar[4] haukr fyrr, es fólknárungar[5] váru feigir, es gaukar Gauts[6] bragða sagðu spá.

1. *bláfjallaðr*, með bláu eða svörtu skinni (fell, skinn). — 2. *þorn*, þyrnir; sáraþorn, sverð; sáraþorns sveiti, blóð, sáraþorns sveita svanr, hrafn. — 3. hrafn. — 4. *Gunnr*, valkyrja; Gunnar haukr, hrafn. — 5. *fólk-*

*nárungr*, höfðingi. — 6. *Gautr*, Óðins heiti; gaukar Gauts bragða, hrafnar.

Ég heyri svartan hrafn gjalla úti er morgnar; bráðin vekr hann. Svo gól hann fyrr, þá er höfðingjar vóru feigir og hrafnar vóru að spá.

**II, 33., 120:** Már valkastar báru[1] blakkar hagli stokkinn es (hann) kemr at hræs sævi[2]; (hann) krefr móðr morginbráðar. Svá gól hræva gaukr[3] endr[4] af fornum meiði[5] þá es unda haukar[6] vildu eiðs mjöð[7] hildinga.

1. *bára valkastar*, blóð; blóðs már, hrafn. — 2. *hræs sær*, blóð. — 3. hrafn. — 4. forðum. — 5. tré. — 6. hrafnar. — 7. *eiðsmjöðr*, blóð, nefnt svo af því, að menn blönduðu blóði saman, er þeir sórust í fóstbræðralag.

Hrafninn blakkar, hagli stokkinn, er hann kemr á vígvöllinn; hann er móðr og krefr morgunbráðarinnar. Svo gól hann forðum á tré, er hrafnar vildu höfðingjablóð.

**II, 33., 120:** Draugr flatvallar bauga[1], vas-at mér áðr of ráðinn dauði í dag né gær; búumk við Ilmar jálmi[2]. Ek ræki lítt, þót litvöndr Heðins fitjar[3] leiki við rauða skjaldu; oss var áðr of markaðr aldr.

1. *Draugr*, viðr; *flatvallar baugr*, skjöldr; *draugr flatvallar baugr*, mannkenning. — 2. *Ilmar jálmr*, bardagi. — 3. *Heðins fit*, brynja; *litvöndr Heðins fitjar*, sverð.

Maðr, mér var ekki ákveðið að deyja í gær né í dag; ég býst við bardaga. Ég hirði ekki, þótt sverð leiki við rauða skjöldu. Aldr minn var áðr markaðr.

**II, 33., 121:** Sex svipnjörðungar sverða[1], þeir es sæfast sarteini[2], hafa hér bana sútlaust úti á brústeinum. Hygg, at heltendr laga liggi hálfir eftir; ek lét óbíðingum[3] svíða eggskeiðar undir.

1. *svipr*, sveiflan: njörðungar, afkomendr Njarðar; *svipnjörðungar sverða*, veifendr sverða, menn. — 2. *sárteinn*, sverð. — 3. *óbíðingar*, þeir sem eigi bíða, ragmenni.

Sex menn, sœfðir sverði, hafa hér bana úti á brústeinum, og ekki harmdauðir. Helmingr lögbrotsmannanna hygg ég að liggi eftir: ég lét ragmennunum svíða eggjasárin.

**II, 33., 121:** Ek bark-at fetla stígs fúr[1] at vígi með fleiri; várum þar fyrir fjórir frændr, vændir ofstopa; enn tólf hvatir gunnþingsrunnar[2] af Gylfa glað[3], þeir es vildu skunda til várs fundar, ruðu köld vápn sín.

1. *fetill*, sverðfetillinn, er liggr utan á brynjunni; *fetla stígr*, brynja: *fúr*, eldr; *fetla stígs fúr*, sverð. — 2. mannkenning. — 3. *Gylfi*, sækonungr; *glaðr*, hestr; *Gylfa glaðr*, sækonungs hestr, skip.

Ég bar eigi sverð til vígs við fleiri: vér frændr vórum þar fjórir fyrir og bjuggumst við ofstopa. Enn tólf röskvir menn af skipinu, er vildu finna oss, ruðu sín köldu vopn.

**II, 33., 121:** Sjau sœkitívar Svölnis garðs[1] hafa höggvit nösum til jarðar; varmt blóð, valdögg, fell til vallar. Mun-at fleiri Fjölnis þings fúrviðir[2] fœra Jálks mœrar skæ[3] út of Ekkils brautir[4], enn hingat.

1. *Svölnir*, Óðins heiti; *Svölnis garðr*, skjöldr; *tívar*, guðir; *Svölnis garðs sœkitívar*, menn. — 2. *Fjölnir*, Óðinsheiti; *Fjölnis þing*, bardagi; *Fjölnisþingsfúr*, bardagaeldr, sverð. — 3. *Jálkr*, sækonungsheiti; *Jálks mœrr*, sækonungs mýri, sjór; *skœr*, hestr; *Jálks mœrar skœr*, skip. — 4. *Ekkill*, sækonungsheiti; *Ekkils brautir*, sjór.

Sjö menn hafa höggvið nösum til jarðar; varmt blóð

(valdögg) féll til vallar. Munu eigi fleiri menn fœra skipið út, enn hingað (komu á því).

**II, 33., 122:** Hœlibörvar skjóma hljóms[1] megu hér séa merki dýrs dagverks daltangar[2], hvat fjórir drýgðu; enn ek hugða, Gunnar rœfrs hyrbrigðir[3], at gæfim griðbítum lítinn frið; hrafn sleit beitu af ná.

1. *skjómi*, sverð; *hœlibörvar skjóma hljóms*, hœlandi viðir sverðahljóms, mannkenning. — 2. *dalr*, bogi; *daltöng*, hönd. — 3. *Gunnar rœfr*, valkyrju þak, skjöldr: *Gunnar rœfrs hyrbrigðir*, mannkenning.

Hér megu menn sjá ágæt merki handaverks fjögurra manna á einum degi; ég hygg, at vér höfum gefið griðrofunum lítinn frið; hrafn át af náum (þeirra).

**II, 33., 122:** Unnum auðimönnum[1] dreyruga Gunnar serki[2]; ek á þunnan hjör; vér drýgðum verk at vígi. Herðilofðar[3] höfðu hildarborðs valfasta tungur[4] und skildi; hangvölum[5] þvarr hengihungr[6].

1. *auðimenn*, líkl. eyðingarmenn, spillvirkjar. — 2. *Gunnar serkr*, brynja. — 3. *herðilofðar*, herðimenn, hreystimenn. — 4. *hildarborð*, skjöldr; *valfasti*, eldr; *hildarborðs valfasta tunga*, sverð. — 5. *hangvalr* = hanga valr, hrafn. — 6. *hengihungr*, líkl. ákaft hungr (sbr. hanga niðr), ef orðið er rétt tekið saman.

Vér gerðum spillvirkjum blóðuga serki; ég á hvasst sverð; vér störfuðum að vígi. Hinir vösku menn höfðu sverð undir skjöldum sínum; hrafnar söddu hungr sitt.

**II, 33., 122:** Harðr vas gnýr þá es gørðum snarpa grjótvarps lotu, grá Þundar klæði[1] gengu sundr at sverðs söngvi, áðr hœkings viðir œki á hæl til hvíldar; þeir hlutu fleiri bana; hjaldrs hríð kom á skjöldu.

1. *Þundr*, Óðinsheiti; *Þundar klæði*, herklæði, brynjur. — 2. *hækingr*, sverð; *hækings viðir*, sverðaviðir, mannkenning.

Þá var harðr gnýr, er vér gerðum snarpa grjóthríð; hinar gráu brynjur gengu sundr í bardaganum áðr mennirnir hörfuðu undan. Fleiri af þeim hlutu bana. Hríðin kom (og) á skjölduna.

**II, 33., 122—23:** Heyri sára svan[1] gjalla of ná, þar es sigrstalls viðir[2] falla: benskári[3] drekkr blóðfalls báru. Örn fekk þar sylg[4], er segð-auðigr[5] Sleitu-Helgi felt[6] rauðu; enn greipr eru erni hræjum sveipðar.

1. *sára svanr*, hrafn. — 2. *sigrstallr*, skjöldr; *sigrstalls viðr*, mannkenning. — 3. *benskári*, hrafn (skári = már). — 4. *sylgr*, drykkr. — 5. *segð* = sekt? — 6. *felt* = faldaði.

Ég heyri (eða heyri þér) hrafn gjalla yfir ná, þar sem menn falla; hrafn drekkr blóðfallsöldu. Örn fekk þar drykk, er Sleitu Helgi faldaði rauðu (var drepinn); enn klær hans eru hræugar.

**II, 33., 123:** Ýtar álmþings[1] báru sáma[2] hjálma at móti oss upp af allþakkligum[3] ára blakki[4]; enn goðum leiðir beiðendr hauðrmens hliða[5] báru á braut rauðar skarar[6] til beitis[7], herðimeiðar[8].

1. *álmþing*, bogaþing, bardagi; *ýtir*, hrærandi; *ýtir álmþings*, mannkenning. — 2. *sámr*, dökkr. — 3. *allþakklegr* = allþekkilegr, fagr. — 4. *blakkr*, hestr; *árablakkr*, skip. — 5. *hliðr*, uxi; *hauðrmen*, sjór, *beiðandi hauðrmens hliða*, mannkenning. — 6. *skör*, höfuð. — 7. *beit*, skip. — 8. *herðir*, sverð; *herðimeiðr*, mannkenning.

Menn báru dökkva hjálma mót oss upp af hinu fagra

skipi; enn þeir báru blóðug höfuð til skips, leiðir goðunum, drengir!

**III 10, 145:** Manna morðkannaðir[1], mangi ísarnmeiðr[2] hugði annat enn almœrir[3] Æsir fœri þar, þá es synir harðfengs Hjalta gengu á Þorskafjarðarþing með ennitinglum holtvartaris[4].

1. *morðkannaðr*, sá er kannar morð, bardagamaðr. — 2. *ísarn* = járn (e. iron, þ. Eisen), *ísarnmeiðr*, mannkenning. — 3. *almœrr*, alfrægr; á að rita með æ, enn ekki œ, þótt hér sé svo ritað, vegna hendinga. — 4. *vartari*, fiskr, holtvartari, holtfiskr, ormr; *ennitingl holtvartaris*, einhver gullskrautskenning.

Bardagamenn, engi maðr hugði annað enn hinir alfrægu Æsir fœri þar, er synir hins harðfenga Hjalta gengu á Þorskafjarðarþing í gullskartinu.

**III, 13, 152:** Bøggvir[1] hjó fyr mér snöggvan belg, enn ál[2] ok verju fyr Óláfi, svá skal bøggvir verða höggvinn ef vér lifum, búinn við böl.

1. *bøggvir*, byggvir, bóndi. — 2. *ál*, ól. — 3. *verja*, yfirhöfn.

**III, 14., 154:** Atglamrandi hamra[1] lætr æ hví meira fork gjalla á glotkylli[2] Geirhildar, sem orkar. Hár járnstafr skapir kerlingar síðu œrna hríð á Hjaltaeyri; trolli eru sollin[3] rif.

1. járnsmiðr. — 2. *glot*, lögr (sbr. glœta). *glotkyllir*, belgr með lög í, hér vatnsbelgr. — 3. bólgin.

Járnsmiðr lætr ávalt járnstaf sinn, sem er hverju meiri, dynja á vatnsbelg Geirhildar eftir megni. Járnstafrinn gerir síðu kerlingar harða hríð; rif tröllsins eru bólgin.

**III, 16., 158:** Bároðr[1] of rístr báru brautland[2] varar andri[3].

1. Bároðr = Bárðr. — 2. *báru brautland*, sjór. — 3. *andurr*, skíð, *varar andurr*, skip.

**III, 16., 158:** Þessi vísa verðr hér eigi skýrð, því að hún á heima í Víga-Glúms sögu.

**III, 17., 160:** Kjólakeyrir[1], hér liggr Kaldakinn of aldr, enn vér höldum heilir á braut, Hjálmun-Gautr.

1. *kjóll*, einskonar skip; *kjólakeyrir*, skipstjóri.

**III, 17., 161:** Þessi vísa þarf eigi skýringar við.

**III, 19., 165—166:** Þessar vísur verða ekki skýrðar hér, því að þær eiga heima í Grettis sögu.

**IV, 4., 178:** Vér höfum áðr of fáða þar á vegg unga auðar Þrúði[1] með Þóri; þat var sett við glettu. Nú hefik ristit rastakarns Hlín[2] á ölbœkis hefti[3] mínu; ek réð mart við bjarta hauka skofts Syn[4].

1. *Þrúðr*, Ásynja, *auðar Þrúðr*, kvenkenning. — 2. *Hlín*, Ásynja, *rastakarn*, steinn; *rastakarns Hlín*, kvenkenning. — 3. *ölbœkis hefti; ölbœki* er líklega viðartegund, sem hnífskeftið hefir verið gert af. — 4. *Syn*, Ásynja; *haukaskoft*, hönd, *haukaskofts Syn*, kvenkenning.

Vér höfum áðr dregið líkneski hinnar ungu konu á vegg með líkneski Þóris; það var gert af glettni. Nú hefi ég ristið mynd hennar á hnífskefti mínu; ég hefi talað margt við þá konu.

**V, 10., 217:** Ek vas þar es Errubeinn fell til fyllar[1], es ítr-tungur unnar[2] sungu hátt; vinr dróttar sótti fram.

Ek gaf Óðni þróttardjarfan arfa Ásmóðar: guldum gálgavaldi[4] Gauts tafn[5], enn hrafni ná.

1. *fyllr* = fylli; að falla til fyllar = að falla til bráðar. — 2. einhver hluti sverðs; *ítrtungur unnar*, brandar. — 3. *drótt*, menn. — 4. *gálgavaldr*, Óðinn. — 5. *Gautr*, Óðinn; *tafn Gauts*, fórn til Óðins.

Ég var þar sem (Þorgrímr) errubeinn fell og varð að bráð, er brandar kváðu hátt við. Ég gaf Óðni hinn hrausta son Ásmóðar: vér guldum Óðni fórnina og hrafninum náinn.

**V, 10., 218:** Band er á hœgri hendi minni; ek hlaut sár af báru leygjar Tý[1]; ek lýg þat eigi, linnvengis Bil[2].

1. *leygr*, eldr, *báruleygr*, gull; báruleygjar Týr, mannkenning. — 2. *linnr*, ormr; *linnvengi*, gull. *linnvengis Bil*, Ásynja gulls, kvenkenning.

**Viðbœtir I, 232:** Snjallr á haug á hellu; Hjaldr á til kalda búð. Veki þér drótt dreyra í dag, nú es sigr á spjótum. Valdr[1] man hitt, at ek rauð hlæjandi blæju Hildar (ek nefni skjöld svá) fyrstr at rómu.

1. Þetta orð er annaðhvort mannsnafn, eða vísuorðið er aflagað. Það gæti verið: *Þat man Hjaldr at Hildar.*

Snjallr á haug á sjávarhellu; Hjaldr á of kaldan bústað. Ef þér vekið mönnum blóð (berizt) í dag, þá er nú sigr í vopnum. Ég man það, að ég rauð skjöld minn hlæjandi fyrstr allra að bardaga.

**Viðbœtir I, 232:** Hyllr branz[1], mín búð stóð hér, síz[2] hvárr brœðra gekk fyr annan ok heldum snjallir velli; fellum þá. Hjaldr hrósar hug fyr vísa; víg eru til sjaldan: þat gleðr oss at ek veit þik teitan gefa Viðri[4] val.

1. *hyllr,* viðartegund (d. Hyld, n Hyll); *hyllr brands,* mannkenning. — 2. *síz* = síð es = síðan er. — 3. *vísi,* konungr. — 4. *Viðurr,* Óðinn.

Maðr, haugr minn hefir staðið hér síðan við brœðr börðumst saman og heldum vígvelli, enn féllum. Hjaldr lofar hug konungs; víg eru of sjaldan, enn það gleðr oss að þú gengr glaðr fram í bardaga.



# Nöfn landnámsmanna.

# HARÐAR SAGA

OK

# HÓLMVERJA.


**ÞÓRLEIFR JÓNSSON**

GAF ÚT.





REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1891.

HANS KONUNGLEGU TIGN

# FRIÐRIKI DANAKRÓNPRINSI

er þessi saga tileinkuð.

Fetaðú, prins! í föður þíns spor,
er fylkir verðrðú' á grundu Dana.
þú sem átt býsn af byrði Grana.
og gott hefir hjarta. gáfur og þor.
Vor Íslendinga skjól og skjöldr ver.
skulum þá sýna trúnað jafnan vér:
enn svo eru þengill og þegnar bestir,
að þeira á meðal sé öngvir brestir.

Allralotningarfyllst

**Þórleifr Jónsson.**

## FORMÁLI.

Harðar saga og Hólmverja er og kölluð í handritunum „Harðar saga Grímkelssonar“ og „Harðar saga Grímkelssonar og Geirs“. Aðeins eitt fullkomið skinnhandrit er til af sögu þessarri í handritasafni Árna Magnússonar í Kaupmannahöfn (AM. 556, A. 4°), og er það talið ritað rétt eftir Svartadauða (um 1400). Á þessu skinnhandriti eru alls þrjár sögur, netnil. þessi, Grettis saga og Gísla saga Súrssonar, ɔ: sögur hinna þriggja merkilegustu útlaga á Íslandi í fornöld. Handrit þetta er mjög skírt og fallegt, enn fáeinar villur koma fyrir í því, sem eðlilegt er, þar sem það er svo ungt að tiltölu.

Auk þessa er til mesti fjöldi pappírshandrita af sögu þessarri. Níu þeira eru í safni Árna (AM. 147, fol.; 153, fol.; 157, G. fol.; 160, fol.; 165, E. fol.; 217, B, fol., 486, 4°; 499, 4°; Rask 52, 36), fimm eru á Konungsbókasafni í Höfn (1193, Suhm, fol.; 623, Kall, 4°, 976, Thott, fol.; 984, Thott, fol.; 1758, Thott, 4°); í Konungsbókasafni í Stokkhólmi fjögur (Nr, 4, 4°; 6 4°: 59, fol.; 60, fol. [vísurnar]); og í handritasafni Bókmentafélagsins eitt

# TÍMATAL.

896. Fœddr Grímkell goði Bjarnarson.
925. Kvæntist Grímkell goði í fyrsta sinni Rannveigu Þórbjarnardóttur.
927. Fœdd Þuríðr Grímkelsdóttir.
928. Dó Rannveig Þórbjarnardóttir.
944. Gekk Grímkell goði að eiga Signýu Valbrandsdóttur.
947. Fœddr Hörðr Grímkelsson.
949. Fœddr Geirr Grímsson.
950. Fœdd Þórbjörg Grímkelsdóttir; deyr Signý Valbrandsdóttir.
951. Deila Torfa Valbrandssonar og Grímkels goða.
959. Illugi Hrólfsson fær Þuríðar Grímkelsdóttur.
965. Útanför Harðar og Geirs.
968. Hörðr fær Helgu jarlsdóttur.
969. Kom Geirr úr útanför.
970. Indriði Þórvaldsson gekk að eiga Þórbjörgu Grímkelsdóttur um sumarið. Skömmu síðar varð Grímkell goði bráðkvaddr.
980. Kom Hörðr úr útanför.
983. Fell Hörðr í sekt.
986. Fall Harðar og Hólmverja.



# Hér hefr Hólmverja sögu.

Á dögum Haralds hins hárfagra bygðist mest Ísland, því at menn þoldu eigi ánauð hans ok ofríki, einkanliga þeir sem voru stórrar ættar ok mikillar lundar, enn áttu góða kosti, ok vildu þeir heldr flýja eignir sínar, enn þola ágang ok ójafnað, eigi heldr konungi enn öðrum manni. Var einn af þeim Björn gullberi. Hann fór ór Orkadal til Íslands ok nam Reykjardal hinn syðra frá Grímsá til Flókadalsár, ok bjó á Gullberastöðum. Hans synir vóru þeir: Svarthöfði, Geirmundr, Þjóstólfr, ok koma þeir ekki við þessa sögu. Hinn elsti son Bjarnar hét Grímkell; hann var bæði mikill ok sterkr. Björn gullberi gerðist mikill maðr fyrir sér ok auðigr at fé. Grímkell Bjarnarson bað Rannveigar Þórbjarnar-

dóttur ór Arnarholti, ok fekk hennar, ok váru ekki lengr ásamt, ok varð hon sóttdauð. Þau áttu eftir dóttur, er Þuríðr hét. Hon fæddist upp með þeim manni, er Sigurðr múli hét; hann bjó undir Felli. Hon var væn kona ok hög á hendr, ok nökkut harðlynd; var hon þó vinsæl.

2. Grímkell bjó fyrst suðr at Fjöllum, skamt frá Ölfusvatni. Þar er nú kallat á Grímkelsstöðum ok eru nú sauðahús. Grímkell átti vítt goðorð. Hann var auðigr maðr ok höfðingi hinn mesti, ok kallaðr ekki um alt jafnaðarmaðr. Hann færði bú sitt eftir konu sína dauða til Ölfusvatns, þvíat honum þótti þar betri landakostir. Hann bjó þar síðan alla stund meðan hann lifði. Hann var kallaðr Grímkell goði. Högni hét maðr ok bjó í Hagavík, skamt frá Ölfusvatni; Þórbjörg hét kona hans; þau áttu dóttur þá er Guðríðr hét; hon var væn kona ok vinsæl. Högni var ættsmár ok var þó vel at sér; enn Þórbjörg kona hans var sýnu ættstœrri, ok kom þó vel ásamt með þeim. Högni var vel fjáreigandi. Valbrandr hét maðr er bjó á Breiðabólstað í hinum nyrðra Reykjardal; hann var sonr Valþjófs hins gamla. Torfi hét son Valbrands. Þeir feðgar höfðu goðorð. Torfi var vitr maðr ok víðfrægr. Þar óx sá maðr upp með þeim feðgum, er Sigurðr hét,

ok var Gunnhildarson; hann var skyldr Torfa at frændsemi; hann var kallaðr Sigurðr Torfafóstri; hann var hinn efniligasti maðr ok gerr at sér um flestar iþróttir. Annat barn átti Valbrandr; þat var dóttir, er Signý hét; hana átti Þórgeirr ór Miðfelli sonr Finns hins auðga Halldórssonar, Högnasonar; hann var þá andaðr, er sjá saga gerðist. Grímr hét son þeira, efniligr maðr, ok óx upp með móður sinni. Signý bjó á Signýjarstöðum, skamt frá Breiðabólstað. Hon var skörungr mikill, skjótorð ok skapstór ok harðúðig í öllu. Þar óx upp sá maðr með henni, er Grímr hét; hann var kallaðr Grímr hinn litli; hann var fóstri Signýar, ok mikilsháttar maðr, skjótlátr ok skynjugr um flest. Kollr Kjarlaksson bjó þá á Lundi í Reykjardal hinum syðra; hann var höfðingi mikill.

3. Maðr hét Þórvaldr, er bjó á Vatnshorni í Skorradal, mikill maðr ok sterkr; kona hans hét Þórgríma ok var köllut smiðkona, fjölkunnig mjök. Indriði hét son þeira, mikill maðr ok efniligr. Þórgríma lifði lengr þeira hjóna. Enn þá er hon var ekkja orðin, bjó hon í Hvammi í Skorradal; hon gerðist auðig kona ok mikil fyrir sér. Þat er sagt eitt sumar sem oftar, at Grímkell goði reið til þings, ok einnhvern dag gekk hann frá búð

sinni með flokk mikinn manna, ok til búðar Valbrands, ok inn í búðina. Valbrandr fagnaði honum vel, þvíat Grímkell var honum kunnigr áðr; setjast þeir niðr ok tóku tal með sér. Grímkell mælti: „Þat er mér gerla sagt, Valbrandr, at þú eigir þér dóttur þá, er Signý heitir, ok sé skörungr mikill; vil ek biðja hennar, ef þú vilt gifta mér hana“. Valbrandr svarar: „Kunnigt er oss, at þú hefir ætt góða ok auð fjár, ok ert sjálfr garpr hinn mesti; vil ek þessu vel svara“. Lýkr þeira tali svá, at Valbrandr fastnar Grímkeli goða Signýu dóttur sína; enn boð skyldi vera at tvímánaði suðr at Ölfusvatni. Torfi Valbrandsson var eigi á þingi. Ok er Valbrandr kom heim af þingi, sagði hann Torfa syni sínum tíðindin. Torfi svarar: „Alllítils þykkja yðr verðar mínar tillögur, er mik skyldi ekki at spyrja slíku, enda þykki mér ekki ráð þetta, er þú hefir sét fyrir dóttur þinni, jafnvirðuligt sem þér þykkir vera; mun Signýu þetta verða ekki mikit til yndis, er maðr er bæði gamall ok harðráðr“. Torfi kvað þá vísu:

Gift hefir þorna þoftu
(þegn nam slíkt at fregna),
gamall benhríðar beiðir
brynfatla Grímkatli.
Auðs nam yndi ok blíðu
einfeldr Njörun steina;

get'k at gera man litit
gamalmenni þat henni.

Spurði Signý nú gjaforð sitt ok lét sér fátt um finnast. Ok er þau Torfi ok Signý systkin finnast, lætr hann sér ekki um ráðahag þenna. „Er ást mikil“, segir hann, „okkar í millum; er mér ekki um, at þú ráðist ór heraði á burt með fé þitt“. Hon svarar: „Ek sé hér gott ráð til, bróðir; bregð þú ekki ráðahag þessum; enn ek mun handsala þér fé mitt alt á þann hátt, at þú skalt gjalda heimanfylgju mína, slíka sem faðir minn hefir ákveðit, ok mun þat vísliga tuttögu hundraða munr; vil ek þat gefa þér til vingunar, útan gripi mína tvá, þá er ek hefi mestar mætr á: er þat annat men mitt hit góða, enn annat hestr minn Svartfaxi“. Torfi lét sér þetta vellíka, ok mælti þá vel til hennar.

4. Nú búast menn til brúðkaupsferðar. Kollr frá Lundi var boðinn til brúðkaupsins einnhverr virðingamestr. Hann báðu þeir feðgar vera fyrir boðsmönnum, þvíat Valbrandr var svá gamall, at hann nenti ekki at fara; enn Torfi vildi ekki fara. Kollr réðst til ferðar með brúðinni ok váru saman þrírtigir manna. Þau gistu at Þverfelli í Reykjardal hinum syðra. Grímr hinn litli fóstri Signýar skyldi geyma hrossa á gistingunni, ok um morgininn, er hann leitaði, fann hann

eigi Svartfaxa hest Signýar. Grímr fór þá at leita norðr yfir háls til Flókadals; gekk hann eftir döggslóð. Hann fann hestinn dauðan í jarðfalli þar í dalnum. Hann tók af fjötur, er hann hafði haft á honum um nóttina, ok fór síðan aftr, ok segir Signýu, at hestr hennar var dauðr hinn góði, ok hversu til hafði borit. Hon svarar: „Þetta er ill furða, ok mun eigi gott á vita; vil ek aftr hverfa, ok ekki fara lengra“. Kollr kvað þat ógeranda, ok ei*gi* duga af bregða ferð sinni þvílíkri fyrir þessa sök; ok svá varð at vera sem Kollr vildi; ok fara þau öll saman, ok kómu þau til Ölfusvatns, ok hafði Grímkell þar margt fyrir boðsmanna; var þar veisla hin prýðiligasta; fór hon vel fram ok sköruliga. Eftir aflíðna veisluna fór Kollr í burt ok aðrir boðsmenn; enn Signý var þar eftir ok fóstra hennar, er Þórdís hét, ok Grímr hinn litli. Grímkell hafði gefit Koll góðar gjafir, ok talaði vináttusamliga við hann; enn þótti þeir feðgar sýnt óvirða sitt mál, er þeir sóttu eigi brúðkaupit; spurði hann ok vísuna Torfa, ok gat ekki atgert; gerðist þar nú fátt á milli. Grímkell var stirðlyndr, enn Signý fálát, ok varð fátt um með þeim, þvíat þau máttu ekki vini saman eiga; nema Grímr hinn litli; hann gat svá gert, at þeim báðum líkaði vel. Leið svá fram hit fyrsta ár.

5. Grímr hinn litli kom at máli við Signýu um várit; segist hann vilja á burt fara; „þykki mér vant ykkar á milli at ganga", segir hann, „enda er svá best at skilja, at hvárumtveggjum getist vel at". Signý mælti: „Tala þú þetta fyrst við Grímkel, ok haf hans ráð við, þvíat þá muntú fá betri kosti; enn ek vilda gjarna at þú hefðir góða kosti; enn mér virðist hann vera vel til þín". Nú gerir Grímr svá, at hann talar við bónda; segist vilja í burtu fara, ef hann vill þat samþykkja. Grímkell svarar: „Þat er mitt ráð, at þú sért heima; skaltú ok hafa betri kosti enn áðr, þvíat mjök þarftú við Signýar, enn vit þurfum þín mjök til umbóta skapsmuna okkarra". Ok svo gerði Grímr, at hann var heima þau misseri, ok gatst þeim báðum vel at honum. Enn um várit eftir talaði Grímr við bónda, at hann vildi fyrir víst á burtu; enn Grímkell mælti heldr á móti. „Þá bið þú Guðríðar Högnadóttur til handa mér", segir Grímr, „ef þú vilt at ek sé hjá þér". Grímkell svarar: „Dýrr gerist þú nú, þvíat hér er mannamunr mikill; þú ert félítill, enn Högni er auðmaðr mikill". Grímr mælti: „Vel máttú þó þessu ráða". Grímkell svarar: „Prófa má ek þetta". Hann ferr nú í Hagavík, ok er honum þar vel fagnat. Hann biðr nú Guðríðar til handa Grími: „er þat frá

manni at segja, at hann er vitr maðr ok vel at íþróttum búinn; mun hann ok vera þarfr búi, ok miklu á leið koma því er þar hentar til; enn þú tekr fast at eldast, ok sýnist mér þér slík mægð hentug". Högni svarar: „Oft hefir þú leitat mér meiri virðingar enn svá nökkut; enn þær mœðgur skulu hér mestu um ráða". Grímkell kvað þau skyldu ekki mikit fé þurfa fram at leggja: „skal hér ok ekki ríkra við liggja, enn þú skalt sjálfr ráða dóttur þinni fyrir mér; enn vel segir *mér* hugr um Grím, at hann verðr nytjamaðr; eigi þarf hér langt um at tala". Þat verðr at lyktum máls þeira, at Grímr fær Guðríðar; var boð þeira at Ölfusvatni, ok fór þat vel fram. Váru samfarir þeira góðar; váru þau þar um vetrinn, ok gatst þar hverjum at vel við aðra. Enn um várit vildu þau Grímr á burt fara. Sagði hann Signýu, enn hon bað hann segja til Grímkels, ok kvað þá mundu alt best fara, ef hann léti Grímkel ráða. Nú vekr hann til við bónda, at hann vill í burt fara. Grímkell svarar: „Þat ætla ek nú ráð, at gera þér þetta hallkvæmt, ok láta þik þessu ráða, þvíat þat er líkligt, at þú verðir þrifamaðr". Grímr keypti þá land suðr frá Kluftum, er hann kallaði á Grímsstöðum, ok bjó þar síðan. Grímkell fekk öll búsefni Grími, enn Högni galt fyrir landit. Grímr

rakaði brátt fé saman; váru tvau höfuð á hvívetna, því er hann átti; var hann skjótt hafðr í hinni bestu bóndatölu.

6. Þat er sagt, at Signýu Valbrandsdóttur dreymdi draum einn. Hon þóttist sjá tré eitt mikit í rekkju þeira Grímkels, fagrt mjök ok svá rótmikit, at í öll húsin heima þar á bœnum tóku rœtr trésins, enn ekki þótti henni blómit svá mikit á vera sem hon vildi. Hon sagði drauminn Þórdísi fóstru sinni, enn hon réð svá, at þau Grímkell mundu barn eiga, ok mundi þat vera mikit ok virðuligt; kveðst hon hyggja þat svein vera, ok mun mörgum þykkja mikils um hann vert sakir framkvæmdar sinnar: „enn ekki kœmi mér þat á óvart, þó at eigi stœði hans hagr með hinum mesta blóma áðr lúki, sakir þess at þèr þótti tréit þat hit mikla eigi með svá miklum blóma sem þú vildir, ok ekki er víst, at hann hafi mikit ástríki af flestum frændum sínum“.

7. Litlu síðar fœddi Signý sveinbarn; sá var Hörðr nefndr. Hann var snemma mikill vexti ok vænn at áliti, enn ekki dáliga bráðgerr fyrst í því, at hann gekk eigi einn saman, þá er hann var þrévetr at aldri; þetta þótti mönnum kynligt ok eigi bráðgerfilegt, svá sem hann var frágerðamaðr at öllu öðru. Ok þann dag, er hofhelgi var haldin at Ölfusvatni, því at Grímkell var blótmaðr mikill,

sat Signý á stóli sínum á miðju stofugólfi; bjóst hon þá um, ok lá men hennar hit góða í knjám henni. Sveinninn Hörðr stóð við stokk, ok gekk nú hit fyrsta sinni frá stokkinum ok til móður sinnar, ok rasaði at knjám henni; menit hraut á gólfit fram ok brast í sundr í þrjá hluti. Signý reiddist mjök ok mælti: „Ill varð þín ganga hin fyrsta, ok munu hér margar illar eftir fara, ok mun þó verst hin síðasta“. Hon kvað vísu:

Braut í sundr fyr sætu
Sírnis hljóða men góða;
ýta trú'k at engi bœti
auðar hlíði þat síðan.
Gangr varð-*a* góðr ins unga
gulls lystis inn fysti;
hverr man heðan af verri,
hn*ep*str man þó inn efsti.

Grímkell kom í því í stofuna ok heyrði, hvað hon kvað. Hann greip upp sveininn þegjandi ok reiddist mjök þessum orðum, ok kvað vísu:

Auðs hefir átta beiðir
ógóða sér móður;
hann nam fyrst at finna
fljóðs nýgenginn jóða
bræðiorð, þau er beiðir
brennu sjós man kenna;
atkvæði lifa lýða
lengr enn nökkurr drengja.

Svá var Grímkell reiðr vorðinn, at hann vildi

eigi at sveinninn væri heima þar. Hann ferr ok hittir Grím ok Guðríði, ok biðr þau taka við Herði ok fœða hann þar upp. Þau kváðust þat gjarna vilja, ok tóku fegin við, ok þótti góð sending í vera. Einum vetri fyrr höfðu þau Grímr ok Guðríðr son átt, er þau létu Geir heita; hann var snemma mikill ok vænligr ok vel at íþróttum búinn, þess at hann skorti þó um alt við Hörð. Uxu þeir nú upp báðir samt, ok varð skjótt ástúðigt með þeim. Signý undi nú verr eftir þetta enn áðr, ok var nú sýnu færa með þeim Grímkatli enn fyrr. Enn dreymdi hana draum, at hon sæi tré eitt mikit sem fyrr, í rótum mest, limamargt ok gerði á blóm mikit. Þann draum réð fóstra hennar enn til barngetnaðar þeira á milli, ok mundi vera dóttir, ok lifa eftir ætt stór, er henni sýndist limamargt tréit: „enn þar er þér þótti þat bera blóma mikinn, mun merkja siðaskifti þat, er koma mun, ok mun hennar afkvæmi hafa þá trú, sem þá er boðin, ok mun sú betri“.

8. Eftir þing um sumarit bað Signý Grímkel, at hann leyfði henni at fara norðr til frænda sinna. Hann kveðst þat mundu leyfa henni, enn sagði, at hon skyldi eigi vera lengr enn hálfan mánuð. Tveir húskarlar fóru með henni ok Þórdís fóstra hennar; þau riðu norðr í Reykjardal. Torfi tók allvel við

þeim, ok bað at hon væri þar um vetrinn, ok þótti ella ástleysi áfinnast við sik. Hon kvað sér hálfan mánuð lofat burt at vera, enn eigi lengr. Torfi kvað ekki á því liggja. Hon lét þá at bœn hans ok eggjan. Þau fóru þá heimboðum um vetrinn, ok er þau váru at heimboði niðri í Bœ, varð fóstra Signýar bráðdauð, ok er jörðut í Þórdísarholti; þat er skamt frá Bœ. Mikit þótti Signýu þetta; fór síðan heim á Breiðabólstað. Ok litlu síðar fekk Signý sótt, þá er hon skyldi léttari verða, ok horfði þar mjök þungliga um sóttarfar hennar. Torfi talaði við hana: kvað sér illa hug sagt hafa um hennar gjaforð; lét sér ok mjök hugstœtt til Grímkels alla stund verit hafa. Hon kvað eigi ólíklegt at til mikils drœgi um. Hon fœddi meybarn bæði mikit ok jóðligt. Torfi vildi eigi láta vatni ausa barnit fyrr enn reiddist um líf Signýar; hon andaðist þar þegar á sænginni. Þá gerði Torfi sik svá reiðan, at hann vildi láta barnit útbera. Hann bað Sigurð fóstra sinn taka við barninu, ok fara með þat til Reykjardalsár ok tortíma því þar. Sigurðr kvað þetta allilla gert vera, enn nenti þó eigi at synja Torfa þessa. Sigurðr tók nú við barninu ok fór vegar síns; honum sýndist vænligt barnit, ok því nenti hann eigi at kasta því út á ána. Hann snýr nú upp til

Signýarstaða, ok leggr þar niðr barnit í garðshliði, ok þótti líkligt, at þat mundi brátt finnast. Grímr bóndi stóð úti undir húsgafli, Signýarson; hann sá þetta, gengr til ok tekr upp barnit, ok hefir heim með sér, ok lætr Helgu konu sína bregðast sjúka, ok segja hana hafa fœdda mey þessa. Hann lét ausa vatni ok nefndi Þorbjörgu. Grímr fór heiman til Breiðabólstaðar; hann sá margt manna fara ór garði; þar var fylgt líki Signýar til graftar. Torfi sagði Grími andlát móður sinnar, „ok vil ek *lúka þér fé hennar öll;* enn þó ættu vær Grímkatli at gjalda þat fé, enn vær viljum þó allvel til þín gera". Grímr kvað hann vel segja. Síðan jörðuðu þeir Signýu, ok gengu frá síðan. Nú finnast þeir Sigurðr ok Grímr; segist Sigurðr vita, at Torfi muni leggja reiði á hann, þegar hann veit, at hann hefir líf gefit barninu. „Ek kann þar ráð til", segir Grímr, „ek skal koma þér útan ok launa þér svá þat happ *er* þik hendi". Ok svá gerði hann; sendi hann Sigurð suðr á Eyrar ok fekk honum tvá hesta, ok váru klyfjar á öðrum; þar fór hann útan. Annan dag eftir kom Torfi til Signýarstaða, ok spurði, hví Helga lægi, því*at* hann vissi ekki ván vanheilsu hennar. Hann kendi nú barnit hjá henni ok mælti: „Allmikil dirfð er á slíku, er þit þorit upp at fœða barn þat, er ek lét útbera".

Helga svarar: „Allnáit var barn þetta Grími, ok var várkunn á, þótt hann byrgi því“. Þá spurði Torfi, hvar Grímr væri. Hon kvað hann genginn til verkmanna. Þangat fór Torfi ok hitti Grím; lét Torfi hit versta, ok kvað Grím firna-djarfan verða sér, ok spurði, hvat hann vissi til Sigurðar; kvað hann ills verðan fyrir þat, at hann hafði rofit skipan hans; lét Grímkel makligan þvílíkrar svívirðingar frá sér. Grímr kveðst sent hafa Sigurð vestr í Fjörðu til skips. Torfi varð reiðr við þat; hann tók meyna, ok nenti eigi at láta drepa hana; þvíat þat var morð kallat, at drepa börn frá því er þau váru vatni ausin. Hann hefir meyna heim ok selr til fóstrs ambátt nökkurri, ok ekki fekk hann henni til klæða, ok ekki vildi hann taka af verkum ambáttarinnar.

9. Sigmundr hét maðr; hann gekk yfir á húsgang ok kona hans ok sonr, er Helgi hét. Oftast váru þau í gestahúsi þar sem þau kómu, nema Sigmundr veri inni til skemtanar. Þetta hit sama haust kómu þau Sigmundr til Breiðabólstaðar. Tók Torfi vel við þeim ok mælti til þeira: „Ekki skulu þit í gestahúsi vera, þvíat mér líst vel á þik, Sigmundr, ok heldr gæfusamliga“. Hann svarar: „Ekki mundi þér þat missýnast, þóat þat væri at þér syndist svá“. Torfi kveðst mundu gera sœmd til

hans, „því at ek mun þiggja at þér barnfóstr". Sigmundr svarar: „er okkar sá mannamunr, þóat ek fóstra þér barn, því at þat er talat, at sá sé minni maðr, er öðrum fóstrar barn". Torfi mælti: „Þú skalt fœra meyna til Ölfusvatns". Þessu játar Sigmundr; tekr hann nú við Þórbjörgu, ok bindr hana á bak sér, ok ferr á burt síðan. Þetta þóttist Torfi gera alt til svívirðingar við Grímkel, enn þótti þessi maðr velfallinn til at bera meyna á rekning; vildi hann ok ekki hætta hér betra manni til enn Sigmundi, því at honum þótti eingis örvænt fyri Grímkatli, ef sá maðr hefði fœrt honum barnit, at honum hefði nökkur hefnd í þótt. Sigmundi varð nú gott til gistingarstaða, því at allir þóttust skyldir at gera vel við meyna ok þá sem með henni fóru, hvar sem hon kom, ok því vildi Sigmundr fara hinn lengsta veg; hann fór út um Andakíl ok Melahverfi ok alt hit ytra um Nes öll, enn útan um Grindavík ok Ölfus. At aftni eins dags kómu þau Sigmundr til Ölfusvatns; var Sigmundr vátr ok frosinn mjök; hann settist útarliga; enn Grímkell sat í rúmi sínu ok hafði sverð um kné sér. Hann spurði, hvat komit væri. Sigmundr svarar: „Hér er kominn Sigmundr barnfóstri þinn, bóndi sæll, ok Þórbjörg dóttir þín; er hon allra barna best". Grímkell mælti: „Heyrit, hvat göngumaðrinn

segir; þú mundir vera barnfóstri minn, allra stafkarla armastr; ok eigi er einskonar fjandskapr Torfa við mik; deyddi hann fyrst móðurina, enn rak nú barnit á húsgang“. Grímkell kvað þá vísu:

Trauðr var-*a* Torfi at deyða
tvinna skorð ok borða;
hann gerir hróp at sönnu
hjörlestis í flestu.
Sendi sviftir branda
silfrkers Gná þessa
á rekning at röngu;
raun er mál at launa.

Alla vissi Grímkell ráðagerð Torfa, ok því vildi hann ekki at mærin væri þar eftir. Grímkell bað Sigmund dragast á burt sem skjótast, nema hann vildi vera lamdr ok bíða svá hins verra. Þau urðu nú þegar á burt at fara með meyna. Þau fóru um Grímsnes ok um Laugardal, ok lögðu nú órœkt á barnit, þvíat þau þóttust eigi vita, at þau mundu því nökkurn tíma af hendi koma. Þeim varð nú ilt til gistingarstaða. Þóttist Sigmundr nú yfir flugu ginit hafa, er hann tók við meynni af Torfa. Þau kómu til Grímsstaða einn dag til dögurðar; segja þau Grími at þau fóru með ungt barn. Grímr kveðst sjá vilja barn þat hit unga, er menn gera nú mest orð á. Sigmundr kvað mikit fyrir at leysa upp barnit, enn sagði þat þó ekki gott

mundu at hugga eftir. Grímr kvað ekki skyldu at því gaum gefa; var barnit nú upp leyst ok sýnt Grími. Hann mælti þá: „Þetta er sannliga barn Signýar; hennar hefir augun, ok mundi hon þat ætla mér, at ek munda eigi láta með húsum ganga barn hennar, ef ek mætta at gera; enn mikla skömm vill Torfi gera öllum frændum barns þessa, ok jafnvel sjálfum sér; nú mun ek, Sigmundr, taka af þér barn þetta ok þenna ómaga". Hann varð því allfeginn. Þar váru þau þann dag, enn fóru síðan ofan Botnsheiði. Þess gátu margir, at Grímr mundi sik í hættu hafa við Grímkel goða um þetta mál, sakir ofrkapps hans.

**10.** Um fardagaskeið reið Grímkell goði heiman út í Ölfus um Hjalla, enn útan um Arnarbœli ok upp eftir Flóa í Oddgeirshóla; þaðan í Grímsnes ok gisti í Laugardal, ok svá heim. Hann stefndi öllum bœndum á sinn fund til Miðfells, þeim sem þá hafði hann hitt, á tveggja nátta fresti, þvíat Grímkell hafði goðorð yfir þessum sveitum öllum. Til Miðfells kómu sextigir þingmanna hans. Grímkell segir þeim nauðsynjamál sitt við Torfa, ok kveðst ætla at fara stefnuför til Torfa. Öllum þótti þat várkunn. Þeir riðu um Gjábakka, svá um Klufta ok um Ok; svá hina neðri leið ofan hjá Augastöðum, ok svá á Breiðabólstað. Torfi var eigi heima, ok var

farinn upp í Hvítársíðu. Grímkell stefndi Torfa um fjörráð við Þórbjörgu ok um heimanfylgju Signýar; hann stefndi málunum til alþingis, ok reið heim síðan, ok var nú fátt fjölrœðara enn um mál þeirra Grímkels ok Torfa. Enn er Grímr hinn litli spyrr þetta, ferr hann heiman út í Reykjarvík á fund Þórkels mána lögsögumanns. Þeim varð talat um mál þeira Grímkels ok Torfa; spyrr Grímr, hvat hann ætli, hvern enda eiga muni með þeim. Honum kveðst þykkja horfa óvænliga, þar sem kappgjarnir áttu hlut í. Grímr mælti: „Gjarna vilda ek at þú ættir hlut at sættum með þeim, því at þú ert bæði vitr ok góðgjarn“. Þórkell svarar: „Vel ferr þér eftirleitin ok góðmannliga, ok í því skal ek heldr hlut eiga, at þeir sættist“. Grímr mælti: „Ek vil gefa þér fé til þess, at þú sættir þá“. Hann helti í kné honum hundraði silfrs, ok þakkaði honum heit sín, er hann ætlaði at sætta þá. Þórkell kvað honum vel fara: „enn skil þú þat, at ek vænti þér sættinni, enn ek heit eigi“. Grímr svarar: „Þat er meira vert, er þú væntir, enn þótt flestir menn aðrir heiti til fulls“. Grímr fór á burt eftir þetta. Líðr nú framan til þings; koma þá hvárirtveggju mjök fjölmennir. Grímr var á þingi; hann fór at hitta Þórkel mána ok bað hann leita um sættir; kvað hann mundu fá af því mikinn

sóma, ef hann gæti sætt þá höfðingjana. Þórkell gerði nú svá; hann fór fyrst at finna Grímkel goða, ok vakti til við hann um málin. Grímkell svarar: „Þat er skjótt at segja, at um öll skifti vár jafnsaman ok fjandskap Torfa við mik vil ek eingis gerð á hafa, nema mín sjálfs, nema því at eins, at þat sé skilit undir niðri, at hann gjaldi eigi minna enn tólf hundruð þriggja álna aura“. Þórkell bauð þá at gera um með þeim; „enn sjá megi þit, hvat er við liggr; enn er berr ófriðr, ef þit sættist eigi, enn vær munum þeim veita, er meir gerir at várum orðum, ok vár orð vilja nökkurs virða, ok er þat meira vert enn þat, sem hér stendr á milli“. Grímkell mælti þá: „Því játa ek, at Þórkell dœmi um málit; hann er kunnigr at allri réttvísi“. Nú sér Torfi at þetta eitt hœfir; segist nú ok þessu játa. Þórkell mælti: „Þat er mín ummæli ok gerð, at Torfi greiði Grímkatli sex hundruð þriggja álna aura, ok leigi sex vetr, ok gjaldi þá tólf hundruð“; lést þá hafa gert sem honum sýndist réttligast. Grímkell svarar: „Líka mun ek mér láta þessa gerð, með því at ek hefi sjálfr undir lagit; enn minnkað þykki mér allmjök málin; skal þetta fé eiga Hörðr son minn, ok hafa þat í móðurarf sinn“. Torfi kveðst eigi mundu gjalda Herði þetta fé, nema hann yrði eigi verrfeðrungr. Grímkell kvað

eigi þat víst vita mega, hversu þat vildi verða, enn kv*að* Herði önga bót í því, þótt almælit sannaðist, þat at móðurbræðrum yrði menn líkastir: „því at þú ert eigi einhamr, ok þætti mér honum þat verra enn ekki at hafa þat af þér“. Þá varð óp mikit. Illa líkaði hvárumtveggja gerðin, ok var þó haldin at kalla. Liðu af þau missari ok kómu önnur til. Þá bað Grímkell sér konu, Sigríðar Þórbjarnardóttur af Skálmarnesi; var því máli vel svarat, þvíat maðr þótti göfigr ok ættstórr, þóat hann væri nökkut hnignandi; var hon honum gefin; var boð þeira at Ölfusvatni, heima at Grímkels; fór þat vel fram ok sköruliga. Þeira samfarir urðu allgóðar; sat Grímkell nú um kyrt.

**11.** Illugi hét maðr, er bjó at Hólmi á Akranesi. Hann var son Hrólfs hins geitlenska, Úlfssonar, Grímssonar hins háleyska. Bróðir Illuga var Sölvi, faðir Þórðar, föður Magnús*ar* prests í Reykjaholti. Systir Illuga var Halldóra, er átti Gissurr hvíti, móðir Vilborgar, móður Jórunnar, móður Guðrúnar, móður Einars, föður Magnús*ar* biskups. Illugi var mikill maðr ok sterkr, ok hafði auð fjár. Hann fór til Ölfusvatns bónorðsför, ok bað Þuríðar dóttur Grímkels, er hann átti við hinni fyrstu konu sinni. Grímkell tók þessu vel, þvíat honum var Illugi kunnigr; fóru þar

festar fram. Eigi var Hörðr hjá þessu kaupi. At tvímánuði skyldi brúðlaupit vera heima at Ölfusvatni. Enn er kom at þeiri stefnu, bjóst Illugi at heiman við þrjá tigu manna til brúðlaups síns. Með honum var Þórsteinn öxnabroddr ór Saurbœ, mikill bóndi, ok Þórmóðr ór Brekku af Hvalfjarðarströnd. Þeir fóru yfir fjörð til Kjalarness, ok fyrir norðan Mosfell, ok svá upp hjá Vilborgarkeldu, þaðan til Jórukleifar, ok svá til Hagavíkr, ok svá heim til Ölfusvatns, ok kómu snemma dags. Illugi mælti: „Hvar er Hörðr, er ek sé hann eigi, eða er honum ekki boðit?“ Grímkell kvað honum vera sjálfboðit: „enn ekki hefir ek nefnt hann sérliga til þess“. Illugi svarar: „Þat samir þó eigi“. Hann ríðr á Grímsstaði; þar váru aftr hurðir; þeir drápu á dyr. Geirr gekk til hurðar og spurði, hverir komnir væri? Illugi segir til sín, ok spurði at Herði. Geirr kvað hann vera inni. Illugi mælti: „Bið þú hann út koma, þvíat ek vil finna hann“. Geirr gekk inn ok kom út, sagði Hörð liggja ok vera sjúkan. Illugi gekk inn, þvíat Hörðr vildi eigi út ganga. Illugi mælti: „Með hverju móti er sótt þín, Hörðr?“ Hann kvað vera ekki mikla. Illugi mælti: „Gjarna vilda ek, at þú fœrir til boðs míns með mér, ok legðir vináttu til mín“. Hörðr kvað hann þetta hafa mátt fyr mæla, ef hon-

um þœtti allmikit undir: „vil ek hvergi fara, þvíat lítt hafi þér mik at þessum málum kvatt“. Illugi fær ekki af Herði útan stór orð; hann ríðr á burt við svá búit. Litlu síðar mælti Geirr til Harðar: „Þat er meiri sómi, at vit förum til boðsins; mun ek sœkja okkr hross“. Hörðr kvað sér ekki um. Geirr mælti: „Ger at bœn minni, enn at sóma þínum“. Hörðr gerði nú svá. Ríða þeir þá eftir þeim; ok er þeir fundust, varð Illugi allkátr, ok lét ekki á sér finna stóryrði Harðar. Þeir riðu nú til boðsins, ok var þar vel við þeim tekit. Hörðr sat á aðra hönd Illuga. Veislan fór vel fram ok sköruliga. Riðu þeir allir samt frá boðinu, alt til Vilborgarkeldu; þar skildust götur. Þá mælti Illugi: „Nú munu vit, Hörðr, hér skiljast, ok vilda ek at vingott væri með okkr, ok hér er skjöldr, er ek vil gefa þér“. Hörðr svarar: „Œrnar á Grímr fóstri minn flagspildur“; ok kvað vísu:

Skjöld gaf mér hinn mildi
málmrjóðr, *eigi* góðan;
hann man þurfa þenna
þegn at Hildar regni.
Eigi hann sjálfr hinn svinni
sinn grip, er ann minni
Auði urðþvengs hlíðar
eiðs ok hringa meið*ir*.

Illugi mælti þá: „Þigg þú þá hring þenna at mér til vinganar, þótt þú vilir eigi skjöldinn“.

Hörðr tók við hringnum; var þat góðr gripr. „Eigi veit ek“, segir Hörðr, „*h*ví mér býðr þat í hug, at þú munir eigi vel halda mágsemd við mik, enn þó mun þat síðar reynast“. Síðan skildu þeir, ok varð fátt um kveðjur, enn skildust þó sáttir at sinni. Enn er Hörðr kom heim, þá mælti hann við Þórbjörgu: „Þér vil ek gefa hring þenna, er Illugi gaf mér, þvíat ek ann þér mest allra manna; enn þú mun þessa gjöf eftir mik dauðan, þvíat ek veit, at þú munt lifa lengr enn ek“. Þórbjörg svarar ok kvað þetta:

Verðir þú,
svá'k vita gerla
vápnum veginn
eðr í val fallinn,
þeim skulu manni
mín at sönnu
bitrlig ráð
at bana verða.

Þá var Hörðr tólf vetra, er hér var komit sögunni; hann var þá jafn um afl hinum sterkustum mönnum þar í sveitinni. Leið nú svá fram, þar til er Geirr var sextán vetra gamall, enn Hörðr fimmtán. Hann var þá höfði öllu hærri enn aðrir menn flestir; honum mátti öngvar sjónhverfingar gera í augum, þvíat hann sá alt eftir því sem var; hann var hærðr manna best ok ramr at afli, syndr manna best, ok um alla hluti vel at íþróttum

búinn. Hann var hvítr á hörund enn bleikr á hár; hann var breiðleitr ok þykkleitr, liðr á nefi, bláeygr ok snareygr, ok nökkut opineygr, herðibreiðr, miðmjór, þykkr undir höndina, útlimasmár ok at öllu vel vaxinn. Geirr var nökkuru ósterkari, enn þó váru þá náliga öngvir hans jafningjar; hann var hinn mesti íþróttamaðr, þótt hann kœmist eigi til jafns við Hörð.

**12.** Þat sama sumar kom skip af hafi á Eyrar. Þat átti sá maðr, er Brynjólfr hét Þórbjarnarson, Grjótgarðssonar, víkverskr maðr. Þeir váru þrírtigir manna á skipi. Þeir kómu út fyrir þing. Brynjólfr reið til þings, ok var í búð Grímkels goða. Oft mælti hann þat, at honum væri forvitni á at sjá Hörð; „þvíat mér er mikit sagt“, segir hann, „frá vænleik hans ok atgørfi“. Þat bar nú ok svá til, at Hörðr kom á þing, ok þeir Geirr báðir, þvíat þeir skildu aldri. Furðu ástúðigt var með þeim fóstbrœðrum, þvíat þá skildi á hvárki orð né verk. Þeir Brynjólfr hittast nú; fell vel á með þeim. Sagði Brynjólfr, at ekki væri ofsögum sagt frá Herði um vöxt hans ok vænleik: „sýnist mér þér, Hörðr“, segir Brynjólfr, „mun*i* vera vel hent at fara útan, ok vera á hendi tignum mönnum; vil ek vingast við þik, ok gefa þér hálft skipit við mik“. Hörðr mælti: „Mikit tekst þú á hendr við ó-

kunnan mann, enn þó vil ek þessum þínum málum vel svara, ok heita þó eigi í burt at fara, fyrr enn ek veit fararefni mín, því at enn eru lítil at svá búnu". Geirr mælti: „Slíkt er vel boðit, fóstbróðir, ok vænligt ráð sýnist mér þetta vera; vil ek þessa fýsandi vera". Hörðr mælti: „Ekki nenni ek at biðja Grímkel tillaga". Geirr bað hann eigi þat gera: „þvíat hann ann þér mikit; nú vilda ek at þú værir einfeldr í þessum ráðum, ok þat annat, at þú tækir þat með þökkum, er Brynjólfr býðr þér". Nú fara þeir heim af þingi. Ok er Hörðr kom heim, sagði hann Þórbjörgu systur sinni. Hon kvað Brynjólf góðan dreng mundu vera. Geirr fýsti þá enn til útanferðar: „vilda ek", segir hann, „at þú tækir Helga Sigmundarson þér til þjónustumanns". Þórbjörg svarar: „Letjandi vil ek þess vera, þvíat mér sýnist ógæfufult alt lið Sigmundar; mun mér aldrei sá harmr ór brjósti ganga er þau báru mik á húsgang". Hörðr svarar: „Lítit er mér um Helga, þvíat oss hefir hin mesta svívirðing at þeim leitt", ok kvað vísu:

Hinn er mestr í manna
minnum hafðr, sem inni'k,
harmr í Hlakkarstormi
hunmargr*a* Þórbjargar,
er Sigmundi bauð branda
bróðir hennar móður

Auði upp at fœða
ormvangs á húsgangi.

Helgi sœkir eftir mjök; enn Geirr flytr mjök hans mál; þat rèðist af áðr enn létti, at Helgi skyldi fara með þeim, ok sagði Hörðr, at þeim mundi því þykkja nökkuru sýnna misráðit. Eftir þetta beiðir Hörðr Grímkel fjár, ok mælti til sex tiga hundraða, ok væri í tuttugu hundruð mórend. Grímkell mælti: „Mjök kemr fram í slíku ofsi þinn ok ágirni“. Hann gekk frá þegjandi. Sigríðr kona Grímkels kvað þetta fyrir lof hafa: „þvíat þessu nærri mun sú vera, sem hann hefir ætlat sér til kaupa“. Greiddi Grímkell féit; enn þeir fœrðu vöruna alla undir Fell til Sigurðar múla; fóru síðan útan með Brynjólfi þegar um sumarit, ok kómu til Björgvin heilu skipi.

13. Haraldr konungr gráfeldr réð þá fyrir Noregi. Þeir leituðu sér skjótt skemmuvistar, ok fengu þat með umgengni Brynjólfs, þvíat hann gerði við þá alt hit besta. Þat var einn dag, er Brynjólfr var riðinn upp á land, at Geirr gekk einn samt heiman; hann hafði vararfeld yfir sér. Geirr sér þá, hvar flokkr manna fór, ok var einn af þeim í blárri kápu. Þeir finnast skjótt; spyrja þeir hann at nafni; Geirr segir til hit sanna, ok spyrr, hverir þeir eru. Sá kveðst Arnþórr heita, er fyrir þeim var, ok vera féhirðir Gunnhildar konungamóð-

ur. Þeir föluðu at Geir feldinn, enn hann vildi eigi selja; þá greip einn af honum feldinn. Geirr stóð eftir og hélt á sverði; þeir hlógu þá fast ok göbbuðu hann, ok sögðu, at landi hefði eigi fast haldit feldinum. Hann reiddist þá hvár*u*tveggja, gabbi þeirra, enda missa feldinn; þrífr hann þá í feldinn, ok hnykkjast þeir um nökkura stund. Arnþórr seilist þá til feldarins, ok ætlar at hnykkja af honum; í því brá Geirr sverði, ok hjó á hönd Arnþóri fyrir ofan olboga, svá at af tók; náði hann þá feldinum ok fór heim síðan, þvíat þeim varð bilt við hann; eftir varð honum umgerðin. Þeir tóku til Arnþórs, þvíat hann mœddi blóðrás. Hörðr spurði, er Geirr kom heim, *h*ví blóð væri á sverði hans. Geirr sagði sem farit hafði. Hörðr svarar: „Slíkt lá til sem þú gerðir at; mun nú eigi duga atgerðalaust“. Nú mœddi Arnþór blóðrás, ok fell hann niðr í höndum þeim sem hjá honum váru, ok dó litlu síðar af blóðrás. Sendir Hörðr nú eftir Íslendingum, þeim sem þar váru; þar var Tindr Hallkelsson, bróðir Illuga hins svarta. Þeir bregða við skjótt, ok koma til móts við Hörð, ok verða saman fjórir ok tuttugu. Þá var blásit í bœnum, ok sent eftir konungi, ok sagt at drepinn væri einn konungsmaðr. Kemr konungrinn skjótliga ok biðr þá framselja Geir: „því at hann

hefir drepit vin minn, enn féhirði móður minnar". Hörðr svarar: „Þat samir oss eigi, at selja fram mann várn undir vápn yðar; viljum vær bjóða þér sjálfdœmi fyrir manninn, til þess at Geirr hafi lífs grið ok lima". Í því kom Brynjólfr heim, er þeir töluðu þetta, ok mælti: „Herra, gerit svá vel: takit fé fyrir manninn, ok virðit við heiðr yðvarn enn vináttu mína, þvíat margr maðr mun lífi týna áðr enn Geirr sé drepinn". Konungr svarar: „Þat mun ek gera, Brynjólfr, fyrir þín orð, at sættast við Geir, ok taka fébœtr fyrir mína hönd, enn ekki fyrir móður mína". Brynjólfr þakkaði honum. Hann galt upp féit alt fyrir Geir, ok gaf þó konungi góðar gjafir, þvíat hann var vellauðigr at fé ok hinn besti drengr. Enn er konungr var á burt farinn, mælti Brynjólfr: „Eigi treysti ek at halda yðr hér fyrir Gunnhildi; vil ek senda yðr austr í Víkina, á fund Þórbjarnar föður míns, til traustsog halds". Hörðr svarar: „Þinni forsjá vil ek hlíta, þvíat þú ert góðr drengr". Fóru þeir nú skjótliga austr í Víkina; tók Þórbjörn vel við þeim, sakir orðsendingar sonar síns; váru þeir þar vel haldnir, ok þóttu vera ágæta menn. Ekki þótti flestum mönnum Helgi bœta um skapsmuni Harðar. Öndverðan vetr kom Brynjólfr austr þangat. Sátu þeir þá allir saman með vinskap. Um várit

talaði Þórbjörn við þá Hörð, at hann vill senda þá austr til Gautlands: „á fund Haralds jarls vinar míns með skýrum jartegnum, þvíat ek veit, at Gunnhildr kemr hér skjótt, ok get ek þá ekki haldit yðr fyrir henni“. Hörðr kvað þá feðga ráða skyldu; búa þeir nú skip sitt.

**14.** Þá er þeir váru búnir, skilja þeir fóstbræðr ok þeir feðgar með mikilli vináttu; halda nú austr til Gautlands; koma á fund Haralds jarls; tekr hann við þeim vel, þegar at hann sér jartegnir Þórbjarnar vinar síns. Jarl átti son, er Hróarr hét, ok var hann í hernaði, ok dóttur, er Helga hét, kvenna vænst. Setr Haraldr jarl Hörð hit næsta sér, í rúm Hróars sonar síns; váru þeir þar um sumarit. At hausti kom Hróarr heim ór hernaði; var honum vel fagnat; þokar Hörðr fyrir Hróari. Skjótt gerist vingott með þeim Herði ok Hróari; leið nú framan til jóla; ok er menn váru komnir í sæti jólakveld hit fyrsta, stóð Hróarr upp ok mælti: „Hér stíg ek á stokk ok strengi ek þess heit, at ek skal hafa brotit haug Sóta víkings fyrir önnur jól“. Jarlinn mælti: „Mikil heitstrenging, ok muntú eigi verða þér einhlítr at enda, því at Sóti var mikit tröll í lífinu; enn hálfu meira síðan hann var dauðr“. Hörðr stóð þá upp ok mælti: „Mun eigi sannligt at fylgja þínum siðum?

strengi ek þess heit, at fara með þér í Sótahaug, ok eigi fyrr í burtu enn þú". Geirr strengdi þess heit, at fylgja Herði, hvárt hann vildi þangat fara eðr annarsstaðar, ok aldri við hann skilja, útan Hörðr vildi. Helgi strengdi ok þess heit, at fylgja Herði ok Geir, hvert sem þeir fœri, ef hann kœmist, ok meta engan meira meðan þeir lifði báðir. Hörðr svarar: „Ekki er víst at okkar verði langt milli, ok hugsa þú um, at eigi standi af þér til beggja okkarra líflát, eða þó fleiri manna annarra". „Svá vilda ek at væri", segir Helgi. Jarl var vel til Harðar, ok kveðst helst vænta þar frama Hróari syni sínum til framkvæmdar sem Hörðr væri.

15. Enn er vár kom, bjóst Hróarr við tólfta mann til haugs Sóta. Þeir riðu um skóg þykkvan; ok í einhverjum stað sá Hörðr, hvar lá af skógarbrautinni lítill leynistigr; hann reið þenna stig, þar til er hann kemr í eitt rjóðr; þar sér hann standa eitt hús, bæði mikit ok skrautligt. Maðr stóð úti fyrir húsinu á blárendri heklu; hann heilsar Herði með nafni; hann tók honum vel ok spurði, hvat hann hét: „þvíat ek þekki þik ekki, þótt þú látir kunnliga við mik". „Björn heiti ek", segir sjá, „ok kenda ek þik þegar *er* ek sá þik, ok hefir ek þó ekki sét þik fyrr; enn vinr var ek frænda þinna, ok þess skaltú njóta

frá mér; veit ek, at þér ætlit at brjóta haug Sóta víkings, ok mun yðr þat eigi greitt veita, ef þér erut einir í aktaumum; enn ef svá ferr sem ek get til, at yðr vinnist eigi at, at brjóta hauginn, þá vitja þú mín“. Nú skilja þeir. Hörðr ríðr nú til móts við Hróar; koma þeir til haugsins snemma dags, ok taka til at brjóta, ok kómust um kveldit niðr at viðum; enn um morguninn eftir var haugrinn heill sem áðr; svá fór annan dag. Þá reið Hörðr til móts við Björn, ok sagði honum, hvar komit var. „Ok fór svá“, kvað Björn, „sem mik varði, þvíat mér var eigi ókunnigt, hvert tröll Sóti var; nú er hér eitt sverð, er ek vil fá þér, ok stikk þú því í haugsbrotit, ok vit þá, hvárt aftr lykst haugrinn eðr eigi“. Nú ferr Hörðr aftr til haugsins. Hróarr segist þá vilja frá hverfa, ok fást eigi við fjanda þenna lengr; þess fýstu fleiri. Hörðr svarar þá: „Eigi dugir þat, at enda eigi heitstrenging sína; skulu vér enn til prófa“. Hinn þriðja dag fóru þeir enn til at brjóta hauginn; kómust þeir enn at viðum sem fyrr. Hörðr skýtr nú sverðinu Bjarnarnaut í haugsbrotit; sofa þeir af um nóttina, enn koma til um morguninn, ok hafði þar þá ekki at skipast. Hinn fjórða dag brutu þeir langviðu alla; enn fimta dag luku þeir frá hurðu. Hörðr bað þá menn varast gust þann ok ó-

daun, er út legði ór haugnum; enn hann sjálfr stóð at hurðarbaki, á meðan ódaunninn var sem mestr. Þá urðu tveir menn bráðdauðir af fýlu þeiri sem út lagði, enn þeir höfðu forvitnast um, ok haft eigi ráð Harðar. Hörðr mælti þá: „Hverr vill í hauginn ganga? enn sá þykki mér eiga sem heitstrengdi þess at vinna Sóta". Þagði Hróarr þá. Enn er Hörðr sá, at enginn var búinn til í hauginn at ganga, keyrði hann niðr tvá festarhæla. „Nú mun ek", segir hann, „ganga í hauginn, ef ek skal eiga þá þrjá gripi, er ek kýs ór hauginum". Hróarr kveðst þessu játa fyrir sína hönd, ok þat samþykktu allir. Hörðr mælti þá: „Þat vil ek, Geirr, at þú haldir festi, því at þér trúi ek best til". Síðan fór Hörðr í hauginn, enn Geirr helt festi. Ekki fann Hörðr fé í haugnum, ok segir nú Geir, at hann vili at hann fari í hauginn með honum, ok hafi með sér eld ok vax: „þvíat hvár*t*tveggja hefir mikla náttúru með sér", segir hann; „bið þú þá Hróar ok Helga geyma festi". Þeir gerðu svá, enn Geirr fórr niðr í hauginn. Hörðr fann hurð um síðir, ok brutu þeir hana upp. Þá varð landsskjálfti mikill, ok sloknuðu ljósin; þá varp út ódaun miklum. Þar í afhaugnum var skrimingr lítill sá. Þá sá þeir skip, ok fé mikit í; Sóti sat í stafni, ok var ógoligr at sjá. Geirr stóð í haugs-

dyrum, enn Hörðr gekk til, ok vildi taka féit. Þetta kvað Sóti:

Hví fýsti þik,
Hörðr, at brjóta
hús moldbúa
þót Hróarr bæði?
hefir ek aldri,
hristi blóðorma
angr gert
æfi minnar.

Hörðr kvað:

Því gerða ek
þegn at finna
ok fornan draug
firra auði,
at hvergi man
í heimi öllum
verri maðr
vápnum stýra.

Þá spratt Sóti upp ok rann á Hörð; varð þar harðr atgangr, þvíat Hörðr varð mjök aflvani. Tók Sóti svá fast, at hold Harðar hljóp saman í knykla. Hörðr bað Geir tendra vaxkertit, ok vita, hvé Sóta brygði við þat. Enn er ljósit bar yfir Sóta ómætti hann ok fell hann niðr. Hörðr gat þá náð gullhring af hendi Sóta; þat var svá góðr gripr, at menn segja at enginn gullhringr hafi jafngóðr komit til Íslands. Enn er Sóti missti hringinn, kvað hann þetta:

Hörðr rænti mik
hringnum góða;
hálfu síðr vilda'k
hans um missa
enn gervallrar
Granabyrðar.
Hann skal verða
at höfuðbana
þér ok öllum
þeim er eiga.

Hörðr kvað:

Þó*t* hitt ek vissa
at haldast mundi
öll ummæli
eyðis góðverka,
þá skyldi eigi
skauð afgömul
lengr njóta
lægis bríma.

„Skaltú þat vita“, segir Sóti, „at sjá hringr skal þér at bana verða, ok öllum þeim er eiga, útan kona eigi“. Hörðr bað Geir bera at honum ljósit, ok sjá hvé vingjarnligr hann væri; ok í því steypist Sóti í jörð niðr ok vildi eigi bíða ljóssins; skildi svá með þeim. Þeir Hörðr tóku kistur allar ok báru til festar, ok fé alt er þeir fundu. Hörðr tók sverð ok hjálm, er Sóti hafði átt, ok váru hinu mestu gersemar. Þeir kippa nú festinni, ok urðu þess varir, at mennirnir váru á burtu af hauginum. Hörðr las sik upp eftir festinni, ok komst hann út ór hauginum. Geirr batt

féit i festi, enn Hörðr dró út. Þat er at segja frá þeim Hróari ok Helga, at þá er landskjálftinn varð, œddust menn allir, þeir er úti váru, nema þeir Helgi ok Hróarr, ok urðu þeir at halda þeim sem úti váru. Enn er þeir fundust, varð þar fagnafundr; þóttust þeir þá Geir ok Hörð ór helju heimt hafa; spurði Hróarr Hörð at tíðindum, enn hann kvað vísu:

Átta'k-*a* við léttan
auðarhlyn né blauðan;
þann var vont at vinna
vóm í heiðnum dómi:
Veit'k þá's ljós nam líta,
ljót varð ásjón Sóta;
vildi geymir galdra
greypr í jörð*u* steypast.

Þeir fóru nú á burt með fang sitt. Hvergi fundu þeir Björn, ok höfðu menn þat fyrir satt, at Óðinn mundi þat verit hafa. Mikit ágæti þótti mönnum Hörðr gert hafa í hauggöngunni. Hann talaði þá við Hróar: „Nú þyk*k*jumst ek eiga þá þrjá gripi sem ek kýs“. Hróarr kvað þat satt: „Ok ertú makligastr at hafa þá“. „Þá mun ek“, segir Hörðr, „kjósa sverð, hring ok hjálm“. Síðan skiftu þeir fé öllu öðru, ok urðu allir vel ásáttir. Ekki vildi jarl hafa af fénu, þá er þeir buðu honum; kvað Hörð makligan mest af at hafa.

Sitja þeir nú í sóma miklum, ok váru þar þau missari.

**16.** At vári sagði Hörðr, at hann vildi til Íslands; enn jarl ok Hróarr kveðst gjarna vilja, at hann fœri eigi á burt, ok þótti þar eigi slíkr maðr komit hafa. Hörðr mælti: „Gera skal ek ykkr kost á því; giftit mér Helgu jarlsdóttur“. Jarl kvaðst því mundu vel svara. Þau ráð tókust með samþykki Helgu ok Hróars. Hörðr unni mikit Helgu konu sinni; hann hafði þá fé mikit. Þeir lögðu í hernað um sumarit: Hörðr, Hróarr, Geirr ok Helgi, ok höfðu fjögur skip; stýrði sínu hverr þeira; varð þeim bæði gott til fjár ok frægðar, ok fóru vel í sínum hernaði.

**17.** Nú er þar til at taka sem fyrr var frá horfit, at Sigurðr Torfafóstri fór útan á Eyrum, ok kom við Noreg, ok var þar um vetrinn; enn um sumarit eftir kom hann sér í skip með kaupmönnum, ok fór suðr til Danmerkr. Þá réð þar fyrir Haraldr konungr Gormsson. Kemr Sigurðr sér í kærleika við konunginn, þvíat hann reyndist hinn röskvasti maðr; óx honum skjótt bæði fé ok metnaðr, alt þar til er hann kom sér í lið með víkingum, ok reyndist hinn mesti garpr, ok svá fór fram nökkur sumur, ok alt þar til er Sigurðr varð höfðingi fyrir víkinga liði; stýrði hann þá sjálfr fimm skipum. Þat var

eitt sumar, at hann sigldi austr fyrir Balagarðssíðu; ok er hann kom at sundum þeim, er Svínasund heita, þá var kveld komit. Þeir váru þar um nóttina. Enn um morguninn verða þeir eigi fyrr varir við, enn þar röru at þeim víkingar á sjau skipum. Þeir spurðu, hverr fyrir skipunum ætti at ráða. Maðr stóð upp í lyfting á einu skipi, bæði mikill ok svartr; sá kveðst heita Björn blásíða, ok vera son Úlfhéðins Úlfhamssonar, Úlfssonar, Úlfhamssonar hins hamrama; ok spurði hver fyrir væri. Sigurðr sagði til sín. „Hvárt vili þér heldr ganga á land lausgyrðir, enn fá oss skip ok fé, eðr vili þér berjast við oss?“ *Sigurðr svarar:* „Þat munu vér heldr kjósa, at verja fé vort ok frelsi, ok falla heldr með sœmd“. Síðan búast við hvárirtveggju; slær þá í hinn harðasta bardaga; gengr Sigurðr vel fram, ok þar kemr at hroðin váru öll skip Sigurðar, enn þrjú af Birni. Þá stendr Sigurðr einn upp*i*, ok varðist lengi, ok alt þar til er bornir váru at honum skildir; var hann þá höndum tekinn, ok varð hann áðr sjau manna bani ein*n*saman; var þá komit at kveldi dags. Hann var þá bundinn fast á höndum, enn fjötraðr á fótum, ok fengnir til sex menn at geyma hans um nóttina, enn hann skyldi höggva at morgni; enn víkingar lágu allir á landi. Sigurðr spurði hverir

skemta skyldu. Varðmenn kváðu honum óvant um skemtun: „er þú skalt deyja á morgun“. „Ekki hræðumst ek dauða minn“, *segir Sigurðr*: „ok mun ek kveða yðr kvæði, ef þér vilit“. Þeir kváðust þat þiggja mundu. Kveðr hann þá svá, at þeir sofna allir. Hann velti sér þá þangat at sem öx ein lá; getr hann þá skorit af höndum sér strenginn, ok því næst gat hann spyrnt af sér fjötrinum með því móti, at af honum gengu bæði hælbeinin; síðan drepr hann alla varðmennina; síðan kastar hann sér til sunds, ok leggst til lands; gengr hann þá yfir þvert nesit, því at hann treystist eigi at glettast við víkingana. Þá sér hann liggja þrjú skip, enn búðir á landi; hann gengr djarfliga at tjöldunum, ok var þá morgnat mjök. Hann fréttir, hverir þar væri forráðs. Þeir sögðu, at sá héti Hörðr, er fyrir þeim væri, Hróarr ok Geirr ok Helgi; enn spurðu í móti, hverr hann væri. Hann sagði til hit sanna; gekk hann þá fyrir Hörð, ok spurðust almæltra tíðinda. Kendist Hörðr skjótt við Sigurð ok býðr honum til sín. Sigurðr kveðst þat þekkjast mundu, ok sagði honum frá svaðilsferðum sínum, ok bað Hörð rétta hlut sinn við víkingana. Honum þótti þat ekki vænligt, enn kvaðst þó gera skyldu sem hann bæði. Bregða þeir þá við skjótt, ok ryðja skip sín farminum, enn bera á grjót

í staðinn; róa síðan fram fyrir nesit. Enn er víkingar verða varir við þat, búast þeir við, ok þykkjast sakna vinar í stað, er Sigurðr var í burtu. Slær nú í bardaga með þeim; ganga þeir fóstbrœðr hart fram, enn Sigurðr dugði þó ámælislaust. Enn er leið á daginn ræðr Hörðr til uppgöngu á skip þat, er Björn blásíða var á, ok Geirr þegar eftir honum; gekk með sínu borði hvárr, ok drápu gjörsamliga hvert mannsbarn fyrir framan siglu. Björn blásíða hleypr þá í móti Herði; Hörðr var þá kominn aftr yfir siglu, ok höggr Björn til Harðar með tvíeggjuðum mœki. Hörðr kemr þá þó eigi fyrir sik skildinum; stökk hann þá öfugr fram yfir siglubitann, enn mœkirinn kemr svá hart á siglubitann, at felr báða eggteina. Enn er Hörðr sér þat, at Björn lýtr eftir högginu, höggr hann bæði hart ok skjótt um þverar herðarnar, ok sundr manninn fyrir neðan bringspalirnar, með sverðinu Sótanaut; ok lét Björn blásíða svá líf sitt. Ok er þetta var unnit, hafði Geirr drepit hvert mannsbarn á skipinu, enn Hróarr hafði hroðit eitt skip ok þeir Helgi báðir; Sigurðr hafði hroðit eitt skip, enn víkingar flýðu á hinu fjórða. Tóku þeir Hörðr þar herfang mikit; bundu nú sár manna sinna. Sigurðr gröri svá, at honum stóð fyrir öngu; fylgdi hann Herði alla æfi síðan meðan hann

lifði, ok þótti vera hinn röskvasti maðr. Þeir sigldu nú heim til Gautlands um haustit, ok sátu þar um vetrinn í góðu yfirlæti.

**18.** Geirr fýstist nú til Íslands ok bað Hörð gefa sér fararleyfi. Hörðr bað hann fara sem hann vildi, enn halda þó vináttu við sik. Helgi var eftir með Herði ok Sigurðr. Geirr fór í burt; þeim gaf seint byri, ok kómu í Víkina austr, ok höfðu tjöld á landi. Þat fréttir Gunnhildr konungamóðir, ok sendir menn sína til at drepa Geir. Þeir koma um nótt, ok berja þeim tjaldkúlur ok fella á þá tjöldin. Geirr komst einn á brott með vápnum sínum, ok varð áðr níu manna bani. Hann fór þar til er hann kom til Brynjólfs Þórbjarnarsonar; enn þeir feðgar kómu honum í skip, ok fengu honum fé nökkut. Þat þykkir mönnum sem Gunnhildr hafi bannat Geir með fjölkyngi sinni til Noregs. Líkaði henni nú hit versta, er Geirr komst undan. Létu þeir nú í haf. Geirr kom út á Eyrum um sumarit. Þá var andaðr Grímr faðir Geirs, ok svá Högni móðurfaðir hans í Hagavík; enn þær Guðríðr ok Þórbjörg varðveittu bú á Grímsstöðum. Geirr fór þangat, ok var þar um vetrinn. Enn um várit keypti hann land í Neðra-Botni, ok færði þangat bú sitt. Þangat fór Guðríðr ok Þórbjörg.

**19.** Indriði Þórvaldsson ok Þórgríma smið-

kona gerðu bú í neðanverðum Skorradal, þar sem nú heitir á Indriðastöðum; enn Þórgríma bjó þá í Hvammi móðir hans, enn Þórvaldr var dauðr faðir hans. Þat sumar, er Geirr bjó fyrst í Botni, kom út sá maðr er Ormr hét á Vikarsskeiði við Þjórsá; þeir brutu skipit, enn týndu öllu fénu. Þeir váru fimtán menn á skipi ok fengu engar vistar. Ormr hafði verit fyrir tveim vetrum í Hvítá, ok þegit vist með Indriða. Ok nú reið Indriði norðan við þriðja mann í móti Ormi, ok kveðst eigi vilja vita at hann væri ráðlauss; hann bauð honum heim með sér ok öllum skipverjum hans. Ormr játaði því ok þakkaði honum boðit. Þeir riðu allir sunnan hjá Bakkárholti um Grafning ok Bíldsfell, ok svá hjá Úlfljótsvatni, ok þaðan til Ölfusvatns, ok koma þar í rökkri. Grímkell heilsar þeim, enn bauð þeim ekki. Indriði biðr þá Þórbjargar dóttur Grímkels: „er þér, bóndi, kunnigr uppruni minn, ok svá fjárvöxtr; vilda ek vita skjótt svör þín“. Grímkell mælti: „Ekki megu vér skjóta því þegar fram, ok ekki mun þat ráðast svá skjótt“. Ekki varð af boðum hans við þá. Indriði reið í Hagavík um kveldit. Enn er þeir váru riðnir, mælti Sigríðr húsfreyja við Grímkel: „Allkynlega leitst þér á þetta, at gifta eigi dóttur þína Indriða, er oss þykkir hinn merkiligasti maðr vera, ok lát ríða

eftir þeim, ok sit eigi fyrir sóma þínum eðr dóttur þinnar". Grímkell mælti: „Gerum sem þú vilt". Þá var sent eftir þeim í Hagavík; riðu þeir aftr með sendimönnum. Grímkell tók nú allvel við þeim; töluðu þeir nú um málit, ok var þat ráðit, at Indriði skal eiga Þórbjörgu, ok skal hann hafa með henni fjóra tigu hundraða, ok skyldi þegar vera brúðkaupit at Ölfusvatni. Indriði skyldi sjálfr ábyrgjast, hversu þeim líkaði, er eigi váru við. Indriði lét þar eftir lið sitt, enn fór við þriðja mann, ok sókti Þórbjörgu heim í Botn. Hann fór Jórukleif ok svá til Grímsstaða, ok þaðan Botnsheiði, ok svá í Botn. Geirr var eigi heima. Þat mæltu margir menn, at Geirr mundi viljat hafa átt Þórbjörgu; enn ekki mælti hon þó í móti þessum málum, né at fara með Indriða. Þau fara nú þar til er þau koma til Ölfusvatns; er þá búit til brúðkaups. Grímkell fór til hofs Þórgerðar hörgabrúðar, ok vildi mæla fyrir ráðahag þeira Þórbjargar; enn er hann kom í hofit, þá váru goðin í busli miklu ok burtbúningi af stöllunum. Grímkell mælti: „Hví sætir þetta, eðr hvert ætli þér, eðr hvert vili þér nú heillum snúa?" Þórgerðr mælti: „Eigi munu vær til Harðar heillum snúa, þar sem hann hefir rænt Sóta bróður minn gullhring sínum hinum góða, ok gert honum marga skömm aðra; vil ek þó

heldr snúa heillum til Þórbjargar, ok er yfir henni ljós svá mikit, at mik uggir at þat skili með okkr; enn þú munt eiga skamt ólifat“. Gekk hann þá í burt, ok var reiðr mjök goðunum. Hann fór heim eftir eldi, ok brendi upp hofit ok öll goðin, ok kvað þau eigi skyldu oftar segja sér harmsögur. Ok um kveldit, er menn sátu undir borðum, varð Grímkell goði bráðdauðr; ok var hann jarðaðr suðr frá garði. Alla fjárvarðveislu bar undir Indriða ok Illuga, því at Hörðr var eigi hér á landi. Ekki vildi Indriði skifta sér neinu af fjárvarðveislu eftir Grímkel, nema heimanfylgju Þórbjargar. Illugi tók við fjárvarðveislu þegar um haustit; enn um várit var skift fé við Sigríði, ok hafði hon land at Ölfusvatni, ok þótti góð húsfreyja.

**20.** Nökkurum vetrum síðar kom út Hörðr Grímkelsson á Eyrum ok Helga kona hans, ok Sigurðr Torfafóstri, Helgi Sigmundarson ok þrírtigir manna. Þá var Hörðr þrjátigi vetra at aldri. Hann hafði þá útan verit fimtán vetr í einu. ok orðit gott til fjár bæði ok virðingar. Illugi hinn rauði frá Hólmi kom til skips, ok bauð Herði til sín ok öllum hans mönnum, ok fór sjálfr í móti þeim ok gerði alt hit sœmiligasta til þeira. Hörðr tók því vel ok þótti stórmannliga boðit; fór Hörðr til Illuga með hálfan þriðja tög manna,

ok var þeim veitt mungát allan vetrinn með hinni mestu rausn, ok líkaði Herði allvel. Illugi bauð honum fé sitt alt, þat sem hann hafði við tekit. Hörðr kvað sér tíðara at heimta fé sitt at Torfa frænda sínum, ok kveðst mundu fara at finna hann. Síðan fór hann við tólfta mann ok kom á Breiðabólstað, ok hitti Torfa ok heimti fé sitt. Torfi kveðst eigi vita glöggt um fjárheimtur þær: „þvíat ek er ekki skyldr til at gjalda þér féit, ef þú ert verrfeðrungr". Hörðr kvað þat enn lítt reynt, enn létst eftir fénu leita mundu. Síðan reið Hörðr á burtu, ok sagði Illuga, er hann kemr heim. Illugi bað Hörð vægja: „ok vænti ek at þá fari betr með ykkr, þvíat Torfi er vitr maðr ok grimmúðigr". Hörðr kvað þat fjarri fara skyldu: „hefir hann ávallt illa til vár gert, enn aldri vel; vil ek þegar fara ok láta mönnum samna". Hörðr reið ok samnaði mönnum um Akranes, enn Illugi samnaði fyrir neðan ok vestan, um Heynes og Garða til Fellsaxlar, ok um Klafastaði, enn Hörðr fyrir austan Kúludalsá. Þeir riðu upp um Miðfell, ok svá til Breiðabólstaðar. Torfi var úti ok fagnar þeim vel. Illugi leitaði um sættir, ok kvað þeim vera nauðsyn á at sættast, svá nánum mönnum. Torfi lét meiri ván, at Hörðr hefði rétt at tala: „mun hann ok verða mikilmenni", segir hann; „miklu hefir

hann skjótara við brugðit; vil ek unna honum sætta ok hér landakostar; ek mun fá honum í hönd hér með jörðunni þrjá tigu kúa ok þrjá tigu hjóna; mun ek fá alt til bús þessi misseri; vil ek vita, hvat manni hann vill vera; hann skal ábyrgjast fé þat alt er hann tekr við, bæði lönd ok kvikfé". Illugi kvað þetta vel boðit, ok þetta þá Hörðr, ok sættust at því. Þangat fór Hörðr búi sínu um várit, ok galt Illugi honum fé sín öll. Gagnsamt var bú Harðar; ól hann gest ganganda. Öngvir urðu til at leita á Hörð, enda var hann óáleitinn við aðra. Hann bjó þar tvá vetr.

**21.** Auðr hét maðr; hann bjó á Auðsstöðum gagnvert Uppsölum eðr heldr neðar, einrœnn maðr ok auðigr, kynlítill ok þó kífinn nökkut. Sigurðr hét son hans. Hann átti merhryssi móskjótt at lit tvö; honum þóttu hrossin góð. Illugi hinn rauði hafði gefit Herði stóðhross fimm saman, þá *er* hann fór burt frá Hólmi, svört öll at lit; þangat vöndust til merar Auðs hinar skjóttu, ok hlupu í burt ór högum sínum. Illa kveðst Herði þat þykkja, er Auði varð oflítit gagn at hrossum sínum. Fátt varð um frændsemi þeira Torfa. Ekki kepptu menn mjök við Hörð, enda átti hann gott eina við menn. Þá bjó Torfi á Uppsölum; hann hafði goðorð, ok

þótti ódæll ok illr viðskiftis. Annat sumar fór á sömu leið, at hross Auðs gengu í burt frá honum ok til hrossa Harðar. Hörðr bað fœra hrossin sín yfir fjallit, svá at eigi fyndi merar Auðs þau; svá var gert, ok fundu þó merar Auðs hrossin. Þat bar til um engiverk, at Sigurðr Auðsson kom heim frá stóðinu, ok hafði eigi getat náð hrossunum. Þá sendi Hörðr Helga Sigmundarson til at veita honum lið. Helgi fór með Sigurði ok var í illu skapi, ok kvað Auð einn valda slíkum spennum ok ónáðum. Enn er hann kemr til hrossanna, sér hann at sveinninn hefir sært hestinn. Þá mælti hann: „Þú munt vera ilt mannsefni, ok eigi skaltú mörgum góðum gripum spilla héðan af“. Hann vá þá sveininn. Litlu síðar kom Hörðr at ok mælti: „Þú ert illr maðr, er þú hefir drepit ungmenni eitt, ok þó saklaust; væri þat makligt, at ek dræpa þik; nú mun ek ekki því nenna, þóat þat væri betr, at þú lifðir eigi eftir slíkt óverkan; mun þetta vera upphaf ógæfu þinnar; er nú þat fram komit, er mér sagði hugr um, ok þat líkast, at svá nökkurn *v*eginn beri til, at þetta dragi okkr báðum til bana ok fleirum öðrum, með því öðru, sem þá berr til ok lagit vill verða“. Hörðr kastaði þá feldi á líkit, ok fór síðan heim fyrst; ok þegar litlu síðar fór Hörðr til Auðsstaða. Ok þá er

Hörðr gekk vestan í garð, þá gekk Auðr norðan í garð. Ok er þeir fundust, mælti Hörðr: „Þar hefir tekist illa, ok þó í móti mínum vilja, er son þinn var drepinn; nú vil ek selja þér sjálfdœmi, ok sýna þat, at mér þykkir þetta allilla vorðit, ok lúka þegar upp alt féit, ok munu þat flestir tala, at þér sé varla ván betri málaloka at svá vöxnu máli“. Auðr svarar: „Nú hefir ek hitt Torfa vin minn, ok selt honum málit, ok hefir hann heitit mér, at fylgja því til hinna fremstu laga, enda mætta ek þat allvel sjá, at þér kœmit hart niðr Breiðbœlingar“. Hörðr mælti: „Þú hefir þat illa gert, at rœgja okkr Torfa saman, ok nú skaltú þess gjalda“. Hann brá þá sverðinu Sótanaut, ok hjó Auð sundr í tvá hluti, ok húskarl hans. Svá var Hörðr þá reiðr orðinn, at hann brendi bœinn ok alt andvirkit, ok tvær konur, er eigi vildu út ganga. Enn er Torfi spurði þetta, kvað hann engan slíks fýst hafa: „at gera slík ódœmaverk við vini sína“, enn þó Hörð eigi gott af eyrum at leiða; ok er hann spurði, at Hörðr var eigi heima, fór hann heiman til Breiðabólstaðar stefnuför, ok stefndi málunum til alþingis; fór heim síðan. Enn er Hörðr spurði þetta, sendi hann Helga suðr til Indriða mágs síns, ok bað hann ríða til þings, ok svara málum sínum ok bjóða sættir; hann kveðst eigi geta af sér *fengit*

fyrir fjandskap Torfa, at bjóða neinar sættir sjálfr. Helgi fór ok hitti Indriða, ok segir honum orð Harðar. Indriði svarar: „Ek hefi heitit Illuga rauða at fara til Kjalarnessþings, enn bjóða vil ek Herði hingat til mín“. Helgi svarar: „Minni nauðsyn mun þér at fara til Kjalarnessþings, enn at svara fyrir mág þinn jafnröskvan, ok muntú vera skauð ein“. Þórbjörg mælti: „Þetta væri órlausn nökkur, ef dugandi maðr fœri með erindum, enn nú kann vera at engi verði; hefir ok þessi ógæfa af þér hlotist“. Helgi fór heim, ok sagði ekki Herði frá heimboðinu Indriða, enn kvað hann ekki lið honum veita vilja. Herði fannst fátt um ok kvað vísu:

Minn varð mágur hranna
mér, ok svá's hann flerum
einum illr at reyna
ells í málafellum.
Þórgrímu réð heldr heima
hvarflauss vera arfi;
oss er stála stýrir
stríðr, enn verri síðar.

Ok er menn kómu til þings ok dró at dómum, þá spurði Torfi, ef nökkurr vildi fébótum upp halda fyrir hönd Harðar. „Mun ek“, segir hann, „taka fébœtr, ef nökkurr vill bjóða; enn eigi nenni ek at kasta máli þessu niðr undir fœtr mér“. Eingi kómu svör á móti, ok urðu þeir Hörðr sekir og Helgi báð-

ir. Enn er Hörðr spurði sekt sína, kvað hann vísu:

Gera réð geymir stórra
gullhringa á alþingi
ósa enn at vísu
elds fægi útlægan
um hyski heiðar þoska
ok hjör*r*unna miskunnar
— oss es engi at þessu
ótti — grettis sótta.

Ekki fundust þeir Torfi þá um sinn.

**22.** Litlu síðar fór Hörðr í Botn með alt sitt til Geirs fóstbróður síns. Hörðr brendi áðr öll hús á bœnum ok svá hey; hann kvað Torfa lítit skyldu þar féna. Þá hafði Hörðr sextán vetr ok tuttugu, er hann fell í útlegð ok hann fór í Botn. Öll hjón hans fóru með honum ok fylgdarmenn til Geirs, ok höfðu þar setu. Þat var einn dag, at Torfi kvað vísu þessa:

Víst man Torfi treysta*st*,
tandrauðra Níl-sanda
hæðinn höldr, at ríða
heim í Botn at gotnum;
hreytar get'k at viðrnám veiti,
vargi trú'k at þegnar bjargi,
ef jafnmargir meiðar törgu
mætti finnast hér inni.

Þeim varð kostnaðarsamt þau misseri, þvíat minni urðu tilföng enn þurfti, enn Geirr gáði nú verr búsýslu enn áðr. Hjuggust þá upp

kvikféin, svá at um sumarit eftir fœddi varla búféit fólkit. Um haustit eftir váru upp höggvin öll kvikféin, gjörsamliga, útan fár einar kýr, ok einn morgin um vetrinn fyrir jól tók Geirr á fótum Helga; hann stóð upp skjótt, ok fóru þeir yfir háls til Vatnshorns í Skorradal; bóndi var eigi heima; hann var at brúðkaupi á Lundi í Reykjardal at Kolls. Geirr mælti: „Nú mun verða at afla til bús, þannig sem verða má ok skaltú gera annaðhvárt, at halda vörð eða ganga í fjós“. Helgi kaus at halda vörð. Geirr gekk þá inn í fjósit ok leysti upp nautin; tveir menn váru á heystáli ok tefldu, ok brann þar ljós. Þá mælti annarr þeirra: „Hvárt eru laus nautin í fjósinu?“ Annarr þeira kvað konur mundu valda, ok hafa eigi bundit nautin. Ferr nú annarr þeira útar undir dyrnar; ok er Geirr sá þat, hljóp hann at ok vá þann; ok er þeim dvelst, er fyrri fór, ferr annarr, ok er hann kom í hlöðudyr, hafði hann slíka för sem hinn fyrri; vá Geirr ok þenna. Síðan leiddu þeir á burt yxni sjau vetra gamalt. Ok er þeir kómu heim í Botn, líkaði Herði allilla, ok kveðst á burt skyldu, ef þeir vildi stela: „þykki mér“, segir hann, „miklu ráðligra at ræna, ef eigi má við annat vera“. Geirr bað hann eigi við sik skilja fyrir þessa sök: „skaltú einn öllu ráða okkar á milli“. Ok svá

var, at Hörðr fór eigi á burt. Enn er konur kómu í fjós at Vatnshorni, þótti þeim undarligt, er naut öll váru laus; ætluðu þær nautamenn sofa mundu; bundu þær nautin; enn er þær kómu at hlöðudyrum, fundu þær þá þar dauða; váru bónda þá orð send; kom hann heim; var fjölrœtt um þenna hlut. Eigi vildi Hörðr láta neyta yxnisins, fyrr enn maðr var sendr til Vatnshorns, at segja hit sanna um ferðir Geirs. Segja þat ok nökkurir menn, at Hörðr muni hafa bœtt bónda at Vatnshorni fyrir menn sína ok yxni, ok því muni hann þetta mál ekki síðan kært hafa.

**23.** Kolgrímr hinn gamli, son Álfs hersis ór Þrándheimi, bjó á Ferstiklu í þenna tíma; hann var landnámsmaðr. Hans son var Þórhallr, faðir Kolgríms, föður Steins, föður Kvists, föður Kala. Kolgrímr sendi orð Botnverjum, at þeir ætti saman knattleika ok sköfuleika á Sandi; þeir játuðu því. Tókust nú upp leikar ok heldust fram yfir jól. Gekk þeim Botnverjum oftast verr, þvíat Kolgrímr stillti svá til, at Strendir urðu sterkari í leikinum. Mikit lögðu Botnverjar til skó sér, er þeir gengu oft; var þá skorin yxnishúðin til skœða. Þykkir mönnum sem Kolgrímr hafi viljat forvitnast um yxnishvarfit, ok því hafi hann leikana lagit. Þóttist hann þá kenna yxnishúðina á fótum þeim; váru þeir þá kall-

aðir yxnismenn. Fengu þeir þá enn harðleikit; töluðu þeir þá um, er þeir kómu heim, at þeir þœttist harðleikit fá, ok kváðust upp mundu gefa brátt leikana. Hörðr mælti hart við þá ok kvað eigi þá meðalklœkismenn vera, ef þeir þyrði eigi at hefna sín. „Ok eru þér", segir hann, „til illgjörða einna búnir". Þá váru þeir komnir til Harðar Þórðr köttr ok Þórgeirr gyrðilskeggi, sekr maðr. Nú lét Hörðr gera sér hornsköfur um nóttina. Þá váru allir búnir, at fara til leiks þegar, er Hörðr fór, þótt áðr væri nökkut stirðir. Önundr Þórmóðsson af Brekku var í móti Herði skipaðr, vinsæll maðr ok ramr at afli. Sjá leikr var allharðr. Enn áðr kveld kœmi, lágu dauðir af Strandverjum sex menn, enn enginn af Botnverjum. Fóru nú heim hvárirtveggju. Önundi fylgdu allir þeir, er útan váru af Strönd. Enn er þeir kómu skammt inn frá Brekku, þá bað Önundr þá fara fyrir. „Enn ek vil", segir hann, „binda skó minn". Þeir vildu ekki frá honum ganga. Hann settist niðr, ok heldr hart; í því dó hann, ok er þar jarðaðr. Þar heitir nú Önundarhóll. Ekki váru mál þessi sótt á hönd Herði né hans mönnum. Þórsteinn gullknappr bjó þá á Þyrli, grályndr ok undirförull, slœgvitr ok vel fjáreigandi. Enn Þórvaldr bláskeggr bjó á Sandi, gildr bóndi ok mikill fyrir sér.

24. Refr hét maðr, Þórsteinsson, Sölmundarsonar, Þórólfssonar smjörs. Hann bjó á Stykkisvelli í Brynjudal; hann var goðorðsmaðr ríkr ok garpr mikill. Hann var kallaðr síðarmeir Refr hinn gamli. Þórbjörg katla hét móðir hans; hon bjó í Hrísum; hon var fjölkunnig mjök, ok hin mesta galdrakona. Kjartan hét bróðir Refs; hann bjó á Þórbrandsstöðum, mikill maðr ok sterkr, ok illa skapi farinn, ójafnaðarmaðr um alla hluti; því var hann furðu óvinsæll af alþýðu manna. Ormr hét maðr, Hvamm-Þórisson, vinsæll maðr ok smiðr mikill. Þessir menn allir váru í móti Botnverjum. Þat spyrja þeir Hörðr af þingi um sumarit, at menn ætla at samnast saman ok drepa þá, ok þykkjast þá sjá, at kvikfé váru höggvin, at þá mundi verða at ræna. Geirr bað þá virki gera, ok kvað þá seint mundu sœkjast. Hörðr kveðst ætla, at þeim mundi matr setinn: „ok vil ek fara láta í hólm þann, er hér liggr fyrir landi á Hvalfirði, fyrir Bláskeggsárósi, fyrir útan Dögurðarnes; *sá* hólmr er sæbrattr ok víðr sem mikit stöðulgerði“. Þangat fóru þeir um þing með alt sitt; þeir tóku ferju mikla ór Saurbœ frá Þórsteini öxnabrodd, til fulltingjar sér, enn sexæring frá Þórmóði af Brekku, enn selabát feræðan frá Þórvaldi bláskegg. Þeir gerðu sér skála mikinn, ok horfði annarr endi í

landnorðr, enn annarr í útsuðr, ok váru dyr á miðjum skálavegg til vestrs. Allt stóð skálinn suðr á hamarinn; enn ganga mátti fyrir norðan milli klifs ok dyra, þeira sem á gafli váru; norðan at eins var þá ágengt; enn vestr frá skálanum váru leynigrafir. Þau váru lög þeira: at hverjum manni skyldi fyrir bjarg kasta, ef þrem náttum lengr lægi; allir skyldu skyldir at fara, hvert sem Hörðr vildi eðr Geirr, ef þeir væri sjálfir í för; skift var verkum með þeim. Öll váru hús upptekin í Botni at viðum ok flutt út í Hólm. Sá hólmr er nú kallaðr Geirhólmr; tók hann nafn af Geir Grímssyni. Áttatigir manna annars hundraðs váru í Hólmi, þá er flestir váru, enn aldri færri enn á hinum átta tigi, þá er fæstir váru. Þessir váru nefndir: Hörðr ok Helga jarlsdóttir, kona hans, Grímkell son þeira ok Björn; hann var tvævetr; Geirr ok Sigurðr Torfafóstri Gunnhildarson, Helgi Sigmundarson, Þórðr köttr ok Þórgeirr gyrðilskeggi; hann var einna tillagaverstr af öllum Hólmverjum ok fýsti allra illvirkja. Þangat drifu nær allir óskilamenn, ok svörðu eiða þeim Herði ok Geir, at vera þeim hollir ok trúir, ok hverr þeira öðrum. Þórgeirr gyrðilskeggi ok Sigurðr Torfafóstri fluttu vatn frá Bláskeggsá við tólfta mann, ok fyldu selabátinn af vatni ok

heltu í ker þat, er var út í Hólmi. Leið nú svá fram um hríð.

25. Þórbjörg katla hœldist um þat, at hon kvað aldri Hólmsverja sér mundu mein gera; svá treysti hon fjölkyngi sinni. Ok er þeir spurðu þetta í Hólm, kveðst Geirr vilja reyna þat, ok bjóst heiman við tólfta mann eftir þing; Þórðr köttr fór með honum. Enn er þeir kómu í dalinn, sá þeir at fé var rekit norðr um fell, er stendr á milli Brynjudals ok Botns. Geirr lét tvá varðveita ferjuna; Þórðr köttr sat á hálsi ok helt vörð. Enn er Þórbjörg katla kom út, varð hon vís af fjölkyngi sinni ok framvísi, at skip var komit frá Hólmi. Hon sœkir þá sveipu sína, ok veifði upp yfir höfuð sér; þá gerði myrkr mikit at þeim Geir. Hon sendi þá orð Ref syni sínum, at hann safnaði mönnum. Þeir urðu saman fimtán, ok kómu at Þórði ketti óvörum í myrkrinu, ok tóku hann höndum ok drápu, ok er hann grafinn í Kattarhöfða neðanverðum. Þeir Geirr kómust til sjávar; þá tók af myrkrit, ok sá þeir þá gerla, ok réðu þeir Refr til ok börðust. Allir menn váru drepnir, þeir sem Geir fylgdu, enn þrír af Ref. Geirr komst á skip, ok svá til Hólms, ok var sárr mjök. Hörðr hafði ferð hans mjök í spotti, ok kvað Kötlu enn ekki hafa í móti tekit. Helga var góðr læknir, ok grœddi hon

Geir at heilu. Ótti var mönnum í Hólmi at þessu. Ok þegar er sár Geirs váru bundin, sté Hörðr á skip með tólfta mann, ok fór þegar inn til Brynjudals, ok kveðst enn vilja reyna Kötlu; tveir gættu skips, enn tíu fóru at sœkja féit. Katla skók þá enn sveipu sína, ok gerir orð Ref, ok kvað nú vera slæg í at hitta Hólmverja: „er sá er nú fyrir þeim hinn hárfagri maðr, er mestr garpr þykkist vera“. Refr kom við hinn sétta mann. Ekki fal sýn fyrir Herði af göldrum Kötlu, ok fóru þeir leið sína sem þeir höfðu ætlat, ok hjuggu á skip sitt, til þess er þeir höfðu fullfermt, svá at Refr horfði á ok hans menn; ok fluttu síðan út í Hólm, ok skildi svá með þeim.

**26.** Enn er mjök leið á sumarit, fór Hörðr við fjórða mann ok tuttuganda til Saurbœjar, þvíat Þórsteinn öxnabroddr hafði hœlst um þat, at Skroppa, fóstra hans fjölkunnig, mundi svá geta gert, at honum yrði ekki mein at Hólmverjum, með fjölkyngi sinni. Ok er þeir kómu at landi, varðveittu sjau skip á floti, enn sjaután gengu upp. Þeir sá griðung mikinn á melnum upp frá naustum. Þeir vildu glettast við hann, enn Hörðr vildi eigi þat. Tveir menn af liði Harðar snöru í móts við griðunginn, ok brugðu á sitt ráð; boli brá við hornunum í hvár*t*tveggja sinn; annarr þeira stefndi á síðuna, enn annarr í höfuðit;

spjótit hvárstveggja fló aftr, ok fyrir brjóst þeim, ok höfðu báðir bana. Hörðr mælti: „Hafi þér ráð mín, því at eigi er hér allt sem sýnist“. Nú koma þeir á bœinn; Skroppa var heima ok dœtr bónda, Helga ok Sigríðr, enn Þórsteinn var í seli í Kúvallardal; þat er í Svínadal. Skroppa lauk upp öllum húsum; hon gerði sjónhverfingar, því at þar sem þær sátu á palli, sýndist þeim standa eski þrjú. Menn Harðar töluðu um, at þeir vildu brjóta eskin; Hörðr bannaði þat. Þeir fóru þá norðr frá garði, ok vildu vita, ef þeir fyndi fé nökkut. Nú sá þeir, hvar gyldr ein rann með tveim grísum norðr ór garði; þeir kómust fyrir hana. Þá þóttust þeir sjá mannfjölda mikinn fara á móti sér með spjótum ok alvæpni; ok nú skekr gylta norðan hlustirnar með grísum sínum. Geirr mælti: „Förum til skips; vær munum hér eiga við liðsmun“. Hörðr kvað hitt ráð, at renna eigi svá skjótt at öllu óreyndu. Í því tók Hörðr upp stein mikinn, ok laust gyltina til bana; ok er þeir kómu at, sá þeir, at þar lá Skroppa dauð, enn dœtr bónda stóðu uppi yfir henni, þar at grísirnir höfðu sýnst. Nú sá þeir þegar at Skroppa var dauð, at þetta var nautaflokkr, er í móti þeim fór, enn öngvir menn; þetta sama fé ráku þeir til skips ok drápu, ok hlóðu ferjuna af slátri. Geirr tók á burt Sigríði

nauðga, ok fóru síðan útí Hólm. Skroppa var jörðut inn frá Saurbœ, á milli ok Ferstiklu, í Skroppugili. Þórsteinn gullknappr sat í friði fyrir Hólmverjum, þvíat þeir höfðu sætst á laun, at hann skyldi flytja alla einhleypinga í Hólm, ok segja þeim allar vælar landsmanna. Hann hafði unnit þeim eiða, at halda þetta allt ok svíkja þá í engu; enn þeir höfðu heitit honum at ræna þar ekki.

27. Um vetrinn fyrir jól fóru þeir tólf saman í Hvamm til Orms á náttarþeli; Ormr var eigi heima; hann var farinn nökkut at erendum sínum. Bolli hét þræll hans, er annaðist um bú ávallt er Ormr var eigi heima. Þeir brutu upp útibúr, ok báru út vöru ok mat; þeir tóku kistu Orms, er gripir hans váru í, ok fóru með þetta allt á burtu. Bolla þótti sér illa tekist hafa, er eigi var vakat yfir útibúrinu; hann kveðst skyldu ná kistunni af Hólmverjum, eðr fá bana ella, ok bað þá segja bónda, at hann væri við átjánda mann at naustum hina fjórðu nótt þaðan, ok léti hljótt yfir sér. Bolli býst nú; hann hafði slitna skó ok vöruváðarkufl. Hann var í Brynjudal hina fyrstu nótt, ok þó eigi at bœum. Hann fór til Þórsteins gullknapps, ok nefndist Þórbjörn; sagðist vera sekr maðr, ok kveðst vildu út til Harðar, ok koma sér í sveit með honum. Þórsteinn gullknappr flutti

hann útí Hólm, ok er þeir Hörðr ok Geirr sá manninn, leitst þeim eigi einn veg báðum. Geir þótti ráð at taka við honum, enn Hörðr kveðst ætla njósnarmann. Geirr réð þó, ok sór hann þeim áðr eiða enn þeir tóku við honum. Margt sagði hann þeim af landi, ok kvaðst þó vera syfjaðr; hann lagðist niðr ok svaf um daginn. Þeir Geirr kómu eigi upp kistunni, ok spurðu Þórbjörn, hvert ráð hann legði til. Þórbjörn kvað þat ekki vant. „Er þar ekki í“, sagði hann, „útan smíðartól bónda“; kvað Ormi þat eitt mein þykkja í ráni þeira Hólmverja, er tólakista hans var í burtu. „Enn ek var þá“, segir hann, „at Mosfelli, er ránit spurðist; mun ek fœra honum kistuna, ef þér vilit“. Lítil slœgja þótti Geir í vera um kistuna, með því at ekki væri í, nema smíðartól ein. Tvær nætr var Þórbjörn þar, ok taldi um fyrir þeim, at þeir léti lausa kistuna. Ekki var Herði um, at þeir hefði nökkur ráð Þórbjarnar; kvað þau mundu illa gefast. Geirr vildi þó ráða, ok fóru þeir sex saman um nátt til nausta Orms; þeir báru þá kistuna á land, ok upp í naustit, ok settu undir húfinn á skipi Orms. Þá kallaði Þórbjörn, at menn skyldu upp standa, ok taka þjófana. Þeir hlupu þá upp, er fyrir váru, ok sóttu at þeim. Geirr greip þá einn árarstubba, ok barði á tvær hendr, ok

varðist hann þá allröskliga. Geirr náir þá skipi sínu; fjórir menn létust af Geir. Ormr tók ferju, ok röru eftir Geir. Hörðr tók til orða heima í Hólmi: „Þat er líkara, at Geirr þurfi manna við, ok eigi þykkjumst ek vita, hvé Þórbjörn sjá hefir gefist honum?“ Tók hann þá skip, ok rœr inn á fjörð; kemr nú at eltingum þeira Orms ok Geirs; snöri þá Ormr skjótt undan ok at landi. Geirr fór útí Hólm með Herði. Ormr gaf siðan Bolla frelsi ok land á Bollastöðum ok öll búsefni. Bjó hann þar síðan, ok varð auðigr maðr ok ófælinn.

28. Eftir þing um sumarit fóru þeir Hörðr ok Geirr við fjórða mann ok tuttuganda á ferju einni einn aftan, ok lendu í Sjálfkvíum, fyrir dyrum at Hólmi. Þeir létu sex gæta skips, enn átján gengu upp. Þeir ráku fé ór Akrafelli. Hörðr sá at maðr gekk út at Hólmi í skyrtu ok línbrókum; þat var í sólarupprás. Hörðr kendi þar Illuga, þvíat hann var allra manna skygnstr. Nú varð Illugi varr við ferð þeira, ok sendi þegar menn í Garð ok á Heynes, ok svá til Kúvallarár, at samna mönnum. Hann réð ei*gi* fyrri til við þá, enn hann hafði þrjátigu manna. Ok er Hörðr sér manna-safnaðinn, bað hann Geir kjósa, hvárt hann vildi, drepa féit ok gera til ok ferma skipit, eðr vill hann verja Illuga ok hans

mönnum, svá at þeir kœmist ekki til. Geirr kveðst heldr vilja gera til féit, enn eiga við Illuga. Hörðr mælti: „Nú kaustú þat, er mér þótti miklu betra; em ek ok þessu vanari; mun ek verja þeim við tólfta mann, ok skulu vér vera ávallt jafnmargir, enn þér skulut vera því færri, sem féit gera til, sem nökkurir falla af oss“. Urðu þeir þá fjórtán, er fénaðinn gerðu til. Nú tókst atlagan með þeim Herði ok Illuga; var þat at frágørðum, hversu röskliga at Hörðr varði kvíarnar, þvíat þeir Illugi sóttu hart at. Einart söfnuðust menn at Illuga, svá at þeir urðu alls um síðir fjórirtigir manna; enn þeir Hörðr urðu tólf saman; urðu nú menn hans mjök sárir, þvíat liðsmunr var mikill. Sigurðr Torfafóstri dugði allhraustliga sem hann var ávallt vanr: Helgi Sigmundarson varðist ok karlmannliga. Þórgeirr gyrðilskeggi hlóð ferjuna; Geirr var eigi handseinn at drepa féit, ok gera til eftir. Níu fellu af Herði, áðr en ferjan var hlaðin; enn er þeir stigu á skip, sóttu hinir hart at, landsmennirnir, ok fellu þá sex menn af Herði, áðr enn þeir létu skipborðit gæta sín. Hörðr varð sárr af bryntölli; allir váru nökkut sárir. Illugi lætr þá samna skipum; enn þeir Hörðr höfðu meitt öll stór skip. Landnyrðingr stóð í móti þeim Herði. Þeir bundu þá sár sín, ok röru með hinu nyrðra landi,

um Katanes ok Kalmansárvík. Þeir lögðu farminn á eitt sker, þvíat veðr bægði þeim. Geirr vildi þar eftir vera ok einn maðr með honum; enn Herði þótti þat fólska, at hætta sér þar. Hörðr helt ferjunni inn á fjörðinn; þá hvíldust þeir, þvíat þeir höfðu mjök hlaðit, þóat snúit væri þeim. Þeir Illugi sœkja þá eftir þeim Herði fast, enn þeir halda framfyrir nesit. Þá gaf Hörðr nafn nesinu ok kallaði Katanes, þvíat honum þótti þar margr kati fyrir fara. Þegar þeir Illugi koma eftir, sœkja þeir þegar at þeim. Hörðr mælti þá: „Hart sœkir þú eftir, mágr, ok þetta bauð mér fyrir löngu hugr, sem nú er fram komit“. Illugi mælti: „Mikit hafi þér ok til gert“. Þá gerðist atsókn hörð. Hörðr varði öðrumegin ferjuna, enn sex öðrumegin. Litlu síðar kómu Hólmverjar á þrimr skipum, ok hlaupa þegar á ferjuna. Þá lætr Illugi undan síga, enn þeir elta hann út eftir firði. Brandr hét maðr, son Þórbjarnar kolls undan Miðfelli; hann kom at Geir í skerinu, ok barðist við hann ok drap þann, er honum fylgdi. Geirr varðist vel, enn Brandr var við sjaunda mann. Þá kom Hörðr at í því, ok kvað Geir hafa farit eigi fjarri því, sem hann gat til; þá flýði Brandr. Þeir lögðu eftir honum ok drápu hann; þar heita nú Brandsflesjar inn frá skerinu, — þat er fyrir austan

Kalmansá, — ok fimm menn aðra, hinn sétti komst undan. Enn þeir Hörðr ok Geirr fluttu allt fangit til Hólms. Hörðr kvað þá vísu:

Flóðs hafði felda áðan
fimtán viðu mána —
tótta var Týr á sættir
trauðr — Illugi hinn rauði;
heldr réð Geirr at gjalda
grimmúðigr þá rimmu;
nú fellu af veiti vella
vargfœðar jafnmargir.

Leið nú af sumarit.

**29.** Annan vetr eftir jól fóru þeir Hörðr ok Geirr ok fjórirtigir manna upp Álftarskarð, ok svá í Svínadal, ok þaðan í Skorradal, ok lágu í leyni um daginn, enn fóru ofan til sauðhúsa um nóttina, ok ráku þaðan í burt um morguninn áttatigu geldinga, er Indriði átti, upp hjá Vatni. Þá gerði snæfall mikit, ok gørningaveðr móti þeim; þá mœddust forustusauðir, er þeir kómu undir fjallit, ok vildu þeir Geirr þá láta eftir sauðina; enn Hörðr kvað þat lítilmannligt, þóat nökkur snæskafa væri eðr lítit mugguveðr í móti. Hörðr tók þá forustusauðina, sinni hendi hvárn, ok dró svá upp fjallit; varð þat slóð mikil: þeir ráku þar í annat féit; því heitir þar geldingadragi síðan. Enn er þeir kómu í Svínadal, var þar enginn snjór; fóru síðan til skips síns, ok drápu þar féit; þar heitir síðan Gorvík; fara

nú útí Hólm. Leið nú af vetrinn. Um várdaga fara þeir Hörðr ok Geirr ok Sigurðr Torfafóstri, Helgi ok Þórgeirr gyrðilskeggi með sextigu vígra karla. Þeir fóru norðr Álftarskarð til Indriðastaða, ok leyndust þar í skógum, þar til er naut váru rekin til haga. Svartr hét sá, er fénu stýrði, ok sveinn lítill með honum. Þeir Hörðr fóru til nautanna ok ráku fyrir vestan Vatn; Svartr fór ok með. Þeir fóru um Geldingadraga í Svínadal; þar drápu þeir Svart; síðan fóru þeir at sofa þar uppi í dalnum. Sveinninn vísaði aftr nautunum meðan þeir sváfu. Hörðr vakti ok sá undan skildi sínum; hann lét sveininn fara leiðar sinnar, ok mælti til hans: „Far þú nú, sveinn, þvíat betr er þat komit er systir mín hefir, enn þeir Hólmverjar“. Heim kom sveinninn, ok sagði Þórbjörgu orð Harðar, ok kvað skaða mikinn at slíkum manni: „ok gerði hann vel við mik, enn menn hans drápu Svart“. Engu svaraði hon sveininum. Því heitir þar nú Kúhallardalr, at nautin hölluðust þar frá þeim. Geirr vaknar, ok vildi fara eftir nautunum; enn Hörðr kvað þat eigi skyldu. Síðan safna þeir um Svínadal svínum bœnda, ok ráku ofan á sandinn, ok drápu þar svínin ok lögðu á skip; heitir þar nú Svínasandr; fóru síðan útí Hólm.

**30.** Um alþingi um sumarit fóru þeir

Hólmverjar inn til Dögurðarness. Þeir fóru Síldarmannagötu til Hvamms í Skorradal, ok tóku yxn Þórgrímu smiðkonu við Skorradalsvatn fyrir sunnan, ok ráku suðr á hálsinn. Einn var apalgrár uxinn; hann viðraði mjök; hann hljóp aftr í hendr þeim, ok svá hverr at öðrum, ok útá vatnit, ok lögðust yfir þar er mjóst var, ok gengu síðan heim í Hvamm. Hörðr mælti þá: „Mikit er um kyngi Þórgrímu, at fénaðr skal eigi sjálfr mega ráða sér". Þórgríma hafði sofit, ok vaknaði vánum bráðara, ok sá út; hon leit uxana váta, ok mælti þá: „Hart hefir yðr nú boðit verit, enn laust heldu garparnir nú". Hörðr spurði nú félaga sína, hvárt þeir vildi nú ekki breyta um hagi sína og athafnir: „þykki mér", segir hann, „illt ráð várt at svá búnu, at vér lifum við þat eitt, er vér rænum til". Þeir sögðu, at hann mundi mestu um ráða. „Þá vilda ek", segir hann, „at vær færum til kaupmanna í Hvítá, ok gerðum þeim tvá etjukosti: at þeir gæfi upp skipit við oss, eðr vær munum drepa þá ella". Geir kveðst þessa albúinn: „enn þó vil ek áðr at vér brennum inni Torfa Valbrandsson ok Koll at Lundi, Kolgrím hinn gamla, Indriða ok Illuga". Hörðr mælti: „Minna mun fram koma um stórræði yðar, ok er hitt líkara, at vér verðum allir drepnir, sakir þess at menn munu eigi þola oss svá

mikinn ójöfnuð sem vér bjóðum". Fleiri váru þeir, er löttu at fara til skipsins, enn fýstu illvirkja, útan Sigurðr Torfafóstri. Hörðr mælti: „Þat mun verða fram at koma, sem ætlat er, ok búit at ei*gi* sé hœgt við at gera; enn firr er þat mínu skapi, at liggja í þessum illvirkjum lengr". Aftr fóru þeir í Hólm hina sömu nótt ok váru heima þrjár vikr. Síðan fóru þeir til lands, áttatigir manna. Hörðr kveðst þá vilja, at þeir brendi inni Illuga eðr Indriða: „þar sem þeir hafa einart", segir hann, „mér í móti verit, enn aldri með, í svá miklum nauðum sem ek hefi staddr verit". Þeir fóru um nóttina í Svínadal, ok lágu þar í skógum um daginn, enn aðra nótt fóru þeir í Skorradal, ok leyndust þar.

**31.** Þá nótt hina sömu, er Hörðr fór ór Hólmi, dreymdi Þórbjörgu á Indriðastöðum, at áttatigir varga rynni þar at bœnum, ok brynni eldr ór munni þeim, ok væri einn í hvítabjörn, ok þótti hann heldr dapr, ok dvöldust nökkura stund á bœnum, ok runnu síðan vestr ór garði á hól nökkurn, ok lögðust þar niðr. Enn Indriði sagði þat vera hugi Hólmverja til sín. Þórbjörg kveðst ætla, at þeir mundu vera sjálfir, ok koma þar brátt. Hon bað Indriða veita heim brunnlœk ok þekja yfir, þvíat hon kveðst vera berdreym. Svá var nú gert. Þórbjörg lét gera reykháfa stóra;

hon lét bera fé upp á þvertré, þvíat vatn stóð í miðjum veggjum; hon hafði ok ekki svá mannfátt fyrir. Litlu síðar kómu þeir Hörðr; gekk hann at durunum upp ok fór fyrir liðinu; hann drap á dyr. Þórbjörg gekk til hurðar ok heilsaði vel Herði, ok bauð honum til sín ok virktaliði hans; vildi hon at hann skildi við harkalið þat, ok kvað marga mundu verða honum þá at liði. Hörðr bauð henni út á völl til sín, ok kvað hana skyldu velkomna hjá sér, ef hon skildi við Indriða. Hon kvað þat verr sama, ok létst eigi mundu við hann skilja. Síðan drógu þeir viðköst at dyrum, ok lögðu eld í bœinn; enn þeir vörðu með vatni, sem fyrir váru; þeim sóttist illa. Þat undraðist Geirr. Hörðr mælti: „Þat get ek, at systir mín hafi ráð til gefit um vatnsrás þessa". Þeir fóru at leita ok fundu lœkinn, ok veittu af, enn þó var nóg vatn í bœnum, svá hafði mikit innhlaupit áðr. Hörðr sá, at maðr stóð í einum reykháfnum ok helt á boga. Hörðr skaut þann mann með gafloki til bana. Eftir þat sá Hörðr fara lið at bœnum, er Þórbjörg hafði eftir sent. Geirr kvað þá mundu verða undan at leita; ekki latti Hörðr þess; hurfu þeir síðan frá. Engin fellu þar hús ofan. Fjöldi manna kom til Indriðastaða. Heim fóru Hólmverjar, ok sátu nú um kyrrt um stund.

32. Bœndr lögðu fund á Leiðvelli við Laxá hjá Grunnafirði, at eigi fœri svá lengr fram, at þeim Hólmverjum þyldist öll illvirki, þau er þeir gerði. Öllum heraðshöfðingjum váru orð send, at þeir kœmi til þessarrar stefnu ok öllum bœndum ok griðmönnum. Enn er Indriði bjóst til fundarins, spurði Þórbjörg, hvert hann ætlaði at fara. Hann sagði henni. „Þá vil ek fara með þér“, segir hon, „þvíat þú mátt vita, at ek er þér trú“. Eigi vildi hann at hon fœri til fundarins, ok kvað henni ekki gaman mundu vera í því, at heyra hvat þar er mælt. Hon kveðst þat þykkjast vita. Síðan reið Indriði til fundarins. Litlu síðar lét Þórbjörg söðla sér hest, ok fór með annan mann til stefnunnar. Þar var fyrir mannfjöldi mikill ok háreysti mikit. Enn er hon kom, drap klukku þeira hljóð ok þögnuðu allir. Hon mælti þá: „Vita þykkjumst ek framferði yðvart ok ætlan, enn ekki skal því leyna yðr, sem mér býr í skapi, at ek skal verða þess manns bani eðr láta verða, sem Hörð bróður minn vegr“. Síðan ríðr hon á burt. Á þessu þingi var Torfi Valbrandsson, Kollr frá Lundi, Indriði, Illugi, Kolgrímr, Refr ok Þórsteinn öxnabroddr ok Ormr ór Hvammi, ok margir aðrir heraðshöfðingjar. Torfi mælti þá: „Einsætt er mönnum þeim, sem hér eru við staddir, ok verða allir at því samráða, at

taka þessa vendismenn af lífi, eðr munu þeir gøvir fyrst alránir sem næstir eru, enn síðan allir aðrir heraðsmenn; megu þér þat sjá, at þeir munu eigi öðrum hlífa, er Hörðr vildi brenna inni mága sína; snúum brátt at nökkuru ráði góðu, svá at engin njósn komi þeim; er þetta öllum hit mesta nauðsynjaverk". Illugi lét meiri illvirki af þeim standa, enn svá mætti vera; kvað þar saman komit hit versta fólk: „mun ek þar öngvar tengdir virða; höfum vær svá spurt til þeira, at þeir hafi oss slíkan hlut ætlat sem Indriða". Kolgrímr kvað þá mestan kulda af kenna, er næstir eru, enn þó ekki langt at bíða áðrenn aðrir ætti slíkt fyrir höndum, þótt firr sæti. Slíkum orðum mælti hverr at öðrum. Refr kvað þat eitt til liggja at maðr væri gørr útí Hólm, sá er þeim sverði eiða, at ekki væri í svikum við þá, ok segi, at þat væri vili allra landsmanna, at þeir fœri í burt ór Hólmi, hvert sem þeir vildi, ok væri þá sáttir hvárir við aðra. Torfi var at þessu mestr upphafsmaðr, um ráðagørð þessa ok þat með, at hann biðr þá þegar ríða um nóttina inn til fjarðar, svá at eigi yrði Hólmverjar varir við: „þvíat mér sýnist", segir hann, „sumir grunsamligir á Ströndinni". Þeir riðu þegar um nóttina. Þeir átu dögurð um morguninn eftir á nesi því framanverðu, er þeir kölluðu Dögurðarnes

síðan. Þann morgin hinn sama sóttu þeir vatn Þórgeirr gyrðilskeggi ok Sigurðr Torfafóstri, tólf saman á skútu einni. Hólmverjar vissu öngvar vánir til mannsafnaðar eðr nökkurra svika við sik.

33. Enn er landsmenn urðu varir við ferð þeira Sigurðar, þá sendu þeir Koll Kjallaksson við fjórða mann og tuttuganda; ok er þeir fundust, flýði þegar Þórgeirr gyrðilskeggi við sjaunda mann; enn Sigurðr Torfafóstri bjóst til varnar við fimta mann, ok varð þar allhörð atlaga; varðist Sigurðr þá enn allhraustliga, þvíat hann var bæði sterkr ok vápnfimr. Þar til börðust þeir, at fallnir váru allir félagar Sigurðar; enn hann var þá enn ekki sárr. Þórvaldr bláskeggr sótti þá hart at ok margir aðrir; þá váru fallnir fimm menn af Koll. Sigurðr verst þá enn ágæta vel; vegr hann þá enn marga menn, enda berast þá sár á hann. Þórvaldr bláskeggr snarar þá at Sigurði, ok leggr í gegnum hann með spjóti. Sigurðr hafði vegit með öxi; hann kastar þá til Þórvalds öxinni, ok kemr öxin í höfuðit, ok fell hvárrtveggi dauðr niðr. Þá hafði Sigurðr orðit níu manna bani, enn fylgdarmenn hans höfðu drepit þrjá. Alls fellu þar í árkvíslunum sjautján menn af hvárumtveggjum. Þær eru nú kallaðar Bláskeggsár. Þórgeirr gyrðilskeggi nam staðar á Arnarvatnsheiði, ok

lagðist í helli á Fitjum, ok safnaði sér liði, ok var þartil er *Borg*firðingar gerðust til þeira. Þá stökk Þórgeirr norðr á Strandir ok var þar drepinn sem segir í Álfgeirsþætti.

34. Nú leitast þeir um höfðingjarnir, hverr til vill verða, at fara útí Hólminn, enn flestir töldust undan því. Torfi talar þá um, at þeim mundi aukast mikill frami í, er fœri, ok mundi þykkja síðan meiri maðr enn áðr, enn sagði líkligt, at þeir mundi gæfulausir vera, sem í hólminum váru, sakir illgørða sinna. Kjartan Kötluson, bróðir Refs, hinn mesti garpr ok manna fráligastr, hann kveðst mundu til hætta at fara, ef þeir vildi gefa honum til hringinn Sótanaut, ef Hörðr yrði veiddr: „enn ek á þó illt at launa Hólmverjum“. Þeir játuðu þessu, ok þótti hann vænligastr til af þeim, er þar váru þá. Kjartan mælti þá: „Mun ei*g*i þat líkast, at hafa bátinn Þórsteins gullknapps? oft hefir hann oss at óliði farit“. Öllum þótti þat vænligt, ok sögðu at Hólmverjar mundu þat sízt gruna. Kjartan Kötluson röri nú út á báti Þórsteins gullknapps; hann var í brynju undir kufli. Enn er hann kom í Hólm, segir hann Herði, at landsmenn vilja sættast; lét Illuga ok vini hans eiga mikinn hlut í, at þeir fœri frjálsir. Geirr trúði þessu, ok þótti líkligt vera, er hann hafði bát Þórsteins gullknapps, því at hann hafði þeim eiða unnit, at

hann skyldi aldri þeim til svika ganga. Margir váru fúsir í burt, ok leid list þar at vera, ok fýstu, at farit væri með Kjartani í burt ór Hólmi. Þá mælti Hörðr: „Mjök oft höfum vit Geirr orðit eigi á eitt sáttir, þvíat okkr hefir jafnan eigi einn veg sýnst; þykki mér þeir illan mann hafa til fengit, þar sem Kjartan er, slík hugðarmál at bera, jafnmikil nauðsyn sem við liggr hvárumtveggjum; höfum vær ok lítt við Kjartan vingast". Hann mælti þá: „Ekki skulu vær nú á þat minnast, því at þat heyrir eigi þeim, er sáttmál bera; enn satt eitt segi ek yðr, ok sverja mun ek þat, ef yðr þykkir þá fullara". Herði kveðst svá á hann lítast, at hann mundi eigi eiðvarr vera, ok kvað þá vísu:

Mér lítst málma snerru
meiðr sá's ferðar beiðir
h*u*gðarfullr, hvergi bregðast
hanna*r* njósn*i*r kanni;
brennu skyldi í burtu hranna
Baldr sjá komast aldri,
ef eyðir álms því réði,
ómeiddr sá's slíks beiddi.

Þá fýstu flestir allir burtferðar. Tóku þá þegar sumir sér flutning með Kjartani. Hörðr kveðst hvergi fara mundu: „enn ek læt vel, at þeir reyni, hversu Kjartan væri þeim trúr; enn þat ætla ek", segir hann, „at þér sét ókátari hinn síðara hluta dags". Kjartani þótti

því betr sem hann flytti í burtu fleiri. Margir stigu á ferjuna; sagði Kjartan, at þeir skyldu sjálfir fara í mót sínum mönnum í annat sinni. Þeir fóru nú frá Hólmi; eigi mátti mannfjölda sjá fyrr enn skipit kom fram fyrir tangann. Enn er þeir váru landfastir orðnir, gerðu bœndr at þeim kvíar af mannfjölda. Ok er þeir kómu á land, váru þeir teknir allir ok haldnir, ok síðan snúinn vöndr í hár þeim, ok höggnir gørvallir. Þá fögnuðu landsmenn, er svá lítit lagðist fyrir slíka illvirkja, ok þótti þeim nú líkliga á horfast, at þeir mundu allir unnir verða.

35. Kjartan fór í annat sinn út til Hólms. Hólmverjar spurðu, *h*ví félagar þeira hefði ekki farit á móti þeim. Kjartan sagði þá svá fegna orðit hafa friðinum, at þeir hefði hlaupit leikandi á land. Geirr trúði þessu, ok sté á skip með Kjartani við marga menn. Hörðr latti þessar*r*ar ferðar, ok sagði til mikils draga mundu; ekki vildi hann fara. Helgi Sigmundarson var eftir hjá honum, ok Helga jarlsdóttir, ok synir þeira tveir, ok sex menn aðrir. Þeir Geirr fóru nú burt frá Hólmi, ok þótti Herði hvergi betr, er Geirr vildi fara með Kjartani. Enn er þeir róa fram fyrir nesit, sá Geirr mannfjöldann á landi; þóttist hann þá vita, at þeir mundu sviknir vera. Hann mælti þá: Illa gefast ill ráð ok verða oft til

síð um séin, enda hefir Hörðr mér oft nær getit, *ok* enn hygg ek, at svá muni vera, ok er þat nú líkast, at hér verði endir á várum illum framferðum, ok væri vel, ef Hörðr kœmist undan, þv*íat* at honum er einum meiri skaði enn oss öllum“. Þeir váru mjök komnir at landi; Geirr hljóp þá fyrir borð á sund, ok lagðist fram með berginu. Ormr hét austmaðr, er var með Indriða, ramr maðr at afli; hann skaut manna best ok vel búinn at öllum íþróttum. Hann skaut eftir Geir gaflaki, ok kom í milli herða honum, ok fekk hann af því bana. Hann var lofaðr mjök af þessu verki. Þar heitir Geirstangi, er líkit rak á land.

36. Helga jarlsdóttir stóð á Hólminum út ok sá þessi tíðindi; hon sagði Herði, ok bað hann sjá. Ekki sýndist þeim þetta einn veg. Hon sagði, at til mikils mundi um draga. Landsmenn lofuðu mjök Kjartan, ok kv*á*ðu hann mikit mundu vaxa af þessum ferðum; létu nú ok vera fátt eftir. Kjartan kveðst nú ætla knapp á at ríða, at ná Herði ok lokka hann at líka eftir á. Hann hafði sexæring, ok ferr nú út til Hólms. Hörðr spurði, hvar Geirr væri, eðr *h*ví hann kœmi ekki í móti honum. Kjartan kvað hann vera haldinn á landi, þar til er hann kœmi: „sættist þér svá allir í einu“. Hörðr mælti: „Mikit fœrist þú

í fang, Kjartan, er þú flytr oss alla Hólmverja til lands, ok mikil laun muntú fyrir taka af landsmönnum; mun ek hvergi fara; hefir ek þér ávallt illa trúat, ok eigi má á manni sjá, ef þú gefst vel“. Kjartan mælti; „Eigi muntú því hugminni enn þínir menn, at þú þorir eigi at fara í land“. Hörðr spratt þá upp, ok stóðst eigi eggjun hans, ok kveðst ætla, at hann mundi eigi þurfa sér hugar at frýa, áðr enn lyki þeira viðskiftum. Hörðr kvað Helgu skyldu fara með sér. Hon kveðst eigi fara mundu, ok eigi synir hennar heldr, ok lét nú at því koma sem mælt er, at eigi má feigum forða. Grét Helga þá sáran. Hörðr sté á skip reiðr mjök, ok fara nú unst þeir koma þar at, er Geirr flaut dauðr við sker eitt. Hörðr hljóp þá upp, ok mælti til Kjartans: „Allra manna armastr, ok skamma stund skalt þú eiga at fagna þessum svikum“. Hörðr hjó þá til hans með sverðinu Sótanaut, ok klauf hann at endilöngum niðr í beltisstað, allan búkinn með tvífaldri brynjunni. Í því rendi skipit at landi, ok urðu þeir allir handteknir, sem á skipinu váru. Indriði lagði fyrstr hendr á Hörð, ok batt hendr hans heldr ramliga. Hörðr mælti þá: „Heldr fast bindr þú nú, mágr“. Indriði svarar: „Þat kendir þú mér, þá er þú vildir mik inni brenna“. Illugi mælti til Indriða: „Eigi á Hörðr þó góða mágana, enda hefir

hann illa til gert“. Indriði svarar: „Löngu hefir hann því fyrirgert, at nökkurar tengdir sé við hann virðandi“. Hann rétti þá fram öxina, ok teiknaði til, at nökkurr skyldi vega at Herði, enn enginn vildi þat gera. Hörðr snarast þá við hart, ok varð lauss; hann þreif öxina ór hendi Indriða, ok stökk yfir þrefaldan mannhringinn. Helgi Sigmundarson varð lauss, ok hljóp þegar eftir honum. Refr sté á hest ok reið eftir þeim, ok gat eigi náð þeim. Þá kom á Hörð herfjöturr, ok hjó hann af sér í fyrsta sinn ok annat. Í þriðja sinni kom á hann herfjöturrinn, ok þá gátu þeir kvíat hann, ok sló*g*u um hann hring, ok stökk hann enn út yfir hringinn, ok vá áðr þrjá menn; hafði Helga Sigmundarson þá á baki sér; hljóp hann þá til fjalls; sóttu þeir þá hart eftir honum. Refr varð fljótastr, þvíat hann var á hesti, ok þorði hann eigi at ráða á Hörð. Þá kom enn herfjöturr á Hörð; komst þá eftir meginflóttinn; hann kastaði þá Helga af baki sér. Hann mælti þá: „Mikil tröll eiga hér hlut í; enn ekki skulu þér þó hafa yðvarn vilja um þat, sem ek má at gera“. Hjó hann þá Helga sundr í miðju, ok kvað þá eigi skyldu drepa fóstbróður sinn fyrir augum sér. Þat þótti mönnum sem Helgi mundi mjök svá dauðr áðr. Svá var Hörðr þá reiðr ok ógurligr at sjá, at enginn þeira þorði framan at

honum at ganga. Torfi sagði, at sá skyldi eiga hringinn Sótanaut, sem Hörðr hafði á hendi sér, sem þyrði at vega at Herði. Þá slógu þeir hring um hann. Þá kom Þórsteinn gullknappr at heiman frá Þyrli. Sóttu þeir þá hart at Herði; varð hann þá enn sex manna bani; þá gekk öxin af skaptinu. Í því hjó Þórsteinn gullknappr á hnakkann með háskeftri öxi, þvíat enginn þeirra þorði framan at honum at ráða, þóat hann væri slyppr. Af því sári fekk Hörðr bana. Þá hafði hann drepit af þeim þrettán menn, með þeim fjórum, sem hann drap við skip áðr enn hann var fangaðr. Allir lofuðu hreysti hans, bæði vinir hans ok óvinir; ok þykkir eigi honum samtíða á alla hluti röskvari maðr verit hafa ok vitrari enn Hörðr, þóat hann væri eigi auðnumaðr; ollu því ok hans fylgdarmenn, þó at hann stœði í slíkum illvirkjum, ok þat, at eigi má sköpunum renna.

37. Landsmenn lofuðu Þórstein gullknapp fyrir þetta verk, ok fengu honum hringinn Sótanaut, ok kváðust honum hans vel njóta ok unna. Enn er Þórsteinn spurði umrœðu Þórbjargar, vildi hann gjarna þetta verk aldri gert hafa. Nær sextigir manna váru drepnir af Hólmverjum, ok at auk þeir fóstbrœðr, í Dögurðarnesi. Nú töluðu þeir um höfðingjarnir, at ráð væri at fara eftir Helgu, ok drepa

sonu þeira Harðar. Þá þótti sumum of síð dags. Höfðu þeir þá at því samtak, at þeim skyldi engi grið gefa né ásjá veita, ella skyldu allir þeim hefna; svá var ríkt við lagit. Þeir ætluðu út um morguninn, enn váru þar um nóttina.

**38.** Helga er nú í Hólminum ok þykkist vita nú allar vælar ok svik landsmanna. Hon hugsar nú sitt mál; þat verðr nú hennar ráð, at hon kastar sér til sunds, ok leggst *til lands* ór Hólminum um nóttina, ok flutti með sér Björn son sinn fjögurra vetra gamlan, til Bláskeggsár, ok þá fór hon móti Grímkatli syni sínum átta vetra gömlum, þvíat honum dapraðist sundit þá, ok flutti hann til lands; þat heitir nú Helgusund. Þau fóru um nóttina upp á fjall frá Þyrli, ok hvíldust í skarði því, er nú heitir Helguskarð. Hon bar Björn á baki sér, enn Grímkell gekk. Þau fara þar til er þeir ok hon koma til Indriðastaða. Hon settist þá niðr útan undir túngarði, enn sendir Grímkel til húss, at biðja Þórbjörgu þeim griða. Þórbjörg sat á palli, er sveinninn kom inn. Hann bað hana griða; enn hon stóð upp, ok tók til hans, ok leiddi hann út, ok spurði, hverr hann var. Hann sagði til hit sanna. Hon spurði at tíðindum, eðr hvar Helga væri. Grímkell sagði slíkt sem hann vissi, ok fylgdi henni til Helgu. Þórbjörg mátti þá ekki mæla.

svá fekk henni mikils. Hon fylgdi henni í útibúr eitt ok læsti þau þar. Þenna aftan kom Indriði ok margt manna með þeim. Ekki fann á Þórbjörgu, ok bar hon mat fyrir gesti. Enn er þeir sögðu henni tíðindin, ok þat, at Þórsteinn gullknappr hafði vegit Hörð, ok gengit aftan at honum, enn hinn staðit kyrr fyrir, þá kvað Þórbjörg vísu:

Varð í hreggi hörðu
Hörður feldr at jörðu;
hann hefir átta unnit
Unns ok fimm at grunni;
heldr nam grimmra galdra
galdr ramliga at halda;
mundi enn bitra branda
brandr elligar standa.

Enn er þau komu í sæng um kveldit, þá brá Þórbjörg saxi, ok vildi leggja á Indriða bónda sínum, enn hann tók á móti, ok varð sárr mjök á hendi. Hann mælti þá: „Bæði er nú, Þórbjörg, at ór hörðu er at ráða, enda viltú mikit at gera; eðr hvat skal nú vinna til sátta með okkr“? „Ekki annat“, *segir hon*, „enn þú fœrir mér höfuð Þórsteins gullknapps“. Því játaði Indriði. Hann fór um morguninn einn saman, ok hit gengsta reið hann til Þyrils. Hann steig þá af baki, ok gekk ofan Indriðastig hjá Þyrli, ok beið þar unst Þórsteinn fór til blóthúss síns sem hann var vanr. Enn er Þórsteinn kom, gekk hann inn í blóthúsit, ok

fell fram fyrir stein þann, er hann blótaði ok þar stóð í húsinu, ok mæltist þar fyrir. Indriði stóð úti hjá húsinu; hann heyrði þetta kveðit í steininum:

Þú hefir hingat
í *hinsta* sinni
feigum fótum
fold spornaða;
þér mun rétt
áðr röðull skíni
harðr Indriði
heiftir gjalda.

Síðan gekk Þórsteinn út ok heim. Indriði sá ferð hans gørla. Indriði bað hann eigi hlaupa svá mikinn. Hann snýr þá fram fyrir hann, ok hjó þegar með sverðinu Sótanaut undir kverkina, svá *at* af tók höfuðit. Hann lýsti þessu vígi á hendr sér heima á Þyrli; sagði hann Þórstein lengi ótrúan verit hafa. Hann reið heim ok seldi Þórbjörgu höfuðit. Hon kveðst ekki hirða um þat, þegar þat væri af bolnum. „Nú muntú“, segir Indriði, „sættast við mik“. Hon kvað þat eigi skyldu, fyrr enn hann tœki við Helgu ok sonum hennar, ef þau kynni þar at koma, ok veitti þeim allan dugnað, þann sem þau þyrfti: „þá mun ek“, sagði hon, „veita þér alla elsku þaðan af“. Indriði kveðst ætla, at þau mundu hafa á sjó hlaupit, ok drekkt sér, er þau fundust eigi í Hólminum: „ok vil ek því heita þér þessu,

at ek veit, at ekki mun þurfa til at taka. Þá gekk Þórbjörg eftir þeim Helgu, ok leiddi þau fram. Indriði mælti þá, ok varð fár við: „Œrit langt hefi ek nú fram talat, enn þó mun þat nú ráð, at halda orð sín“. Endi hann ok vel öll sín orð; gaf ok engi maðr honum at þessu sök. Þótti öllum Þórbjörgu mikilmannliga verða.

**39.** Þórólfr hét maðr ok kallaðr Starri, hagr ok heldr auðigr, gálauss ok glensmikill, frœkinn ok framgjarn ok harðgørr í hvívetna. Hann kom hit sama haust til Indriðastaða ok bauðst bónda. Þórbjörg bað hann taka víst við honum, ok svá varð; dvaldist hann þar um hríð til smíða. Helga jarlsdóttir var kát við hann ok þær Þórbjörg báðar. Hann þóttist vera í þingum við jarlsdóttur, enn hon tók því ekki allfjarri. Þórólfr hafði verit með Ref um sumarit, ok hafði illa þar at getist. Hann leitar nú vetrvistar til Þórbjargar. Hon svarar: „Ek mun fá þér vetrvist ok hringinn Sótanaut, Helgu jarlsdóttur ok mikit fé annat, ef þú drepr Ref í Brynjudal“. Hann svarar: „Þetta er mér ekki illa hent; trúi*k* mér ok allvel hent til at geta þetta gert, ef ek hefi sverðit Sótanaut; er ok ekki ván, at ek muna lítit til vinna, enn taka mikit upp“. Þessu keyptu þau. Ekki var hœgt at ná sverðinu, því at Indriði hafði þat alla stund, hvert sem

hann fór. Einn dag tók Þórbjörg sverðit Sótanaut, ok reist hér ok hvar *umgørðina*, svá at sverðit feli sjálft niðr ór. Enn er Indriði ætlaði at gyrða sik sverðinu, þá fell þat niðr ór slíðrunum; honum þótti þat kynligt, enn Þórbjörg kvað þat náttúru sverðsins, ef þat vissi á tíðindi. Hann bað hana gera at umgørðinni. Hon kveðst þat í tómi mundu gera. Indriði átti at fara vestr á Mýrar, at sætta vini sína; hann hafði þá eigi sverðit. Enn er hann var farinn, seldi Þórbjörg Þórólfi sverðit Sótanaut, ok bað hann neyta drengiliga, ef hann vildi ná ráðahag við Helgu. Þórólfr fór til Refs, ok kom þar síð dags. Hann leyndist í torfbingi, ok hlóð at sér elditorfi, svá at ekki kom upp nema nasirnar einar. Refr var varr um sik, svá at hann lét lokur fyrir hurðir hvert kveld, ok lét ljós bera tysvar um hús öll, fyrst fyrir náttverð, ok í annat sinn áðr enn menn fóru í rekkjur; ok enn var svá gert. Eigi fannst Þórólfr at heldr. Þórólfr talaði hverjum manni líkt. Hann stóð upp þegar niðr var lagizt; hann vakti griðkonu Refs, ok sagðist vera sauðamaðr; hann bað hana kalla til skœða við Ref, þvíat hann kveðst skyldu á fjall ganga um morgun. Hon kvað hann ekki óstarfsamt gera, kvað hann eigi alls minna hafa enn aðra: „ok er enginn sá af húskörlum, at þarfari sé enn þú“. Hann

kvað þat vera skyldu áðrenn lyki. Refr hvíldi í lokrekkju, ok vildi hann ekki þangat láta ganga til sín um nætr. Hon fór þó, ok sagði Ref skœðakallit sauðamanns; sagði hon hann ómakligan at missa skó eðr aðra hluti, þá sem hann þyrfti at hafa: „þarsem hann hugsar ávallt um þitt góðs, bæði nátt ok dag". Refr lét illa at henni, er hon skyldi fara með slíkum erindum um nætr: „enn þó liggr léskrápr einn útar í torfhúsi, ok taki hann sér þar af skœði". Enn er hon gekk í burt, rak Þórólfr kefli fyrir hleðann, svá at ei*gi* gekk aftr. Hann hafði staðit uppi yfir Ref, meðan at þau töluðust við, ok varð honum bilt. Refr sofnaði, enn Þórólfr þorði eigi á hann at ráða. Þórbjörg katla, móðir Refs, kallaði: „Vaki þú son minn, fjandinn stendr uppi yfir þér ok vill vega þik". Þá vildi Refr upp standa, ok í því hjó Þórólfr með sverðinu Sótanaut undan honum báða fœtr, annan þar sem mjóstr var kálfi; enn annan í ristarlið. Síðan hljóp Þórólfr fram á gólfit ór lokrekkjunni. Þá kom Þórbjörg katla í móti honum ok greip til hans ok rak hann undir sik, ok beit í sundr í honum barkann, ok gekk svá af honum dauðum. Refr tók sverðit Sótanaut; enn hringrinn hvarf af Þórólfi, er þær Þórbjörg ok Helga höfðu selt honum, sá er Hörðr hafði tekit af Sóta Refr varð grœddr, ok borinn á stóli alla stund

síðan, þvíat hann mátti aldri ganga, ok lifði þó lengi upp frá þessu, svá at hann var kallaðr Refr hinn gamli, ok þótti æ hinn mesti mætamaðr.

**40.** Litlu síðar kom Indriði heim, ok spurði þessi tíðindi; þóttist hann þá vita, at Þórbjörg mundi hafa verit í þessum ráðum. Eigi vildi hann þó missa sverðsins. Fór hann síðan ok hitti Ref, ok bað hann laust láta sverðit: „þvíat ek hefi í öngum þessum ráðum verit“, segir hann. Refr selr honum sverðit: „vil ek ekki óvingast við þik“, segir hann. Tók Indriði þá við sverði sínu, ok reið heim síðan. Má í slíku marka, hverr höfðingi Indriði hefir verit, at slíkr garpr, sem Refr var, treysti eigi öðru enn láta laust sverðit við Indriða, þegar hann beiddi, svá mikil örkymsl sem hann hafði fengit af því. Litlu síðar fundust þær Þórgríma smiðkona ok Þórbjörg katla, móðir Refs, ok fundust síðan dauðar báðar í Múlafelli. Þær váru allar rifnar ok skornar sundr í stykki, ok reimt þykkir þar síðan vera hjá kumlum þeira. Þess geta menn til, at Þórgríma, móðir Indriða mundi vilja sœkja hringinn Sótanaut til handa Indriða, enn Katla verði, ok vildi eigi lausan láta, ok fyrir því dræpist þær niðr. Aldri fannst hringrinn síðan.

**41.** Fám vetrum síðar kom skip í Breiðavík. Þar var á Tindr Hallkelsson ok Þórðr

Kolgrímsson frá Ferstiklu. Þeir riðu frá skipi, Tindr á Hallkelsstaði, enn Þórðr yfir Hvítá ok ætlaði heim. Enn er Helga jarlsdóttir frétti þetta, mælti hon til Grímkels sonar síns, at seint kœmi honum í hug föðurdauðinn. Hon bað hann þá sitja fyrir Þórði Kolgrímssyni: „þvíat faðir hans var verstr mótgöngumaðr Herði föður þínum“. Þá var Grímkell tólf vetra. „Vilda ek, frændi“, segir hon, „at þú dræpir Þórð, þvíat gild hefnd er í honum“. Grímkell var við þriðja mann. Þeir fundust við Bakkavað fyrir austan Hvítá undir torfstökkum nökkurum. Litlu síðar fundust þeir allir dauðir hvárirtveggju. Skeifr hét maðr, er bjó á Hvítárvöllum, félítill maðr. Þess gátu sumir, at hann mundi hafa drepit sára menn, ok tekit síðan góða gripi, þá sem Þórðr hafði haft með sér ok aldri spurðist til síðan. Skeifr fór útan, ok kom aldri út síðan, ok varð vellauðigr at fé. Indriði vildi eigi hætta Helgu hér á landi ok Birni syni hennar. Þau fóru útan á Eyrum til Noregs, ok þaðan til Gautlands, ok lifði Hróarr þá. Hann varð feginn Helgu systur sinni, enn þótti mikill missir at Herði. Ekki var Helga gift síðan, svá at þess sé getit. Björn varð mikill maðr, ok kom aftr til Íslands, ok drap marga menn í hefnd föður síns, ok varð hinn röskvasti maðr. Fjórir menn ok tuttugu váru drepnir í hefnd eftir Hörð;

enginn þeira var fé bœttr; synir Harðar drápu suma ok frændr ok mágar, enn suma Hróarr; flestir allir váru drepnir með ráði Þórbjargar Grímkelsdóttur; þykkir hon mikill kvenskörungr verit hafa. Þau Indriði bjuggu á Indriðastöðum til elli, ok þóttu hinu mestu menn, ok er margt manna frá þeim komit. Þá hafði Hörðr nítján vetr ok tuttugu, er hann var veginn, ok höfðu honum flestir tímar til heiðrs ok metnaðar gengit, útan þeir þrír vetr, er hann var í útlegð. Segir ok svá Styrmir prestr hinn fróði, at honum þykkir hann hafa verit í meira lagi af sekum mönnum, sakir visku ok vápnfimi ok allrar atgørvi; hins ok annars, at hann var svá mikils virðr útlendis, at jarlinn í Gautlandi gifti honum dóttur sína; þess hins þriðja, at eftir engan einn mann á Íslandi hafa jafnmargir menn verit í hefnd drepnir, ok urðu þeir allir ógildir. Nú lúkum vér hér Hólmverja sögu.

---

# Viðbœtir.

## „harðar saga grímkelssonar.

(G)rimkell godi het m*adr* han var son biarnar gullbera hann var audigr madr hann. bio fyst a grimkelsstodum þat e*r* við auluisvatn. þat er nu saudahus han hafdi att konu oc var þa aundut oc lifde dóttir hans ær þorun het hun uar vpp fæd med þeim. manni. er Sigurdr muli het hann bio undir fialli. grimkell var ríkr madr oc auðigr. högní het madr audigr hann bio j haga vik skamt fra auluusuatni þorbiorg het cona hans en gudridr dottir hun var uæn cona *oc* uinnu god. grimkell færdi bu sitt til auluis vatz þviat h*onu*m þottu þar bet*ri* landzkost*ir oc* bio þ*ar* sídan. Valbrandr het m*adr* er bio. a. breidabolstad j reykíadal inu*m* nýrdra han u*ar* son ualþiofs hins gamla hans son u*ar* torfí rikr m*adr oc* fr*œ*gr *oc* míöc h*ar*dudígr. Þ*ar* ox upp sa m*adr* e*r* Sig*ur*dr het gun*n*hildr het mod*ir* hans han u*ar* skylldr t*or*fua *oc* uar kalladr t*or*fa fostrí efnílígr m*adr* u*ar* h*ann oc* uel ge*r*r at s*er* u*m* m*ar*ga hluti. Signy het cona hun u*ar* syst*ir* torfa hu*n* bio. a. Sygni*ar* stödu*m* þat er skamt f*ra* breidabolstad. hu*n* u*ar* eckia hu*n* v*ar* skörvngr *oc* skapstor g*ri*mur het s*on* he*nn*ar ær

þar ox *med* h*en*ni upp h*ann* u*ar* ef*n*iligr m*adr*. þar ox upp m*ed* h*en*ni g*ri*mr en litli fostri h*enn*ar *oc* u*ar* gilldr m*adr* *fyri* s*er*. Kolr kiallacs. s*on*. bio at lundi j syd*ra* reyk*ia*dal Þorualldr het m*adr* *er* bio at uat*t*zhorni j skor*r*adal ættstor m*adr* oc á m*a*rga f*rænd*r Þorgr*i*ma het cona hun u*ar* eckia. *oc* bio j huammi j skor*r*adal hu*n* u*ar* audig *oc* æ*igi* u*id* alþydu skap eindridi het s*on*. h*enn*ar mikill m*adr* *oc* efniligr. Þat u*ar*. eitt sum*ar* at g*ri*mkell reid t*il* þings at uanda oc ei*nn*. dag geck h*ann* f*ra* bud sin*n*i m*ed* flocki sinu*m* *oc* t*il* motz. v*id* valb*ra*nd *oc* sagdi h*onu*m at h*ann* kuedz spurt hafa at h*ann* ætti dott*ur* *oc* uæri skörun*g*r m*ik*ill uil ec hafa t*il*mæli v*id* þik um þ*en*na radahag Valb*ra*ndi kvedz v*er*a kunnigt *oc* kuezt goda eina frett af h*onu*m hafa *oc* kuezt þui uilldu uel su*a*ra *oc* hu*er*su mart sem he*r* *er* um talat þa lyktadiz m*ed* þui at *gr*imkeli u*ar* heitid konu*nn*i *oc* skylldi brudlaup uera at tuimana*d*i at aulfus uatni Torfi u*ar* æ*igi* a þinginu *oc* er valb*ra*ndr kom heim þa m*æ*l*ti*. torfi at litils. uæri u*ir*d h*a*ns til laug er hann uar. ecki at kuaddr um þetta heitord oc er þau syskin hittuz let torfi ser um þenna radahag ecki mikid signy mælti þa ec se rad til þessa frændi. segir hun breytum uid ecki radi þessu en fe mitt mun ek handsala þer *oc* skaltu lykia heiman fylgiu mina slika sem fader minn hefir akuedit en þa eig þu þat sem meira er. torfi uill nu þetta þviat hann uar fegiarn oc nv buazt þeir til ferdar. Valbrandr uar þa gamall oc þui fengu þeir fedgar kol kiallaksson at uera fyri brudferdine

voro þau saman .xxx. manna þau gistu at þuerfelli grimr en litli fostri Signyiar skylldi gæta hrossa a gistingu oc vm morginin er hann leitadi uar uant hestz signyiar er het fiöllungr. Grimr for yfir heidi nordr j floka dal eptir dauggslod oc fan hestin daudan j jardfalli oc tok af fiöturen oc for aptr oc sagdi signyiu oc kuad slikt furdu illa oc kuezt fusari at snua aptr kolr kuad þat ugeranda at bregda slicum radum fyri eingi til efni oc foro þau oc komu til grimkels oc for ueizlan alluel fram signy uar þar eptir oc fostra hennar er þordis het oc grimr en litli grimkell mælti uel uid kol at skilnadi en þottu þeir feðgar allt uuirda sitt mal. grimkell uar stirdlyndr en signy falat oc uar fatt j samforum med þeim oc mattu þau ecki saman eiga vini, en grimr gat þo sua til gætt at til hlitar fell med þeim þeim uard barna audit þau attu son oc het kolr en gudridr dottir er siðan atti kolr kiallaks(*son*) um varit ræddi (*Grímr*) um uid signyio, at hann uilldi j brott kuezt uant þikia þeirra. a. milli at ganga signy bad hann tala um uid grimkel oc mun hann helldr bæta kosti þina þviat hann er vel (til) þin oc sua gerir grimr. grimkell segir þat uil ec at þu ser heima man ec gora sua at þer hugni uar grimr heima þau missere annat uar for allt aá saumu leid uilldi grimr þa en brótt fara oc kuez (eigi) uera mundu nema grimkell bædi gudridar högna dottur til handa honum. Grimkell mælti dyrr geriz þu nu grimr mun þeim þu þikia felitill þuiat högni er audigr madr grimr kuad þetta uel mega takaz med umsyslu hans. Grimkell ferr

oc biðr konunar oc flytr vel oc med hans fram kuæmd þa takaz þessi rad med þeim grimi oc gudridi, hafdi grimkell ínní bod þeirra oc voro þeirra samfarar godar. Ok ed þridia uarit uill grimr a brautu. Grimkell kuad hann þar hafa vel uerit oc sagdi hann nu fara skylldu þann veg sem hann villdi oc muntu uerða þrifa madr eptir þat reiste grimr bu oc fær grimkell allt til þat sem þarf oc leysa þau sígny hann uel af hendi er þat fra grimi at segia at hann rakar fe saman j bunaðinum suo at. ij. höfut uoro a huíuetna þui er hann átti. signyíu dreymdi draum þann at hun þottiz sia tre micít i hvilu þeirra grimkels oc fagrt míoc oc suo miclar limar aa at henni þotti taka yfir husin aull en eingi á blomin á limunum hun sagdi þordísi fostru sinni drauminn hun red sua at þau grimkell mundu barn eiga oc litlu sidar fæddi sígny barn þat uar s(ueinbarn) . . . . hann uar mikill oc fridr oc geck eigi fyr . . . þreuetr oc þotti þat seínlígt um hann slikt f . . g . . . hann uar um annat þan dag er hofs helgi var halldin at (ölfusvatni þvíat Grímkell) uar blotmadr micill sat signy. a. stoli. a midiu hofs golf(inu ok) biozt um men hennar la j kníam kenni þat uar henni menia gripr. Þa geck hördr fyrsta fra stocki oc laust höndunum badum a kne henni oc hraut menit vr kniam henni oc brast j tua hlute er á golfit com signy reidiz miöc oc kuad il(la) hans gaungu ina fyrstu sagdi oc margar illar uera mund(u ok ver)sta ína sidustv grimkell kom at j þui oc tok upp su(e)inen (þegjandi) oc reídiz oc for til motz vid

þau grim oc gudridi oc biðr þau taka uid sueininvm oc þau uilia þat giarna þau attu son arsgamlan er het geír sígny undi uerr en adr sidan oc var færa (med) þeim. Enn dreymdí signyiu at hun sæi tre eitt mest . . nidr j rotum en uisnadi vpp þadan oc veri a blomi (mikill). Þordis kvat hana eiga mundu meybarn oc sagdi m(undu) coma fra henni mikla ætt. Eptir þing um sumarit bad signy grimkel at hann mundi lofa henní at hun færi at finna frændr sína grimkell kuezt lofa mundu ef hun væri eigi leingr j brott en halfan manud hun for oc med henni huskarlar .ij. oc þoıdis fostra hennar. Þau komu til torfa oc toc hann uel uid þeim oc bad þau þar vera um vetrin kuad þat vera astleysí míkit er grimkell for eigi með henni signy kuat ser eigi leingr lofat at uera en halfan manud en þo at aeggiun torfa voro þau þar um vetrin oc foro at heímbodum til manna oc er þav uoro nidri j sveítum vard þordis brad daud oc uar iördut j þordisar hollti skamt fra bæ.

(Þ)at er sagt at signyíu þotti mikit lat þordisar oc for a breidabolstad oc toc sott er (hun) skylldi uerda lettari oc greiddiz þúngliga oc vm si(ðir) fæddi hun meybarn oc andadiz sialf litlu sidar torfi uard suo styggr vid lat signyiar at hann uill eigi lata vpp fæda barnít oc bad sigurd fostra sínn fara til reykia dals ar oc kasta ut a ana sigurdr kuad þat illa gert en uilldi þo eigi synia honum hann tok nv uíd barnínu oc leizt uel a oc nenti eigi at kasta á ána oc sneri nu ferdini oc let barnit nídr j gardz hlidi a sígnyiar stödum

oc þotti uan at brátt mundi finnazt þetta sá grimr bondi oc for til oc tok upp barnid oc hefir heim oc let helgu konu sina bregdaz siuka oc ios meyna uatni oc kalladi Þorbiörg grimr for a. breidibolstadi torfi sagdí honum andlat modr sínnar oc baud honum fe oc munu uer uel til þin gera grimr kuad þ(etta) vel mælt oc uil ek at sigurdr fostrí þinn fari med mer oc (var sv)a gert. Tueim nottum sidar sendi (grí)mr sigurd sudr a eyrar f(ekk) hann honum tuo hesta annan klyfiadan, oc for hann (útan). Litlu siðar com torfi a signyiarstadi oc spurdi hví helga". *(Hér endar AM. 20 fol.).*

## Vísnaskýringar.

**Bls. 4—5.** Gamall [beiðir brynfatla benhríðar[1] hefir gift Grímkatli [þorna þoftu[2]; þegn[3] nam at fregna slíkt; [einfeldr auðs[4] nam[5] steina Njörun[6] yndi ok blíðu; get'k (= ek get), at þat gamalmenni man gera henni lítit.

1. *benhríð*, sárhríð, blóðug hríð; *brynfetill*, líklega = sverðfetill; *benhríð brynfatla*, bardagi; *beiðir bardaga*, m. — 2. *þorna þofta* k. — 3. m. = Torfi sjálfr. — 4. *einfeldr auðs*, sá er hefir hugann á auðnum einum, lök m. — 5. = svifti. — 6. *Njörun*, Ásynja; *Njörun steina*, k.

**Bls. 10.** (Sveinninn) braut í sundr (hit) góða [Sírnis hljóða[1] men fyr sætu[2]; trú'k (= ek trúi), at engi ýta[3] bœti þat auðarhlíði[4] síðan; hinn fysti[5] gangr hins unga gulls lystis[6] varð-a[7] góðr: hverr[8] man héðanaf verri, þó man hinn efsti[9] hnepstr (tg. Dr. J. Þ. fyrir: *hnestr*)[10].

1. *Sírnir*, líkl. jötunn; *jötuns hljóð*, gull. — 2. k. — 3. *ýtar*, menn. — 4. k. — 5. = fyrsti. — 6. m. — 7. = varð eigi. — 8. = sérhver. — 9. = síðasti. — 10. *hneppr* (lo.), naumr, vesall: *hnepstr* = aumastr.

**Bls. 10.** [Auðs beiðir[1] hefir átta móður ógóða sér; hann nam nýgenginn[2], fyrstr jóða[3], at finna bræðiorð fljóðs[4], þau er [bræðir brennu sjós[5] man kenna[6], [atkvæði lýða[7] lifa lengr enn nökkurr drengja.

1. m. — 2. = nýfarinn að ganga. — 3. *jóð*, afkvæmi. 4. k. — 5. *brenna sjós*, eldr sjóar, gull; *bræðir gulls*, m. — 6. = kenna á. — 7. *atkvæði lýða*, orð manna; hin illu orð Signýar til barns síns munu lengi uppi vera.

**Bls. 16.** Torfi var-a[1] trauðr at deyða [skorð tvinna ok borða[2]; hann gerir at sönnu hróp[3] hjörlestis[4] í flestu; [sviftir branda[5] sendi þersa (= þessa sökum ríms) [silfrkers (tg. Dr. J. Þ. f. *silfrskers*) Gná á rekning[7] at röngu; mál er at launa raun[8].

1. var eigi. — 2. k. — 3. svívirðing. — 4. m. — 5. m. — 6. k. — 7. *rekningr*, húsgangr. — 8. = það er mál komið að launa þessa skapraun.

**Bls. 22.** Hinn mildi málmrjóðr[1] gaf mér skjöld, eigi (tg. fyrir *ok ei*) góðan; hann, þegn, man þurfa þenna í Hildar regni[2]; hinn svinni [meiðir (tg. J. Þ. f. *meiðar*) eiðs ok hringa[3], er ann minni [Auði (tg. Dr. J. Þ. f. *Auðr*) urðþvengs (tg. Dr. J. Þ. f. *urþvengs*) hlíðar[4], eigi hann sjálfr grip sinn.

1. m. — 2. *Hildar regn*, bardagi. — 3. m. — 4. *urðþvengr*, ormr; *orms hlíð*, gull; Auðr *gulls* k.

**Bls. 25—26.** Hinn harmr er mestr í Hlakkarstormi[1] Þórbjargar hafðr í minnum hunmargra[2] (tg. Dr. J. Þ. f. *hunmargr*) manna, er móðurbróðir hennar bauð Sigmundi at fœða [Auði (tg. Dr. J. Þ. f. *eyðir*) ermvangs branda[3] upp á húsgangi.

1. *Hlökk*, Valkyrja; hér: tröllkona; *tröllkonu stormr*, hugr. — 2. *hunmargr*, hundmargr, hundraðmargr, fjöldi. — 3. *ermvangr*, *land ermar*, hönd; *brandr*, eldr; *eldr handar*, gull; *Auðr gulls*, kona.

**Bls. 35.** Átta'k-a (= ek átti eigi) við léttan[1] nè blauðan auðarhlyn[2]; vont var at vinna þann vóm í heiðnum dómi; veit'k (= ek veit), at ásjón Sóta varð ljót, þá's (= þá er) nam lita ljós; greypr[3] galdra geymir vildi steypast í jörð.

1. auðveldan, góðan viðreignar. — 2. m. — 3. *greypr* (lo), ólmr; grimmr.

**Bls. 48.** Mágur[1] minn varð mér illr at reyna í málafellum[2] ok svá's[3] hann flerum[4] [hranna ells einum[5]; [arfi Þórgrímu[6] réð vera heldr hvarflauss[7]; [stála stýrir[8] es ors[9] stríðr[10], enn verri[11] síðar.

1. Þannig verðr at lesa í 2 atkvæðum til at fá sex atkvæði í vísuorðið. — 2. = málaferlum. — 3. = *svá es*, svo er. — 4. = fleirum. — 5. *einir* (l.: *juniperus*) viðr; *einir ells* (= elds) *hranna* (gulls), m. — 6. = sonr Þórgrímu, Indriði. — 7. *hvarflauss* (lo.), sá er ekki athvarfs er að leita til, óhjálpsamr. — 8. m. — 9. = oss, sökum ríms. — 10. = erviðr, óbónþæginn. — 11. ɔ: mun hann þó reynast.

**Bls. 49.** Enn [geymir stórra gullhringa[1] réð at vísu gera [fægi ósa elds[2] útlægan um [hyski hjörrunna[3] (tg. Dr. J. Þ. f.: *hjörunna)* [heiðar þoska miskunnar[4] ok [grettis sótta[5]; oss es eingi ótti at þessu.

1. m. ɔ: Torfi Valbrandsson. — 2. m. ɔ: Hörðr. — 3. *hjörrunnr*, sverðviðr, m.; *hyski hjörrunna*, mannfélag; *um hyski hjörrunna*, úr mannfélaginu. — 4. *gen. temp.*: *heiðar þoskr* (þorskr), landfiskr, ormr; *miskunn orma*, sumar. — 5. *gen. temp.*; *grettir*, ormr; *sótt orms*, vetr.

**Bls. 49.** Torfi, hæðinn [höldr tandrauðra Nílsanda[1] man víst treystast (tg. Dr. J. Þ. f.: *treysta)* at ríða heim í Botn at gotnum; get'k (= ek get), at hreytar[2] veiti viðrnám, trúi'k (= ek trúi), at þegnar[3] [bjargi vargi[4], ef jafnmargir [törgu meiðar[5] mætti finnast hér inni.

1. *tandr*, eldr; *tandrauðr*, eldr: *Nílsandr*, gull; *höldr gulls*, m. — 2. *hreytar* (hálfkenning), m. — 3. m. — 4. *vargr*, úlfr: *bjarga úlfi*. = vega menn. — 5. *targa*. lítill skjöldr; *törgu meiðar*, m. — Vísan er líklega eftir einhvern Botnverja.

**Bls. 63.** Illugi hinn rauði hafði áðan felda fimtán [viðu flóðs mána[1]; [tótta Týr[2] var trauðr á sættir; grimm-

úðigr Geirr rèð heldr[3] at gjalda þá rimmu; nú fellu jafnmargir vargfœðar[4] af [veiti vella[5].

1. *flóðs máni*, *tungl* (ljós) *sjóar*, gull; *viðir gulls*, m. — 2. *tótt*, tóft, hússtœði, jörð; *Týr* (sonr Þórs og Jarðar) *jarðar*, m. ɔ: Illugi rauði. — 3. = heldr vel; Geir tókst fremr vel að hefna sín. — 4. m. — 5. *vell*, gull, fé; *veitir vella*, m.

**Bls. 72.** Mér lítst hvergi[1] bregðast, at [hannar[2] (tg. Dr. J. Þ. f.: *hann at)* málma snerru meiðr[3] sá's (= sá er) hugðarfullr[4] (eftir: H; S hefir: *hrygðarfullan)* beiðir ferðar, [kanni (tg. Dr. J. Þ. f.: *kanna)* njósnir[5]; [branna brennu Baldr[6], sá's beiddi slíks, skyldi aldri komast ómeiddr í burtu, ef [eyðir álms[7] réði því.

1. = øngvan veginn, með øngvu móti. — 2. *hannar* (lo.), hagr, kænn, slœgr. — 3. *málma snerra*, bardagi; *meiðr* (viðr) *bardaga*, m. — 4. = áhuga fullr, alvörugefinn. — 5. *kanna njósnir*, vera njósnari, njósna. — 6. = *Baldr* (Ás) *sjóar elds*, m. — 7. *álmr* (l.: ulmus), eiginlega: viðr; enn þýðir og bogi; *eyðir boga*, m., hér: Hörðr.

**Bls. 79.** Hörður[1] varð feldr at jörðu í hörðu [Unns hreggi[2]; hann hefir unnit átta ok fimm at grunni; galdr[3] grimmra galdra nam at halda (honum) heldr ramliga; [brandr (tg. Dr. J. Þ. f.: *brands)* bitra branda[4] mundi enn (þannig: H; S: *ei)* standa[5] elligar[6].

1. Sjá skýr. við vísuna á bls. 48, 1. aths. — 2. *Unnr* eða *Uðr*, Óðinn; *Óðins hregg*, bardagi. — 3. = galan, — 4. *brandr* (á skipi), viðr; *brandr bitra branda*, viðr bitra sverða, m. — 5. = standa uppi. — 6. = ella, annarskostar.

## Eftirmáli.

---

Vísurnar með *fornyrðalagi* í sögunni virtist mér eigi þörf á að skýra, því að þeir er á annað borð nenna að lesa hinar dróttkvæðu vísur sögunnar og skýringarnar yfir þær munu auðveldlega skilja hinar. Neitunarorðinu *ei* hefi eg hvarvetna breytt í neitunarstafinn *a*, þvíað *ei* er rangt (í stað: *eigi*); eg hefi og breytt *er* í *es*, þvíað svo er réttara að fornu. Hinn fyrri skýrandi vísnanna, er eg ann hugástum og ber hina mestu virðingu fyrir, Dr. Jón Þórkelsson, telr vísur Harðarsögu *óekta*, ɔ: ortar á 14. öld. Að vísu er nokkur ástæða til þessa, þvíað vísurnar hefir flestar vantað í Vatnshyrnu. Enn eg get þó eigi verið honum alveg samdóma í því, né Dr. Finni í hans „Kritiske Studier", Kh. 1884, né öðrum þeim fornfræðingum, er telja alt það *óekta* í fornum vísum, er eigi er eftir þeira kokkabók. Skyldi fornmönnum eigi hafa verið mislagðar hendr með kveðskapinn, alteins og mönnum nú á vorum mentuðu tímum? Öll saga allra þjóða á öllum tímum sýnir það best. Menn skyldi því fara varlega í það, að forkasta þegar í stað hverju einu, þóað eitthvað sé eigi sem skyldi, enda sýnir reyndin, að slíkt er að berjast við skuggann sinn. Einn fornfræðingrinn sér tómt gull þar, er hinn sér að eins óféti. Rangritanir í fornum handritum eru tíðar, einkum á vísum, og margt er fleira að athuga í þessu efni. Alt ankannalegt, er svo virðist í fljótu bragði, *þarf* eigi endilega þarfyrir að vera *óekta*.

Þ. J.

## Skammstafanir.

—

Dr. J. Þ. = Doctor philosophiae Jón Þórkelsson í Rvík.
f. = fyrir.
H. = Útgáfa Harðarsögu, prentuð á Hólum 1756.
k. = kona, konur, kvenkenning.
l. = látína, latneska, latneskt tungumál.
lo. = lýsingarorð *(adjectivum)*.
m. = maðr, menn, mannkenning.
S. = skinnbókin AM. 556, A. 4°.
ɔ: = *scilicet* = það er, það er að skilja.
tg. tilgáta.

# Nöfn.

# EGILS SAGA SKALLAGRÍMSSONAR.

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

**VALD. ÁSMUNDARSON.**



REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1892.

# FORMÁLI.

**Egils saga Skallagrímssonar** er hér að mestu prentuð eftir hinni síðustu útgáfu hennar, sem *dr. Finnr Jónsson* hefir leyst af hendi fyrir norræna fornritafélagið yngra í Kaupmannahöfn („Samfund til udgivelse af gammel nordisk literatur“). — Sú útgáfa er eflaust hin vandaðasta, sem til er af Egils sögu; til grundvallar hefir þar að vísu verið lagt sama handrit sem við hinar fyrri útgáfur, enn nú hefir það verið gefið út með miklu meiri nákvæmni enn áðr og auk þess eru notuð önnur handrit fleiri og nákvæmar enn áðr.

Þetta handrit er í safni Árna Magnússonar nr. 132 fol., og er talið, að það geti ekki eldra verið enn frá miðri 14. öld. Höfundr sögunnar virðist hafa samið hana á síðari hluta 12. aldar, og er hún að líkindum að mestu óbreytt og óaukin frá fyrstu gerð.

Auk þessara handrita eru tvö önnur aðalhandrit til; annað þeirra er í Wolfenbüttel, og afskrift af því í Árna safni nr. 461, 4to; hitt er afrit séra Ketils Jörundarsonar af skinnbókinni A. M. 453 og 462, 4to, sem nú er að mestu glötuð. — Auk þessara handrita eru enn til af sögunum 10 brot af skinnhandritum og fjöldi pappírshandrita.

— Handritið 132 er að öllu samanlögðu hið bezta; enda fyllra enn hin handritin.

Í landsbókasafninu eru nokkur handrit af Egils sögu, enn ekki er að sjá, að á þeim sé neitt að græða. Hið elzta af þeim mun vera í safni J. S., ritað af séra Jóni Erlendssyni í Villingaholti. — Sigurðr Vigfússon fornfræðingr hefir og söguhandrit, sem á er Egils saga og fleiri Íslendingasögur. Þetta handrit virðist eiga að rekja ætt til skinnbókarinnar A. M. 453 og 462, 4to., og virðist þó hafa sumt öðruvísi og réttara enn afskriftir Ketils Jörundarsonar. Það á að vera ritað af séra Jóni Egilssyni í Laufási (?). — Bæði er það, að til þess hefir ekki verið ætlazt við þessa alþýðlegu textaútgáfu af Íslendingasögum, að hafa rannsóknir eða samanburð á handritum, og þess var heldr ekki kostr, að því er þetta handrit snertir. Þó hefir verið farið eftir því á einum stað, í 86. kap., bls. 283, þar sem stendr í útgáfunum: *enn ofan tekin at Hrísbrú sú kirkja, er Grímr hafði gera látið.* Þar sleppir þetta handrit orðunum *at Hrísbrú*, enn bætir við: *firr bœnum.* Í upphafi kapítulans segir: „Grímr at Mosfelli var skírðr, þá er kristni var í lög leidd á Íslandi. Hann lét þar kirkju gera“. Eftir þessu virðist auðsætt, að kirkjan hafi staðið að Mosfelli. Þess hefir að vísu verið til getið (Safn til s. Ísl. I, 254), að bærinn að Mosfelli hafi upphaflega staðið þar sem nú er Hrísbrú; enn það er alveg óvíst, og höfum vér því hiklaust tekið þetta upp eftir handritinu. — Þetta handrit sleppir alveg kaflanum í 85. kap. (bls. 281) um ráðagerð Egils, að flytja silfrkistur sínar til alþingis og sá silfrinu á Lögbergi. Þessi frásögn

er miðr sennileg, enda er upphafið: „Þat var á dögum Hákonar ens ríka ofanverðum“, svona í miðjum kapítula, tortryggilegt, og afskriftir Ketils Jörundarsonar sleppa líka þessum kafla, enn þær sleppa líka einmitt fleiru, sem álíta má viðbætur frá síðari tíma, og svo mun vera um þenna kafla. Hann er hér settr millum hornklofa. Kaflinn í 28 kap. (bls. 73): „Grímólfr—Grímarsstöðum“ er og settr milli hornklofa, eins og í útg. dr. Finns Jónssonar, af því að hann vantar í mörg handrit.

Það sem tekið hefir verið í þessari útgáfu eftir öðrum handritum enn 132 er einkent með skáletri, og er það flest hið sama sem þannig er tekið upp í textann í útgáfu dr. F. J.

Stafsetningin á þessari útgáfu er sem áþekkust stafsetning handritsins, enn samræmd að miklu leyti; ýmsum einkennilegum ritbætti eða orðmyndum er haldið á stöku stöðum, þótt út af reglunni beri.

Kvæði Egils, Höfuðlausn, Sonatorrek og Arinbjarnarkviða eru prentuð hér eftir útgáfu dr. F. J. Þau eru þar gefin út eftir fjölda handrita og höfð sér á eftir sögunni. Jafnvel þótt þau sé ekki bundin við texta sögunnar, hafa þau hér verið sett inn í söguna, eins og í hinum eldri útgáfum. Þau eru í útgáfu dr. F. J. færð svo til rétt máls (restitueret) sem útgef. hefir álitið vera mega. Enn auðvitað vantar nokkuð á, að þau verði fullskýrð, eða að tilgáturnar séu fullnægjandi.

Sama er að segja um vísurnar, að torvelt er að skýra margar þeirra. — Hér er að mestu fylgt skýringum dr. F. J.

Egils saga hefir jafnan verið talin með hinum beztu Íslendingasögum bæði að efni og máli. Höfundrinn hefir verið snillingr að rita, og lýsir einkarvel viðburðunum og skapferli manna. Hún hefir jafnan verið og mun verða talin sönn og áreiðanleg, þótt einstaka smáatriði kunni að vera affærð, sem er engi furða, þar sem sagan mun vera færð í letr um 300 árum síðar enn aðalviðburðirnir í henni gerðust.

Á síðari árum hafa risið upp ýmsir fræðimenn í útlöndum, einkum í Þýskalandi, sem vilja véfengja meira og minna flestar sögur vorar, og það jafnvel hinar beztu, svo sem Njálu og Egils sögu. Enn rannsóknir þeirra manna, sem betr hafa vit á, sýna meir og meir, að flestallar ástæður þessara manna hafa við lítil eða engin rök að styðjast. — Staðarannsóknir Sigurðar fornfræðings Vigfússonar staðfesta einnig oftast nær, að nákvæmlega rétt sé frá sagt í sögunum.

Á stöku stöðum virðast tímaákvæðin í Egils sögu ekki vera áreiðanleg, enn þar með er ekki sagt, að ekki sé rétt sagt frá viðburðunum. Þannig er t. d. um Bjarmalandsferð Eiríks blóðöxar. Hún virðist ekki hafa verið fyrr enn um 918, enn ætti eftir sögunni að hafa verið um 913. Að Egill hafi drepið Atleyjar-Bárð og Þórólfr kvongazt haustið 915, sem vera ætti eftir sögunni, getr ekki verið, því að þeir bræðr Egill og Þórólfr virðast hafa farið til Aðalsteins konungs 924, enn það var árinu eftir dráp Bárðar. Því hefir verið haldið fram af ýmsum, að frásögn sögunnar um orrustuna á Vínheiði væri blönduð málum við orrustuna við Brunanborg, sem enskar fornsagnir segja frá

og var 937, og er þetta eitt af því sem Egils sögu hefir verið fundið til foráttu, enn eins og margir hafa tekið fram (Munch, Magnús Stephensen, landsh., í Tr. V, 164, séra Jón Jónsson í Tr. X, 83 og dr. Finnr Jónsson í formála útgáfu hans af Egils sögu) hljóta orrusturnar að hafa verið tvær. Hin fyrri orrusta, orrustan á Vínheiði, hefir verið háð um 926. Það gerir ekkert til, þótt *Vínheiðr* og *Brunanborg* væri hið sama. — Að Eiríkr blóðöx hafi gift dóttur sína Ragnhildi Arnfinni jarli, þá er hann fór úr Noregi 935, virðist vera rangt, enda segir Heimskringla (Hákon s. góða) að Arnfinnr fengi Ragnhildar eftir dauða föður hennar.

Það er, eins og hér hefir verið á vikið, einkanlega í viðburðum þeim er fara fram erlendis, að sagan fer vilt um tímaákvæði, enn að öllu öðru leyti er hún mjög áreiðanleg. Í staðlegu og landfræðilegu tilliti er hún þannig mjög rétt sögð.

Egils saga hefir áðr verið gefin út fjórum sinnum: 1. í Hrappsey 1782, 2. af Árna Magnússonar nefndinni 1809, 3. í Reykjavík 1856, af dr. Jóni Þorkelssyni eftir 2. útgáfu, og hin 4. er útgáfa dr. Finns Jónssonar.

## TÍMATAL

eftir útgáfu dr. Finns Jónssonar.

| | | |
|---|---|---|
| *Kap. 1.* | Kveldúlfr í víking . . . um | 825—40. |
| | Kveldúlfr fær Salbjargar . . — | 840—45. |
| | Fæddr Þórólfr Kveldúlfsson — | 846. |
| | Fæddr Skallagrímr . . . . . . . . | 851. |
| | Þórólfr fer í víking um tvítugt . . . . . . . . . . . . . . . um | 866. |
| | Þórólfr í víking . . . . . . . — | 866—70. |
| *Kap. 2.* | Haustblót á Gaulum. Ölvir sér Solveigu hina fögru . . . um | 868. |
| *Kap. 3.* | Haraldr hárfagri vinnr Naumudal og Hálogaland . . . . | 867. |
| | Haraldr fer suðr á Mæri . . . . | 868. |
| | Sölvi klofi og Arnviðr jarl binda samlag . . . . . . . . . . . . . . . | 868—9. |
| *Kap. 4.* | Bardagi við Sólskel. Haraldr leggr undir sig Sunnmæri. | 869. |
| | Synir Atla jarls fara að Ölvi hnúfu. Hann fer til Haralds konungs um haustið . . . . . um | 869. |
| | Um vetrinn brennir Rögnvaldr jarl Vémund konung inni . . . . | 869—70. |
| | Berðlu-Kári kemr til Haralds konungs um vetrinn . . . . . . . | 869—70. |
| | Um vorið leggr Haraldr undir sig Fjörðu og Fjalir . . . . . . . | 870. |
| | Fundið Ísland . . . . . . . . . um | 870. |

| | |
|---|---|
| *Kap. 36.* Þórólfr og Björn í víking | 904. |
| Heima um vetrinn . . . . . . . . | 904—5. |
| Þórólfr gefr Eiríki blóðöx skip | 904—5. |
| *Kap. 37.* Bjarmalandsferð (eftir sögunni um 913) . . . . . . . . . um | 918. |
| Þórólfr í víking . . . . . . . . . | 904—14. |
| Þóra hlaðhönd deyr . . . . . . . | 906. |
| Björn kvongast öðru sinni . um | 908. |
| Fædd Gunnhildr dóttir hans — | 910. |
| *Kap. 38.* Þórólfr kemr til Íslands | 914. |
| Þórólfr býst til utanfarar . . . . | 915. |
| *Kap. 39.* Geirr Ketilsson fær Þórunnar Skallagrímsdóttur . . um | 912. |
| *Kap. 40.* Egill, 6 ára, drepr Grím. | 907. |
| Egill, 12 ára, að leikum . . . . | 913—14. |
| Þórólfr heima um vetrinn. Fer utan, Egill og Ásgerðr með honum . . . . . . . . . . . . . . . | 915. |
| Brynjólfr deyr . . . . . . . . . . . | 914—15. |
| *Kap. 41.* Þórólfr er með Birni og Þóri . . . . . . . . . . . . . . . . . | 915. |
| *Kap. 42.* Þórólfr biðr Ásgerðar (eftir sögunni 915) . . . . . . . . . . | 923. |
| *Kap. 43—46.* Egill vegr Bárð. Kvonfang Þórólfs (eftir sögunni 915) . . . . . . . . . . . . . . . . | 923. |
| Þórólfr og Egill herja á Kúrlandi . . . . . . . . . . . . . . . . | 916. |
| *Kap. 47—8.* Haraldr Gormsson tók við ríki í Danmörk . . . . . . . . | 916. |
| Egill herjar í Lundi. Þórólfr og Egill hjá Arnfinni jarli . . . | 916. |
| Þórólfr og Egill með Þóri um vetrinn . . . . . . . . . . . . . . . | 916—17. |
| *Kap. 49.* Blót á Gaulum . . . . . | 917. |



# Hér hefr upp Egils sögu.

---

1. (Af Kveldúlfi búanda). Úlfr hét maðr, son Bjálfa ok Hallberu dóttur Úlfs hins óarga; hon var systir Hallbjarnar hálftrolls í Hrafnistu, föður Ketils hængs. Úlfr var maðr svá mikill ok sterkr, at eigi vóru hans jafningjar. Enn er hann var á unga aldri, lá hann í víkingu ok herjaði. Með honum var í félagskap sá maðr, er kallaðr var Berðlu-Kári, göfugr maðr ok hinn mesti afreksmaðr at afli ok áræði. Hann var berserkr. Þeir Úlfr áttu einn sjóð báðir, ok var með þeim hin kærsta vinátta. Enn er þeir réðust ór hernaði, fór Kári til bús síns í Berðlu. Hann var maðr stórauðigr. Kári átti þrjú börn; hét son hans Eyvindr lambi, annarr Ölvir hnúfa; dóttir hans hét Salbjörg. Hon var kvenna vænst ok skörungr mikill. Hennar fekk Úlfr. Fór hann þá ok til búa sinna. Úlfr var maðr auðigr bæði at löndum ok lausum aurum. Hann tók lends

manns rétt, svá sem haft höfðu langfeðgar hans, ok gerðist maðr ríkr. Svá er sagt, at Úlfr var búsýslumaðr mikill. Var þat siðr hans, at rísa upp árdegis ok ganga þá um sýslur manna eða þar er smiðir vóru ok sjá yfir fénað sinn ok akra; enn stundum var hann á tali við menn, þá er ráða hans þurftu. Kunni hann til alls góð ráð at leggja, þvíat hann var forvitri. Enn dag hvern, er at kveldi leið, þá gerðist hann styggr, svá at fáir menn máttu orðum við hann koma. Var hann kveldsvæfr. Þat var mál manna, at hann væri mjök hamrammr. Hann var kallaðr Kveldúlfr. Þau Kveldúlfr áttu tvá sonu. Hét hinn ellri Þórólfr, enn hinn yngri Grímr. Enn er þeir vóxu upp, þá vóru þeir báðir menn miklir ok sterkir, svá sem faðir þeira var. Var Þórólfr manna vænstr ok gerviligastr. Hann var líkr móðurfrændum sínum, gleðimaðr mikill, örr ok ákafamaðr mikill í öllu, ok hinn mesti kappsmaðr; var hann vinsæll af öllum mönnum. Grímr var svartr maðr ok ljótr, líkr feðr sínum bæði yfirlits ok at skaplyndi. Gerðist hann umsýslumaðr mikill. Hann var hagr maðr á tré ok járn ok gerðist hinn mesti smiðr. Hann fór ok oft um vetrum í síldfiski með lagnarskútu ok með honum húskarlar margir. Enn er Þórólfr var á tvítugsaldri, þá bjóst hann í hernað. Fekk Kveldúlfr honum langskip. Til þeirar ferðar réðust synir Berðlu-Kára, Eyvindr

ok Ölvir. Þeir höfðu lið mikit ok annat langskip, ok fóru um sumarit í víking ok öfluðu sér fjár, ok höfðu hlutskifti mikit. Þat var nökkur sumur, er þeir lágu í víking, enn vóru heima um vetrum með feðrum sínum. Hafði Þórólfr heim marga dýrgripi, ok færði föður sínum ok móður. Var þá bæði gott til fjár ok mannvirðingar. Kveldúlfr var þá mjök á efra aldri, enn synir hans vóru rosknir.

2. (Frá Ölvi ok Solveigu). Auðbjörn hét þá konungr yfir Firðafylki. Hróaldr hét jarl hans, enn Þórir son jarlsins. Þá var Atli hinn mjóvi jarl; hann bjó á Gaulum. Hans börn vóru þau Hallsteinn, Hólmsteinn, Hersteinn ok Solveig hin fagra. Þat var á einu hausti, at fjölment var á Gaulum at haustblóti. Þá sá Ölvir hnúfa Solveigu, ok gerði sér um títt. Síðan bað hann hennar, enn jarlinum þótti manna munr, ok vildi eigi gifta hana. Síðan orti Ölvir mörg mansöngskvæði. Svá mikit gerði Ölvir sér um Solveigu, at hann lét af herförum, ok vóru þá í herförum Þórólfr ok Eyvindr lambi.

3. (Haraldr tók ríki). Haraldr son Hálfdanar svarta hafði tekit arf eftir föður sinn. Hann hafði þess heit strengt, að láta eigi skera hár sitt né kemba, fyrr enn hann væri einvaldskonungr yfir Noregi. Hann var kallaðr Haraldr lúfa. Síðan barðist hann við þá konunga, er næstir vóru, ok sigraði þá, ok eru þar langar frásagnir.

Síðan eignaðist hann Upplönd. Þaðan fór hann norðr í Þrándheim, ok átti þar margar orrostur, áðr hann yrði einvaldi yfir öllum Þrændalögum. Síðan ætlaðist hann at fara norðr í Naumudal á hendr þeim bræðrum, Herlaugi og Hrollaugi, er þá vóru konungar yfir Naumudal. Enn er þeir bræðr spurðu til ferðar hans, þá gekk Herlaugr í haug þann með tólfta mann, er áðr höfðu þeir gera látit þrjá vetr. Var síðan haugrinn aftr lokinn. Enn Hrollaugr konungr veltist ór konungdómi, ok tók upp jarlsrétt, ok fór síðan á vald Haralds konungs ok gaf upp ríki sitt. Svo eignaðist Haraldr konungr Naumdælafylki ok Hálogaland. Setti hann þar menn yfir ríki sitt. Síðan bjóst Haraldr konungr ór Þrándheimi með skipaliði ok fór suðr á Mæri. Átti þar orrostu við Húnþjóf konung ok hafði sigr. Fell þar Húnþjófr. Þá eignaðist Haraldr konungr Norðmæri ok Raumsdal. Enn Sölvi klofi, son Húnþjófs, hafði undan komizt, ok fór hann á Sunnmæri til Arnviðar konungs, ok bað hann sér fulltings, ok sagði svá: „Þótt þetta vandræði hafi nú borit oss at hendi, þá mun eigi langt til, at sama vandræði mun til yðvar koma, því at Haraldr ætla ek at skjótt man hér koma, þá er hann hefir alla menn þrælkat ok áþjáð, sem hann vill, á Norðmæri ok í Raumsdal. Munu þér hinn sama kost fyrir höndum eiga, sem vér áttum, at verja

fé yðvart ok frelsi, ok kosta þar til allra þeira manna, er yðr er liðs at ván; ok vil ek bjóðast til með mínu liði móti þessum ofsa ok ójafnaði. Enn at öðrum kosti munu þér vilja taka upp þat ráð, er Naumdælir gerðu, at ganga með sjálfvilja í ánauð ok gerast þrælar Haralds. Þat þótti föður mínum vegr, at deyja í konungdómi með sœmd, heldr enn gerast undirmaðr annars konungs á gamals aldri. Hygg ek, at þér muni ok svá þykja ok öðrum þeim er nökkurir eru borði ok kappsmenn vilja vera". Af slíkum fortölum var konungrinn fastráðinn til þess, at samna liði ok verja land sitt. Bundu þeir Sölvi þá samlag sitt, ok sendu orð Auðbirni konungi, er réð fyrir Firðafylki, at hann skyldi koma til liðs við þá. Enn er sendimenn kómu til Auðbjarnar konungs ok báru honum þessa orðsending, þá réðst hann um við vini sína, ok réðu honum þat allir, at samna liði ok fara til móts við Mæri, sem honum vóru orð til send. Auðbjörn konungr lét skera upp herör ok fara herboð um alt ríki sitt. Hann sendi menn til ríkismanna, at boða þeim til sín. Enn er sendimenn konungs kómu til Kveldúlfs ok sögðu honum sín erendi ok þat, at konungr vill, at Kveldúlfr komi til hans með alla húskarla sína, *þá* svarar Kveldúlfr svá: „Þat mun konungi skylt þykja, at ek fara með honum, ef hann skal verja land sitt ok sé herjat í Firða-

fylki, enn hitt ætla ek mér allóskylt, að fara norðr á Mæri ok berjast þar ok verja land þeira. Er yðr þat skjótast at segja, þá er þér hittið konung yðvarn, at Kveldúlfr mun heima sitja um þetta herhlaup, ok hann mun eigi herliði samna, ok eigi gera sína þá heimanferð, at berjast móti Haraldi lúfu, þvíat ek hygg, at hann hafi þar byrði gnóga hamingju, er konungr várr hafi eigi krepping fullan“. Fóru sendimenn heim til konungs ok sögðu honum erendislok sín; enn Kveldúlfr sat heima at búm sínum.

4. (Frá ferðum Haralds). Auðbjörn konungr fór með lið sitt, þat er honum fylgdi, norðr á Mæri, ok hitti þar Arnvið konung ok Sölva klofa, ok höfðu þeir allir saman her mikinn. Haraldr konungr var þá ok norðan kominn með sínu liði, ok varð fundr þeira fyrir innan Sólskel. Var þar orrosta mikil, ok mannfall mikit í hvárratveggju liði. Þar fellu ór Haralds liði: jarlar tveir, Ásgautr ok Ásbjörn, ok tveir synir Hákonar Hlaðajarls, Grjótgarðr ok Herlaugr, ok mart annat stórmenni, enn af liði Mæra Arnviðr konungr ok Auðbjörn konungr, enn Sölvi klofi komst undan á flótta, ok var síðan víkingr mikill, ok gerði oft skaða mikinn á ríki Haralds konungs, ok var kallaðr Sölvi klofi. Eftir þat lagði Haraldr konungr undir sig Sunnmæri. Vémundr bróðir Auðbjarnar konungs helt Firðafylki, ok gerðist þar konungr yfir.

Þetta var síð um haustit; ok gerðu menn þat ráð með Haraldi konungi, at hann skyldi eigi fara suðr um Stað á haustdegi. Þá setti Haraldr konungr Rögnvald jarl yfir Mæri hváratveggju ok Raumsdal. *Haraldr konungr sneri þá norðr aftr til Þrándheims* ok hafði um sik mikit fjölmenni. Þat sama haust veittu synir Atla heimför at Ölvi hnúfu ok vildu drepa hann. Þeir höfðu lið svá mikit, at Ölvir hafði enga viðstöðu, ok komst með hlaupi undan. Fór hann þá norðr á Mæri ok hitti þar Harald konung, ok gekk Ölvir til handa honum ok fór norðr til Þrándheims með konungi um haustit, ok komst hann í hina mestu kærleika við konung, ok var með honum lengi síðan ok gerðist skáld hans. Þann vetr fór Rögnvaldr jarl it iðra um Eiðsjó suðr í Fjörðu ok hafði njósnir af ferðum Vémundar konungs, ok kom um nótt þar sem heitir Naustdalr, ok var Vémundr þar á veizlu. Tók þar Rögnvaldr jarl hús á þeim, ok brendi konunginn inni með níu tigum manna. Eftir þat kom Berðlu-Kári til Rögnvalds jarls með langskip alskipat, ok fóru þeir báðir norðr á Mæri. Tók Rögnvaldr skip þau er átt hafði Vémundr konungr ok alt þat lausafé, er hann fekk. Berðlu-Kári fór þá norðr til Þrándheims á fund Haralds konungs, ok gerðist hans maðr. Um várit eftir fór Haraldr konungr suðr með landi með skipaher, ok lagði undir sik Fjörðu

ok Fjalir ok skipaði þar til ríkis mönnum sínum. Hann setti Hróald jarl yfir Firðafylki. Haraldr konungr var mjök gjörhugall, þá er hann hafði eignazt þau fylki, er nýkomin vóru í vald hans, um lenda menn ok ríka búendr ok alla þá er honum var grunr á at nökkurrar uppreistar var af ván. Þá lét hann hvern gera annathvárt, at gerast hans þjónustumenn eða fara af landi á brott, enn at þriðja kosti sæta afarkostum eða láta lífit, enn sumir vóru hamlaðir at höndum eða fótum. Haraldr konungr eignaðist í hverju fylki óðul öll ok alt land, bygt ok óbygt, ok jamvel sjóinn ok vötnin, ok skyldu allir búendr vera hans leiglendingar, svá þeir, er á mörkina ortu, ok saltkarlarnir ok allir veiðimenn, bæði á sjó ok landi, þá vóru allir þeir honum lýðskyldir. Enn af þessi áþján flýðu margir menn af landi á brott, ok bygðust þá margar auðnir víða, bæði austr í Jamtaland ok Helsingjaland ok Vestrlönd, Suðreyjar, Dýflinnar skíði, Írland, Normandí á Vallandi, Katanes á Skotlandi, *Orkneyjar* ok Hjaltland, Færeyjar, ok í þann tíma fanst Ísland.

5. (Konungr gerði orð Kveldúlfi). Haraldr konungr lá með her sinn í Fjörðum. Hann sendi menn þar um land á fund þeira manna, er eigi höfðu komit til hans er, hann þóttist erendi við eiga. Konungs sendimenn kómu til Kveldúlfs ok fengu þar góðar viðtökur. Þeir báru upp erendi sín.

Sögðu, at konungr vildi, at Kveldúlfr kæmi á hans fund. „Hann hefir“, sögðu þeir, „spurn af, at þú ert göfugr maðr ok stórættaðr; muntu eiga kost af honum virðingar mikillar; er konungi mikit kapp á því, að hafa með sér þá menn, er hann spyrr at afreksmenn eru at afli ok hreysti“. Kveldúlfr svarar, sagði, at hann var þá maðr gamall, svá at hann var þá eigi til færr, at vera úti á herskipum. „Mun ek nú heima sitja ok láta af at þjóna konungum“. Þá mælti sendimaðr: „Láttu þá fara son þinn til konungs. Hann er maðr mikill ok garpligr. Mun konungr gera þik lendan mann, ef þú vill þjóna honum“. „Ekki vil ek“, sagði Grímr, „gerast lendr maðr, meðan faðir minn lifir, því at hann skal vera yfirmaðr minn, meðan hann lifir“. Sendimenn fóru í brott; enn er þeir kómu til konungs, sögðu þeir honum alt þat, er Kveldúlfr hafði rætt fyrir þeim. Konungr varð við styggr, og mælti um nökkurum orðum, sagði, at þeir mundu vera menn stórlátir, eða hvat þeir mundu fyrir ætlast. Ölvir hnúfa var þá nær staddr, ok bað konung vera eigi reiðan. „Ek mun fara á fund Kveldúlfs, ok mun hann vilja fara á fund yðvarn, þegar er hann veit, að yðr þykir máli skifta“. Síðan fór Ölvir á á fund Kveldúlfs, ok sagði honum, at konungr var reiðr, ok eigi mundi duga, nema annarrhvárr þeira feðga færi til konungs, ok sagði,

at hann mundi fá virðing mikla af konungi, ef þeir vildi hann þýðast. Sagði frá mikit, sem satt var, at konungr var góðr mönnum sínum bæði til fjár ok metnaðar. Kveldúlfr sagði, at þat var hans hugboð, „at vér feðgar munim ekki bera gæfu til þessa konungs, ok mun ek ekki fara á fund hans. Enn ef Þórólfr kemr heim í sumar, þá mun hann auðbeðinn þessar farar, og svá at gerast konungs maðr. Segðu svá konungi, at ek mun vera vinr hans, ok alla menn, þá er at mínum orðum láta, halda til vináttu við hann. Ek mun ok halda hinu sama um stjórn ok umboð af hans hendi, sem áðr hafða ek af fyrra konungi, ef konungr vill at svá sé, ok enn síðar *mun* sjá, hversu semst með oss konungi“. Síðan fór Ölvir aftr til konungs ok sagði honum, at Kveldúlfr mundi senda honum son sinn, ok sagði, at sá var betr til fallinn, er þá var eigi heima. Lét konungr þá vera kyrt. Fór hann þá um sumarit inn í Sogn, enn er haustaði, bjóst hann at fara norðr til Þrándheims.

**6.** (Af Þórólfi og Eyvindi). Þórólfr Kveldúlfsson ok Eyvindr lambi kómu um haustit heim ór víking. Fór Þórólfr til föður síns. Taka þeir feðgar þá tal sín í milli. Spyrr Þórólfr eftir, hvat verit hefir í erendum þeira manna, er Haraldr sendi þagat. Kveldúlfr sagði, at konungr hafði til þess orð sent, at Kveldúlfr skyldi ger-

ast maðr hans eða sonr hans annarrhvárr. „Hvernig svaraðir þú“? kvað Þórólfr. „Ek sagða svá, sem mér var í hug, at ek munda aldri ganga á hönd Haraldi konungi, ok svá mundu þit gera báðir, ef ek skylda ráða. Ætla ek, at þær lyktir muni á verða, at vér munim aldrtila hljóta af þeim konungi“. „Þá verðr allmjök á annan veg“, sagði Þórólfr, „enn mér segir hugr um, því at ek ætla mik skulu af honum hljóta hinn mesta frama, ok til þess em ek fastráðinn, at fara á fund konungs og gerast hans maðr, ok þat hefi ek sannspurt, at hirð hans er skipuð afreksmönnum einum. Þyki mér þat allfýsiligt, at koma í þeira sveit, ef þeir vilja við mér taka. Eru þeir menn haldnir miklu betr enn allir aðrir í þessu landi. Er mér svá frá sagt konungi, at hann sé hinn mildasti af fégjöfum við menn sína, ok eigi síðr þess örr, at gefa þeim framgang ok veita ríki þeim er honum þykja til þess fallnir. Enn mér spyrst á þann veg til um alla þá, er bakverpast vilja við honum ok þýðast eigi hann með vináttu, sem allir verði ekki at manna; stökkva sumir af landi á brott, enn sumir gerast leigumenn. Þyki mér þat undarligt, faðir, um svá vitran mann, sem þú ert, ok metnaðargjarnan, er þú vildir eigi með þökkum taka vegsemd þá er konungr bauð þér. Enn ef þú þykist vera forspár um þat, að vér munim hljóta af kon-

ungi þessum ófarnað ok *hann* muni vilja vera várr óvinr, hví fórtu eigi þá til orrostu í móti honum með konungi þeim, er þú ert áðr handgenginn? Nú þykir mér þat ósæmiligast, at vera hvárki vinr hans né óvinr". „Eftir gekk þat", kvað Kveldúlfr, „er mér bauð hugr um, at þeir mundu engir sigrför fara, er börðust við Harald lúfu norðr á Mæri, enn slíkt sama mun þat vera satt, at Haraldr mun verða at miklum skaða mínum frændum; enn þú, Þórólfr, munt ráða vilja athöfnum þínum. Ekki óttumst ek þat, þóttu komir í sveit með hirðmönnum Haralds, at eigi þykir þú hlutgengr eða jafn hinum fremstum í öllum mannraunum; varast þú þat, að eigi ætlir þú hóf fyrir þér eða keppist við þér meiri menn, enn eigi muntu fyrir vægja at heldr". Enn er Þórólfr bjóst á brott, þá leiddi Kveldúlfr hann ofan til skips, hvarf til hans, ok bað hann vel fara, ok bað þá heila hittast.

7. (Af Björgólfi). Björgólfr hét maðr á Hálogalandi. Hann bjó í Torgum. Hann var lendr maðr, ríkr ok auðigr, enn hálfbergrisi at afli ok vexti ok kynferð. Hann átti son, er hét Brynjólfr. Hann var líkr feðr sínum. Björgólfr var þá gamall, ok önduð kona hans, ok hafði hann selt í hendr öll ráð syni sínum ok leitat honum kvánfángs. Brynjólfr átti Helgu, dóttur Ketils hængs ór Hrafnistu. Bárðr er nefndr

sonr þeira. Hann var snemma mikill og fríðr sýnum, ok varð hinn mesti atgervismaðr. Þat var eitt haust, at þar var gildi fjölment, ok váru þeir Björgólfr feðgar í gildinu göfgastir menn. Þar var hlutaðr tvímenningr á öftnum, sem siðvenja var til. Enn þar at gildinu var sá maðr, er Högni hét. Hann átti bú í Leku. Hann var maðr stórauðigr, allra manna fríðastr sýnum, vitr maðr ok ættsmár, ok hafði hafizt af sjálfum sér. Hann átti dóttur allfríða, er nefnd er Hildiríðr. Hon hlaut að sitja hjá Björgólfi. Töluðu þau mart um kveldit. Leizt honum mærin fögr. Litlu síðar var slitit gildinu. Þat sama haust gerði Björgólfr gamli heimanför sína, ok hafði skútu, er hann átti, ok á þrjá tigu menn. Hann kom fram í Leku, ok gengu þeir heim til húss tuttugu, enn tíu gættu skips. Enn er þeir kómu á bæinn, þá gekk Högni á mót honum, ok fagnaði vel, bauð honum þar at vera með sínu föruneyti, enn hann þektist þat, ok gengu þeir inn í stufu. Enn er þeir höfðu afklæðzt ok tekit upp yfirhafnir, þá lét Högni bera inn skapker ok mungát. Hildiríðr bóndadóttir bar öl gestum. Björgólfr kallar til sín Högna bónda, ok segir honum, „at erendi er þat hingat, at ek vil, at dóttir þín fari heim með mér, ok mun ek nú gera til hennar lausabrullaup“. Enn Högni sá engan annan sinn kost, enn láta alt svá vera, sem Björgólfr

vildi. Björgólfr keypti hana með eyri gulls, ok gengu þau í eina rekkju bæði. Fór Hildiríðr heim með Björgólfi í Torgar. Brynjólfr lét illa yfir þessi ráðagerð. Þau Björgólfr ok Hildiríðr áttu tvá sonu. Hét annarr Hárekr ok annarr Hrærekr. Síðan andast Björgólfr; enn þegar hann var út hafiðr, þá lét Brynjólfr Hildiríði á brott fara með sonum sínum. Fór hón þá í Leku til föður síns, ok fæddust þar upp synir Hildiríðar. Þeir vóru menn fríðir sýnum, litlir vexti, vel viti bornir, líkir móðurfrændum sínum. Þeir vóru kallaðir Hildiríðarsynir. Lítils virði Brynjólfr þá, ok lét þá ekki hafa af föðurarfi þeira. Hildiríðr var erfingi Högna, ok tók hon ok synir hennar arf eftir hann, ok bjuggu þá í Leku ok höfðu auð fjár. Þeir vóru mjök jafnaldrar Bárðr Brynjólfsson ok Hildiríðarsynir. Þeir feðgar Brynjólfr ok Björgólfr höfðu lengi haft finnferð ok finnskatt. Norðr á Hálogalandi heitir fjörðr Vefsnir. Þar liggr ey í firðinum, ok heitir Álost, mikil ey og góð. Í henni heitir bær á Sandnesi. Þar bjó maðr, er Sigurðr hét. Hann var auðgastr norðr þar. Hann var lendr maðr, ok spakr at viti. Sigríðr hét dóttir hans, ok þótti kostr beztr á Hálogalandi. Hon var einberni hans, ok átti arf at taka eftir Sigurð föður sinn. Bárðr Brynjólfsson gerði heimanferð sína, hafði skútu ok á þrjá tigu menn. Hann fór norðr í Álost, ok kom á Sand-

nes til Sigurðar. Bárðr hefir uppi orð sín ok bað Sigríðar. Því máli var vel svarat ok líkliga, ok kom svá, at Bárði var heitit meyjunni. Ráð þau skyldu takast at öðru sumri. Skyldi þá Bárðr sækja norðr þangat ráðit.

8. (Af Bárði ok Þórólfi). Haraldr konungr hafði þat sumar sent orð ríkismönnum, þeim er vóru á Hálogalandi, ok stefndi til sín þeim er áðr höfðu eigi verit á fund hans. Var Brynjólfr ráðinn til þeirar ferðar, ok með honum Bárðr son hans. Fóru þeir um haustit suðr til Þrándheims ok hittu þar konung. Tók hann við þeim allfeginsamliga. Gerðist þá Brynjólfr lendr maðr konungs. Fekk konungr honum veizlur miklar, aðrar enn áðr hafði hann haft. Hann fekk honum ok finnferð, konungssýslu á fjalli ok finnkaup. Síðan fór Brynjólfr á brott ok heim til búa sinna, enn Bárðr var eftir, ok gerðist konungs hirðmaðr. Af öllum hirðmönnum virði konungr mest skáld sín. Þeir skipuðu annat öndvegi. Þeira sat innast Auðun illskælda. Hann var elztr þeira, ok hann hafði verit skáld Hálfdanar svarta föður Haralds konungs. Þar næst sat Þorbjörn hornklofi, enn þar næst sat Ölvir hnúfa, enn honum hit næsta var skipat Bárði. Hann var þar kallaðr Bárðr hvíti eða Bárðr sterki. Hann virðist þar vel hverjum manni. Með þeim Ölvi hnúfu var félagskapr mikill. Þat sama haust kómu til Haralds kon-

ungs þeir Þórólfr Kveldúlfsson ok Eyvindr lambi son Berðlu-Kára. Fengu þeir þar góðar viðtökur. Þeir höfðu þangat snekkju, tvítugsessu vel skipaða, er þeir höfðu áðr haft í víking. Þeim var skipat í gestaskála með sveit sína. Þá er þeir höfðu þar dvalizt, til þess er þeim þótti tími til at ganga á fund konungs, gekk þar með þeim Berðlu-Kári ok Ölvir hnúfa. Þeir kveðja konung. Þá segir Ölvir hnúfa, at „þar er kominn son Kveldúlfs, sem ek sagða yðr í sumar, at Kveldúlfr mundi senda til yðvar; munu yðr heit hans öll föst. Megu þér nú sjá sannar jartegnir, at hann vill vera vin yðvarr fullkominn, er hann hefir sent son sinn hingat til þjónustu við yðr, svá sköruligan mann, sem þér meguð nú sjá. Er sú bæn Kveldúlfs ok allra vár, at þú takir við Þórólfi vegsamliga ok gerir hann mikinn mann með yðr". Konungr svarar vel máli hans, ok kveðst svá gera skyldu, „ef mér reynist Þórólfr jamvel mannaðr, sem hann er sýnum fulldrengiligr". Síðan gerðist Þórólfr handgenginn konungi ok gekk þar í hirðlög, enn Berðlu-Kári ok Eyvindr lambi son hans fóru suðr með skip þat, er Þórólfr hafði norðr haft. Fór þá Kári heim til búa sinna ok þeir Eyvindr báðir. Þórólfr var með konungi ok vísaði konungr honum til sætis milli þeira Ölvis hnúfu ok Bárðar, ok gerðist með þeim öllum hinn mesti félagskapr. Þat var mál manna

um þá Þórólf ok Bárð, at þeir væri jafnir at fríðleik ok á vöxt ok afl ok alla atgervi. Nú er Þórólfr þar í allmiklum kærleikum af konungi, ok báðir þeir Bárðr; enn er vetrinn leið af ok sumar kom, þá bað Bárðr sér orlofs konung, at fara at vitja ráðs þess er honum hafði heitit verit hit fyrra sumar. Enn er konungr vissi, at Bárðr átti skylt erendi, þá lofaði hann honum heimferð. Enn er hann fekk orlof, þá bað hann Þórólf fara með sér norðr þagat. Sagði hann, sem satt var, at hann mundi þar mega hitta marga frændr sína göfga, þá er hann mundi eigi fyrr sét hafa eða við kannazt. Þórólfi þótti þat fýsiligt, ok fá þeir til þess orlof af konungi. Búast síðan, höfðu skip gott ok föruneyti. Fóru þá leið sína, er þeir vóru búnir. Enn er þeir koma í Torgar, þá senda þeir Sigurði menn, ok láta segja honum, at Bárðr mun þá vitja ráða þeira, er þeir höfðu bundit með sér hit fyrra sumar. Sigurðr segir, at hann vill þat alt halda, sem þeir höfðu mælt. Gera þá ákveðit um brullaupsstefnu, ok skulu þeir Bárðr sækja norðr þagat á Sandnes. Enn er at þeiri stefnu kom, þá fara þeir Brynjólfr ok Bárðr, ok höfðu með sér mart stórmenni, frændr sína ok tengdamenn. Var þat sem Bárðr hafði sagt, at Þórólfr hitti þar marga frændr sína, þá er hann hafði ekki áðr við kannazt. Þeir fóru til þess er þeir kómu á Sandnes, ok

var þar hin prúðligsta veizla. Enn er lokit var veizlunni, fór Bárðr heim með konu sína ok dvaldist heima um sumarit ok þeir Þórólfr báðir. Enn um haustit koma þeir suðr til konungs, ok vóru með honum vetr annan. Á þeim vetri andaðist Brynjólfr. Enn er þat spyrr Bárðr, at honum hafði þar arfr tæmzt, þá bað hann sér heimfararleyfis, enn konungr veitti honum þat; ok áðr þeir skildist, gerðist Bárðr lendr maðr, sem faðir hans hafði verit, ok hafði af konungi veizlur allar, þvílíkar sem Brynjólfr hafði haft. Bárðr fór heim til búa sinna, ok gerðist brátt höfðingi mikill; enn Hildiríðarsynir fengu ekki af arfinum þá heldr enn fyrr. Bárðr átti son við konu sinni, ok hét sá Grímr. Þórólfr var með konungi, ok hafði þar virðingar miklar.

9. (Orrosta í Hafrsfirði). Haraldr konungr bauð út leiðangri miklum ok dró saman skipaher. Stefndi til sín liði víða um lönd. Hann fór ór Þrándheimi, og stefndi suðr í land. Hann hafði þat spurt, at herr mikill var saman dreginn um Agðir og Rogaland ok Hörðaland, og víða til safnat, bæði ofan af landi ok austan ór Vík, ok var þar mart stórmenni saman komit, ok ætlar at verja land fyrir Haraldi konungi. Haraldr konungr helt norðan liði sínu. Hann hafði sjálfr *skip* mikit og skipat hirð sinni. Þar var í stafni Þórólfr Kveldúlfsson ok Bárðr hvíti ok synir Berðlu-Kára, Ölvir hnúfa ok Eyvindr

lambi; enn berserkir konungs tólf vóru í söxum. Fundr þeira var suðr á Rogalandi í Hafrsfirði. Var þar hin mesta orrosta, er Haraldr konungr hafði átta, og mikit mannfall í hvárratveggju liði. Lagði konungr framarliga skip sitt, ok var þar ströngust orrostan; enn svá lauk, at Haraldr konungr fekk sigr. Enn þar fell Þórir haklangr, konungr af Ögðum, enn Kjötvi hinn auðgi flýði ok alt lið hans, þat er upp stóð, nema þat er til handa gekk eftir orrostuna. Þá er kannat var lið Haralds konungs, var mart fallit ok margir vóru mjök sárir. Þórólfr var sárr mjök, enn Bárðr meirr, ok engi var ósárr á konungsskipinu fyrir framan siglu, nema þeir er eigi bitu járn, enn þat vóru berserkir. Þá lét konungr binda sár manna sinna, ok þakkaði mönnum framgöngu sína, ok veitti gjafir, ok lagði þar mest lof til, er honum þótti makligir, ok hét þeim at auka virðing þeira; nefndi til þess skipstjórnarmenn, ok þar næst stafnbúa sína ok aðra frambyggja. Þá orrostu átti Haraldr konungr síðast innanlands, ok eftir þat fekk hann enga viðstöðu, ok eignaðist hann síðan land alt. Konungr lét græða menn sína, þá er lífs var auðit, enn veita umbúnað dauðum mönnum, þann sem þá var siðvenja til. Þórólfr ok Bárðr lágu í sárum. Tóku sár Þórólfs at gróa, enn Bárðar sár gerðust banvæn. Þá lét hann kalla konung til sín,

ok sagði honum svá: „Ef svá verðr, at ek deyja ór þessum sárum, þá vil ek þess biðja yðr, at þér látið mik ráða fyrir arfi mínum“. Enn er konungr hafði því játat, þá sagði hann: „Arf minn allan vil ek at taki Þórólfr, félagi minn ok frændi, lönd ok lausa aura; honum vil ek ok gefa konu mína, ok son minn til uppfæzlu, þvíat ek trúi honum til þess bezt allra manna“. Hann festir þetta mál, sem lög vóru til, at leyfi konungs. Síðan andast Bárðr, ok var honum veittr umbúnaðr, ok var hann harmdauði mjök. Þórólfr varð heill sára sinna, ok fylgdi konungi um sumarit ok hafði fengit allmikinn orðstír. Konungr fór um haustit norðr til Þrándheims. Þá biðr Þórólfr orlofs at fara norðr á Hálogaland, at vitja gjafar þeirar, er hann hafði þegit um sumarit at Bárði frænda sínum. Konungr lofar þat, ok gerir með orðsending ok jartegnir, at Þórólfr skal þat alt fá, er Bárðr gaf honum; lætr þat *fylgja*, at sú gjöf var ger með ráði konungs, ok hann vill svá vera láta. Gerir konungr þá Þórólf lendan mann, ok veitir honum þá allar veizlur, þær sem áðr hafði Bárðr haft; fær honum finnferðina með þvílíkum skildaga sem áðr hafði haft Bárðr. Konungr gaf Þórólfi langskip gott með reiða öllum, ok lét búa ferð hans þaðan sem bezt. Síðan fór Þórólfr þaðan ferð sína, ok skildust þeir konungr með hinum mesta kærleik. Enn er

Þórólfr kom norðr í Torgar, þá var honum þar vel fagnat. Sagði hann þá fráfall Bárðar, ok þat með, at Bárðr hafði gefit honum eftir sik lönd ok lausa aura ok kvánfang þat er hann hafði áðr átt. Berr fram síðan orð konungs ok jartegnir. Enn er Sigríðr heyrði þessi tíðendi, þá þótti henni skaði mikill eftir mann sinn; enn Þórólfr var henni áðr mjök kunnigr, ok vissi hon, at hann var hinn mesti merkismaðr ok þat gjaforð var allgott, ok með því at þat var konungs boð, þá sá hon þat at ráði ok með henni vinir hennar, at heitast Þórólfi, ef þat væri feðr hennar eigi í móti skapi. Síðan tók Þórólfr þar við forráðum öllum ok svá við konungssýslu. Þórólfr gerði heimanför sína, ok hafði langskip, ok á nær sex tigu menn, ok fór síðan, er hann var búinn, norðr með landi, ok einn dag at kveldi kom hann í Álost á Sandnes; lögðu skip sitt til hafnar. Enn er þeir höfðu tjaldat ok um búizt, fór Þórólfr upp til bæjar með tuttugu menn. Sigurðr fagnaði honum vel, ok bauð honum þat at vera, þvíat þar vóru áðr kunnleikar miklir með þeim, síðan er mægð hafði tekizt með þeim Sigurði ok Bárði. Síðan gengu þeir Þórólfr inn í stufu ok tóku þar gisting. Sigurðr settist á tal við Þórólf ok spurði at tíðendum. Þórólfr sagði frá orrostu þeiri er verit hafði um sumarit suðr á landi, ok fall margra manna, þeira er Sigurðr vissi deili á.

Þórólfr sagði, at Bárðr mágr hans hafði andazt ór sárum þeim er hann fekk í orrostu. Þótti þat báðum þeim hinn mesti mannskaði. Þá segir Þórólfr Sigurði, hvat verið hafði í einkamálum með þeim Bárði, áðr hann andaðist, ok svá bar hann fram orðsendingar konungs, at hann vildi þat alt haldast láta, ok sýndi þar með jartegnir. Síðan hóf Þórólfr upp bónorð sitt við Sigurð ok bað Sigríðar dóttur hans. Sigurðr tók því máli vel, sagði, at margir hlutir heldu til þess: sá fyrstr, at konungr vill svá vera láta, svá þat, at Bárðr hafði þess beðit, ok þat með, at Þórólfr var honum kunnigr, ok honum þótti dóttir sín vel gift. Var þat mál auðsótt við Sigurð. Fóru þá fram festar ok ákveðin brullaupsstefna í Torgum um haustit. Fór þá Þórólfr heim til bús síns ok hans förunautar, ok bjó þar til veizlu mikillar, og bauð þagat fjölmenni miklu. Var þar mart frænda Þórólfs göfugra. Sigurðr bjóst ok norðan, ok hafði langskip mikit ok mannval gott. Var at þeiri veizlu hit mesta fjölmenni. Brátt fanst þat, at Þórólfr var örr maðr ok stórmenni mikit. Hafði hann um sik sveit mikla, enn brátt gerðist kostnaðarmikit ok þurfti föng mikil. Þá var ár gott ok auðvelt at afla þess er þurfti. Á þeim vetri andaðist Sigurðr á Sandnesi, ok tók Þórólfr arf allan eftir hann. Var þat allmikit fé. Þeir synir Hildiríðar fóru á fund Þórólfs,

ok hófu upp tilkall þat er þeir þóttust þar eiga um fé þat er átt hafði Björgólfr faðir þeira. Þórólfr svarar svá: „Þat var mér kunnigt of Brynjólf, ok enn kunnara um Bárð, at þeir vóru manndómsmenn svá miklir, at þeir mundu hafa miðlat ykkr þat af arfi Björgólfs, sem þeir vissu at réttindi væri til. Var ek nær því, að þit hófut þetta sama tilkall við Bárð, ok heyrðist mér svá, sem honum þætti þar engi sannindi til, því at hann kallaði ykkr frillusonu". Hárekr sagði, at þeir mundu vitni til fá, at móðir þeira var mundi keypt. „Enn satt var þat, at vit leituðum ekki fyrst þessa mála við Brynjólf bróður okkarn. Var þar ok með skyldum at skifta, enn af Bárði væntu vit okkr sæmdar í alla staði. Urðu ok eigi löng vár viðskifti. Enn nú er arfr þessi kominn undir óskylda menn okkr, ok megu vit nú eigi með öllu þegja yfir missu okkarri. Enn vera kann, at enn sé sem fyrr sá ríkismunr, at vit fáim eigi rétt af þessu máli fyrir þér, ef þú vill engi vitni heyra, þau er vit höfum fram at flytja, at vit sém menn aðalbornir". Þórólfr svarar þá styggliga: „Því síðr ætla ek ykkr arfborna, at mér er sagt móðir ykkur væri með valdi tekin ok hernumin heim höfð". Eftir þat skyldu þeir þessa ræðu.

**10.** (Um ferð Þórólfs). Þórólfr gerði um vetrinn ferð sína á fjall upp, ok hafði með sér lið mik-

it, eigi minna enn níu tigu manna. Enn áðr hafði vandi á verit, at sýslumenn höfðu haft þrjá tigu manna, enn stundum færa. Hann hafði með sér kaupskap mikinn. Hann gerði brátt stefnulag við Finna, ok tók af þeim skatt ok átti við þá kaupstefnu. Fór með þeim alt í makendum ok í vinskap, enn sumt með hræðslugæði. Þórólfr fór víða um mörkina; enn er hann sótti austr á fjallit, spurði hann, at Kylfingar vóru austan komnir, ok fóru þar at finnkaupum, enn sumstaðar með ránum. Þórólfr setti til Finna at njósna um ferð Kylfinga; enn hann fór eftir at leita þeira, ok hitti í einu bóli þrjá tigu manna ok drap alla, svá at engi komst undan, enn síðan hitti hann saman fimtán eða tuttugu. Alls drápu þeir nær hundrað manna, ok tóku þar ógrynni fjár, ok kómu aftr um várit við svá búit. Fór Þórólfr þá til bús síns á Sandnes ok sat þar lengi um várit. Lét hann gera langskip mikit ok á drekahöfuð; lét þat búa sem bezt. Hafði þat norðr með sér. Þórólfr sópast mjök um föng þau er þá vóru á Hálogalandi. Hafði menn sína í síldveri ok svá í skreiðfiski. Selver vóru ok nóg ok eggver. Lét hann þat alt at sér flytja. Hann hafði aldregi færa frelsingja heima enn hundrað. Hann var örr maðr ok gjöfull ok vingaðist mjök við stórmenni, alla þá menn, er honum vóru í nánd. Hann gerðist ríkr maðr, ok

lagði mikinn hug á um skipa búnað sinn ok vápna.

11. (Þórólfr bauð konungi). Haraldr konungr fór þat sumar á Hálogaland, ok vóru gervar veizlur móti honum, bæði þar er bú hans vóru, ok svo gerðu lendir menn ok ríkir bændr. Þórólfr bjó veizlu í móti konungi, ok lagði á kostnað mikinn. Var þat ákveðit, nær konungr skyldi þar koma. Þórólfr bauð þangat fjölda manns, ok hafði þar alt it bezta mannval, þat er kostr var. Konungr hafði nær þrjú hundruð manna, er hann kom til veizlunnar, enn Þórólfr hafði fyrir fimm hundruð manna. Þórólfr hafði látit búa kornhlöðu mikla, er þar var, ok látit leggja bekki í, ok lét þar drekka, þvíat þar var engi stufa svá mikil, er þat fjölmenni mætti alt inni vera. Þar vóru ok festir skildir umhverfis í húsinu. Konungr settist í hásæti. Enn er alskipat var it efra ok it fremra, þá sást konungr um ok roðnaði, ok mælti ekki, ok þóttust menn finna, at hann var reiðr. Veizla var hin prúðligsta, ok öll föng hin beztu. Konungr var heldr ókátr, ok var þar þrjár nætr, sem ætlat var. Þann dag er konungr skyldi brott fara, gekk Þórólfr til hans ok bað, at þeir skyldi fara ofan til strandar. Konungr gerði svá. Þar flaut fyrir landi dreki sá er Þórólfr hafði gera látit með tjöldum ok öllum reiða. Þórólfr gaf konungi skipit, ok bað at konungr skyldi

svá virða, sem honum hafði til gengit, at hann hafði fyrir því haft fjölmenni svá mikit, at þat væri konungi vegsemd, enn ekki fyrir kapps sakir við hann. Konungr tók þá vel orðum Þórólfs, ok gerði sik þá blíðan ok kátan. Lögðu þá ok margir góð orð til; sögðu, sem satt var, at veizlan var hin vegsamligsta ok útleiðslan hin sköruligsta, ok konungi var styrkr mikill at slíkum mönnum; skildust þá með kærleik miklum. Fór konungr norðr á Hálogaland, sem hann hafði ætlat, ok sneri aftr suðr, er á leið sumarit. Fór þá enn at veizlum þar sem fyrir honum var búit.

**12.** (Af Hildiríðar sonum). Hildiríðarsynir fóru á fund konungs, ok buðu honum heim til þriggja nátta veizlu. Konungr þektist boð þeira ok kvað á, nær hann mundi þar koma. Enn er at þeiri stefnu kom, þá kom konungr þar með lið sitt, ok var þar ekki fjölmenni fyrir, enn veizla fór fram it bezta. Var konungr allkátr. Hárekr kom sér í ræðu við konung, ok kom þar ræðu hans, at hann spyrr um ferðir konungs, þær er þá höfðu verit um sumarit. Konungr sagði slíkt er hann spurði; kvað alla menn hafa sér vel fagnat, ok mjök hvern eftir föngum sínum. „Mikill munr“, sagði Hárekr, „mun þess hafa verit, at í Torgum mundi veizla fjölmennust“. Konungr sagði at svá var. Hárekr segir: „Þat var vís ván, þvíat til þeirar veizlu

var mest aflat, ok báruð þér, konungr, þar stórligar gæfur til, er svá snerist, at þér kómuð í engan lífsháska. Fór þat, sem líklegt var, at þú vart vitrastr ok hamingjumestr, þvíat þú grunaðir þegar, at eigi mundi alt af heilu vera, er þú sátt fjölmenni þat it mikla, er þar var saman dregit. Enn mér var sagt, at þú létir alt lið þitt jafnan með alvæpni vera, eða hafðir varðhöld örugg bæði nótt ok dag“. Konungr sá til hans ok mælti: „Hví mælir þú slíkt, Hárekr, eðr hvat kantu þar af at segja?“ Hann segir: „Hvárt skal ek mæla í orlofi, konungr, þat er mér líkar?“ „Mældu“, segir konungr. „Þat ætla ek“, segir Hárekr, „ef þú, konungr, *heyrðir* hvers manns orð, er menn mæla heima eftir hugþokka sínum, hver ákúrun þat þykir, er þér veitit öllu mannfólki, *at þér þætti ekki vel vera.* Enn yðr er þat sannast að segja, konungr, at alþýðuna skortir ekki annat til mótgangs við yðr, enn dirfð ok forstjóra. Enn þat er ekki undarligt“, sagði hann, „um slíka menn, sem Þórólfr er, at hann þykist umfram hvern mann. Hann skortir eigi afl, eigi fríðleik. Hann hefir ok hirð um sik, sem konungr. Hann hefir morð fjár, þótt hann hefði þat eina, er hann ætti sjálfr. Enn hitt er meira, at hann lætr sér jafnheimlt annara fé sem sitt. Þér hafið ok veitt honum stórar veizlur, ok var nú við búit, at

hann mundi þat eigi vel launa, þvíat þat er yðr sannast frá at segja, þá er spurðist, at þér fóruð norðr á Hálogaland með eigi meira liði enn þér höfðuð, þremr hundruðum manna, þá var þat hér ráð manna, at hér skyldi herr saman koma ok taka þik af lífi, konungr, ok alt lið þitt, ok var Þórólfr höfðingi þeirar ráðagerðar, þvíat honum var þat til boðit, at hann skyldi konungr vera yfir Háleygjafylki ok Naumdælafylki. Fór hann síðan út ok inn með hverjum firði, ok um allar eyjar, ok dró saman hvern mann, er hann fekk, ok hvert vápn, ok fór þat þá ekki leynt, at þeim her skyldi stefna í móti Haraldi konungi til orrostu. Enn hitt er satt, konungr, þótt þér hefðið lið nökkuru minna, þá er þér funduzt, at búandkörlum skaut skelk í bringu, þegar þeir sá sigling yðra. Var þá hitt ráð tekit, at ganga á móti yðr með blíðu, ok bjóða til veizlu, enn þá var ætlat, ef þér yrðið druknir ok lægið sofandi, at veita yðr atgöngu með eldi ok vápnum, ok þat til jartegna, ef ek hefi rétt spurt, at yðr var fylgt í kornhlöðu eina, þvíat Þórólfr vildi eigi brenna upp stufu sína nýja ok vandaða mjök. Þat var enn til jartegna, at hvert hús var fult af vápnum ok herklæðum; enn þá er þeir fengu engum vélræðum við yðr komit, tóku þeir þat ráð, sem helzt var til: drápu öllu á dreif um þessa fyrirætlan. Ætla ek þat alla kunna, at dylja þessa

ráða, þvíat fáir hygg ek at sik viti saklausa, ef hit sanna kemr upp. Nú er þat mitt ráð, konungr, at þú takir Þórólf til þín ok látir hann vera í hirð þinni, bera merki þitt ok vera í stafni á skipi þínu; til þess er hann fallinn allra manna bezt; enn ef þú vilt, at hann sé lendr maðr, þá fá honum veizlur suðr í Fjörðum. Þar er ætterni hans alt. Megu þér þá sjá yfir, at hann gerist eigi ofstórr. Enn fá hér sýslu á Hálogalandi í hönd þeim mönnum, er hófsmenn sé, ok yðr munu með trúleik þjóna, ok hér eigu kyn, ok þeira frændr hafa hér áðr haft þvílíkt starf. Skulu vit bræðr vera búnir ok boðnir til slíks sem þér vilið okkr til nýta. Hafði faðir okkarr hér lengi konungssýslu. Varð honum þat vel í höndum. Eru yðr, konungr, vandsettir hér menn yfir til forráða, þvíat þér munuð hér sjaldan koma sjálfr. Hér er lítit landsmegin til þess, at þér farið með her yðvarn, ok munuð þat eigi oftar gera, at fara higat með fá liði, þvíat hér er ótrygt lið mart". Konungr reiddist mjök við ræður þessar, ok mælti þó stilliliga, sem hann var vanr jafnan, þá er hann frétti þau tíðendi, er mikils váru verð. Hann spurði þá, hvárt Þórólfr væri heima í Torgum. Hárekr sagði, at þess var engi ván. „Er Þórólfr svá viti borinn, at hann mundi kunna sér, at vera eigi fyrir liði yðru, konungr, þvíat honum mundi þess ván, at eigi skyldi all-

ir svá haldinorðir, at þú, konungr, mundir eigi varr verða við þessi tíðendi. Fór hann norðr í Álost þegar er hann spurði, at þér vóruð norðan á leið". Konungr ræddi fátt um þessi tíðendi fyrir mönnum, enn fanst þat á, at hann mundi trúnað á festa þessa orðræðu, er honum var sagt. Fór konungr síðan ferðar sinnar. Leiddu Hildiríðarsynir hann virðuliga á brott með gjöfum, enn hann hét þeim vináttu sinni. Þeir bræðr gáfu sér erendi inn í Naumudal ok fóru svá í svig við konung, at þeir hittu hann at öðru hverju. Tók hann jafnan vel máli þeira.

13. (Af Þórgisli gjallanda). Þorgils gjallandi hét maðr. Hann var heimamaðr Þórólfs ok hafði af honum mesta virðing húskarla hans. Hann hafði fylgt Þórólfi, þá er hann var í víking. Var þá stafnbúi hans ok merkismaðr. Þorgils hafði verit í Hafrsfirði í liði Haralds konungs, ok stýrði þá skipi því, er Þórólfr átti, ok hann hafði haft í víking. Þorgils var rammr at afli ok hinn mesti hreystimaðr. Konungr hafði veitt honum vingjafir eftir orrostu ok heitit vináttu sinni. Þorgils var forstjóri fyrir búi í Torgum, þá er Þórólfr var eigi heima. Hafði Þorgils þá þar ráð. Enn er Þórólfr hafði heiman farit, þá hafði hann tilgreitt finnskatt þann allan, er hann hafði haft af fjalli ok konungr átti, ok fekk í hendr Þorgisli, ok bað hann færa konungi, ef hann kæmi eigi heim áðr, um þat

er konungr færi norðan ok suðr um. Þorgils bjó byrðing mikinn ok góðan, er Þórólfr átti, ok bar þar á skattinn, ok hafði nær tuttugu mönnum. Sigldi suðr eftir konungi ok fann hann inn í Naumudal. Enn er Þorgils kom á fund konungs, þá bar hann konungi kveðju Þórólfs ok sagði, at hann fór þar með finnskatt þann, er Þórólfr sendi honum. Konungr sá til hans ok svarar engu, ok sá menn, at hann var reiðr. Gekk þá Þorgils á brott, ok ætlaði at fá betra dagráð at tala við konung. Hann kom á fund Ölvis hnúfu ok sagði honum alt sem farit hafði, ok spurði, ef hann vissi nökkut til, hverju gegndi. „Eigi veit ek þat“, segir hann, „hitt hefi ek fundit, at konungr þagnar hvert sinn, er Þórólfs er getit, síðan er vér vórum í Leku, ok grunar mik af því, at hann muni rægðr vera. Þat veit ek um Hildiríðarsonu, at þeir eru löngum á einmælum við konung, enn þat er auðfundit á orðum þeira, at þeir eru óvinir Þórólfs; enn ek mun þessa brátt víss verða af konungi“. Síðan fór Ölvir til fundar við konung ok mælti: „Þorgils gjallandi er hér kominn, vinr yðvarr, með skatt þann, er kominn er af Finnmörk ok þér eiguð, ok er skattrinn miklu meiri, enn fyrr hefir verit, ok miklu betri vara. Er honum títt um ferð sína. Ger svo vel, konungr, gakk til ok sé, þvíat engi mun sét hafa jamgóða grávöru“. Konungr

svarar engu, ok gekk þó þar er skipit lá. Þorgils *braut* þegar upp vöruna ok sýndi konungi. Enn er konungr sá, at þat var satt, at skattrinn var miklu meiri ok betri, enn fyrr hafði verit, þá hóf honum heldr upp brún, ok mátti Þorgils þá tala við hann. Hann færði konungi bjórskinn nökkur, er Þórólfr sendi honum, ok enn fleiri dýrgripi, er hann hafði fengit á fjalli. Konungr gladdist þá ok spyrr, hvat til tíðenda hefði orðit um ferðir þeira Þórólfs. Þorgils sagði þat alt greiniliga. Þá mælti konungr: „Skaði mikill er þat, er Þórólfr skal eigi vera trygrr mér, eða *vilja* vera banamaðr minn“. Þá svöruðu margir, er hjá vóru, ok allir á eina lund, sögðu þat vera mundu róg illra manna, ef konungi væri slíkt sagt, enn Þórólfr mundi ósannr at vera. Kom þá svá, at konungr kveðst því mundu heldr af trúa. Var konungr þá léttr í öllum ræðum við Þorgils, ok skildust sáttir. Enn er Þorgils hitti Þórólf, sagði hann honum alt sem farit hafði.

**14.** (Af Þórólfi). Þórólfr fór þann vetr enn á mörkina, ok hafði með sér nær hundrað manna. Fór hann enn sem hinn fyrra vetr; átti kaupstefnu við Finna ok fór víða um mörkina. Enn er hann sótti langt austr, ok þar spurðist til ferðar hans, þá kómu Kvenir til hans ok sögðu at þeir vóru sendir til hans, ok þat hafði gert Faravið konungr af Kvenlandi; *sögðu* at Kirjalar her-

uðu á land hans; enn hann sendi til þess orð, at Þórólfr skyldi fara þagat ok veita honum lið. Fylgdi þat orðsending, at Þórólfr skyldi hafa jammikit hlutskifti sem konungr, enn hverr manna hans sem þrír Kvenir. Enn þat vóru lög með Kvenum, at konungr skyldi hafa ór hlutskifti þriðjung við liðsmenn, ok um fram at afnámi bjórskinn öll ok safala ok askraka. Þórólfr bar þetta fyrir liðsmenn sína, ok bauð þeim kost á, hvárt fara skyldi eða eigi; enn þat keru flestir, at hætta til, er féfang lá við svá mikit, ok var þat af ráðit, at þeir fóru austr með sendimönnum. Finnmörk er stórliga víð. Gengr haf fyrir vestan, ok þar af firðir stórir, svá ok fyrir norðan ok alt austr um; enn fyrir sunnan er Noregr, ok tekr mörkin náliga alt it efra suðr, svá sem Hálogaland it ytra. Enn austr frá Naumudal er Jamtaland, ok þá Helsingjaland, ok þá Kvenland, þá Kirjalaland; enn Finnmörk liggr fyrir ofan þessi öll lönd, ok eru víða fjallbygðir upp á mörkina, sumt í dali, enn sumt með vötnum. Á Finnmörk eru vötn furðuliga stór, ok þar með vötnunum marklönd stór, enn há fjöll liggja eftir endilangri mörkinni, ok eru þat kallaðir Kilir. Enn er Þórólfr kom austr til Kvenlands ok hitti konung Faravið, þá búast þeir til ferðar ok höfðu þrjú hundruð manna, enn Norðmenn it fjórða, ok fóru it efra um Finnmörk,

ok kómu þar fram, er Kirjalar vóru á fjalli, þeir er fyrr höfðu herjat á Kveni. Enn er þeir urðu varir við ófrið, sömnuðust þeir saman ok fóru í mót; væntu sér enn sem fyrr sigrs. Enn er orrosta tókst, gengu Norðmenn hart fram. Höfðu þeir skjöldu enn traustari enn Kvenir. Sneri þá mannfalli í lið Kirjala; fell mart, enn sumir flýðu. Fengu þeir Faravið konungr ok Þórólfr þar ógrynni fjár; sneru aftr til Kvenlands, enn síðan fór Þórólfr ok hans lið á mörkina. Skildu þeir Faravið konungr með vináttu. Þórólfr kom af fjallinu ofan í Vefsni. Fór þá fyrst til bús síns á Sandnes; dvaldist þar um hríð. Fór norð*an* um várit með liði sínu til Torga. Enn er hann kom þar, var honum sagt, at Hildiríðarsynir höfðu verit um vetrinn í Þrándheimi með Haraldi konungi, ok þat með, at þeir mundu ekki af spara, at rægja Þórólf við konung. Var Þórólfi mart sagt frá því, hvert efni þeir höfðu í um rógit. Þórólfr svarar svá: „Eigi mun konungr trúa því, þótt slík lygi sé upp borin fyrir hann, þvíat hér eru engi efni til þessa, at ek muna svíkja hann, þvíat hann hefir marga hluti gert stórvel til mín, enn engan hlut illa, ok er at firr, at ek mundi vilja gera honum mein, þótt ek ætta þess kosti, at ek vil miklu heldr vera lendr maðr hans, enn heita konungr, ok væri annarr samlendr við mik, sá er mik mætti gera at þræli sér, ef vildi“.

15. (Frá Haraldi konungi ok Háreki). Hildiríðarsynir höfðu verit þann vetr með Haraldi konungi ok höfðu með sér heimamenn sína ok nábúa. Þeir bræðr vóru oftliga á tali við konung, ok fluttu enn á sömu leið mál Þórólfs. Hárekr spurði: „Líkaði yðr vel finnskattrinn, konungr, er Þórólfr sendi yðr“? „Vel“, sagði konungr. „Þá mundi yðr mart um finnast“, segir Hárekr, „ef þér hefðið allan þann, sem þér áttuð; enn nú fór þat fjarri. Var hitt miklu meiri hlutr, er Þórólfr dró undir sik. Hann sendi yðr at gjöf bjórskinn þrjú, enn ek veit víst, at hann hafði eftir þrjá tigu þeira er þér áttuð, ok hygg ek, at slíkan mun hafi farit um annat. Satt mun þat, konungr, ef þú fær sýsluna í hönd okkr bræðrum, at meira fé skulu vit færa þér“. Enn alt þat, er þeir sögðu á hendr Þórólfi, þá báru förunautar þeira vitni með þeim. Kom þá svá, at konungr var hinn reiðasti.

16. (Af Þórólfi). Þórólfr fór um sumarit suðr til Þrándheims á fund Haralds konungs, ok hafði þar með sér skatt allan, ok mikit fé annat, ok níu tigu manna ok alla vel búna. Enn er hann kom til konungs, var þeim skipat í gestaskála, ok veitt þeim it stórmannligsta. Eftir um daginn gekk Ölvir hnúfa til Þórólfs frænda síns. Töluðust þeir við. Sagði Ölvir, at Þórólfr væri þá hrópaðr mjök, ok konungr hlýddi á slíkar fortölur. Þórólfr bað Ölvi byrja mál sitt við

konung, „þvíat ek mun“, sagði hann, „vera skamtalaðr fyrir konungi, ef hann vill heldr trúa rógi vándra manna, enn sannindum ok einurð, er hann mun reyna at mér“. Annan dag kom Ölvir til móts við Þórólf, og sagði, at hann hefði rætt mál hans við konung. „Veit ek nú eigi“, sagði hann, „gerr enn áðr, hvat honum er í skapi“. „Ek skal þá sjálfr ganga til hans“, segir Þórólfr. Gerði hann svá, gekk til konungs, þá er hann sat yfir matborði, ok er hann kom inn, heilsaði hann konungi. Konungr tók kveðju hans, ok bað Þórólfi gefa at drekka. Þórólfr sagði, at hann hafði þar skatt þann, er konungr átti, „ok kominn er af Finnmörk, ok enn fleiri hluti hefi ek til minningar við yðr, konungr, þá er ek hefi yðr at færa. Veit ek, at því mun mér vera öllu bezt varit, er ek hefi gert til þakka yðvarra“. Konungr segir, at ekki mátti hann vænta at Þórólfi nema góðs eina, „því at ek em engis“, segir hann, „annars af verðr, enn þó segja menn nökkut tvent til, hversu varfærr þú munt um vera, hvernig mér skal líka“. „Eigi em ek þar fyrir sönnu hafðr“, segir Þórólfr, „ef nökkurir segja þat, at ek hafa ótrúleika lýst við yðr, konungr. Hygg ek, at þeir muni vera þínir vinir *minni* enn ek, er slíkt hafa upp borit fyrir þér. Enn hitt er ljóst, at þeir munu vilja vera óvinir mínir fullkomnir; enn þat er ok líkast, at þeir komist þar at keyptu,

ef vér skulum einir við eigast". Síðan gekk Þórólfr á brott. Enn annan dag eftir greiðir Þórólfr skattinn af hendi, ok var konungr viðstaddr; ok er þat var alt greitt, þá bar Þórólfr fram bjórskinn nökkur ok safala; sagði, at þat vill hann gefa konungi. Margir mæltu, er þar vóru hjá staddir, at þat var vel gert, ok var vináttu fyrir vert. Konungr sagði, at Þórólfr hafði þar sjálfr sér laun fyrir skapit. Þórólfr sagði, at hann hefði með trúleik gert alt þat, er hann kunni, til skaps konungs, „ok ef enn líkar honum eigi, þá mun ek fá ekki at gert. Var konungi þat kunnigt, þá er ek var með honum ok í hans sveit, hverja meðferð ek hafða, enn þat þykir mér undarligt, ef konungr ætlar mik nú annan mann, enn þá reyndi hann mik". Konungr segir: „Vel fórtu, Þórólfr, þá með þínum háttum, er þú vart með oss. Ætla ek þat enn bezt af at gera, at þú farir til hirðar minnar. Tak við merki mínu, ok ver fyrir öðrum hirðmönnum. Mun þá engi maðr rægja þik, ef ek má yfir sjá nótt ok dag, hverjar meðferðir þú hefir". Þórólfr sá til beggja handa sér. Þar stóðu húskarlar hans. Hann mælti: „Trauðr mun ek af hendi láta sveit þessa. Muntu ráða, konungr, nafngiftum við mik ok veizlum þínum, enn sveitunga mína mun ek ekki af hendi láta, meðan mér endast föng til, þótt ek véla um mína kosti eina. Er hitt

bæn mín ok vili, at þér, konungr, farið at heimboði til mín ok heyrið þá orð þeira manna, er þú trúir, hvert vitni þeir bera mér um þetta mál. Gerið þá eftir sem yðr finnast sannindi til“. Konungr svarar ok segir, at eigi mun hann oftar veizlu þiggja at Þórólfi. Gekk Þórólfr þá í brott, ok bjóst síðan til heimferðar. Enn er hann var í brott farinn, þá fekk konungr í hönd Hildiríðarsonum sýslu þá á Hálogalandi, er áðr hafði Þórólfr haft, *ok* svá finnferð. Konungr kastaði eigu sinni á bú í Torgum ok allar þær eignir, er Brynjólfr hafði átt. Fekk þat alt til varðveizlu Hildiríðarsonum. Konungr sendi menn með jartegnum á fund Þórólfs, at segja honum þessa tilskipan, sem hann hafði gert. Síðan tók Þórólfr skip þau er hann átti, ok bar þar á lausafé alt, þat er hann mátti með fara, ok hafði með sér alla menn sína, bæði frelsingja og þræla; fór síðan norðr á Sandnes til bús síns. Hafði Þórólfr þar eigi minna fjölmenni ok eigi minni rausn.

17. (Af Hildiríðarsonum). Hildiríðarsynir tóku við sýslu á Hálogalandi. Mælti engi maðr í móti fyrir ríki konungs. Enn mörgum þótti þetta skifti mjök í móti skapi, þeim er vóru frændr Þórólfs eða vinir. Þeir fóru um vetrinn á fjall, ok höfðu með sér þrjá tigu manna. Þótti Finnum miklu minni vegr at þessum sýslumönnum, enn þá er Þórólfr fór. Greiddist alt miklu verr

gjald þat er Finnar skyldu reiða. Þann sama vetr fór Þórólfr upp á fjall með hundrað manna. Fór þá þegar austr á Kvenland ok hitti Faravið konung. Gerðu þeir þá ráð sitt ok réðu þat at fara á fjall enn sem hinn fyrra vetr, ok höfðu fjögur hundruð manna, ok kómu ofan í Kirjalaland; hlupu þar í bygðir, er þeim þótti sitt færi vera fyrir fjölmennis sakir, herjuðu þar ok fengu of fjár. Fóru þá aftr, er á leið vetrinn, upp á mörkina. Fór Þórólfr heim um várit til bús síns. Hann hafði þá menn í skreiðfiski í Vágum, enn suma í síldfiski, ok leitaði alls konar fanga til bús síns. Þórólfr átti skip mikit; þat var lagt til hafs. Þat var vandat at öllu sem mest, steint mjök fyrir ofan sjó. Þar fylgdi segl stafat með vendi blám ok rauðum; allr var reiði vandaðr mjök með skipinu. Þat skip lætr Þórólfr búa ok fekk til húskarla sína með at fara; lét þar á bera skreið ok húðir, ok vöru ljósa. Þar lét hann ok fylgja grávöru mikla ok aðra skinnavöru, þá er hann hafði haft af fjalli, ok var þat fé stórmikit. Skipi því lét hann *Þorgils gjallanda* halda vestr til Englands, at kaupa sér klæði ok önnur föng þau er hann þurfti. Heldu þeir skipi því suðr með landi, ok síðan í haf, ok kómu fram á Englandi, fengu þar góða kaupstefnu, hlóðu skipit með hveiti ok hunangi, víni ok klæðum, ok heldu aftr um haustit. Þeim byrjaði vel. Kómu

at Hörðalandi. Þat sama haust fóru Hildiríðarsynir með skatt ok færðu konungi. Enn er þeir reiddu skattinn af hendi, þá var konungr sjálfr við ok sá. Hann mælti: „Er nú allr skattrinn af höndum reiddr, sá er þit tókuð við á Finnmörk?“ „Svá er“, sögðu þeir. „Bæði er nú“, sagði konungr, „skattrinn miklu minni ok verr af hendi goldinn, enn þá er Þórólfr heimti, ok sögðu þér, at hann færi illa með sýslunni“. „Vel er þat, konungr“, segir Hárekr, „er þú hefir hugleitt, hversu mikill skattr er vanr at koma af Finnmörk, þvíat þá veiztu gerr, hversu mikils þér missið, ef Þórólfr eyðir með öllu finnskattinum fyrir yðr. Vér vórum í vetr þrír tigir manna á mörkinni, svá sem fyrr hefir verit vandi sýslumanna. Síðan kom þar Þórólfr með hundrað manna. Spurðu vér þat til orða hans, at hann ætlaði af lífi at taka okkr bræðr ok alla þá menn er okkr fylgdu, ok fann hann þat til saka, er þú, konungr, hafðir selt okkr í hendr sýslu þá er hann vildi hafa. Sá vér þann helzt várn kost, at firrast fund hans ok forða oss, ok kómu vér fyrir þá sök skamt frá bygðum á fjallit. Enn Þórólfr fór um alla mörkina með her manns. Hafði hann kaup öll; guldu Finnar honum skatt, enn hann batzt í því, at sýslumenn yðrir skyldu ekki koma á mörkina. Ætlar hann at gerast konungr yfir norðr þar, bæði yfir mörkinni ok Há-

logalandi, ok er þat undr, at þér látið honum hvetvetna hlýða. Munu hér sönn vitni til finnast um fjárdrátt þann er Þórólfr hefir af mörkinni, þvíat knörr sá er mestr var á Hálogalandi, var búinn í vár á Sandnesi, ok kallaðist Þórólfr eiga einn farm allan, þann er á var. Hygg ek at nær væri hlaðinn af grávöru, ok þar hygg ek at finnast mundi bjórr ok safali meiri enn þat er Þórólfr færði þér, ok fór með Þorgils gjallandi. Ætla ek at hann hafi siglt vestr til Englands. Enn ef þú vilt vita sannindi af þessu, þá haldit til njósn um ferð Þorgils, þá er hann ferr austr, þvíat ek hygg, at á ekki kaupskip hafi komit jammikit fé á várum dögum. Ætla ek þat sannast at segja, at þér, konungr, eigið hvern penning þann er þar var á". Þetta sönnuðu förunautar hans alt er Hárekr sagði. Enn hér kunnu engir í móti at mæla.

18. (Frá bræðrum tveim). Sigtryggr snarfari ok Hallvarðr harðfari hétu bræðr tveir. Þeir vóru með Haraldi konungi, víkverskir menn. Var móðurætt þeira á Vestfold, ok vóru þeir í frændsemis tölu við Harald konung. Faðir þeira hafði kyn átt tveim megum Gautelfar. Hann hafði bú átt í Hísing, ok var maðr stórauðigr, enn þá höfðu þeir tekit við arfi eftir föður sinn. Þeir vóru fjórir bræðr. Hét einn Þórðr, ok Þorgeirr, og vóru þeir yngri. Þeir vóru heima ok réðu fyrir búi. Þeir Sigtryggr ok Hallvarðr

höfðu sendiferðir konungs allar, bæði innanlands ok útanlands, ok höfðu margar ferðir þær farit, er háskasamligar vóru, bæði til aftöku manna, eða fé upp að taka fyrir þeim mönnum, er konungr lætr heimferðir veita. Þeir höfðu sveit mikla um sik. Ekki vóru þeir vingaðir alþýðu manns, enn konungr mat þá mikils, ok vóru þeir allra manna bezt færir bæði á fæti ok á skíðum, svá ok í skipförum vóru þeir hvatfærri enn aðrir menn. Hreystimenn vóru þeir ok miklir, ok forsjálir um flest. Þeir vóru þá með konungi er þetta var tíðenda. Um haustit fór konungr at veizlum um Hörðaland. Þat var einn dag, at hann lét kalla til sín þá bræðr, Hallvarð ok Sigtrygg, enn er þeir kómu til hans, sagði hann þeim, at þeir skyldu fara með sveit sína, ok halda njósn um skip þat, sem Þorgils gjallandi fór með — „ok hann hafði í sumar vestr til Englands. Færið mér skipit ok alt þat er á er, nema menn; látið þá fara í brott leið sína í friði, ef þeir vilja ekki verja skipit“. Þeir bræðr vóru þess albúnir, ok tók sitt langskip hvárr þeira; fara síðan at leita þeira Þorgils, ok spurðu, at hann var vestan kominn, ok hann hafði siglt norðr með landi. Þeir fara norðr eftir þeim ok hitta þá í Furusundi; kendu brátt skipit, ok lögðu at annat skipit á útborða, enn sumir gengu á land upp ok út á skipit at bryggjunnm. Þeir Þorgils vissu sér engis

ótta ván ok vöruðust ekki. Fundu þeir eigi fyrr, enn fjöldi manns var uppi á skipinu með alvæpni, ok þeir vóru allir handteknir ok leiddir síðan á land upp vápnlausir, ok höfðu ekki nema ígangsklæði ein. Enn þeir Hallvarðr skutu út bryggjunum ok slógu strenginum ok drógu út skipit; snúa síðan leið sína ok sigldu suðr þar, til þess er þeir fundu konung; færðu honum skipit ok alt þat er á var. Enn er farmrinn var borinn af skipinu, þá sá konungr, at þat var stórfé, ok eigi var þat lygi, er Hárekr hafði sagt. Enn Þorgils ok hans félagar fengu sér flutningar, ok leita þeir á fund Kveldúlfs ok þeira feðga, ok sögðu sínar farar eigi sléttar; fengu þar þó góðar viðtökur. Sagði Kveldúlfr, at þá mundi þar til draga, sem honum hafði fyrir boðat, at Þórólfr mundi eigi til allsendis gæfu til bera um vináttu Haralds konungs, — „ok þætti mér ekki mikils vert um félát þetta, er Þórólfr hefir mist nú, ef nú færi eigi hér hit meira eftir. Grunar mik enn sem fyrr, at Þórólfr muni eigi gerr kunna at sjá efni sín við ofrefli slíkt, sem hann á at skifta“ — ok bað Þorgils svá segja Þórólfi, at — „mitt ráð er þat“, segir hann, „at hann fari ór landi á brott, þvíat vera kann, at hann komi sér betr, ef hann sækir á hönd Englakonungi eða Danakonungi eða Svíakonungi. Síðan fekk hann Þorgisli róðrarskútu eina ok þar með reiða allan, svá tjöld ok vistir,

ok alt þat, er þeir þurftu til ferðar sinnar. Síðan fóru þeir ok léttu eigi fyrr ferð sinni, enn þeir kómu norðr til Þórólfs, ok sögðu honum þat er til tíðinda hafði gerzt. Þórólfr varð vel við skaða sinn. Sagði svá, at hann mundi ekki fé skorta; — „er gott félag at eiga við konung". Síðan keypti Þórólfr mjöl ok malt, ok þat annat, er hann þurfti til framflutningar liði sínu. Sagði hann, at húskarlar mundu vera ekki svá fagrbúnir sem hann hafði ætlat um hríð. Þórólfr seldi jarðir sínar, enn sumar veðsetti hann, enn helt upp kostnaði öllum sem fyrr. Hafði hann þá ok ekki færa lið með sér, enn hina fyrri vetr, heldr hafði hann nökkuru fleira manna. Svá um veizlur ok heimboð við vini sína, þá hafði hann meira efni um þat alt enn fyrr. Var hann heima þann vetr allan.

**19.** (Af hernaði Þórólfs). Þá er vár kom ok snæ leysti ok ísa, þá lét Þórólfr fram setja langskip mikit, er hann átti, ok lét þat búa ok skipaði húskörlum sínum, ok hafði með sér meir enn hundrað manna; ok var þat lið hit fríðasta ok vápnat allvel. Enn er byr gaf, helt Þórólfr skipinu suðr með landi, ok þegar er hann kom suðr um Byrðu, þá heldu þeir útleið fyrir útan eyjar allar, enn stundum svá, at sjór var í miðjum hlíðum. Létu svá ganga suðr fyrir landit; höfðu ekki tíðendi af mönnum, fyrr enn þeir kómu austr í Vík. Þá spurðu þeir, at Haraldr kon-

ungr var í Víkinni ok hann ætlaði um sumarit at fara til Upplanda. Ekki vissu landsmenn til um ferð Þórólfs. Honum byrjaði vel, ok helt hann suðr til Danmerkr, ok þaðan í Austrveg, ok herjaði þar um sumarit ok varð ekki gott til fjár. Um haustit helt hann austan til Danmerkr í þann tíma, er leystist Eyrarfloti. Þar hafði verit um sumarit, sem vant var, fjöldi skipa af Noregi. Þórólfr lét þat lið sigla alt fyrir, ok gerði ekki vart við sik. Hann sigldi einn dag at kveldi til Mostrarsunds. Þar lá fyrir í höfninni knörr einn mikill kominn af Eyri. Þórir þruma hét maðr sá er stýrði. Hann var ármaðr Haralds konungs. Hann réð fyrir búi hans í Þrumu. Þat var mikit bú; sat konungr þar löngum, þá er hann var í Víkinni. Þurfti þar stór föng til bús þess. Hafði Þórir farit fyrir þá sök til Eyrar at kaupa þar þunga, malt og ok hveiti ok hunang, og varit þar til fé miklu er konungr átti. Þeir lögðu at knerrinum, ok buðu Þóri kost á at verjast, enn fyrir því, at þeir Þórir höfðu engan liðskost til varnar móti fjölmenni því er Þórólfr hafði, gáfust þeir upp. Tók Þórólfr skip þat með öllum farmi, enn setti Þóri upp í eyna. Helt Þórólfr þá skipum þeim báðum norðr með landi; enn er hann kom fyrir Elfina, þá lágu þeir þar ok biðu nætr; enn er myrkt var, reru þeir langskipinu upp í ána, ok lögðu til bæjar þess, er þeir

áttu Hallvarðr ok Sigtryggr. Koma þeir þar fyrir dag, ok slógu manngarð, æptu síðan heróp, ok vöknuðu þeir við, er inni váru, ok hljópu þegar upp til vápna sinna. Flýði Þorgeirr þegar út ór svefnskemmunni. Skíðgarðr hár var um bæinn. Þorgeirr hljóp at skíðgarðinum, ok greip hendinni upp á garðstaurinn ok kastaði sér út um garðinn. Þar var nær staddr Þorgils gjallandi. Hann sveiflaði til sverðinu eftir Þorgeiri, ok kom á höndina, ok *tók* af við garðstaurinn. Hljóp Þorgeirr síðan til skógar, enn Þórðr bróðir hans var þar feldr ok meir enn tuttugu menn. Síðan ræntu þeir þar fé öllu, ok brendu bæinn; fóru síðan út eftir ánni til hafs. Þeim byrjaði vel, ok sigldu norðr í Víkina. Þá hittu þeir enn fyrir sér kaupskip mikit, er áttu Víkverjar, hlaðit af malti ok mjölvi. Þeir Þórólfr lögðu at skipi því; enn þeir er fyrir vóru þóttust engi föng hafa til varnar ok gáfust upp. Gengu þeir á land upp slyppir. Enn þeir Þórólfr tóku skipit með farmi ok fóru leiðar sinnar. Hafði Þórólfr þá þrjú skip, er hann sigldi austan um Foldina. Sigldu þá þjóðleið til Líðandisness; fóru þá sem skyndiligast, enn námu nesnám, þar sem þeir kómu við, ok hjuggu strandhögg. Enn er þeir sigldu norðr frá Líðandisnesi, fóru þeir meir útleið. Enn þar sem þeir kómu við land, þá ræntu þeir. Enn er Þórólfr kom norðr fyrir Fjörðu, þá sneri hann inn á

leið ok fór á fund Kveldúlfs föður síns, ok fengu þar góðar viðtökur. Sagði Þórólfr föður sínum, hvat til tíðinda hafði vorðit í förum hans um sumarit. Þórólfr dvaldist þar litla hríð, ok leiddi Kveldúlfr ok þeir feðgar hann til skips. Enn áðr þeir skildust, töluðust þeir við. Sagði Kveldúlfr: „Eigi hefir því fjarri farit, Þórólfr, sem ek sagða þér, þá er þú fórt til hirðar Haralds konungs, at þér mundi svá út ganga, at hvárki þér né oss, frændum þínum, mundi hamingja at verða. Hefir þú nú þat ráð upp tekit, er ek varaða þik mest við, er þú etr kappi við Harald konung; enn þótt þú sér vel búinn at hreysti ok allri atgervi, þá hefir þú ekki til þess gæfu, at halda til jafns við Harald konung, er engum hefir öðrum enzt hér í landi, þótt áðr hafi haft ríki mikit ok fjölmenni. Er þat mitt hugboð, at sjá verði fundr okkarr enn síðasti, ok væri þat at sköpuðu fyrir aldrs sakir, at þú lifðir lengr okkar. Enn annan veg ætla ek at verði“. Síðan steig Þórólfr á skip sitt, ok helt á brott leið sína. Er þá ekki sagt frá ferð hans, at til tíðenda yrði, áðr enn hann kom á Sandnes heim ok lét flytja til bæjar herfang þat alt, er hann hafði heim haft, enn setja upp skip*in*; skorti þá eigi föng at fæða lið sitt um vetrinn. Sat Þórólfr heima jafnan, ok hafði fjölmenni eigi minna enn hina fyrri vetr.

**20.** (Af Yngvari). Maðr hét Yngvarr, ríkr ok auð-

igr. Hann hafði verit lendr maðr hinna fyrri konunga. Enn síðan er Haraldr kom til ríkis, settist Yngvarr heima ok þjónaði ekki konungi. Yngvarr var maðr kvángaðr ok átti dóttur, er hét Bera. Yngvarr bjó í Fjörðum. Bera var einberni hans, ok stóð til arfs eftir hann. Grímr Kveldúlfsson bað Beru til handa sér, ok var þat at ráði gert. Fekk Grímr Beru þann vetr, er þeir Þórólfr höfðu skilizt áðr um sumarit. Var Grímr þá hálfþrítugr at aldri, og var þá sköllóttr. Síðan var hann kallaðr Skallagrímr. Hann hafði þá forráð öll fyrir búi þeira feðga ok tilöflun alla; enn þó var Kveldúlfr hress maðr ok vel færr. Mart höfðu þeir frelsingja með sér, ok marga þá menn, er heima þar höfðu upp vaxit, ok vóru nær jamaldrar Skallagríms. Vóru þeir margir afreksmenn miklir at afli, því at Kveldúlfr ok þeir feðgar völdu menn mjök at afli til fylgdar við sik, ok tömdu við skaplyndi sitt. Skallagrímr var líkr feðr sínum á vöxt ok at afli, svá ok at yfirlitum og skaplyndi.

**21.** (Frá Haraldi). Haraldr konungr var í Víkinni, þá er Þórólfr var í hernaðinum, ok fór um haustit til Upplanda ok þaðan norðr til Þrándheims, ok sat þar um vetrinn, ok hafði fjölmenni mikit. Þar vóru þá með konungi Sigtryggr ok Hallvarðr, ok höfðu spurt, hvernig Þórólfr hafði búit at herbergjum þeira í Hísing, ok hvern mannskaða ok fjárskaða, er hann hafði þar gert. Þeir

mintu konung oft á þat, ok svá þat með, at Þórólfr hafði rænt konung ok svá þegna hans, ok farit með hernaði þar innanlands. Þeir báðu konung orlofs til, at þeir bræðr skyldu fara með liði því, er vant var þeim at fylgja, ok sækja heim at Þórólfi. Konungr svarar svá: „Vera munu ykkr þykja sakir til, þó at þit ráðið Þórólf af lífi, enn ek ætla, at ykkr skorti mikit hamingju til þess verks. Er Þórólfr ekki ykkarr maki, þó at þit þykkizt vera menn hraustir eða vel at ykkr gervir“. Þeir bræðr sögðu, at þat mundi brátt reynt verða, ef konungr vill þeim lof til gefa, ok segja, at þeir hafa oft lagt á hættu mikla við þá menn, er þeir áttu minna í at hefna ok hafði þeim oftast orðið sigrs auðit. Enn er váraði, þá bjuggust menn ferða sinna. Þá var enn sem fyrr sagt, at þeir Hallvarðr heldu á því máli at þeir fari til ok taki Þórólf af lífi. Hann kvaðst þá lofa, at þeir tæki Þórólf af lífi, „ok veit ek at þit munuð færa mér höfuð hans er þit komið aftr, ok með marga dýrgripi, enn þó geta þess sumir menn“, segir konungr, „ef þit siglið norðr, at þit munið bæði sigla ok róa norðan“. Nú búast þeir sem skjótast og höfðu tvau skip og hálft annat hundrað manna, og er þeir vóru búnir, taka þeir landnyrðing út eftir firðinum, enn þat er andviðri norðr með landi.

22. (Fall Þórólfs Kveldúlfssonar). Haraldr konungr sat þá á Hlöðum, er þeir Hallvarðr fóru á brott, og

þegar jamskjótt bjóst konungr sem skyndiligast ok gekk á skip sín, og reru þeir inn eftir firði um Skarnssund ok svá um Beitsjó inn til Eldueiðs. Lét hann þar eftir skipin, ok fór norðr um eiðið til Naumudals, ok tók hann þar langskip er bændr áttu ok gekk hann þar á með lið sitt; hafði hann hirð sína ok nær þremr hundruðum manna. Hann hafði fimm eða sex skip ok öll stór. Þeir tóku andviðri hvast ok reru nótt ok dag svá sem ganga mátti. Nótt var þá farljós. Þeir kómu aftan dags til Sandness eftir sólarfall og sá þar fyrir bænum fljóta langskip mikit ok tjaldat yfir. Þar kendu þeir skip þat er Þórólfr átti; hafði hann þat látit búa ok ætlaði af landi á brott. Enn þá hafði hann heita látit fararmungát sitt. Konungr bað menn ganga af skipum gersamliga. Lét hann fara upp merki sitt. Skamt var at ganga til bæjarins, enn varðmenn Þórólfs sátu inni við drykkju ok vóru eigi gengnir á vörðinn, ok var engi maðr úti; sat alt lið inni við drykkju. Konungr lét slá mannhring um stufuna. Lustu þeir þá upp herópi ok var blásit í konungslúðr herblástr. Enn er þeir Þórólfr heyra þat, hljópu *þeir* til vápna, því at hvers manns alvæpni hekk yfir rúmi hans. Konungr lét kalla at stufunni ok bað ganga út konur ok ungmenni ok gamalmenni, þræla og mansmenn. Síðan gekk út Sigríðr húsfreyja, ok með henni konur þær er inni vóru ok aðrir þeir menn er útganga var

lofut. Sigríðr spurði eftir, ef þeir væri þar synir Berðlu-Kára. Þeir gengu fram báðir ok spurðu, hvat hon vildi þeim. „Fylgið mér til konungs“, sagði hon. Þeir gerðu svá. Enn er hon kom til konungs, þá spurði hon: „Skal nökkut um sættir tjóa at leita, herra, með ykkr Þórólfi?“ Konungr svarar: „Vill Þórólfr upp gefast ok ganga á vald mitt til miskunnar, ok mun hann halda lífi ok limum, enn menn hans munu sæta refsingum, svá sem sakir falla til“. Síðan gekk Ölvir hnúfa til stufunnar ok lét kalla Þórólf til máls við sik. Hann sagði honum þann kost er konungr gerði. Þórólfr svarar: „Enga vil ek nauðungarsætt taka af konungi. Bið þú konung gefa oss útgöngu. Látum þá skeika at sköpuðu“. Ölvir gekk til konungs og sagði, hvers Þórólfr beiddist. Konungr sagði: „Beri eld at stufunni; ekki vil ek berjast við þá ok týna liði mínu. Veit ek at Þórólfr mun gera oss mannskaða mikinn, ef vér skulum sækja hann þar, er hann mun seint at vinna inni, þótt hann hafi lið minna enn vér“. Síðan var eldr borinn at stufunni, ok sóttist þat skjótt, því at timbrit var þurt ok bræddr viðrinn, enn næfrum þakit um ræfrit. Þórólfr bað menn sína brjóta upp bálkinn, er var milli stufunnar ok forstufunnar, ok sóttist þat skjótt; enn er þeir náðu timbrstokknum, þá tóku svá margir í stokkinn einn, sem á fengu haldit, ok skutu

öðrum endanum í hyrningina, svá hart at nafarnar hrutu af fyrir útan ok hljópu í sundr veggirnir, svá at þar var útgangr mikill. Gekk þar Þórólfr fyrstr út, ok þá Þorgils gjallandi, ok svá hverr eftir annan. Tókst þá bardaginn ok var þat um hríð at stufan gætti á bak þeim Þórólfi, enn er hon tók at brenna, þá sótti eldrinn at þeim. Fell þá ok mart lið þeira. Þá hljóp Þórólfr fram ok hjó til beggja handa. Sótti þangat at, er merki konungs var. Þá fell Þorgils gjallandi. Enn er Þórólfr kom fram at skjaldborginni, lagði hann sverði í gegnum þann mann er merkit bar. Þá mælti Þórólfr: „Nú gekk ek þremr fótum til skamt“. Þá stóðu á honum bæði sverð ok spjót, enn sjálfr konungr veitti honum banasár, ok fell Þórólfr fram á fætr konungi. Þá kallaði konungr ok bað hætta at drepa fleiri menn, ok var þá svá gert. Síðan bað konungr menn sína fara ofan til skipa. Hann mælti við Ölvi ok þá bræðr: „Takið nú Þórólf frænda ykkarn ok veitið honum umbúnað sæmiligan ok svá öðrum mönnum er hér eru fallnir ok ryðið val allra þeira, enn látið binda sár manna, þeira er lífvænir eru, enn ekki skal hér ræna, þvíat þetta er alt mitt fé“. Síðan gekk konungr ofan til skipanna ok flest lið með honum, enn er þeir vóru á skip komnir, þá tóku menn at binda sár sín. Konungr gekk um skipit ok leit á sár manna. Hann sá hvar maðr

þatt svöðusár eitt. Konungr sagði, at ekki hafði Þórólfr veitt þat sár, — „og alt bitu honum annan veg vápnin. Fáir ætla ek at þau bindi sárin, er hann veitti, ok skaði mikill er eftir menn slíka“. Enn þegar at morni dags lét konungr draga segl sín ok sigldi suðr sem af tók. Enn er á leið daginn, þá fundu þeir konungr róðrarskip mörg í hverju eyjarsundi, ok hafði lið þat ætlat til fundar við Þórólf, því at njósnir hans höfðu verit alt suðr í Naumudal ok víða um eyjar. Höfðu þeir orðit vísir, at þeir Hallvarðr bræðr vóru komnir sunnan með lið mikit ok ætluðu at Þórólfi. Höfðu þeir Hallvarðr haft jafnan andviðri ok höfðu þeir dvalizt í ýmsum höfnum til þess er njósn hafði farit hit efra um land ok höfðu þess orðit varir njósnarmenn Þórólfs, ok hafði þetta herhlaup fyrir þá sök verit. Konungr sigldi hraðbyrja til þess er hann kom í Naumudal; lét þar skipin eftir, enn hann fór landveg í Þrándheim. Tók hann þar skip sín, sem hann hafði eftir látit; helt þá liðinu út til Hlaða. Spurðust brátt þessi tíðendi ok kómu fyrir þá Hallvarð þar er þeir lágu. Sneru þeir þá aftr til konungs ok þótti þeira ferð heldr hæðilig. Þeir bræðr Ölvir hnúfa ok Eyvindr lambi dvöldust um hríð á Sandnesi. Létu þeir búa um val þann er þar hafði fallit. Bjuggu þeir um lík Þórólfs eftir siðvenju, svá sem títt var at búa um lík göfugra manna; settu eftir

hann bautasteina. Þeir létu græða sjúka menn. Þeir skipuðu ok til bús með Sigríði. Var þar eftir allr fjárafli, enn mestr hafði inni brunnit húsbúnaðr ok borðbúnaðr ok klæðnaðr manna. Enn er þeir bræðr vóru búnir, þá fóru þeir norðan ok kómu á fund Haralds konungs, er hann var í Þrandheimi, ok vóru með honum um hríð. Þeir vóru hljóðir ok mæltu fátt við menn. Þat var einnhvern dag, at þeir bræðr gengu fyrir konung. Þá mælti Ölvir: „Þess orlofs vilju vit bræðr þik biðja, konungr, at þú lofir okkr heimferð til búa okkarra, þvíat hér hafa þau tíðendi gerzt, er vit berum eigi skaplyndi til at eiga drykk ok sess við þá menn, er báru vápn á Þórólf frænda okkarn“. Konungr leit við honum ok svarar heldr stutt: „Eigi mun ek þat lofa ykkr. Hér skulu þit vera með mér“. Þeir bræðr gengu í brott ok aftr til sætis síns. Annan dag eftir sat konungr í málstufu; lét kalla þangat þá Ölvi bræðr. „Nú skulu þit vita“, segir konungr, „um erendi þat er þit hófuð við mik ok beiddust heimferðar. Hafi þit verit hér um hríð með mér ok verið vel siðaðir. Hafi þit vel jafnan dugat. Hefir mér til ykkar allir hlutir vel hugnat. Nú vil ek, Eyvindr, at þú farir norðr á Hálogaland. Vil ek gifta þér Sigríði á Sandnesi, konu þá er Þórólfr hafði átt. Vil ek gefa þér fé þat alt er Þórólfr átti. Skaltu þar hafa með vináttu mína, ef þú kant til gæta.

Enn Ölvir skal mér fylgja. Vil ek hann eigi lausan láta fyrir sakar íþrótta hans". Þeir bræðr þökkuðu konungi þann sóma er hann veitti þeim, sögðu at þeir vildu þat fúsliga þekkjast. Bjóst Eyvindr þá til ferðar, fekk sér gott skip, þat er honum hæfði. Fekk konungr honum jartegnir sínar til ráðs þessa. Greiddist ferð Eyvindar vel ok kom fram norðr í Álost á Sandnesi. Sigríðr tók vel við þeim. Síðan bar Eyvindr fram jartegnir konungs ok erendi sín fyrir Sigríði, ok hóf bónorð sitt við hana, sagði at þat var konungs orðsending, at Eyvindr nái ráði þessu. Enn Sigríðr sá þann einn sinn kost, svá sem þá var komit, at láta konung fyrir ráða. Fór þat ráð fram, at Eyvindr fekk Sigríðar. Tók hann þá við búi á Sandnesi ok við fé því öllu er Þórólfr hafði átt. Var Eyvindr göfugr maðr. Vóru börn þeira Fiðr skjálgi, faðir Eyvindar skáldaspillis, ok Geirlaug, er átti Sighvatr rauði. Fiðr hinn skjálgi átti Gunnhildi, dóttur Hálfdanar jarls. Móðir hennar hét Ingibjörg, dóttir Haralds konungs hins hárfagra. Eyvindr lambi helzt í vináttu við konung meðan þeir lifðu báðir.

**23.** (Dráp Hildiríðarsona). Ketill hængr hét maðr, son Þorkels Naumdælajarls og Hrafnhildar, dóttur Ketils hængs ór Hrafnistu. Hængr var göfugr maðr ok ágætr. Hann hafði verit hinn mesti vinr Þórólfs Kveldúlfssonar ok frændi

skyldr. Hann var þá í úthlaupi því, er liðsafnaðr var á Hálogalandi ok menn ætluðu til liðs við Þórólf, svá sem fyrr var ritat. Enn er Haraldr konungr fór norðan ok menn urðu þess varir, at Þórólfr var af lífi tekinn, þá rufu þeir safnaðinn. Hængr hafði með sér sex tigu manna ok sneri hann til Torga. Enn þar vóru fyrir Hildiríðarsynir ok höfðu fátt lið. Enn er Hængr kom á bæinn, veitti hann þeim atgöngu. Fellu þar Hildiríðarsynir ok þeir menn flestir, er þar vóru fyrir, enn þeir Hængr tóku fé alt þat er þeir fengu. Eftir þat tók Hængr knörru tvá, þá er hann fekk mesta. Lét þar bera á út fé þat alt er hann átti ok hann mátti með komast. Hann hafði með sér konu sína ok börn, svá þá menn alla er at þeim verkum höfðu verit með honum. Baugr hét maðr, fóstbróðir Hængs, ættstórr maðr ok auðigr. Hann stýrði öðrum knerrinum. Enn er þeir vóru búnir ok byr gaf, þá sigldu þeir í haf út. Fám vetrum áðr höfðu þeir Ingólfr ok Hjörleifr farit at byggja Ísland, ok var mönnum þá alltíðrætt um þá ferð. Sögðu menn þar vera allgóða landkosti. Hængr sigldi vestr í haf ok leitaði Íslands. Enn er þeir urðu við land varir, þá vóru þeir fyrir sunnan atkomnir. Enn fyrir því at veðr var hvast, enn brim á landit ok ekki hafnligt, þá sigldu þeir vestr um landit fyrir sandana. Enn er veðrit tók minka ok lægja brim, þá varð fyrir þeim ár-

óss mikill ok heldu þeir þar skipunum upp í ána, ok lögðu við it vestra land. Sú á heitir nú *Rangá*; fell þá miklu þröngra ok var djúpari enn nú er. Þeir ruddu skipin. Tóku þá ok könnuðu landit fyrir útan ána, ok fluttu eftir sér búfé sitt. Var Hængr hinn fyrsta vetr fyrir útan Rangá hina ytri. Enn um várit kannaði hann austrlandit, ok nam þá land milli Þjórsár ok Markarfljóts, á milli fjalls ok fjöru, ok bygði at Hofi við Rangá hina eystri. Ingunn kona hans fæddi barn um várit, þá er þau höfðu þar verit hinn fyrsta vetr, ok hét sveinn sá Hrafn. Enn er hús vóru þar ofan tekin, þá var þar síðan kallat Hrafntóftir. Hængr gaf Baugi land í Fljótshlíð ofan frá Merkiá til árinnar fyrir útan Breiðabólstað, ok bjó hann at Hlíðarenda, ok frá Baugi er komin mikil kynslóð í þeiri sveit. Hængr gaf land skipverjum sínum, enn seldi sumum við litlu verði, ok eru þeir landnámamenn kallaðir. Stórólfr hét son Hængs; hann átti Hválinn ok Stórólfsvöll. Hans son var Ormr hinn sterki. Herjólfr hét annarr son Hængs; hann átti land í Fljótshlíð til móts við Baug ok út til Hválslækjar. Hann bjó undir Brekkum. Sonr hans hét Sumarliði, faðir Vetrliða skálds. Helgi var hinn þriði son Hængs. Hann bjó á Velli, ok átti land til Rangár it efra ok ofan til móts við bræðr sína. Vestarr hét hinn fjórði son Hængs. Hann átti

land fyrir austan Rangá milli ok Þverár ok hinn neðra hlut Stórólfsvallar. Hann átti Móeiði, dóttur Hildis ór Hildisey. Þeira dóttir var Ásný, er átti Ófeigr grettir. Vestarr bjó at Móeiðarhváli. Hrafn var hinn fimti Hængs son. Hann var fyrstr lögsögumaðr á Íslandi. Hann bjó at Hofi eftir föður sinn. Þorlaug var var dóttir Hrafns, er átti Jörundr goði. Þeira son var Valgarðr at Hofi. Hrafn var göfgastr sona Hængs.

24. (Hrygð Kveldúlfs). Kveldúlfr spurði fall Þórólfs sonar síns. Varð hann hryggr við þessi tíðendi, svá at hann lagðist í rekkju af harmi ok elli. Skallagrímr kom oft til hans ok taldi fyrir honum, bað hann hressa sik, sagði at alt var annat athæfiligra enn þat, at auvirðast ok leggjast í kör, — „er hitt heldr ráð, at vér leitim til hefnda eftir Þórólf. Má vera, at vér komim í færi við nokkura þá menn, er verit hafa at falli Þórólfs. Enn ef þat er eigi, þá munu þeir vera menn, er vér munum ná, er konungi mun sér þykja móti skapi“. Kveldúlfr kvað vísu:

Nú frák norðr í eyju,
(norn erum grimm) til snimma
Þundr kaus þremja skyndi,
Þórólf und lok fóru.
Létumk þung at þingi
Þórs fangvina at ganga

(skjótt munat hefnt, þótt hvettimk
hugr) malmgnáar brugðit.

Haraldr konungr fór þat sumar til Upplanda, ok fór um haustit vestr á Valdres ok alt á Vors. Ölvir hnúfa var með konungi, ok kom oft á mál við konung, ef hann mundi vilja bæta Þórólf, veita Kveldúlfi ok Skallagrími fébætr eða mannsóma þann nökkurn, er þeir mætti við una. Konungr varnaði þess eigi með öllu, ef þeir feðgar færi á fund hans. Síðan byrjaði Ölvir ferð sína norðr í Fjörðu; létti eigi fyrr enn hann kom at kveldi dags til þeira feðga. Tóku þeir þakksamliga við honum. Dvaldist hann þar nökkura hríð. Kveldúlfr spurði Ölvi vandliga frá atburðum þeim er gerzt höfðu á Sandnesi, þá er Þórólfr fell, svá at því, hvat Þórólfr vann til frama, áðr hann felli. Svá ok hverir vápn báru á hann, eða hvar hann hafði mest sár, eða hvernig fall hans yrði. Ölvir sagði alt þat er hann spurði, svá þat, at Haraldr konungr veitti honum sár þat, er ærit mundi eitt til bana, ok Þórólfr fell nær á fætr konungi á grúfu. Þá svarar Kveldúlfr: „Vel hefir þú sagt, þvíat þat hafa gamlir menn mælt, at þess manns mundi hefnt verða, er hann felli á grúfu, ok þeim nær koma hefndin, er fyrir yrðu, er hinn felli. Enn ólíklegt er, at oss verði þeirar hamingju auðit“. Ölvir sagði þeim feðgum, at hann vænti ef þeir vildi fara á fund

konungs, ok leita eftir bótum, at þat mundi sómaför verða, ok bað þá til þess hætta, ok lagði mörg orð til. Kveldúlfr sagði, at hann var hvergi færr fyrir elli sakar: „Mun ek vera heima“, sagði hann. „Viltu fara Grímr“, sagði Ölvir. „Ekki erendi ætla ek mik eiga“, sagði Grímr, „mun konungi ek þykja ekki orðsnjallr. Ætla ek mik ekki lengi munu biðja bótanna“. Ölvir sagði, at hann mundi þess eigi þurfa: „Skulu vér mæla alt fyrir hönd þína, slíkt er vér kunnum“. Enn með því at Ölvir sótti þat mál mjök, þá hét Grímr ferð sinni, þá er hann þættist búinn. Kváðu þeir Ölvir á með sér þá stund, er Grímr skyldi koma á konungsfund. Fór þá Ölvir fyrst á brott ok til konungs.

25. (Ferð Skallagríms á konungsfund). Skallagrímr bjóst til ferðar þeirar, er fyrr var frá sagt. Hann valdi sér menn af heimamönnum sínum ok nábúum, þá er vóru sterkastir at afli ok hraustastir þeira er til vóru. Maðr hét Áni, bóndi einn auðigr. Annarr hét Grani. Þriði Grímólfr, ok Grímr bróðir hans, heimamenn Skallagríms, ok þeir bræðr, Þorbjörn krummr ok Þórðr beigaldi. Þeir vóru kallaðir Þórörnusynir. Hon bjó skamt frá Skallagrími og var fjölkunnig; Beigaldi var kolbítr. Einn hét Þórir þurs ok bróðir hans Þorgeirr jarðlangr. Oddr hét maðr einbúi, Gríss lausingi. Tólf vóru þeir til fararinnar, ok allir hinir sterkustu menn ok margir ham-

rammir. Þeir höfðu róðrarferju, er Skallagrímr átti. Fóru suðr með landi, lögðu inn í Ostrarfjörðu; fóru þá landveg upp á Vors til vatns þess er þar verðr, enn leið þeira bar svá til, at þeir skyldu þar yfir fara. Fengu þeir sér róðrarskip, þat er við þeira hæfi var. Reru síðan yfir vatnit. Enn þá var *eigi* langt til bæjar þess er konungrinn var á veizlu. Kómu þeir Grímr þar þann tíma, er konungr var genginn til borða. Þeir Grímr hittu menn at máli úti í garðinum, ok spurðu, hvat þar var tíðenda, enn er þeim var sagt, þá bað Grímr kalla til máls við sik Ölvi hnúfu. Sá maðr gekk inn í stufuna, ok þar til er Ölvir sat, ok sagði honum: „Menn eru hér komnir úti, tólf saman, ef menn skal kalla. Enn líkari eru þeir þursum at vexti ok at sýn, enn menskum mönnum“. Ölvir stóð upp þegar ok gekk út. Þóttist hann vita, hverir komnir mundu. Fagnaði hann vel Grími frænda sínum, ok bað hann ganga inn í stufu með sér. Grímr sagði förunautum sínum: „Þat mun hér vera siðr, at menn gangi vápnlausir fyrir konung. Skulu vér ganga inn sex, enn aðrir sex skulu vera úti, ok gæta vápna várra“. Síðan ganga þeir inn. Gekk Ölvir fyrir konunginn. Skallagrímr stóð at baki honum. Ölvir tók til máls: „Nú er Grímr hér kominn, sonr Kveldúlfs. Kunnu vér nú aufúsu, konungr, at þér gerið hans för góða hingat,

svá sem vér væntum at vera muni. Fá þeir margir af yðr sæmd mikla, er til minna eru komnir, enn hann, og hvergi nær eru jamvel at sér gervir um flestar íþróttir sem hann mun vera, ok mátt þú svá þetta gera, konungr, at mér þykir mestu máli skifta, ef *þér* þykir þat nökkursvert". Ölvir talaði langt ok snjalt, því at hann var orðfærr maðr. Margir aðrir vinir Ölvis gengu fyrir konung, ok fluttu þetta mál. Konungr litaðist um. Hann sá, at maðr stóð at baki Ölvi, ok var höfði hærri enn aðrir menn ok sköllóttr. „Er þetta hann Skallagrímr", sagði konungr, „hinn mikli maðr?" Grímr sagði at hann kendi rétt. „Ek vil þá", sagði konungr, „ef þú beiðist bóta fyrir Þórólf, at þú gerist minn maðr, og gangir hér í hirðlög ok þjónir mér. Má mér svo vel líka þín þjónusta, at ek veita þér bætr eftir bróður þinn, eða aðra sæmd, eigi minni enn ek veitta honum Þórólfi bróður þínum, ok skyldir þú betr kunna at gæta, enn hann, ef ek gerða þik at svá miklum manni, sem hann var orðinn". Skallagrímr svarar: „Þat var kunnigt, hversu miklu Þórólfr var framar, enn ek em, at sér gerr um alla hluti, og bar hann enga gæfu til að þjóna þér, konungr. Nú mun ek ekki taka þat ráð. Eigi mun ek þjóna þér, þvíat ek veit at ek mun eigi gæfu til bera, at veita þér þá þjónustu, sem ek munda vilja ok vert væri. Hygg

ek at mér verði meiri muna vant enn Þórólfi". Konungr þagði, ok setti hann dreyrrauðan á at sjá. Ölvir sneri þegar í brott ok bað þá Grím ganga út. Þeir gerðu svá, gengu út ok tóku vápn sín. Bað Ölvir þá fara í brott sem skjótast. Gekk Ölvir á leið með þeim til vatsins ok margir menn með honum. Áðr þeir Skallagrímr skildist, mælti Ölvir: „Annan veg var för þín, Grímr frændi, til konungs, enn ek munda kjósa. Fýsta ek þik mjök hingatfararinnar, enn nú vil ek hins biðja, at þú farir heim sem skyndiligast, ok þess með, at þú komir eigi á fund Haralds konungs, nema betri verði sætt ykkur, enn mér þykir nú áhorfast, ok gæt þín vel fyrir konungi ok hans mönnum. Síðan fóru þeir Grímr yfir vatnit, enn þeir Ölvir gengu þar til skip þau vóru, er upp vóru sett við vatnit ok hjuggu svá at ekki var fært, þvíat þeir sá mannför ofan frá konungsbænum. Vóru þeir menn margir saman ok vápnaðir mjök og fóru æsiliga. Þá menn hafði Haraldr konungr sent eftir þeim til þess at drepa Grím. Hafði konungr tekit til orða litlu síðar enn þeir Grímr höfðu út gengit — sagði svá: „Þat sé ek á skalla þeim hinum mikla, at hann er fullr upp úlfúðar, ok hann verðr at skaða þeim mönnum nökkurum, er oss mun þykja afnám í, ef hann náir. Megu þér þat ætla, þeir menn er hann mun kalla at í sökum sé við hann, at sá

skalli mun engvan yðvarn spara, ef hann kemst í færi. Farið nú þá eftir honum ok drepið hann“. Síðan fóru þeir ok kómu til vatsins ok fengu þar engi skip þau er fær væri. Fóru aftr síðan, ok sögðu konungi sína ferð ok svá þat at þeir Grímr mundu þá komnir yfir vatnit. Skallagrímr fór leið sína ok föruneyti hans til þess er hann kom heim. Sagði Skallagrímr Kveldúlfi frá ferð þeira. Kveldúlfr lét vel yfir því, er Grímr hafði eigi farit til konungs þess erendis at ganga til handa honum; sagði enn sem fyrr, at þeir mundu af konungi hljóta skaða einn enn enga uppreist. Kveldúlfr ok Skallagrímr ræddu oft um ráðagerð sína, ok kom þat alt ásamt með þeim; sögðu svá, at þeir mundu ekki mega vera þar í landi, heldr enn aðrir menn, þeir er í ósætt væri við konung, ok mundi þeim hitt ráð, at fara af landi á brott ok þótti þeim þat fýsiligt, at leita til Íslands, þvíat þá var sagt þar vel frá landkostum. Þar vóru þá komnir vinir þeira ok kunningjar, Ingólfr Arnarson ok förunautar hans, ok *höfðu* tekið sér landskosti ok bústaði á Íslandi. Máttu menn þar nema sér lönd ókeypis ok velja bústaði. Staðfestist þat helzt um ráðagerð þeira, at þeir mundu bregða búi sínu ok fara af landi á brott. Þórir Hróaldsson hafði verit í barnæsku at fóstri með Kveldúlfi ok vóru þeir Skallagrímr mjök jafnaldrar. Var þar allkært í fóstbræðralagi.

Þórir var orðinn lendr maðr konungs er þetta var tíðenda. Enn vinátta þeira Skallagríms helzt ávalt. Snemma um várit bjuggu þeir Kveldúlfr skip sín. Þeir höfðu mikinn skipakost ok góðan. Bjuggu tvá knörru mikla ok höfðu á hvárum þrjá tigu manna, þeira er liðfærir vóru, ok umfram konur ok ungmenni. Þeir höfðu með sér lausafé alt, þat er þeir máttu með komast. Enn jarðir þeira þorði engi maðr at kaupa fyrir ríki konungs. Enn er þeir vóru búnir, þá sigldu þeir í brott. Þeir sigldu í eyjar þær er Sólundir heita. Þat eru margar eyjar ok stórar, ok svá mjök vágskornar, at þar munu fáir menn vita allar hafnir.

**26.** (Dráp sona Guttorms). Guttormr hét maðr, son Sigurðar hjartar. Hann var móðurbróðir Haralds konungs. Hann var fóstrfaðir konungs ok ráðamaðr fyrir landi hans, þvíat konungr var þá á barnsaldri, fyrst er hann kom til ríkis. Guttormr var hertogi fyrir liði Haralds konungs, þá er hann vann land undir sik, ok var hann í öllum orrostum, þeim er konungr átti, þá er hann gekk til lands í Noregi. Enn er Haraldr var orðinn einvaldskonungr yfir landi öllu, ok hann settist um kyrt, þá gaf hann Guttormi frænda sínum Vestrfold ok Austragðir ok Hringaríki ok land þat alt, er átt hafði Hálfdan svarti faðir hans. Guttormr átti sonu tvá ok dætr tvær. Synir hans hétu Sigurðr ok Ragnarr, enn dætr

hans Ragnhildr ok Áslaug. Guttormr tók sótt, enn er at honum leið, þá sendi hann menn á fund Haralds konungs ok bað hann sjá fyrir börnum sínum ok fyrir ríki sínu. Litlu síðar andaðist hann. Enn er konungr spurði andlát hans, þá lét hann kalla til sín Hallvarð harðfara ok þá bræðr; sagði, at þeir skyldu fara sendiför hans austr í Vík. Konungr var þá staddr í Þrándheimi. Þeir bræðr bjuggust til ferðar þeirar sem vegligast. Völdu sér lið ok höfðu skip þat er þeir fengu bezt. Þeir höfðu þat skip, er átt hafði Þórólfr Kveldúlfsson ok þeir höfðu tekit af Þorgisli gjallanda. Enn er þeir vóru búnir ferðar sinnar, þá sagði konungr þeim erendi, at þeir skyldu fara austr til Túnsbergs. Þar var þá kaupstaðr. Þar hafði Guttormr haft atsetu. „Skulu þit“, sagði konungr, „færa mér sonu Guttorms, enn dætr hans skulu þar upp fæðast, til þess er ek gifti þær. Skal ek fá menn til at varðveita ríkit ok veita meyjunum fóstr“. Enn er þeir bræðr vóru búnir, þá fara þeir leið sína ok byrjaði þeim vel. Kómu þeir um várit í Vík austr til Túnsbergs, ok báru þar fram erendi sín. Taka þeir Hallvarðr við sonum Guttorms ok miklu lausafé. Fara þeir þá er þeir eru búnir aftr á leið. Byrjaði þeim þá nökkurum mun seinna, ok varð ekki til tíðenda í þeira ferð, fyrr enn þeir sigla

norðr um Sognsæ byr góðan og bjart veðr ok vóru þá allkátir.

27. (Dráp þeira bræðra). Kveldúlfr ok þeir Skallagrímr heldu njósnum jafnan um sumarit inn á þjóðleiðinni. Skallagrímr var hverjum manni skygnri. Hann sá sigling þeira Hallvarðs ok kendi skipit, þvíat hann hafði þat skip sét fyrr, þá er Þorgils fór með. Skallagrímr helt vörð á um ferð þeira, hvar þeir lögðu til hafnar um kveldit. Síðan ferr hann aftr til liðs síns ok segir Kveldúlfi þat er hann hann hafði sét, svá þat at hann hafði kent skipit, þat er þeir Hallvarðr höfðu tekit af Þorgisli, ok Þórólfr hafði átt, ok þar mundu þeir menn nökkurir fylgja, er veiðr mundi í vera. Síðan búast þeir ok búa báða bátana ok höfðu tuttugu menn á hvárum. Stýrði öðrum Kveldúlfr, enn öðrum Skallagrímr. Róa þeir síðan ok leita skipsins. Enn er þeir koma at þar er skipit lá, þá lögðu þeir at landi. Þeir Hallvarðr höfðu tjaldat yfir skipi sínu ok höfðu þá lagizt til svefns. Enn er þeir Kveldúlfr kómu at þeim, þá hljópu varðmenn upp, er sátu við bryggjusporð, ok kölluðu á skip út; báðu menn upp standa; sögðu, at ófriðr fór at þeim. Hljópu þeir Hallvarðr til vápna sinna. Enn er þeir Kveldúlfr kómu at bryggjusporðinum, þá gekk hann út at skutbryggju, enn Skallagrímr gekk at frambryggjunni. Kveldúlfr hafði í hendi bryntröll. Enn er hann kom

á skipit, þá bað hann menn sína ganga it ytra með borðum ok höggva tjöldin ór klofum. Enn hann óð aftr til lyftingarinnar, ok svá er sagt, at þá hamaðist hann, ok fleiri vóru þeir förunautar hans er þá hömuðust. Þeir drápu menn þá alla, er fyrir þeim urðu. Slíkt sama gerði Skallagrímr, þar er hann gekk um skipit. Léttu þeir feðgar eigi fyrr enn hroðit var skipit. Enn er Kveldúlfr kom aftr at lyftingunni, reiddi hann upp bryntröllit ok höggr til Hallvarðs í gegnum hjálminn ok höfuðit, ok sökk alt at skafti. Hnykti hann þá svá hart at sér, at hann brá Hallvarði á loft ok slöngdi honum útbyrðis. Skallagrímr ruddi framstafninn ok drap Sigtrygg. Mart hljóp manna á kaf, enn menn Skallagríms tóku bátinn, er þeir höfðu þagat haft, ok reru til ok drápu þá alla er á sundinu vóru. Þar lézt alls manna Hallvarðs meir enn fimm tigir manna, enn þeir Skallagrímr tóku skipit, þat er þeir Hallvarðr höfðu þangat haft ok fé alt, þat sem á var. Þeir tóku höndum menn tvá eða þrjá, þá er þeim þótti sem minstir væri fyrir sér, ok gáfu grið ok höfðu af þeim tíðendi; fréttu hverir menn hefði verit á skipinu, ok svá hvernig ferð þeira hefði ætluð verit. Enn er þeir váru vísir orðnir alls hins sanna, þá könnuðu þeir valinn, þann er á skipinu lá. Fanst þeim þá þat á, at meiri hlutr manna hafði fyrir borð hlaupit ok höfðu týnzt, enn þat er fallit hafði

á skipinu. Þeir synir Guttorms höfðu fyrir borð hlaupit ok höfðu týnzt. Þá var annarr þeira tólf vetra, enn annarr tíu, ok hinir vænligstu menn. Síðan lét Skallagrímr lausa fara þá menn, er hann hafði grið gefit, ok bað þá fara á fund Haralds konungs ok segja honum vendiliga frá þeim tíðendum, er þar gerðust, ok svá hverir þar höfðu at verit, — „skulu þér“, sagði hann, „bera til konungs kviðling þenna:

Nús hersis hefnd
við hilmi efnd;
gengr ulfr ok örn
of ynglings börn;
flugu höggvin hræ
Hallvarðs á sæ;
*grön* slítr ara
und Snarfara“.

Síðan fluttu þeir Grímr skipit með farmi út til skipa sinna. Skiftu þá skipunum. Hlóðu þetta, er þá höfðu þeir fengit, enn ruddu hitt, er þeir höfðu áðr ok minna var. Báru þar í grjót ok brutu þar á raufar ok söktu niðr. Sigldu síðan á haf út, þegar byr gaf. Svá er sagt, at þeim mönnum væri farit, er hamrammir eru, eða þeim er berserksgangr var á, at meðan þat var framit, þá vóru þeir svá sterkir, at ekki helzt við þeim, enn fyrst, er af var gengit, þá vóru þeir ómáttkari enn at vanda. Kveldúlfr var ok svá, at þá er af honum gekk hamremmin, þá kendi hann mæði af sókn þeiri

er hann hafði veitt, ok var hann þá af öllu saman ómáttugr, svá at hann lagðist í rekkju. Enn byrr bar þá í haf út. Kveldúlfr réð fyrir skipi því er þeir höfðu tekit af þeim Hallvarði. Þeim byrjaði vel ok heldu mjök samfloti, svá at hvárir vissu löngum til annarra. Enn er sóttist hafit, þá él*naði* sótt á hendr Kveldúlfi. Enn er dró at því, at hann var banvænn, þá kallaði hann til skipverja sí*n*a ok sagði þeim, at honum þótti líkligt, at þá mundi brátt skilja vega þeira — „hefi ek", sagði hann, „ekki kvellisjúkr verit, enn ef svá ferr, sem mér þykir nú líkligast, at ek öndumst, þá gerið mér kistu ok látið mik fara fyrir borð, ok verðr þetta annan veg enn ek hugða at vera mundi, ef ek skal eigi koma til Íslands ok nema þar land. Þér skuluð bera kveðju mína Grími syni mínum, þá er þér finnizt, ok segið honum þat með, ef svá verðr at hann kemr til Íslands ok beri svá at, þótt þat muni ólíkligt þykja, at ek sjá þar fyrir, þá taki hann sér þar bústað sem næst því er ek hefi at landi komit". Litlu síðar andaðist Kveldúlfr. Gerðu skipverjar hans svá sem hann hafði fyrir mælt, at þeir lögðu hann í kistu ok skutu síðan fyrir borð. Grímr hét maðr, son Þóris Ketils sonar kjölfara, kynstórr maðr ok auðigr. Hann var skipveri Kveldúlfs. Hann hafði verit aldavinr þeira feðga, ok hafði verit í ferðum bæði með þeim ok Þórólfi. Hafði hann

ok fengit reiði konungs fyrir þá sök. Hann tók til forráða skipit, eftir er Kveldúlfr var dauðr. Enn er þeir vóru komnir við Ísland, þá sigldu þeir sunnan at landi. Þeir sigldu vestr fyrir landit, þvíat þeir höfðu þat spurt, at Ingólfr hafði sér þar bústað tekit, enn er þeir kómu fyrir Reykjanes ok þeir sá firðinum upp lúka, þá stefna þeir inn í fjörðinn báðum skipunum. Veðr gerði hvast ok væta mikil ok þoka. Skildust þá skipin. Sigldu þeir inn eftir Borgarfirði til þess er þraut sker öll; köstuðu þá akkerum til þess er veðr lægði ok ljóst gerði; þá biðu þeir flæðar. Síðan fluttu þeir skipit upp í árós nökkurn; sú er kölluð Gufuá. Leiddu þar skipit upp eftir ánni, svá sem gekk. Báru síðan farm af skipinu ok bjuggust þar um hinn fyrsta vetr. Þeir könnuðu landit með sæ, bæði upp ok út. Enn er þeir höfðu skamt farit, þá fundu þeir í vík einni, hvar upp var rekin kista Kveldúlfs. Fluttu þeir kistuna á nes þat er þar varð, settu hana þar niðr ok hlóðu at grjóti.

28. (Skallagrímr nam land). Skallagrímr kom þar at landi, er nes mikit gekk í sæ út, ok eið mjótt fyrir ofan nesit, ok báru þar farm af. Þat kölluðu þeir Knarrarnes. Síðan kannaði Skallagrímr landit, ok var þar mýrlendi mikit ok skógar víðir, langt í milli fjalls ok fjöru, selveiðar gnógar ok fiskifang mikit. Enn er þeir könnuðu landit suðr með sjónum, ok varð þá fyrir

þeim fjörðr mikill, enn er þeir fóru inn með firði þeim, þá léttu þeir eigi fyrr ferðinni enn þeir fundu förunauta sína, Grím hinn háleyska ok þá förunauta. Varð þar fagnafundr. Sögðu þeir Skallagrími *andlát föður hans, ok þat með*, at Kveldúlfr var þar til lands kominn ok þeir höfðu hann jarðat. Síðan fylgdu þeir Skallagrími þar til, ok sýndist honum svá sem þaðan mundi skamt á brott, þar er bólstaðargerð góð mundi vera. Fór Grímr þá í brott ok aftr til skipverja sinna, ok sátu þar hvárir um vetrinn sem þeir höfðu at komit. Þá nam Skallagrímr land milli fjalls ok fjöru, Mýrar allar út til Selalóns og it efra til Borgarhrauns, enn suðr til Hafnarfjalla, ok alt þat land, er vatnföll deila til sjóvar. Hann flutti um várit eftir skipit suðr til fjarðarins ok inn í vág þann er næstr var því er Kveldúlfr hafði til lands komit, ok setti þar bæ ok kallaði at Borg, enn fjörðinn Borgarfjörð, ok svá heraðit upp frá kendu þeir við fjörðinn. Grími hinum háleyska gaf hann bústað fyrir sunnan Borgarfjörð, þar er kallat var á Hvanneyri. Þar skamt út frá skarst inn vík ein eigi mikil; fundu þeir þar andir margar ok kölluðu Andakíl, enn Andakílsá, er þar fell til sjóvar. Upp frá á þeiri til þeirar ár, er kölluð var Grímsá, þar í milli átti Grímr land. Um várit, þá er Skallagrímr lét reka kvikfé sitt útan meðr sjó, þá kómu

þeir á nes eitt lítit ok veiddu þar álftir nökkurar ok kölluðu Álftanes. Skallagrímr gaf land skipverjum sínum. Ána gaf hann land milli Langár ok Háfslækjar, ok bjó hann at Ánabrekku. Son hans var Önundr sjóni. [Grímólfr bygði fyrst á Grímólfsstöðum. Við hann er kend Grímólfsfit ok Grímólfslækr. Grímr hét son hans, er bjó fyrir sunnan fjörð. Hans son var Grímarr, er bjó á Grímarsstöðum]. Um hann deildu þeir Þorsteinn ok Tungu-Oddr. Grani bjó at Granastöðum í Digranesi. Þorbirni krum gaf hann land upp með Gufá ok Þórði beigalda. Bjó Krumr í Krumshólum, enn Þórðr at Beigalda. Þóri þurs ok þeim bræðrum gaf hann land upp frá Einkunnum ok it ytra með Langá. Þórir þurs bjó á Þursstöðum. Hans dóttir var Þórdís stöng, er bjó í Stangarholti síðan. Þorgeirr bjó á Jarðlangsstöðum. Skallagrímr kannaði land upp um herað. Fór fyrst inn með Borgarfirði til þess er fjörðinn þraut, enn síðan með ánni fyrir vestan, er hann kallaði Hvítá, þvíat þeir förunautar höfðu eigi sét fyrr vötn þau er ór jöklum höfðu fallit. Þótti þeim áin undarliga lit. Þeir fóru upp með Hvítá, *til þess er sú á varð fyrir þeim, er fell ór norðri frá fjöllum;* þá kölluðu þeir Norðrá, ok fóru upp með þeiri á, til þess er enn varð á fyrir þeim ok var þat lítit vatnfall. Fóru þeir yfir á þá ok enn upp með Norðrá. Sá þá

brátt, hvar hin litla áin fell ór gljúfrum ok kölluðu þá Gljúfrá. Síðan fóru þeir yfir Norðrá ok fóru aftr enn til Hvítár ok upp með henni. Varð þá enn brátt á, sú er þvers varð, fyrir þeim ok fell í Hvítá; þá kölluðu þeir Þverá. Þeir urðu þess varir, at þar var hvert vatn fult af fiskum. Síðan fóru þeir út aftr til Borgar.

**29.** (Af iðju Skallagríms). Skallagrímr var iðjumaðr mikill. Hann hafði með sér jafnan mart manna; lét sækja mjök föng þau er fyrir vóru ok til atvinnu mönnum vóru, þvíat þá fyrst höfðu þeir fátt kvikfjár hjá því sem þurfti til fjölmennis þess sem var. Enn þat sem var kvikfjárins, þá gekk öllum vetrum sjálfala í skógum. Skallagrímr var skipasmiðr mikill, enn rekavið skorti eigi vestr fyrir Mýrar. Hann let gera bæ á Álftanesi ok átti þar bú annat. Lét þaðan sækja útróðra ok selveiðar ok eggver, er þá vóru gnóg föng þau öll, svá rekavið at láta at sér flytja. Hvalakvámur vóru þá ok miklar, ok skjóta mátti sem vildi; alt var þar þá kyrt í veiðistöð, er þat var óvant manni. Et þriðja bú átti hann við sjóinn á vestanverðum Mýrum. Var þar enn betr komit at sitja fyrir rekum, ok þar lét hann hafa sæði ok kalla at Ökrum. Eyjar lágu þar út fyrir, er hvalr fanst í, ok kölluðu þeir Hvalseyjar. Skallagrímr hafði ok menn sína uppi við laxárnar til veiða. Odd einbúa setti hann við Gljúfrá at gæta þar laxveiðar. Oddr bjó undir

Einbúabrekkum. Við hann er kent Einbúanes. Sigmundr hét maðr, er Skallagrímr setti við Norðrá. Hann bjó þar er kallat var á Sigmundarstöðum. Þar er nú kallat at Haugum. Við hann er kent Sigmundarnes. Síðan færði hann bústað sinn í Munoðarnes. Þótti þar hægra til laxveiða. Enn er fram gekk mjök kvikfé Skallagríms, þá gekk féit upp til fjalla alt á sumrum. Hann fann mikinn mun á, at þat fé varð betra ok feitara, er á heiðum gekk, svá þat, at sauðfé helzt á vetrum í fjalldölum, þótt ei verði ofan rekit. Síðan lét Skallagrímr gera bæ uppi við fjallit ok átti þar bú. Lét þar varðveita sauðfé sitt. Þat bú varðveitti Gríss, ok er við hann kend Grísartunga. Stóð þá á mörgum fótum fjárafli Skallagríms. Stundu síðar enn Skallagrímr hafði út komit, kom skip af hafi í Borgarfjörð, ok átti sá maðr, er Óleifr var kallaðr hjalti. Hann hafði með sér konu sína ok börn ok annat frændlið sitt, ok hafði svá ætlat ferð sína, at fá sér bústað á Íslandi. Óleifr var maðr auðigr ok kynstórr ok spakr at viti. Skallagrímr bauð Óleifi heim til sín til vistar ok liði hans öllu. Enn Óleifr þektist þat, ok var hann með Skallagrími hinn fyrsta vetr er Óleifr var á Íslandi. Enn eftir um várit vísaði Skallagrímr Óleifi til landskostar fyrir sunnan Hvítá upp frá Grímsá til Flókadalsár. Óleifr þektist þat, ok fór þangat búferli sínu ok setti þar bú-

stað er heitir at Varmalæk. Hann var göfugr maðr. Hans synir vóru þeir Ragi í Laugardal ok Þórarinn ragabróðir, er lögsögu tóku á Íslandi næst eftir Hrafn Hængsson. Þórarinn bjó at Varmalæk. Hann átti Þórdísi dóttur Óláfs feilans, systur Þórðar gellis.

**30.** (Útkváma Yngvars). Haraldr konungr hinn hárfagri lagði eigu sínar á jarðir þær allar, er þeir Kveldúlfr ok Skallagrímr höfðu eftir átt í Noregi, ok alt þat fé annat er hann náði. Hann leitaði ok mjök eftir mönnum þeim, er verit höfðu í ráðum ok vitorðum eða nökkurum tilbeina með þeim Skallagrími um verk þau er þeir unnu, áðr Skallagrímr fór ór landi á brott, ok svá kom sá fjandskapr, er konungi var á þeim feðgum, at hann hataðist við frændr þeira eða aðra nauðleytamenn, eða þá menn, er hann vissi at þeim höfðu allkærir verit í vináttu. Sættu sumir af honum refsingum ok margir flýðu undan ok leituðu sér hælis; sumir innanlands, enn sumir flýðu með öllu af landi á brott. Yngvarr mágr Skallagríms var einn af þessum mönnum, er nú var frá sagt. Tók hann þat ráð, at hann varði fé sínu svá sem hann mátti í lausaeyri ok fekk sér hafskip; réð þar menn til, ok bjó ferð sína til Íslands, þvíat hann hafði þá spurt, at Skallagrímr hafði tekit þar staðfestu ok eigi mundi þar skorta landakosti með Skallagrími. Enn er þeir vóru búnir ok

byr gaf, þá sigldi hann í haf ok greiddist ferð hans vel. Kom hann til Íslands fyrir sunnan landit og helt vestr fyrir Reykjanes, ok sigldi inn á Borgarfjörð ok helt inn í Langá ok upp alt til foss. Báru þar farm af skipinu. Enn er Skallagrímr spurði atkvámu Yngvars, þá fór hann þegar á fund hans ok bauð honum til sín með svá mörgum mönnum sem hann vildi. Yngvarr þektist þat. Var skipit upp sett. Enn Yngvarr fór til Borgar með marga menn, ok var þann vetr með Skallagrími. Enn at vári bauð Skallagrímr honum landakosti. Hann gaf Yngvari bú þat er hann átti á Álftanesi ok land inn til Leirulækjar ok út til Straumfjarðar. Síðan fór hann til útbús þess ok tók þar við, ok var hann hinn nýzti maðr ok hafði auð fjár. Skallagrímr gerði þá bú í Knarrarnesi ok átti lengi bú þar síðan. — Skallagrímr var járnsmiðr mikill ok hafði rauðablástr mikinn á vetrinn. Hann lét gera smiðju með sjónum mjök langt út frá Borg, þar sem heitir Raufarnes. Þótti honum skógar þar *eigi* fjarlægir, enn er hann fekk þar engan stein þann er svá væri harðr eða sléttr, at honum þætti gott at lýja járn við — þvíat þar er ekki malargrjót; eru þar smáir sandar alt með sæ, — var þat eitt kveld, þá er aðrir menn fóru at sofa, at Skallagrímr gekk til sjóvar ok hratt fram skipi áttæru, er hann átti, ok reri út til

Miðfjarðareyja. Lét þá hlaupa niðr stjóra fyrir stafn á skipinu. Síðan steig hann fyrir borð ok kafaði ok hafði upp með sér stein ok færði upp í skipit. Síðan fór hann sjálfr upp í skipit ok reri til lands ok bar steininn til smiðju sinnar, ok lagði niðr fyrir smiðjudyrum ok lúði þar síðan járn við. Liggr sá steinn þar enn, ok mikit sindr hjá, ok sér þat á steininum at hann er barðr ofan, ok þat er brimsorfit grjót ok ekki því grjóti glíkt öðru er þar er, ok munu nú ekki meira hefja fjórir menn. Skallagrímr sótti fast smiðjuverkit, enn húskarlar hans vönduðu um ok þótti snemma risit. Þá orti hann vísu þessa:

„Mjök verðr ár sás aura
ísarnsmeiðr at rísa
(váðir Vidda bróður
veðrs) leggja skal (kveðja).
Gjalla lætk á golli,
geisla njóts meðan þjóta,
heitu, hrærikytjur
hreggsvindfrekar, sleggjur“.

**31.** (Hér segir af börnum Skallagríms). Skallagrímr ok þau Bera áttu börn mjök mörg, ok var þat fyrst at öll önduðust. Þá gátu þau son, ok var vatni ausinn, ok hét Þórólfr. Enn er hann fæddist upp, þá var hann snemma mikill vexti ok hinn vænsti sýnum. Var þat allra manna mál, at hann mundi vera hinn líkasti Þórólfi Kveldúlfssyni, er hann var eftir heitinn. Þórólfr var langt umfram jamaldra sína at afli. Enn er

hann óx upp, gerðist hann íþróttamaðr um flesta þá hluti, er þá var mönnum títt at fremja, þeim er vel vóru at sér gervir. Þórólfr var gleðimaðr mikill. Snemma var *hann* svá fullkominn at afli, at hann þótti vel liðfærr með öðrum mönnum. Varð hann brátt vinsæll af alþýðu. Unni honum ok vel faðir ok móðir. Þau Skallagrímr áttu dætr tvær. Hét önnur Sæunn, enn önnur Þórunn. Vóru þær ok efniligar í uppvexti. Enn átti Skallagrímr son; var sá vatni ausinn ok nafn gefit ok kallaðr Egill. Enn er hann óx upp, þá mátti brátt sjá á honum, at hann mundi verða mjök ljótr ok líkr feðr sínum, svartr á hár. Enn þá er hann var þrévetr, þá var hann mikill ok sterkr, svá sem þeir sveinar aðrir, er vóru sex vetra eða sjau. Hann var brátt málugr ok orðvíss. Heldr var hann illr viðreignar, er hann var í leikum með öðrum ungmennum. — Þat vár fór Yngvarr til Borgar, ok var þat at erendum, at hann bauð Skallagrími til boðs út þangat til sín ok nefndi til þeirar ferðar Beru dóttur sína ok Þórólf son hennar, ok þá menn aðra, er þau Skallagrímr vildu at færi. Skallagrímr hét för sinni. Fór Yngvarr þá heim ok bjó til veizlunnar ok lét þá öl heita. Enn er at þeiri stefnu kemr, er Skallagrímr skyldi til boðsins fara ok þau Bera, þá bjóst Þórólfr til ferðar með þeim ok húskarlar, svá at þau vóru fimtán saman. Eg-

ill ræddi um við föður sinn at hann vildi fara. „Á ek þar slíkt kynni sem Þórólfr“, segir hann. „Ekki skaltu fara“, segir Skallagrímr, „þvíat þú kant ekki fyrir þér at vera í fjölmenni, þar er drykkjur eru miklar, er þú þykir ekki góðr viðskiftis at þú sér ódrukkinn“. Steig þá Skallagrímr á hest sinn ok reið í brott, enn Egill undi illa við sinn hlut. Hann gekk ór garði ok hitti eykhest einn, er Skallagrímr átti, fór á bak ok reið eftir þeim Skallagrími. Honum varð ógreiðfært um mýrarnar, þvíat hann kunni enga leið, enn hann sá þó mjök oft reið þeira Skallagríms, þá er eigi bar fyrir holt eða skóga. Er þat at segja frá hans ferð, at síð um kveldit kom hann á Álftanes, þá er menn sátu þar at drykkju. Gekk hann inn í stufu. Enn er Yngvarr sá Egil, þá tók hann við honum feginsamliga, ok spurði hví hann hefði svá síð komit. Egill sagði, hvat þeir Skallagrímr höfðu við mælzt. Yngvarr setti Egil hjá sér. Sátu þeir gagnvert þeim Skallagrími ok Þórólfi. Þat var þat haft *at* ölteiti, at menn kváðu vísur. Þá kvað Egill vísu:

„Kominn emk ern til arna
Yngvars, þess's beð lyngva
(hann vark fúss at finna)
fránþvengjar gefr drengjum.
Mon eigi þú þægir
þrévetran mér betra

ljósundinna landa
linns óðarsmið finna“.

Yngvarr helt upp vísu þeiri ok þakkaði vel Agli vísuna, enn um daginn eftir þá færði Yngvarr Agli at skáldskaparlaunum kúfunga þrjá ok andaregg. Enn um daginn eftir við drykkju kvað Egill vísu aðra um bragarlaun:

„Siþögla gaf söglum
sárgagls þría Agli
hirðimeiðr við hróðri
hagr brimrótar gagra
ok bekkþiðurs blakka
borðvallar gaf fjorða
kennimeiðr sás kunni
körbeð Egil gleðja“.

Vel lagði Egill í þökk skáldskap sinn við marga menn. Ekki varð þá fleira til tíðenda í ferð þeira. Fór Egill heim með Skallagrími.

32. (Frá Brynjólfi). Björn hét hersir ríkr í Sogni, er bjó á Aurlandi. Hans son var Brynjólfr, er arf allan tók eftir föður sinn. Synir Brynjólfs vóru þeir Björn ok Þórðr. Þeir vóru menn á ungum aldri, er þetta var tíðenda. Björn var farmaðr mikill; var stundum í víking, enn stundum í kaupferðum. Björn var hinn gerviligsti maðr. Þat barst at á einuhverju sumri, at Björn var staddr í Fjörðum at veizlu nökkurri fjölmennri. Þar sá hann mey fagra, þá er honum fanst mikit um. Hann spurði eftir, hverrar ættar hon var. Honum var þat sagt, at hon var

systir Þóris hersis Hróaldssonar ok hét Þóra hlaðhönd. Björn hóf upp bónorð sitt ok bað Þóru, enn Þórir synjaði honum ráðsins ok skildust þeir at svá gervu. Enn þat sama haust fekk Björn sér liðs, ok fór með skútu alskipaða norðr í Fjörðu ok kom til Þóris ok svá at hann var eigi heima. Björn nam Þóru á brott ok hafði heim með sér á Aurland. Vóru þau þar um vetrinn ok vildi Björn gera brúðlaup til hennar. Brynjólfi feðr hans líkaði þat illa, er Björn hafði gert Þóri svívirðing í því, þar sem áðr hafði löng vinátta verit með Þóri ok Brynjólfi, — „því síðr skaltu, Björn", segir Brynjólfr, „brúðlaup til Þóru gera hér með mér at óleyfi Þóris bróður hennar, at hon skal hér svá vel sett, sem hon væri mín dóttir, enn systir þín". Enn svá varð at vera alt sem Brynjólfr kvað á þar í hans híbýlum, hvárt er Birni líkaði vel eða illa. Brynjólfr sendi menn til Þóris, at bjóða honum sætt ok yfirbætr fyrir för þá er Björn hafði farit. Þórir bað Brynjólf senda heim Þóru, sagði, at ekki mundi af sætt verða ella. Enn Björn vildi fyrir engan mun láta hana í brott fara, þó at Brynjólfr beiddi þess. Leið svá af vetrinn. Enn er vára tók, þá ræddu þeir Brynjólfr ok Björn einn dag um ráðagerðir sínar. Spurði Brynjólfr, hvat hann ætlaðist fyrir. Björn sagði þat líkast, at hann mundi fara af landi á brott — „er mér þat næst skapi", sagði hann, „at

þú fáir mér langskip ok þar lið með ok fara ek í víking". „Engi ván er þess", sagði Brynjólfr, „at ek fá þér í hendr herskip ok lið mikit, því at ek veit eigi nema þá komir þú þar niðr er mér er öll óaufúsa á, ok stendr þó nú áðr ærin óró af þér. Kaupskip mun ek fá þér í hendr ok þar með kaupeyri. Farðu síðan suðr til Dyflinnar. Sú er nú ferð frægst. Mun ek fá þér föruneyti gott". Björn segir svá, at hann mundi þat verða upp at taka sem Brynjólfr vildi. Lét hann þá búa kaupskip gott ok fekk menn til. Bjóst Björn þá til þeirar ferðar ok varð ekki snemmbúinn. Enn er Björn var albúinn ok byrr rann á, þá steig hann á bát með tólf menn ok reri inn á Aurland, ok gengu upp til bæjar ok til dyngju þeirar er móðir hans átti. Sat hon þar inni ok konur mjök margar. Þar var Þóra. Björn sagði at Þóra skyldi með honum fara. Leiddu þeir hana í brott, enn móðir hans bað konurnar vera eigi svá djarfar, at þær gerði vart við inn í skálann; sagði, at Brynjólfr mundi illa í höndum hafa ef hann vissi, ok sagði, at þá væri búit við geig miklum með þeim feðgum. Enn klæðnaðr Þóru ok gripir vóru þar allir lagðir til handargagns, ok höfðu þeir Björn þat alt með sér. Fóru þeir síðan um nóttina út til skips síns. Drógu þegar segl sitt, ok sigldu út eftir Sognsæ ok síðan í haf. Þeim byrjaði illa ok

höfðu réttu stóra, ok velkti lengi í hafi, þvíat þeir vóru öruggir í því at firrast Noreg sem mest. Þat var einn dag, at þeir sigldu austan at Hjaltlandi hvast veðr ok lestu skipit í landtöku við Mósey. Báru þar af farminn ok fóru í borg þá er þar var ok báru þangat allan varning sinn, ok settu upp skipit ok bættu er brotit var.

33. (Björn ferr til Íslands). Litlu fyrir vetr kom skip til Hjaltlands sunnan ór Orkneyjum. Sögðu þeir þau tíðendi, at langskip hafði komit um haustit til eyjanna. Vóru þat sendimenn Haralds konungs með þeim erendum til Sigurðar jarls, at konungr vildi drepa láta Björn Brynjólfsson, hvar sem hann yrði áhendr, ok slíkar orðsendingar gerði hann til Suðreyja, alt til Dyflinnar. Björn spurði þessi tíðendi ok þat með, at hann var útlægr í Noregi. Enn þegar er hann hafði komit til Hjaltlands, gerði hann brullaup til Þóru. Sátu þau um vetrinn í Móseyjarborg. Enn þegar um várit er sjó tók at lægja, setti Björn fram skip sitt ok bjó sem ákafligast. Enn er hann var búinn ok byr gaf, sigldi hann í haf. Fengu þeir veðr stór ok vóru litla stund úti. Kómu sunnan at Íslandi. Gekk þá veðr á land ok bar þá vestr fyrir landit ok þá í haf út. Enn er þeim gaf byr aftr, þá sigldu þeir at landinu. Engi var sá maðr þar innanborðs, er verit hefði fyrr á Ís-

landi. Þeir sigldu inn á fjörð einn furðuliga mikinn ok bar þá at hinni vestri ströndinni. Sá þar til lands inn ekki nema boða eina ok hafnleysur. Beittu þá sem þverast austr fyrir landit, alt til þess er fjörðr varð fyrir þeim ok sigldu þeir inn eftir firðinum til þess er lokit var skerjum öllum ok brimi. Þá lögðu þeir at nesi einu. Lá þar ey fyrir útan, enn sund djúpt í milli. Festu þar skipit. Vík gekk upp fyrir vestan nesit, enn upp af víkinni stóð borg mikil. Björn gekk á bát einn ok menn með honum. Björn sagði förunautum sínum, at þeir skyldu varast at segja þat ekki frá ferðum sínum, er þeim stæði vandræði af því. Þeir Björn reru til bæjarins ok hittu þar menn at máli. Spurðu þeir þess fyrst, hvar þeir vóru at landi komnir. Menn sögðu, at þat hét at Borgarfirði, enn bær sá er þar var hét at Borg, enn Skallagrímr bóndinn. Björn kannaðist brátt við hann ok gekk til móts við Skallagrím ok töluðust þeir við. Spurði Skallagrímr, hvat mönnum þeir væri. Björn nefndi sik ok föður sinn, enn Skallagrími var allr kunnleiki á Brynjólfi, ok bauð Birni allan forbeina sinn, þann er hann þurfti. Björn tók því þakksamliga. Þá spurði Skallagrímr, hvat fleira væri þeira manna á skipi, er virðingamenn væri. Björn sagði, at þar var Þóra Hróaldsdóttir, systir Þóris hersis. Skallagrímr varð við þat allglaðr, ok sagði svá, at

þat var skylt ok heimult um systur Þóris fóstbróður síns, at hann gerði slíkan forbeina, sem þurfti eða hann hefði föng til, ok bauð þeim Birni báðum til sín með alla skipverja sína. Björn þektist þat. Var þá fluttr farmr af skipinu upp í tún at Borg. Settu þeir þar búðir sínar, enn skipit var leitt upp í læk þann er þar verðr. Enn þar er kallat Bjarnartöður, sem þeir Björn höfðu búðir. Björn ok þeir skipverjar allir fóru til vistar með Skallagrími. Hann hafði aldri færi menn með sér enn sex tigu vígra karla.

34. (Ávít Skallagríms við Björn). Þat var um haustit, þá er skip höfðu komit til Íslands af Noregi, at sá kvittr kom yfir, at Björn mundi hafa hlaupizt á brott með Þóru ok ekki at ráði frænda hennar, *ok* konungr hafði gert hann útlaga fyrir þat ór Noregi. Enn er Skallagrímr varð þess varr, þá kallaði hann Björn til sín ok spurði, hvernig farit væri um kvánfang hans, hvárt þat hefði gert verit at ráði frænda. „Var mér eigi þess ván“, sagði hann, „um son Brynjólfs, at ek munda eigi vita hit sanna af þér“. Björn sagði: „Satt eitt hefi ek þér sagt, Grímr, enn eigi máttu ámæla mér fyrir þat, þótt ek segða þér eigi lengra enn þú spurðir. Enn þó skal nú við ganga því er satt er, at þú hefir sannspurt, at ekki var þetta ráð gert við samþykki Þóris bróður hennar“. Þá mælti

Skallagrímr reiðr mjök: „Hví vartu svá djarfr, at þú fórt á minn fund, eða vissir þú eigi, hver vinátta var með okkr Þóri?" Björn segir: „Vissa ek", segir hann, „at með ykkr var fóstbræðralag ok vinátta kær. Enn fyrir því sótta ek þik heim, at mik hafði hér at landi borit, ok ek vissa, at mér mundi ekki týja, at forðast þik. Mun nú vera á þínu valdi, hverr minn hlutr skal verða, enn góðs vænti ek af, þvíat ek em heimamaðr þinn". Síðan gekk fram Þórólfr son Skallagríms, ok lagði til mörg orð, ok bað föður sinn, at hann gæfi Birni eigi þetta at sök, er þó hafði hann tekit við Birni. Margir aðrir lögðu þar orð til. Kom þá svá, at Grímr sefaðist; sagði, at Þórólfr mundi þá ráða, — „ok tak þú við Birni, ef þú vilt, *ok* ver til hans svá vel sem þú vilt".

35. (Fædd Ásgerðr). Þóra ól barn um sumarit, ok var þat mær; var hon vatni ausin og nafn gefit ok hét Asgerðr. Bera fekk til konu at gæta meyjarinnar. Björn var um vetrinn með Skallagrími ok allir skipverjar hans. Þórólfr gerði sér títt við Björn ok var honum fylgjusamr. Enn er vár kom, þá var það einnhvern dag, at Þórólfr gekk til máls við föður sinn, ok spurði hann þess, hvert ráð hann vildi leggja til við Björn vetrgest sinn, eða hverja ásjá hann vildi honum veita. Grímr spurði Þórólf, hvat hann ætlaðist fyrir. „Þat ætla ek", segir Þórólfr, „at

Björn vildi helzt fara til Noregs, ef hann mætti þar í friði vera. Þætti mér þat ráð fyrir liggja, faðir, at þú sendir menn til Noregs at bjóða sættir fyrir Björn, ok mun Þórir mikils virða orð þín“. Svá kom Þórólfr fyrirtölum sínum, at Skallagrímr skipaðist við ok fekk menn til útanferðar um sumarit. Fóru þeir menn með orðsendingar ok jartegnir til Þóris Hróaldssonar, ok leituðu um sættir með þeim Birni. Enn þegar er Brynjólfr vissi þessa orðsending, þá lagði hann allan hug á at bjóða sættir fyrir Björn. Kom þá svá því máli, at Þórir tók sættir fyrir Björn, þvíat hann sá þat, at þá var svá komit, at Björn þurfti þá ekki at óttast um sik. Tók Brynjólfr þá sættum fyrir Björn. Enn sendimenn Gríms vóru um vetrinn með Þóri, enn Björn var þann vetr með Skallagrími. Enn eftir um sumarit fóru sendimenn Skallagríms aftr, enn er þeir kómu aftr um haustit, þá sögðu þeir þau tíðendi, at Björn var í sætt tekinn í Noregi. Björn var enn þriðja vetr með Skallagrími. Enn eftir um várit bjóst hann til brottferðar ok sú sveit manna er honum hafði þagat fylgt. Enn er Björn var búinn ferðar sinnar, þá sagði Bera, at hon vill, at Ásgerðr fóstra hennar sé eftir, enn þau Björn þektust þat, ok var mærin eftir ok fæddist þar upp með þeim Skallagrími. Þórólfr son Skallagríms réðst til ferðar með Birni, ok fekk Skallagrímr honum fararefni. Fór

hann útan um sumarit með Birni. Greiddist þeim vel, ok kómu af hafi útan at Sognsæ. Sigldi Björn þá inn í Sogn, ok fór síðan heim til föður síns. Fór Þórólfr heim með honum. Tók Brynjólfr þá við þeim feginsamliga. Síðan vóru ger orð Þóri Hróaldssyni. Lögðu þeir Brynjólfr stefnu sín í milli. Kom þar ok Björn til þeirar stefnu. Trygðu þeir Þórir þá sættir með sér. Síðan greiddi Þórir af hendi fé þat, er Þóra átti í hans garði, ok síðan tóku þeir upp Þórir og Björn vináttu með tengdum. Var Björn þá heima á Aurlandi með Brynjólfi. Þórólfr var ok þar í allgóðu yfirlæti af þeim feðgum.

36. (Eiríkr þá karfann). Haraldr konungr hafði löngum atsetu sína á Hörðalandi eða Rogalandi at stórbúum þeim er hann átti at Útsteini eða Ögvaldsnesi, eða á Fitjum á Álreksstöðum, eða á Lygru á Sæheimi. Enn þann vetr, er nú var frá sagt, var konungr norðr í landi. Enn er þeir Björn ok Þórólfr höfðu verit einn vetr í Noregi ok vár kom, þá bjuggu þeir skip ok öfluðu manna til. Fóru um sumarit í víking í Austrveg, enn fóru heim at hausti ok höfðu aflat fjár mikils. Enn er þeir kómu heim, þá spurðu þeir at Haraldr konungr var þá á Rogalandi ok mundi þar sitja um vetrinn. Þá tók Haraldr konungr at eldast mjök, enn synir hans vóru þá mjök á legg komnir margir. Eiríkr son Har-

alds konungs, er kallaðr var blóðöx, var þá á ungum aldri. Hann var á fóstri með Þóri hersi Hróaldssyni. Konungr unni Eiríki mest sona sinna. Þórir var þá í hinum mestum kærleikum við konung. Björn ok þeir Þórólfr fóru fyrst á Aurland, er þeir kómu heim, enn síðan byrjuðu þeir ferð sína norðr í Fjörðu, at sækja heim Þóri hersi. Þeir höfðu karfa þann er reru á borð tólf menn eða þrettán ok höfðu nær þrjá tigu manna. Skip þat höfðu þeir fengit um sumarit í víking. Þat var steint mjök fyrir ofan sjó ok var it fegrsta. Enn er þeir kómu til Þóris, fengu þeir þar góðar viðtökur, ok dvöldust þar nökkura hríð, enn skipit flaut tjaldat fyrir bænum. Þat var einn dag, er þeir Þórólfr ok Björn gengu ofan til skipsins; þeir sá, at Eiríkr konungsson var þar, gekk stundum á skipit út, enn stundum á land upp, stóð þá ok horfði á skipit. Þá mælti Björn til Þórólfs: „Mjök undrast konungsson skipit, ok bjóð þú honum at þiggja af þér, þvíat ek veit at okkr verðr þat at liðsemd mikilli við konung, ef Eiríkr er flutningsmaðr okkarr. Hefir ek heyrt þat sagt, at konungr hafi þungan hug á þér af sökum föður þíns“. Þórólfr sagði, at þat mundi vera gott ráð. Gengu þeir síðan ofan til skipsins, ok mælti Þórólfr: „Vandliga hyggr þú at skipinu, konungsson, *eða* hversu lízt þér á?“ „Vel“, segir hann, „it fegrsta er skipit“, segir

hann. „Þá vill ek gefa þér“, sagði Þórólfr, „skipit, ef þú vill þiggja“. „Þiggja vil ek“, segir Eiríkr, „enn þér munu lítil þykja launin, þótt ek heita þér vináttu minni, enn þat stendr þó til vánar, ef ek held lífi“. Þórólfr segir, at þau laun þótti honum miklu meira verð enn skipit. Skildust þá síðan. Enn þaðan af var konungsson allkátr við þá Þórólf. Þeir Björn ok Þórólfr koma á ræðu við Þóri, hvat hann ætlar, hvárt þat sé með sannindum, at konungr hafi þungan hug á Þórólfi. Þórir dylr þess ekki, at hann hefði þat heyrt. „Þá vilda ek þat“, sagði Björn, „at þú færir á fund konungs ok flyttir mál Þórólfs fyrir honum, þvíat eitt skal ganga yfir okkr Þórólf báða. Gerði hann svá við mik, þá er ek var á Íslandi“. Svá kom at Þórir hét ferðinni til konungs, ok bað þá freista, ef Eiríkr konungsson vildi fara með honum. Enn er þeir Þórólfr ok Björn kómu á þessar ræður fyrir Eirík, þá hét hann sinni umsýslu við föður sinn. Síðan fóru þeir Þórólfr ok Björn leið sína í Sogn. Enn Þórir ok Eiríkr konungsson skipuðu karfa þann hinn nýgefna, ok fóru suðr á fund konungs ok hittu hann á Hörðalandi. Tók hann feginsamliga við þeim. Dvöldust þeir þar um hríð, ok leituðu þess dagráðs, at hitta konung, at hann var í góðu skapi; báru þá upp þetta mál fyrir konung; sögðu, at sá maðr var þar kominn er Þórólfr hét, son Skallagríms —

„vildu vér þess biðja, konungr, at þú mintist þess, er frændr hans hafa vel til þín gert, enn létir hann eigi gjalda þess er faðir hans gerði, þótt hann hefndi bróður síns“. Talaði Þórir um þat mjúkliga, enn konungr svaraði heldr stutt; sagði, at þeim hafði ótili mikill staðit af Kveldúlfi ok sonum hans, ok lét þess ván, at sjá Þórólfr mundi enn vera skaplíkr frændum sínum — „eru þeir allir“, sagði hann, „ofsamenn miklir, svá at þeir hafa ekki hóf við, ok hirða eigi við hverja þeir eigu at skifta“. Síðan tók Eiríkr til máls; sagði, at Þórólfr hefði vingazt við hann ok gefit honum ágætan grip, skip þat er þeir höfðu þar — „hefi ek heitit honum vináttu minni fullkominni. Munu fáir til verða at vingast við mik, ef þessum skal ekki tjá. Muntu eigi þat vera láta, faðir, um þann mann, er til þess hefir fyrstr vorðit, at gefa mér dýrgripi“. Svá kom, at konungr hét þeim því, áðr létti, at Þórólfr skyldi í friði vera fyrir honum — „enn ekki vil ek“, kvað hann, „at hann komi á minn fund. Enn gera máttu, Eiríkr, hann svá kæran þér sem þú vilt, eða fleiri þá frændr, enn vera mun annathvárt, at þeir munu þér verða mjúkari enn mér hafa þeir vorðit, eða þú munt þessar bænar iðrast ok svá þess, ef þú lætr þá lengi með þér vera“. Síðan fór Eiríkr blóðex ok þeir Þórir heim í Fjörðu. Sendu síðan orð ok létu segja Þórólfi, hvert þeira erendi

var vorðit til konungs. Þeir Þórólfr ok Björn vóru þann vetr með Brynjólfi. Enn mörg sumur lágu þeir í víking, enn um vetrum vóru þeir með Brynjólfi, enn stundum með Þóri.

37. (Bjarmalandsferð). Eiríkr blóðex tók þá við ríki. Hann hafði yfirsókn á Hörðalandi ok um Fjörðu. Tók hann þá ok hafði með sér hirðmenn. Ok eitthvert vár bjó Eiríkr blóðex för sína til Bjarmalands ok vandaði mjök lið til þeirar ferðar. Þórólfr réðst til ferðar með Eiríki ok var í stafni á skipi hans ok bar merki hans. Þórólfr var þá hverjum manni meiri ok sterkari ok líkr um þat feðr sínum. Í ferð þeiri var mart til tíðenda. Eiríkr átti orrostu mikla á Bjarmalandi við Vínu. Fekk Eiríkr þar sigr, svá sem segir í kvæðum hans, ok í þeiri ferð fekk hann Gunnhildar dóttur Özurar tota ok hafði hana heim með sér. Gunnhildr var allra kvenna vænst ok vitrust ok fjölkunnig mjök. Kærleikar miklir vóru með þeim Þórólfi ok Gunnhildi. Þórólfr var þá jafnan á vetrum með Eiríki, enn á sumrum í víkingu. *Þat varð þá næst til tíðenda, at Þóra kona Bjarnar tók sótt ok andaðist. Enn nökkuru síðar fekk Björn sér annarar konu. Hon hét Álof, dóttir Erlings hins auðga ór Ostr. Þau áttu dóttur, er Gunnhildr hét.* Maðr hét Þorgeirr þyrnifótr. Hann bjó á Hörðalandi í Fenhring. Þar heitir á Aski. Hann átti þrjá sonu. Hét einn Haddr, annarr

Bergönundr, þriði hét Atli hinn skammi. Bergönundr var hverjum meiri ok sterkari ok var maðr ágjarn ok ódæll. Atli hinn skammi var maðr ekki hár, ok riðvaxinn, ok var rammr at afli. Þorgeirr var maðr stórauðigr at fé. Hann var blótmaðr mikill ok fjölkunnigr. Haddr lá í víking ok var sjaldan heima.

38. (Útkváma Þórólfs). Þórólfr Skallagrímsson bjóst eitt sumar til kaupferðar. Ætlaði þá, sem hann gerði, at fara til Íslands ok hitta föður sinn. Hann hafði þá lengi á brottu verit. Hann hafði þá ógrynni fjár ok dýrgripi marga. Enn er hann *var* búinn til ferðar, þá fór hann á fund Eiríks konungs. Enn er þeir skildust, seldi konungr í hendr Þórólfi exi, er hann kveðst gefa vilja Skallagrími. Exin var snaghyrnd ok mikil ok gullbúin, uppskelt skaftit með silfri, ok var þat hinn virðiligsti gripr. Þórólfr fór ferðar sinnar, þegar *er* hann var búinn, ok greiddist honum vel, ok kom skipi sínu í Borgarfjörð ok fór þegar bráðliga heim til föður síns. Varð þar fagnafundr mikill er þeir hittust. Síðan fór Skallagrímr til skips móti Þórólfi, lét setja upp skipit, enn Þórólfr fór heim til Borgar með tólfta mann. Enn er hann kom heim, bar hann Skallagrími kveðju Eiríks konungs ok færði honum exi þá er konungr hafði sent honum; Skallagrímr tók við exinni, helt upp ok sá á um hríð ok ræddi ekki um; festi upp hjá

rúmi sínu. Þat var um haustit einnhvern dag at Borg, at Skallagrímr lét reka heim yxn mjök marga, er hann ætlaði til höggs. Hann lét leiða tvá yxn saman undir húsvegg ok leiða á víxl. Hann tók hellustein vel mikinn ok skaut niðr undir hálsana. Síðan gekk hann til með exina konungsnaut ok hjó yxnina báða senn, svá at höfuðit tók af hvárumtveggja, enn exin hljóp niðr í steininn, svá at muðrinn brast ór allr ok rifnaði upp í gegnum herðuna. Skallagrímr sá í eggina ok ræddi ekki um. Gekk síðan inn í eldahús ok steig síðan á stokk upp ok skaut exinni upp á hurðása. Lá hon þar um vetrinn. Enn um várit lýsti Þórólfr yfir því, at hann ætlaði útan at fara um sumarit. Skallagrímr latti hann; sagði, at þá var gott heilum vagni heim at aka — „hefir þú“, sagði hann, „farit fremdarför mikla, enn þat er mælt, er ýmsar verðr ef margar ferr. Tak þú nú hér við fjárhlut svá miklum, at þú þykist verða mega gildr maðr af“. Þórólfr sagði, at hann vill enn fara einhverja ferð — „ok á ek nauðsynleg erendi til fararinnar. Enn þá er ek kem út öðru sinni, mun ek hér staðfestast, enn Ásgerðr fóstra þín skal fara útan með mér á fund föður síns. Bauð hann mér um þat, þá er ek fór austan“. Skallagrímr kvað hann ráða mundu — *„enn svá segir mér hugr um, ef vit skiljumst nú, sem vit munim eigi*

*finnast síðan*". Síðan fór Þórólfr til skips síns ok bjó þat. Enn er hann var albúinn, fluttu þeir út skipit til Digraness, ok lá þar til byrjar. Fór þá Ásgerðr til skips með honum. Enn er Þórólfr fór frá Borg, þá gekk Skallagrímr til ok tók exina ofan af hurðásum, konungsgjöfina, ok gekk út með. Var þá skaftit svart af reyk enn exin ryðgengin. Skallagrímr sá í egg exinni. Síðan seldi hann Þórólfi exina. Skallagrímr kvað vísu:

„Liggja ýgs í eggju
(ák sveigjar kör deigja),
fox es ilt í exi,
undvargs flösur margar.
Arghyrnu lát árna
aftr með roknu skafti.
Þörfgi væri þeirar,
þat vas ingva gjöf, hingat".

**39.** (Geirr fekk Þórunnar). Þat varð til tíðenda meðan Þórólfr hafði verit útanlendis, enn Skallagrímr bjó at Borg, at eitt sumar kom kaupskip af Noregi í Borgarfjörð. Var þá víða höfð uppsát kaupskipum í ár eða í lækjarósa eða í sík. Maðr hét Ketill, er kallaðr var Ketill blundr, er átti skip þat. Hann var norrænn maðr, kynstórr ok auðigr. Geirr hét son hans, er þá var fulltíði ok var á skipi með honum. Ketill ætlaði at fá sér bústað á Íslandi. Hann kom síð sumars. Skallagrímr vissi öll deili á honum. Bauð Skallagrímr honum til vistar með sér með alt föruneyti

sitt. Ketill þektist þat, ok var hann um vetrinn með Skallagrími. Þann vetr bað Geirr, son Ketils, Þórunnar dóttur Skallagríms, ok var þat at ráði gert. Fekk Geirr Þórunnar. Enn eftir um várit vísaði Skallagrímr Katli til lands upp frá landi Óleifs með Hvítá frá Flókadalsárósi ok til Reykjadalsáróss, ok tungu þá alla, er þar var á milli upp til Rauðsgils, ok Flókadal allan fyrir ofan brekkur. Ketill bjó í Þrándarholti, enn Geirr í Geirshlíð. Hann átti annat bú í Reykjadal, at Reykjum hinum efrum. Hann var kallaðr Geirr hinn auðgi. Hans synir vóru þeir Blundketill ok Þorgeirr blundr. Þriði var Þóroddr hrísablundr, er fyrstr bjó í Hrísum.

**40.** (Egill drap mann sjau vetra). Skallagrímr hendi mikit gaman at aflraunum ok leikum. Um þat þótti honum gott at ræða. Knattleikar vóru þá tíðir. Var þar í sveit gott til sterkra manna í þann tíma, enn þó hafði engi afl við Skallagrím. Hann gerðist þá heldr hniginn at aldri. Þórðr hét son Grana at Granastöðum, ok var hann hinn mannvænligsti maðr ok var á ungum aldri. Hann var elskr at Agli Skallagrímssyni. Egill var mjök at glímum; var hann kappsamr mjök ok reiðinn, enn allir kunnu þat at kenna sonum sínum at þeir vægði fyrir Agli. Knattleikr var lagiðr á Hvítárvöllum allfjölmennr á öndverðan vetr. Sóttu menn þar til

víða um herað. Heimamenn Skallagríms fóru þangat til leiks margir. Þórðr Granason var helzt fyrir þeim. Egill bað Þórð at fara með honum til leiks. Þá var hann á sjaunda vetr. Þórðr lét þat eftir honum ok reiddi hann at baki sér. Enn er þeir kómu á leikmótit, þá var mönnum skift þar til leiks. Þar var ok komit mart smásveina ok gerðu þeir sér annan leik. Var þar ok skift til. Egill hlaut at leika við svein þann er Grímr hét, son Heggs af Heggsstöðum. Grímr var ellifu vetra eða tíu, ok sterkr at jöfnum aldri. Enn er þeir lékust við, þá var Egill ósterkari. Grímr gerði ok þann mun allan er hann mátti. Þá reiddist Egill ok hóf upp knatttréit ok laust Grím, enn Grímr tók hann höndum ok keyrði hann niðr fall mikit ok lék hann heldr illa, ok kveðst mundu meiða hann, ef hann kynni sik eigi. Enn er Egill komst á fætr, þá gekk hann ór leiknum, enn sveinarnir æptu at honum. Egill fór til fundar við Þórð Granason ok sagði honum hvat í hafði gerzt. Þórðr mælti: „Ek skal fara með þér ok skulu vit hefna honum“. Hann seldi honum í hendr skeggexi eina, er Þórðr hafði haft í hendi. Þau vápn vóru þá tíð. Ganga þeir þar til er sveinaleikrinn var. Grímr hafði þá hent knöttinn ok rak undan, enn aðrir sveinarnir sóttu eftir. Þá hljóp Egill at Grími ok rak exina í höfuð honum, svá at þeg-

ar stóð í heila. Þeir Egill og Þórðr gengu í brott síðan ok til manna sinna. Hljópu þeir Mýramenn þá til vápna ok svá hvárirtveggju. Óleifr hjalti hljóp til þeira Borgarmanna með þá menn er honum fylgdu. Vóru þeir þá miklu fjölmennari ok skildust at svá gervu. Þaðan af hófust deildir með þeim Óleifi ok Hegg. Þeir börðust á Laxfit við Grímsá. Þar fellu sjau menn, enn Heggr varð sárr til ólífis, ok Kvígr fell bróðir hans. Enn er Egill kom heim, lét Skallagrímr sér fátt um finnast, enn Bera kvað Egil vera víkingsefni, ok kvað þat mundu fyrir liggja, þegar hann hefði aldr til, at honum væri fengin herskip. Egill kvað vísu:

„Þat mælti mín móðir,
at mér skyldi kaupa
fley ok fagrar árar,
fara á brott með víkingum,
standa upp í stafni,
stýra dýrum knerri,
halda svá til hafnar,
höggva mann ok annan“.

Þá er Egill var tólf vetra gamall, var hann svá mikill vexti, at fáir vóru menn svá stórir ok at afli búnir, at Egill ynni þá eigi flesta menn í leikum. Þann vetr, er honum var hinn tólfti, var hann mjök at leikum. Þórðr Granason var þá á tvítugs aldri. Hann var sterkr at afli. Þat var oft er á leið vetrinn, at þeim Agli ok Þórði tveimr var skift í móti Skallagrími. Þat

var eitt sinn um vetrinn, er á leið, at knattleikr var at Borg suðr í Sandvík. Þá vóru þeir Þórðr í móti Skallagrími í leiknum, ok mæddist hann fyrir þeim ok gekk þeim léttara. Enn um kveldit eftir sólarfall þá tók þeim Agli verr at ganga. Gerðist Grímr þá svá sterkr, at hann greip Þórð upp, ok keyrði niðr svá hart, at hann lamdist allr ok fekk hann þegar bana. Síðan greip hann til Egils. Þorgerðr brák hét ambátt Skallagríms. Hon hafði fóstrat Egil í barnæsku. Hon var mikil fyrir sér, sterk sem karlar ok fjölkunnig mjök. Brák mælti: „Hamast þú nú, Skallagrímr, at syni þínum“. Skallagrímr lét þá lausan Egil, enn þreif til hennar. Hon brást við ok rann undan, enn Skallagrímr eftir. Fóru þau svá í utanvert Digranes. Þá hljóp hon út af bjarginu á sund. Skallagrímr kastaði eftir henni steini miklum, ok setti milli herða henni, ok kom hvártki upp síðan. Þar er nú kallað Brákarsund. Enn eftir um kveldit er þeir kómu heim til Borgar var Egill allreiðr. Enn er Skallagrímr hafði sezt undir borð ok alþýða manna, þá var Egill eigi kominn í sæti sitt. Þá gekk hann inn í eldahús ok at þeim manni, er þar hafði þá verkstjórn ok fjárforráð með Skallagrími ok honum var kærstr. Egill hjó hann banahögg ok gekk síðan til sætis síns. Enn Skallagrímr ræddi þá ekki um, og var þat mál þaðan af kyrt, enn þeir feðgar ræddust þá

ekki við, hvárki gott né ilt, ok fór svá fram þann vetr. Enn hit næsta sumar eftir kom Þórólfr út sem fyrr var sagt. Enn er hann hafði verit einn vetr á Íslandi, þá bjó hann eftir um várit skip sitt í Brákarsundi. Enn er hann var albúinn, þá var þat einn dag, at Egill gekk til fundar við föður sinn, ok bað hann fá sér fararefni — „vil ek“, sagði hann, „fara útan með Þórólfi“. Grímr spurði, ef hann hefði nökkut þat mál rætt fyrir Þórólfi. Egill segir at þat var ekki. Grímr bað hann þat fyrst gera. Enn er Egill vakti þat mál við Þórólf, þá kvað hann þess enga ván, at — „ek muna þik flytja með mér á brott; ef faðir þinn þykist eigi mega um þik tæla hér í híbýlum sínum, þá berr ek eigi traust til þess at hafa þik útanlendis með mér, þvíat þér mun þat ekki hlýða, at hafa þar slíkt skaplyndi sem hér“. „Vera má“, sagði Egill, „at þá fari hvárgi okkarr“. Um nóttina eftir gerði á æðiveðr — útsynning. Enn um nóttina, er myrkt var á ok flóð var sjóvar, þá kom Egill þar, ok gekk *út á skipit* fyrir útan tjöldin. Hjó í sundr festar þær er á útborða vóru. Gekk hann þegar sem skjótast upp um bryggjuna. Skaut út þegar bryggjunni, ok hjó þær festar er á land upp vóru. Rak þá út skipit á fjörðinn. Enn er þeir Þórólfr urðu varir við, er skipit rak, hljópu þeir í bátinn, enn veðrit var miklu hvassara enn þeir fengi

nökkut at gert. Rak skipit yfir til Andakíls, ok þar á eyrar upp, enn Egill fór heim til Borgar. Enn er menn urðu varir við bragð þat er Egill hafði gert, þá löstuðu þat flestir. Hann sagði, at hann skyldi skamt til láta, at gera Þórólfi meiri skaða ok spellvirki, ef hann vildi eigi flytja hann í brott. Enn þá áttu menn hlut at í milli þeira, ok kom svá at lyktum, at Þórólfr tók við Agli ok fór hann útan með honum um sumarit. Þegar Þórólfr kom til skips, þá er hann hafði tekit við exi þeiri, er Skallagrímr hafði fengit í hendr honum, þá kastaði hann exinni fyrir borð á djúpi, svá at hon kom ekki upp síðan. Þórólfr fór ferðar sinnar um sumarit, ok greiddist vel um hafit ok kómu útan at Hörðalandi. Stefnir Þórólfr þegar norðr til Sogns. Enn þar höfðu þau tíðendi vorðit um vetrinn, at Brynjólfr hafði andazt af sótt, enn synir hans höfðu skift arfi. Hafði Þórðr Aurland, bæ þann er faðir þeira hafði búit á. Hafði hann gerzt konungi handgenginn ok gerzt lendr maðr. Dóttir Þórðar hét Rannveig, móðir þeira Þórðar ok Helga. Þórðr var faðir Rannveigar móður Ingiríðar, er átti Óláfr konungr. Helgi var faðir Brynjólfs, föður þeira Serks ór Sogni ok Sveins.

**41.** (Af Birni). Björn hlaut annan bústað góðan ok virðiligan. Gerðist hann ekki handgenginn konungi. Því var hann kallaðr Björn höldr. Var hann maðr vellauðigr ok stórmenni mikit.

Þórólfr fór brátt á fund Bjarnar, þegar er hann kom af hafi, ok fylgdi heim Ásgerði dóttur hans. Varð þar fagnafundr. Ásgerðr var hin vænsta kona ok hin gerviligsta, vitr kona ok allvel kunnandi. Þórólfr fór á fund Eiríks konungs. Enn er þeir hittust, bar Þórólfr Eiríki konungi kveðju Skallagríms ok sagði, at hann hefði þakksamliga tekit sending konungs. Bar fram síðan langskipssegl gott, er hann sagði at Skallagrímr hefði sent konungi. Eiríkr konungr tók vel við gjöf þeiri, ok bauð Þórólfi at vera með sér um vetrinn. Þórólfr þakkaði konungi boð sitt — „ek mun nú fyrst fara til Þóris; á ek við hann nauðsynjaerindi“. Síðan fór Þórólfr til Þóris, sem hann hafði sagt, ok fekk þar allgóðar viðtökur. Bauð Þórir honum at vera með sér. Þórólfr sagði, at hann mundi þat þekkjast — „ok er sá maðr með mér, at þar skal vist hafa, sem ek em. Hann er bróðir minn, ok hefir hann ekki fyrr heiman gengit, ok þarf hann, at ek veita honum umsjá“. Þórir sagði, at þat var heimult, þó at Þórólfr vildi fleiri menn hafa með sér þangat — „þykir oss“, segir hann, „sveitarbót at bróður þínum, ef hann er nökkut þér líkr“. Síðan fór Þórólfr til skips síns, ok lét þat upp setja, ok um búa, enn hann fór ok Egill til Þóris hersis. Þórir átti son, er hét Arinbjörn. Hann var nökkuru ellri enn Egill. Arinbjörn var þegar snemma

sköruligr maðr ok hinn mesti íþróttamaðr. Egill gerði sér títt við Arinbjörn ok var honum fylgjusamr. Enn heldr var fátt með þeim bræðrum.

42. (Kvánfang Þórólfs). Þórólfr Skallagrímsson hóf ræðu þá við Þóri, hvernig hann mundi taka því máli, ef Þórólfr bæði Ásgerðar frændkonu hans. Þórir tók því léttliga; sagði, at hann mundi flytjandi þess máls. Síðan fór Þórólfr norðr í Sogn, ok hafði með sér gott föruneyti. Þórólfr kom til bús Bjarnar, ok fekk þar góðar viðtökur. Bauð Björn honum at vera með sér svá lengi, sem hann vildi. Þórólfr bar brátt upp erendi sitt við Björn. Hóf þá bónorð sitt, ok bað Ásgerðar dóttur Bjarnar. Hann tók því máli vel, ok var þat auðsótt við hann, ok réðst þat af, at þar fóru festar fram, ok kveðit á brullaupsstefnu. Skyldi veizla sú vera at Bjarnar þá um haustit. Síðan fór Þórólfr aftr til Þóris, ok sagði honum þat sem til tíðenda hafði gerzt í för hans. Þórir lét vel yfir er þau ráð skyldu takast. Enn er at þeiri stefnu kom, er Þórólfr skyldi sækja til veizlunnar, þá bauð hann mönnum til farar með sér. Bauð fyrst Þóri ok Arinbirni ok húskörlum þeira, ok ríkum búöndum, ok var til þeirar ferðar fjölment ok góðment. Enn þá er mjök var komit at stefnudegi þeim er Þórólfr skyldi heiman fara, ok brúðmenn vóru komnir, þá tók Egill

sótt, svá at hann var eigi færr. Þeir Þórólfr höfðu langskip eitt mikit alskipat, ok fóru ferðar sinnar, svá sem ákveðit var.

43. (Af Ölvi). Ölvir hét maðr. Hann var húskarl Þóris ok var forstjóri ok ráðamaðr fyrir búi hans. Hafði hann skuldaheimtur ok var féhirðir. Ölvir var af æskualdri ok þó maðr hinn hressasti. Svá bar til, at Ölvir átti heimanferð, at heimta landskyldir Þóris, þær er eftir höfðu staðit um várit. Hafði hann róðrarferju, ok vóru þar á tólf húskarlar Þóris. Þá tók Egill at hressast ok reis hann þá upp. Honum þótti þá gerast daufligt heima, er alþýða manna var á brott farin. Kom hann at máli við Ölvi ok sagði, at hann vildi fara með honum. Enn Ölvi þótti eigi góðum liðsmanni ofaukit, þvíat skipkostr var ærinn. Réðst Egill til ferðar þeirar. Egill hafði vápn sín, sverð ok kesju ok buklara. Fara þeir ferðar sinnar, er þeir vóru búnir, ok fengu veðrabálk harðan, hvöss veðr ok óhagstæð; enn þeir sóttu ferðina knáliga, tóku róðrarleiði. Svá bar til ferð þeira, at þeir kómu aftan dags til Atlaeyjar ok lögðu þar at landi. Enn þar var í eyjunni skamt upp bú mikit, er átti Eiríkr konungr. Enn þar réð fyrir maðr sá er Bárðr hét. Hann var kallaðr Atleyjar-Bárðr, ok var sýslumaðr mikill ok starfsmaðr góðr. Ekki var hann kynstórr maðr, enn kærr mjök Eiríki konungi ok

Gunnhildi drotningu. Þeir Ölvir drógu upp skip sitt ór flæðarmáli. Gengu síðan til bæjar ok hittu Bárð úti, ok sögðu honum um ferð sína, svá þat, at þeir vildu þar vera um nóttina. Bárðr sá, at þeir vóru vátir mjök, ok fylgdi hann þeim til eldahúss nökkurs. Var þat brott frá öðrum húsum. Hann lét gera eld mikinn fyrir þeim, ok vóru þar þurkuð klæði þeira. Enn er þeir höfðu tekit klæði sín, þá kom Bárðr þar. „Nú munu vér", segir hann, „hér setja yðr borð. Ek veit, at yðr mun vera títt at sofa; þér eruð menn móðir af vási". Ölvi líkaði þat vel. Síðan var sett borð ok gefinn þeim matr, brauð ok smjör, ok settir fram skyraskar stórir. Bárðr mælti: „Harmr er þat nú mikill, er öl er ekki inni, þat er ek mega yðr fagna sem ek vilda. Verði þér nú að bjargast við slíkt sem til er". Þeir Ölvir vóru þyrstir mjök ok supu skyrit. Síðan lét Bárðr bera inn afr, ok drukku þeir þat, ok *var* þá *ekki annat* eftir lagar. „Fúss munda ek", kvað Bárðr, „at gefa yðr betra drykk, ef til væri". Hálm skorti þar eigi inni. Bað hann þar þá niðr leggjast til svefns.

**44.** (Dráp Bárðar). Eiríkr konungr ok Gunnhildr kómu þat sama kveld í Atley, ok hafði Bárðr búit þar veizlu móti honum, ok skyldi þar vera dísablót, ok var þar veizla hin bezta ok drykkja mikil inni í stufunni. Konungr spurði, hvar

Bárðr væri, — „er ek sé hann hvergi“. Maðr segir: „Bárðr er úti ok greiðir fyrir gestum sínum“. „Hverir eru gestir þeir“? segir konungr, „er hann lætr sér þat skyldara, enn vera inni hér hjá oss“. Maðrinn sagði honum, at þar vóru komnir húskarlar Þóris hersis. Konungr mælti: „Gangi eftir þeim sem tíðast, ok kalli þá inn hingat“ — ok var *svá* gert, sagt, at konungr vill hitta þá. Síðan ganga þeir. Fagnaði konungr vel Ölvi, ok bað hann sitja gagnvert sér í öndvegi, ok þar förunauta hans útar frá. Þeir gerðu svá. Sat Egill næstr Ölvi. Síðan var þeim borit öl at drekka. Fóru minni mörg, ok skyldi horn drekka í minni hvert. Enn er á leið um kveldit, þá kom svá, at förunautar Ölvis gerðust margir ófærir. Sumir spjó þar inni í stufunni, enn sumir kómust út fyrir dyrr. Bárðr gekk þá at fast, at bera þeim drykk. Þá tók Egill við horni því er Bárðr hafði fengit Ölvi ok drakk af. Bárðr sagði, at hann þyrsti mjök, ok færði honum þegar hornit fult ok bað hann af drekka. Egill tók við horninu ok kvað vísu:

„Sögðuð, sverriflagða,
sumleklu, *her*kumla,
því telk, brjótr, þars blétuð,
bragðvísan þik, dísir.
Leynduð alls til illa
ókunna *hjörr*unna

ilt hafið bragð of brugðit,
Bárøðr, hugar fári".

Bárðr bað hann drekka ok hætta flimtun þeiri. Egill drakk full hvert er at honum kom, ok svá fyrir Ölvi. Þá gekk Bárðr til drotningar ok sagði henni, at þar var maðr sá er skömm færði at þeim ok aldregi drakk svá, at eigi segði hann sik þyrsta. Drotning ok Bárðr blönduðu þá drykkinn ólyfjani ok báru þá inn. Signdi Bárðr fullit, fekk síðan ölseljunni. Færði hon Agli ok bað hann drekka. Egill brá þá knífi sínum ok stakk í lófa sér. Hann tók við horninu ok reist á rúnar ok reið á blóðinu. Hann kvað:

„Rístum rún á horni,
rjóðum spjöll í dreyra.
Þau velk orð til eyrna
óðs dýrs viðar róta.
Drekkum veig sem viljum
vel glýjaðra þýja,
vita hvé oss of eiri
öl, þats Bárøðr signdi".

Hornit sprakk í sundr, enn drykkrinn fór niðr í hálm. Þá tók at líða at Ölvi. Stóð þá Egill upp ok leiddi Ölvi útar til dyranna ok helt á sverði sínu. Enn er þeir koma at dyrunum, þá kom Bárðr eftir þeim ok bað Ölvi drekka brautfararminni sitt. Egill tók við ok drakk ok kvað vísu:

Öl ber mér, þvít Ölvi
öl gervir nú fölvan,

atgeira lætk úrar
ýring of grǫn skýra.
Öllungis kant illa
oddskýs fyr þér nýsa,
rigna gervir regni,
regnbjóðr, Hávars þegna.

Egill kastar horninu, enn greip sverðit ok brá; myrkt var í forstufunni. Hann lagði sverðinu á Bárði miðjum, svá at blóðrefillinn hljóp út um bakit; fell hann dauðr niðr, enn blóð hljóp ór undinni. Þá fell Ölvir ok gaus spýja ór honum. Egill hljóp þá út ór stufunni; þá var niðamyrkr úti. Tók Egill þegar rás af bænum. Enn inni í forstufunni sá menn, at þeir vóru báðir fallnir Bárðr ok Ölvir. Kom þá konungr til ok lét bera at ljós; sá menn þá, hvat títt var, at Ölvir lá þar vitlauss, enn Bárðr var veginn ok flaut í blóði hans gólfit alt. Þá spurði konungr, hvar sá væri hinn mikli maðr, er þar hafði drukkit mest um kveldit. Menn sögðu, at hann gekk út. „Leiti at honum“, segir konungr, „ok láti hann koma til mín“. Var hans nú leita farit um bæinn ok fanst hann hvergi. Enn er þeir koma í eldahúsit, þá lágu þar margir menn Ölvis. Konungsmenn spurðu, ef þar hefði nakkvat Egill komit. Þeir segja, at hann hefði hlaupit þar inn ok tekit vápn sín — „ok gekk út eftir þat“. Þá var þat sagt konungi. Konungr bað menn sína fara sem vátast ok taka skip öll þau er vóru í eyjunni, — „enn á morg-

in, er ljóst er, skulum vér rannsaka alla eyna ok drepa þá manninn". Egill fór nú um nóttina ok leitaði þar til er skipin vóru. Enn hvar sem hann kom til strandar, þá var þar alt menn fyrir. Hann fór nótt þá alla og fekk hvergi skip. Enn er lýsa tók, var hann staddr á nesi nökkuru. Hann sá þá ey eina, ok var þar sund í milli ok furðuliga langt. Þá var þat ráð hans, at hann tók hjálminn, sverð ok spjót ok braut þat af skafti ok skaut því á sæ út, enn vápnin hafði hann í yfirhöfn sinni ok gerði sér af bagga ok batt á bak sér. Þá hljóp hann á sund ok létti eigi fyrr enn hann kom til eyjarinnar; hon hét Sauðey ok er ekki mikil ey ok hrísótt. Þar var í fénaðr, naut ok sauðir, ok lá þat til Atleyjar. Enn er hann kom til eyjarinnar vatt hann klæði sín. Þá var dagr ljóss ok sól farin. Eiríkr konungr lét rannsaka eyna, þegar ljóst var. Þat var seint, er eyin var mikil, ok fanst Egill eigi. Var þá farit á skipi til annarra eyja at leita hans. Þat var um kveldit, at tólf menn reru til Sauðeyjar at leita Egils. Enn þó vóru margar eyjar nær. Hann sá skipit, er fór til eyjarinnar. Enn níu gengu upp ok skiftu leitum. Egill hafði lagzt niðr í hrísit ok falst áðr skipit kom at landi. Nú gengu þrír í hverja leit, enn þrír gættu skips. Og er leiti bar í milli þeira ok skipsins, þá stóð Egill upp ok gekk til skipsins. Enn

þeir er skipsins gættu fundu eigi fyrr, enn Egill var kominn at þeim. Hann hjó einn þegar banahögg, enn annarr tók á rás ok var þar at hlaupa á brekku nökkura. Egill hjó eftir honum ok af fótinn, enn einn hljóp á skipit ok stakk við forkinum, enn Egill dró at sér festina ok hljóp út á skipit, ok skiftust þeir eigi lengi höggum við, áðr Egill drap hann ok rak hann útbyrðis. Þá tók hann árar ok reri á brott skipinu. Fór hann þá nótt alla ok daginn eftir, ok létti eigi fyrr enn hann kom til Þóris hersis. Enn Ölvi ok förunauta hans lét konungr fara í friði af þessum sökum. Enn þeir menn, er í Sauðey vóru, þá vóru þeir þar margar nætr ok drápu fé til matar sér, tóku eld ok gerðu seyði; þeir gerðu svá mikit at sjá mátti heim, lögðu þá í eld ok gerðu vita. Enn er þat var sét, þá var róit til þeira. Konungr var þá í brott. Fór hann þá til annarrar veizlu. Þeir Ölvir kómu fyrr heim enn Egill, ok vóru þeir Þórir ok Þórólfr nýkomnir heim frá brullaupinu. Ölvir sagði tíðendi, dráp Bárðar ok þá atburði er þar höfðu orðit, enn hann vissi ekki til ferða Egils, ok var Þórólfr allókátr ok svá Arinbjörn. Þótti þeim sem hann mundi eigi aftr koma. Enn eftir um morguninn kom Egill heim. Enn er Þórólfr varð þess víss, þá stóð hann upp ok gekk til fundar við Egil ok spurði, með hverjum hætti hann hefði undan komizt ok hvat til

tíðenda hefði orðit í för hans. Þá kvað Egill vísu:

„Svá hefk leystsk ór lista
láðvarðaðar garði,
ne ek fága dul drjúgan,
dáðmilds ok Gunnhildar,
at þrifreynis þjónar
þrír nakkvarir blakkar
til hásalar Heljar
helgengnir för dvelja“.

Arinbjörn lét vel yfir þessum verkum, sagði föður sinn skyldan til vera at sætta hann við konung. *Þórir segir:* „Þat mun vera mál manna, at Bárðr hefði verðleika til þess er hann var drepinn. Enn þó er Agli of mjök ættgengt, at sjást oflítt fyrir at verða fyrir reiði konungs, enn þat verðr flestum mönnum þungbært. Enn þó mun ek koma þér í sætt við konung at sinni“. Þórir fór á fund konungs, enn Arinbjörn var heima ok kvað eitt skyldu yfir þá líða alla. Enn er Þórir kom á fund konungs, þá bauð hann boð fyrir Egil, bauð festu sína, enn dóm konungs. Eiríkr konungr var hinn reiðasti, ok var óhægt ráðum við hann at koma. Konungr mælti, ok kvað þat mundu sannast, er faðir hans hafði sagt, at seint mundi mega tryggja þá frændr, bað Þórir svá til haga — „þótt ek geri sætt nökkura, at Egill sé ekki langvistum í mínu ríki. Enn sakir þín, Þórir, mun ek fé taka fyrir menn þessa“. Gerði konungr fésekt slíka

sem honum sýndist, enn Þórir galt alt. Fór hann þá heim. Þeir Þórólfr ok Egill vóru með Þóri í góðu yfirlæti, enn þeir bjuggu um várit langskip mikit ok fengu menn til ok fóru um sumarit í Austrveg, ok herjuðu ok fengu of fjár ok áttu margar orrostur. Heldu þeir ok út til Kúrlands ok lögðu þar við land með hálfs mánaðar friði ok kaupstefnu. Enn er því var lokit, þá tóku þeir at herja ok lögðu at í ýmsum stöðum. Einn dag lögðu þeir at við árós einn mikinn, enda var þar mörk mikil. Þeir réðu þar til uppgöngu, ok var skift í sveitir tólf mönnum saman. Þeir gengu á skóginn, ok var þar ekki langt áðr bygðin tók við. Þeir ræntu þar ok drápu menn, enn liðit flýði undan ok fengu þeir önga viðrtöku. Enn er á leið daginn, lét Þórólfr blása liðinu til ofangöngu. Sneru menn þá aftr á skóginn, þar sem þá vóru staddir, enn svá fremi mátti kanna liðit, er þeir kómu til strandar. Enn er Þórólfr var ofan kominn, var Egill eigi kominn, enn þá tók at myrkja af nótt, ok þóttust þeir eigi mega leita hans. Egill hafði gengit yfir skóginn ok tólf menn með honum, ok sá þeir þá sléttur miklar ok bygðir. Bær einn stóð skamt frá þeim ok stefndu þeir þar til, ok er þeir koma þar til, hlaupa þeir í húsin inn ok urðu við önga menn varir, enn tóku fé þat er laust var. Þar vóru mörg hús ok dvaldist þeim þar lengi, enn er þeir vóru út

komnir ok frá bænum, þá var lið komit milli þeira ok skógsins, ok sótti þat at þeim. Skíðgarðr var hár gerr milli þeira ok skógarins. Þá mælti Egill, at þeir skyldu fylgja honum, svá at eigi mætti öllum megin at þeim ganga. Gekk Egill þá fyrst, enn þá hverr at öðrum svá nær, at ekki mátti millum þeira komast. Kúrir sóttu at þeim fast ok mest með lögum ok skotum, enn gengu ekki í höggorrostu. Þeir Egill fundu eigi fyrr, er þeir ganga með görðunum, enn garðr gekk á aðra hönd þeim ok mátti eigi fram komast. Kúrir sóttu eftir þeim í kvína, enn sumir sóttu útan at ok lögðu spjótum ok sverðum í gegnum garðana, enn sumir báru klæði á vápn þeira. Urðu þeir sárir ok því næst handteknir ok allir bundnir; leiddir svá heim til bæjarins. Maðr sá er bæ þann átti var ríkr ok auðigr. Hann átti son roskinn. Síðan var um rætt, hvat við þá skyldi gera. Sagði bóndi, at honum þótti þat ráð, at drepinn væri hverr á fætr öðrum. Bóndason sagði at þá gerði myrkt af nótt, ok mætti þá enga skemtun af hafa at kvelja þá. Bað hann láta bíða morgins. Var þeim þá skotit í hús eitt ok bundnir rammliga. Egill var bundinn við staf einn, bæði hendr ok fætr. Síðan var húsit læst rammliga, enn Kúrir gengu inn í stufu ok mötuðust ok vóru allkátir ok drukku. Egill færðist við ok treysti stafinn, til þess er upp

losnaði ór gólfinu. Síðan fell stafrinn; smeygðist Egill þá af stafnum. Síðan leysti hann hendr sínar með tönnum. Enn er hendr hans vóru lausar, leysti hann bönd af fótum sér. Síðan leysti hann félaga sína. Enn er þeir vóru allir lausir, leituðust *þeir* um í húsin hvar líkast var út at komast. Húsit var gert at veggjum af timbrstokkum stórum, enn í annan enda hússins var skjaldþili flatt. Hljópu þeir þar at ok brutu þilit. Var þar hús annat er þeir kómu í. Vóru þar ok timbrveggir um; þá heyrðu þeir mannamál undir fætr sér niðr. Leituðust þeir þá um ok fundu hurð í gólfinu. Luku þeir þar upp. Var þar undir gröf djúp. Heyrðu þeir þangat manna mál. Síðan spurði Egill hvat manna þar væri. Sá nefndist Áki, er við hann mællti. Egill spurði, ef hann vildi upp ór gröfinni. Áki segir, at þeir vildu þat gjarna. Síðan létu þeir Egill síga festi ofan í gröfina, þá er þeir vóru bundnir með, ok drógu þar upp þrjá menn. Áki sagði, at þat vóru synir hans tveir, ok þeir vóru menn danskir; höfðu þar orðit herteknir it fyrra sumar. „Var ek“, sagði hann, „vel haldinn í vetr. Hafða ek mjök fjárvarðveizlur búanda, enn sveinarnir vóru þjáðir ok undu því illa. Í vár réðu vér til ok hlupum á brott ok urðum síðan fundnir. Vóru vér þá hér settir í gröf þessa“. „Þér mun hér kunnigt um húsaskipan“, segir Egill, „hvar er

oss vænst á brott at komast?" Áki sagði, at þar var annat skjaldþili — „brjóti þér þat upp; munu þér þá koma fram í kornhlöðu, enn þar má út ganga sem vill". Þeir Egill gerðu svá, brutu upp þilit, gengu síðan í hlöðuna ok þaðan út. Niðamyrkr var á. Þá mæltu þeir förunautar, at þeir skyldu skunda á skóginn. Egill mælti við Áka: „Ef þér eru hér kunnig híbýli, þá muntu vísa oss til féfanga nökkurra". Áki segir, at eigi mundi þar skorta lausafé — „hér er loft mikit er bóndi sefr í. Þar skortir eigi vápn inni". Egill bað þá þangat fara til loftsins. Enn er þeir kómu upp í riðit, þá sá þeir, at loftit var opit. Var þar ljós inni ok þjónustumenn ok bjuggu rekkjur manna. Egill bað þá suma úti vera ok gæta at engi kæmist út. Egill hljóp inn í loftit, greip þar vápn, þvíat þau skorti þar eigi inni. Drápu þar menn alla þá er þar vóru inni. Þeir tóku sér allir alvæpni. Áki gekk til, þar er hlemmr var í gólfþilinu ok lauk upp; mælti, at þeir skyldu þar ofan ganga í undirskemmuna. Þeir tóku sér ljós ok gengu þangat. Vóru þar féhirzlur bónda ok gripir góðir ok silfr mikit. Tóku menn sér þar byrðar ok báru út. Egill tók undir hönd sér mjöðdrekku eina vel mikla ok bar undir hendi sér. Fóru þeir þá til skógar. Enn er þeir kómu í skóginn, þá nam Egill stað ok mælti: „Þessi ferð er allill ok eigi

hermannlig. Vér höfum stolit fé bónda, svá at hann veit ekki til. Skal oss aldregi þá skömm henda. Förum nú aftr til bæjarins ok látum þá vita hvat títt er". Allir mæltu því í mót; sögðu, at þeir vildu fara til skips. Egill setr niðr mjöðdrekkuna. Síðan hefr hann á rás ok rann til bæjarins, enn er hann kom heim til bæjarins, þá sá hann at þjónustusveinar gengu frá eldaskála með skutildiska ok báru inn í stofuna. Egill sá, at i eldahúsinu var eldr mikill ok katlar yfir. Gekk hann þangat til. Þar höfðu verit stokkar stórir fluttir heim, ok svá eldar gervir, sem þar er siðvenja til, at eldinn skal leggja í stokks endann ok brennr svá stokkrinn. Egill greip upp stokkinn ok bar heim til stofunnar, ok skaut þeim endanum er logaði upp undir upsina ok svá upp í næfrina. Eldrinn las skjótt tróðviðinn. Enn þeir er við drykkjuna sátu fundu eigi fyrr enn loginn stóð inn um ræfrit. Hljópu menn þá til dyranna, enn þar var ekki greiðfært út, bæði fyrir viðunum, svá þat, at Egill varði dyrnar. Feldi hann menn bæði í dyrunum ok úti fyrir dyrunum. Enn þat var svipstund ein áðr stufan brann, svá at hon fell ofan. Týndist þar lið alt er þar var inni, enn Egill gekk aftr til skógarins, fann þar förunauta sína. Fara þá allir saman til skips. Sagði Egill, at mjöðdrekku þá vill hann hafa at afnámsfé er hann

fór með. Enn hon var reyndar full af silfri. Þeir Þórólfr urðu allfegnir er Egill kom ofan. Heldu þeir þá þegar frá landi er mornaði. Áki ok þeir feðgar vóru í sveit Egils. Þeir sigldu um sumarit er á leið til Danmarkar ok lágu þar enn fyrir á kaupskipum ok ræntu þar er þeir kómust við.

47. (Af Þórólfi ok Agli). Haraldr Gormsson hafði þá tekit við ríki í Danmörku. Enn Gormr faðir hans var þá dauðr. Landit var þá herskátt. Lágu víkingar mjök úti fyrir Danmörku. Áka var kunnigt í Danmörku bæði á sjá ok landi. Spurði Egill hann mjök eftir, hvar þeir staðir væri, er stór féföng mundu fyrir liggja. Enn er þeir kómu í Eyrarsund, þá sagði Áki, at þar var á land upp kaupstaðr mikill, er hét í Lundi, sagði at þar var féván, enn líkligt, at þar mundi vera viðtaka, er bæjarmenn væri. Þat mál *var* upp borit fyrir liðsmenn, hvárt þar skyldi ráða til uppgöngu eða eigi. Menn tóku þar allmisjafnt á, fýstu sumir, enn sumir löttu. Var því máli skotit til stýrimanna. Þórólfr fýsti heldr uppgöngu. Þá var rætt við Egil, hvat honum þótti ráð. Hann kvað vísu:

„Upp skulum órum sverðum,
ulfs tannlituðr, glitra.
Eigum dáð at drýgja
í dalmiskunn fiska.
Leiti upp til Lundar
lýða hverr sem bráðast.

Gerum þar fyr setr sólar
seið ófagran vigra“.

Síðan bjuggust menn til uppgöngu, ok fóru til kaupstaðarins. Enn er bæjarmenn urðu varir við ófrið, þá stefndu þeir í mót. Var þar tréborg um staðinn. Settu þeir þar menn til at verja. Tókst þar bardagi. Egill gengr fyrstr inn um borgina. Síðan flýðu bæjarmenn. Varð þar mannfall mikit. Ræntu þeir kaupstaðinn, enn brendu, áðr þeir skildust við. Fóru síðan ofan til skipa sinna.

48. (Af viðræðu Þóris ok konungs). Þórólfr helt liði sínu norðr fyrir Halland, ok lögðu þar til hafnar, er þeim bægði veðr. Ræntu þar ekki. Þar var skamt á land upp jarl sá, er Arnfiðr er nefndr. Enn er hann spurði, at víkingar vóru þar komnir við land, þá sendi hann menn sína á fund þeira þess erendis, at vita, hvárt þeir vildu þar friðland hafa eða hernað. Enn er sendimenn vóru komnir á fund Þórólfs með sín erendi, þá sagði hann, at þeir mundu þar ekki herja. Sagði, at þeim var engi nauðsyn til at herja þar ok fara herskildi; sagði, at þar var land ekki auðigt. Sendimenn fara aftr til jarlsins ok sögðu honum erendislok sín. Enn er jarlinn varð þess varr, at hann þurfti ekki liði at safna fyrir þá sök, þá reið hann ofan með ekki lið til fundar við víkinga. Enn er *þeir* fundust, þá fóru þar alt vel ræður með þeim.

Jarl bauð Þórólfi til veizlu með sér ok liði hans, því er hann vildi. Þórólfr hét ferðinni. Enn þá er á var kveðit, lét jarlinn senda reiðskjóta ofan móti þeim. Réðust þeir til ferðar, bæði Þórólfr ok Egill, ok höfðu með sér þrjá tigu manna. Enn er þeir kómu til jarlsins, fagnaði hann þeim vel. Var þeim fylgt inn í stufu. Var þar þegar inni mungát, ok gefit þeim at drekka. Sátu þeir þar til kvelds. Enn áðr borð skyldu upp fara, þá sagði jarl, at þar skyldi sæti hluta. Skyldi drekka saman karlmaðr ok kona, svá sem til ynnist, enn þeir sér, er fleiri væri. Menn báru þá hluti sína í skaut ok tók jarlinn upp. Jarl átti dóttur allfríða ok þá vel frumvaxta. Svá sagði hlutr til, at Egill skyldi sitja hjá jarlsdóttur um kveldit. Hon gekk um gólf ok skemti sér. Egill stóð upp ok gekk til rúms þess, er dóttir jarlsins hafði setit um daginn. Enn er menn skipuðust í sæti sín, þá gekk jarlsdóttir at rúmi sínu. Hon kvað:

„Hvat skaltu, sveinn, í sess minn?
sjaldan hefir þú gefnar
vargi varmar bráðir;
vesa vilk ein of mína.
Sáttaðu hrafn í hausti
of hræsolli gjalla;
vastaðu at þars eggjar
á skelþunnar runnusk".

Egill tók til hennar ok setti hana niðr hjá sér. Hann kvað:

„Farit hefk blóðgum brandi
(mér benþiðurr fylgdi)
ok gjallanda geiri.
Gangr vas harðr á víkingum.
Gerðum reiðir róstu.
Rann eldr of sjöt manna.
Ek lét blóðga búka
í borghliðum sæfask“.

Þá drukku þau saman um kveldit ok vóru allkát. Var þar veizla hin bezta, ok svá um daginn eftir. Fóru þá víkingar til skipa sinna. Skildust þeir jarl með vináttu ok skiftust gjöfum við. Heldu þeir Þórólfr liðinu til Brenneyja. Þar var í þann tíma víkingabæli mikit, þvíat þar sigldu kaupskip mjök í gegnum eyjarnar. Áki fór heim til búa sinna ok synir hans. Hann var maðr vellauðigr, ok átti mörg bú á Jótlandi. Skildust þeir með kærleik, ok mæltu til vináttu mikillar milli sín. Enn er haustaði, sigldu þeir Þórólfr norðr fyrir Noreg ok koma fram í Fjörðum. Fara á fund Þóris hersis. Tók hann vel við þeim, enn Arinbjörn son hans miklu betr. Býðr hann, at Egill skal þar vera um vetrinn. Egill tók þat með þökkum. Enn er Þórir vissi boð Arinbjarnar, þá kallaði hann þat heldr bráðmælt. „Veit ek eigi“, sagði hann, „hversu þat líkar Eiríki konungi, þvíat hann mælti svá eftir aftöku Bárðar, at hann vildi ekki at Egill væri hér í landi“. „Ráða máttu vel, faðir“, segir Arinbjörn, „því

við konung, at hann teli ekki at um vist Egils. Þú munt bjóða Þórólfi mági þínum hér at vera, enn vit Egill munum hafa eitt vetrgrið báðir". Enn af þessi ræðu sá Þórir, at Arinbjörn mundi þessu ráða. Buðu þeir feðgar þá Þórólfi þar vetrgrið, enn hann þektist þat. Vóru þeir þar við tólf menn um vetrinn. Bræðr tveir eru nefndir, Þorvaldr ofsi ok Þorfiðr strangi; þat vóru náfrændr Bjarnar hölds ok höfðu með honum fæðzt. Þeir vóru menn miklir ok sterkir, kappsmenn miklir ok framgjarnir. Þeir fylgdu Birni, þá er hann var í víking, enn síðan er hann settist um kyrt, þá fóru þeir bræðr til Þórólfs ok vóru með honum í hernaði. Þeir vóru í stafni á skipi hans. Enn þá er Egill tók skipstjórn, þá var Þorfiðr hans stafnbúi. Þeir bræðr fylgdu Þórólfi jafnan, ok mat hann þá mest skipverja sinna. Þeir bræðr vóru þann vetr í hans sveit, ok sátu næst þeim bræðrum. Þórólfr sat í öndvegi, ok átti drykkju við Þóri; enn Egill sat fyrir ádrykkju Arinbjarnar. Skyldi þar um gólf ganga at minnum öllum. Þórir hersir fór um haustit á fund Eiríks konungs. Tók konungr við honum forkunnar vel. Enn er þeir tóku ræður sínar, þá bað Þórir konung, at hann skyldi eigi fyrirkunna hann þess, er hann hafði Egil með sér um vetrinn. Konungr svarar því vel; sagði, at Þórir mátti þiggja af honum slíkt, er hann vildi, — „enn ekki mundi

þetta svá fara, ef annarr maðr hefði við Agli tekit“. Enn er Gunnhildr heyrði, hvat þeir ræddu, þá mælti *hon*: „Þat ætla ek, Eiríkr, at nú fari enn sem oftar, at þú sér mjök talhlýðinn, ok mant þat eigi lengi, er illa er gert til þín, enda muntu til þess draga fram sonu Skallagríms, at þeir munu enn drepa niðr nökkura náfrændr þína. Enn þótt þú látir þér engis þykkja vert um dráp Bárðar, þá þyki mér eigi svá þó“. Konungr segir: „Meir frýr þú mér, Gunnhildr, grimmleiks enn aðrir menn. Enn verit hefir kærra við Þórólf af þinni hendi enn nú er; enn ekki mun ek orð mín aftr taka við þá bræðr“. „Vel var Þórólfr hér“, sagði hon, „áðr Egill spilti fyrir honum, enn nú ætla ek engan mun“. Þórir fór heim, þá er hann var búinn, ok sagði þeim bræðrum orð konungs ok drotningar.

**49.** (Dráp Þorvalds ofsa). Eyvindr skreyja ok Álfr hétu bræðr Gunnhildar, synir Özurar tóta. Þeir vóru menn miklir ok allsterkir, ok kaupmenn miklir. Þeir höfðu þá mest yfirlát af Eiríki konungi ok Gunnhildi. Ekki vóru þeir menn þokkasælir af alþýðu. Vóru þá á ungum aldri, ok þó fullkomnir at þroska. Þat var um várit, at blót mikit skyldi vera at sumri á Gaulum. Þat var ágæzt höfuðhof. Sótti þangat fjölmenni mikit ór Fjörðum ok af Fjölum ok ór Sogni, ok flest alt stórmenni. Eiríkr kon-

ungr fór þangat. Þá mælti Gunnhildr við bræðr sína: „Þat vil ek, at þit hagið svá til í fjölmenni þessu, at þit fáið drepit annanhvárn þeira sona Skallagríms, ok bezt, at báðir væri“. Þeir sögðu at svá skyldi vera. Þórir hersir bjóst til ferðar þeirar. Hann kallaði Arinbjörn til máls við sik. „Nú mun ek“, sagði hann, „fara til blótsins, enn ek vil ekki, at Egill fari þangat. Ek kann ræðum Gunnhildar, enn kappsemd Egils, enn ríki konungs, at þess mun eigi hægt at gæta alls saman. Enn Egill mun ekki letjast láta, nema þú sér eftir; enn Þórólfr skal fara með mér“, sagði hann, „ok aðrir þeir förunautar. Skal Þórólfr blóta ok leita heilla þeim bræðrum“. Síðan sagði Arinbjörn Agli at hann mun heima vera, — „ok vit báðir“, sagði hann. Egill kvað svá vera skyldu. Enn þeir Þórir fóru til blótsins, ok var þar allmikit fjölmenni ok drykkjur miklar. Þórólfr fór með Þóri, hvar sem hann fór, ok skildust aldregi dag né nótt. Eyvindr sagði Gunnhildi, at hann fekk ekki færi við Þórólf. Hon bað hann þá drepa einnhvern manna hans, heldr enn alt bæri undan. Þat var eitt kveld, þá er konungr var til svefns genginn, ok svá þeir Þórir ok Þórólfr, enn þeir sátu eftir Þorfiðr ok Þorvaldr, þá kómu þeir þar bræðr, Eyvindr ok Álfr, ok settust hjá þeim ok vóru allkátir. Drukku fyrst sveitardrykkju. Þá kom þar er horn skyldi drekka til hálfs.

Drukku þeir saman Eyvindr ok Þorvaldr, enn Álfr ok Þorfiðr. Enn er á leið kveldit, þá var drukkit við sleitur, ok því næst orðahnippingar, ok þá stóryrði. Þá hljóp Eyvindr upp ok brá saxi einu ok lagði á Þorvaldi, svá at þat var ærit banasár. Síðan hljópu upp hvárirtveggju, konungsmenn ok húskarlar Þóris. Enn menn vóru allir vápnlausir inni, þvíat þar *var* hofshelgi, ok gengu menn í milli ok skildu þá er óðastir vóru. Varð þá ekki fleira til tíðenda þat kveld. Eyvindr hafði vegit í véum, ok var hann vargr orðinn, ok varð hann þegar brott at fara. Konungr bauð bætr fyrir manninn, enn Þórólfr ok Þorfiðr sögðu, at þeir höfðu aldregi tekit mannbætr, ok þeir vildu ekki þær taka. Skildust at svá búnu. Fóru þeir Þórir heim. Eiríkr konungr ok þau Gunnhildr sendu Eyvind suðr til Danmerkr til Haralds konungs Gormssonar, þvíat hann mátti þá eigi vera í norrænum lögum. Konungrinn tók vel við honum ok föruneyti hans. Eyvindr hafði til Danmarkar langskip allmikit. Síðan setti konungr Eyvind þar til landvarnar fyrir víkingum. Eyvindr var hermaðr hinn mesti. Enn er vár kom eftir vetr þann, þá búast þeir Þórólfr ok Egill enn at fara í víking. Enn er þeir vóru búnir, þá halda þeir enn í Austrveg. Enn er *þeir* koma í Víkina, þá sigla *þeir* suðr fyrir Jótland, ok herja þar, ok þá fara þeir til Síslands, ok dveljast

mjök lengi um sumarit; enn þá halda *þeir* enn aftr til Danmerkr. Enn er þeir koma til landamæris, þar er mætist Danmörk ok Frísland, ok lágu þá við land, þá var þat eitt kveld, er menn bjuggust til svefns á skipum, at menn tveir kómu á skip Egils, ok sögðu, at þeir áttu við hann erendi. Var þeim fylgt til hans. Þeir segja, at Áki hinn auðgi hafði sent þá þangat með þeim erendum, at — „Eyvindr skreyja liggr úti fyrir Jótlandssíðu, ok ætlar at sæta yðr, þá er þér farið sunnan, ok hefir hann lið mikit saman dregit, svá at þér hafið engi áhöld við, ef þér hittið lið hans alt; enn hann sjálfr ferr með léttiskipum tveimr, ok er nú hér skamt frá yðr“. Enn er tíðendi þessi kómu fyrir Egil, þá láta þeir þegar af sér tjöldin. Bað þá fara hljóðliga. Þeir gerðu svá. Þeir kómu í dögun at þeim Eyvindi, þar er þeir lágu um akkeri; lögðu þegar at þeim; létu ganga bæði grjót ok vápn. Fell þar lið mart af Eyvindi, enn hann sjálfr hljóp fyrir borð, ok komst með sundi til lands, ok svá alt þat lið, er undan komst. Enn þeir Egill tóku skipin ok föt þeira ok vápn; fóru þá aftr um daginn til liðs síns; hittu þá Þórólf. Spyrr hann, hvert Egill hafði farit, eða hvar hann hafði fengit skip þau, er þeir fara með. Egill segir, at Eyvindr skreyja hafði haft skipin, ok þeir höfðu af honum tekit. Þá kvað Egill:

„Gerðum helzti harða
hríð fyr Jótlandssíðu.
Barðisk vel sás varði
víkingr Dana ríki,
áðr á sund fyr sandi
snarfengr með lið drengja
æstr af unnarhesti
Eyvindr of hljóp skreyja“.

Þórólfr segir: „Þetta ætla ek yðr svá hafa gert, at oss mun ekki haustlangt ráð at fara til Noregs“. Egill sagði, at þat var vel, þótt þeir leitaði þá í annan stað.

50. (Frá Aðalráði hinum ríka ok hans ætt). Álfráðr hinn ríki réð fyrir Englandi. Hann var fyrstr einvaldskonungr yfir Englandi sinna kynsmanna. Þat var á dögum Haralds hins hárfagra Noregskonungs. Eftir hann var konungr í Englandi son hans Játvarðr. Hann var faðir Aðalsteins hins sigrsæla, fóstra Hákonar hins góða. Í þenna tíma tók Aðalsteinn konungdóm í Englandi eftir föður sinn. Þeir vóru fleiri bræðr, synir Játvarðs. Enn er Aðalsteinn hafði tekit konungdóm, þá hófust upp til ófriðar þeir höfðingjar, er áðr höfðu látit ríki sín fyrir þeim langfeðgum. Þótti nú, sem dælst mundi til at kalla, er ungr konungr réð fyrir ríki. Vóru þat bæði Bretar ok Skotar ok Írar. Enn Aðalsteinn konungr safnaði herliði at sér, ok gaf mála þeim mönnum öllum, er þat vildu hafa til féfangs sér, bæði útlenzkum ok innlenzkum. Þeir bræðr,

Þórólfr ok Egill, heldu suðr fyrir Saxland ok Flæmingjaland. Þá spurðu þeir, at Englandskonungr þóttist liðs þurfa, ok þar var ván féfangs mikils. Gera þeir þá þat ráð, at halda þangat liði sínu. Fóru þeir þá um haustit, til þess er þeir kómu á fund Aðalsteins konungs. Tók hann vel við þeim, ok leizt svá á, at liðsemd mikil mundi vera at fylgd þeira. Verðr þat brátt í ræðum Englandskonungs, at hann býðr þeim til sín, at taka þar mála ok gerast landvarnarmenn hans. Semja þeir þat sín í milli, at þeir gerast menn Aðalsteins. England var kristit ok hafði lengi verit, þá er þetta var tíðenda. Aðalsteinn konungr var vel kristinn. Hann var kallaðr Aðalsteinn hinn trúfasti. Konungr bað Þórólf ok þá bræðr, at þeir skyldu láta prímsignast, þvíat þat var þá mikill siðr, bæði með kaupmönnum ok þeim mönnum, er á mála gengu með kristnum mönnum; því at þeir menn er prímsignaðir vóru höfðu alt samneyti við kristna menn ok svá heiðna, enn höfðu þat at átrúnaði, er þeim var skapfeldast. Þeir Þórólfr ok Egill gerðu þat eftir bæn konungs, ok létu prímsignast báðir. Þeir höfðu þar þrjú hundruð sinna manna, þeira er mála tóku af konungi.

**51.** (Af Óláfi Skotakonungi). Óláfr rauði hét konungr á Skotlandi. Hann var skozkr at föðurkyni enn danskr at móðurkyni, ok kominn af ætt Ragn-

ars loðbrókar. Hann var ríkr maðr. Skotland var kallat þriðjungr ríkis við England. Norðimbraland er kallat fimtungr Englands, ok er þat norðast næst Skotlandi fyrir austan. Þat höfðu haft at fornu Danakonungar. Jórvík er þar höfuðstaðr. Þat ríki átti Aðalsteinn ok hafði sett yfir jarla tvá. Hét annarr Álfgeirr, enn annar Guðrekr. Þeir sátu þar *til* landvarnar, bæði fyrir ágangi Skota ok Dana eða Norðmanna, er mjök herjuðu á landit, ok þóttust eiga tilkall mikit þar til lands, þvíat á Norðimbralandi vóru þeir einir menn, ef nökkut var til, at danska ætt átti at faðerni eða móðerni, enn margir hvárirtveggju. Fyrir Bretlandi réðu bræðr tveir, Hringr ok Aðils, ok vóru skattgildir undir Aðalstein konung, ok fylgdi þat, þá er þeir vóru í her með konungi, at þeir ok þeira lið skyldu vera í brjósti í fylking fyrir merkjum konungs. Vóru þeir bræðr mestu hermenn ok eigi allungir menn. Elfráðr hinn ríki hafði tekit alla skatta konunga af nafni ok veldi. Hétu þeir þá jarlar, er áðr vóru konungar eða konungasynir. Helzt þat alt um hans æfi ok Játvarðar sonar hans, enn Aðalsteinn kom ungr til ríkis, ok þótti af honum minni ógn standa. Gerðust þá margir ótryggir, þeir er áðr vóru þjónustufullir.

52. (Af liðs samandrætti). Óláfr Skotakonungr dró saman her mikinn ok fór síðan suðr á England.

Enn er hann kom á Norðimbraland, fór hann alt herskildi, enn er þat spurðu jarlarnir, er þar réðu fyrir, stefna þeir saman liði ok fara móti konungi. Enn er þeir finnast, varð þar orrosta mikil, ok lauk svá, at Óláfr konungr hafði sigr, enn Goðrekr jarl fell, enn Álfgeirr flýði undan ok mestr hluti liðs þess er þeim hafði fylgt ok brott komst ór bardaga. Fekk *Óláfr konungr* þá enga viðstöðu. Lagði Ólafr konungr þá alt Norðimbraland undir sik. Álfgeirr fór á fund Aðalsteins konungs ok sagði honum ófarar sínar. Enn þegar er Aðalsteinn konungr spurði, at herr svá mikill var kominn í land hans, þá gerði hann þegar menn frá sér ok stefndi at sér liði, gerðu orð jörlum sínum ok öðrum ríkismönnum. Sneri konungr þegar á leið með þat lið er hann fekk, ok fór í mót Skotum. Enn er þat spurðist, at Óláfr Skotakonungr hafði fengit sigr, ok hafði lagt undir sik mikinn hluta af Englandi, hafði hann þá her miklu meira enn Aðalsteinn, enn þá sótti til hans mart ríkismanna. Enn er þetta spyrja þeir Hringr ok Aðils, höfðu þeir saman dregit lið mikit. Þá snúast þeir í lið með Óláfi konungi. Höfðu þeir þá ógrynni liðs. Enn er Aðalsteinn spurði þetta alt, þá átti hann stefnu við höfðingja sína ok ráðamenn, leitaði þá eftir, hvat tiltækiligast væri, sagði þá allri alþýðu greiniliga þat er hann hafði frétt um athöfn Skotakonungs ok fjölmenni hans. Allir

mæltu þar eitt um, at Álfgeirr jarl hafði hinn versta hlut af, ok þótti þat til liggja, at taka af honum tignina. Enn sú ráðagerð staðfestist, at Aðalsteinn konungr skyldi fara aftr, ok fara á sunnanvert England, ok hafa þá fyrir sér liðsafnað norðr eftir landi öllu, þvíat þeir sá elligar mundi seint safnast fjölmennit svá mikit sem þyrfti, ef eigi drægi konungr sjálfr at sér liðit. Enn sá herr, er þá var þar saman kominn, þá setti konungr þar yfir höfðingja Þórólf ok Egil. Skyldu þeir ráða fyrir því liði, er víkingar höfðu þangat haft til konungs, enn Álfgeirr sjálfr hafði þá enn forráð síns liðs. Þá fekk konungr enn sveitarhöfðingja þá er honum sýndist. Enn er Egill kom heim af stefnunni til félaga sinna, þá spurðu þeir hvat hann kynni at segja þeim tíðenda frá Skotakonungi. Hann kvað:

„Áleifr of kom jöfri
ótt (vígs) á bak flótta
(þingharðan spyrk þengil
þann) enn feldi annan.
Glapstígu lèt gnóga
Goðrekr á mó troðna.
Jörð spenr Engla skerðir
Alfgeirs und sik halfa“.

Síðan gera þeir sendimenn til Óláfs konungs ok finna þat til erenda, at Aðalsteinn konungr vill hasla honum völl ok bjóða orrostustað á Vínheiði við Vínuskóga, ok hann vill at þeir

heri eigi á land hans, enn sá þeira ráði ríki á Englandi er sigr fær í orrostu. Lagði til vikustef um fund þeira, enn sá bíðr annars viku er fyrr kemr. Enn þat var þá siðr, þegar konungi var völlr haslaðr, at hann skyldi eigi herja at skammlausu fyrr enn orrostu væri lokit. Gerði Óláfr konungr svá, at hann stöðvaði her sinn, ok herjaði ekki ok beið til stefnudags; þá flutti hann her sinn til Vínheiðar. Borg ein stóð fyrir norðan heiðina. Settist Óláfr konungr þar í borgina ok hafði þar mestan hlut liðs síns, því-at þar var út í frá heruð stór ok þótti honum þar betra til atflutninga um föng þau er herrinn þurfti at hafa. Enn hann sendi menn sína upp á heiðina, þar sem orrostustaðrinn var ákveðinn. Skyldu þeir taka þar tjaldstaði, ok búast þar um, áðr herrinn kvæmi. Enn er þeir menn kómu í þann stað, er völlrinn var haslaðr, þá vóru þar settar upp heslistengr alt til ummerkja, þar er sá staðr var er orrostan skyldi vera. Þurfti þann stað at vanda, at hann væri sléttr er miklum her skyldi fylkja. Var þar ok svá er orrostustaðrinn skyldi vera, at þar var heiðr slétt, enn annan veg frá fell á ein, enn á annan veg frá var skógr mikill. Enn þar er skemst var milli skógarins ok árinnar, ok var þat mjög löng leið, þar höfðu tjaldat menn Aðalsteins konungs. Stóðu tjöld þeira alt milli skógarins ok árinnar. Þeir höfðu svá

tjaldat, at eigi vóru menn í hinu þriðja hverju tjaldi, ok þó fáir í einu, enn *er* menn Óláfs konungs kómu til þeira, þá höfðu þeir fjölment fyrir framan tjöldin öll, ok náðu þeir ekki inn at ganga. Sögðu menn Aðalsteins, at tjöld þeira væri öll full af mönnum, svá at hvergi nær hefði þar rúm lið þeira. Enn tjöldin stóðu svá hátt, at ekki mátti yfir upp sjá, hvárt þau stóðu mörg eða fá á þyktina.. Þeir hugðu at þar mundi vera herr manns. Óláfs konungs menn tjölduðu fyrir norðan höslurnar, ok var þangat alt nökkut afhalt. Aðalsteins menn sögðu ok annan dag frá öðrum, at konungr þeira mundi þá koma eða vera kominn í borg þá er var sunnan undir heiðinni. Lið dróst til þeira bæði dag ok nótt. Enn er stefna sú var liðin, er á-kveðit var, þá senda menn Aðalsteins erend-reka á fund Óláfs konungs með þeim orðum, at Aðalsteinn konungr er búinn til orrostu, ok — „hefir her allmikinn", enn hann sendir Óláfi konungi þau orð, at hann vill eigi, at þeir geri svá mikit mannspell, sem þá horfðist til; bað hann heldr fara heim í Skotland, enn Aðalsteinn vill fá honum at vingjöf skilling silfrs af plógi hverjum um alt ríki sitt, ok vill at þeir leggi með sér vináttu. Enn er sendi-menn koma til Óláfs konungs, þá tók hann at búa her sinn ok ætlaði at at ríða, enn er sendi-menn báru upp erendi, þá stöðvaði konungr

ferð sína þann dag. Sat þá í ráðagerð ok höfðingjar hers með honum. Lögðu menn þar allmisjafnt til. Sumir fýstu mjök, at þenna kost skyldi taka; sögðu, at þat var þá orðin hin mesta fremdarferð, at þeir færi heim, ok hefði tekit gjald svá mikit af Aðalsteini. Sumir löttu ok sögðu, at Aðalsteinn mundi bjóða miklu meira í annat sinn, ef þetta væri eigi tekit, ok var sú ráðagerð staðfest. Þá báðu sendimenn Óláf konung at gefa sér tóm til, at þeir hitti enn Aðalstein konung ok freistaði, ef hann vildi enn meira gjald af hendi reiða, til þess at friðr væri. Þeir beiddu griða einn dag til heimreiðar, enn annan til umráða, enn hinn þriðja til aftrferðar. Konungr játtaði þeim því. Fara sendimenn heim ok koma aftr hinn þriðja dag, sem ákveðit var, segja Óláfi konungi, at Aðalsteinn vill gefa alt slíkt sem hann bauð fyrr, ok þar um fram til hlutskiftis liði Óláfs konungs skilling manni hverjum frjálsbornum, enn mörk sveitarhöfðingja hverjum, þeim er réði tólf mönnum eða fleirum, enn mörk gulls hirðstjóra hverjum, enn fimm merkr gulls jarli hverjum. Síðan lét konungr þetta upp bera fyrir lið sitt. Var enn sem fyrr, at sumir löttu, enn sumir fýstu. Enn at lyktum veitti konungr órskurð; segir, at þenna kost vill hann taka, ef þat fylgir, at Aðalsteinn konungr lætr hann hafa Norðimbraland alt með þeim sköttum ok skyldum

er þar liggja. Sendimenn biðja enn fresta um þrjá daga, ok þess með, at Óláfr konungr sendi þá menn sína at heyra orð Aðalsteins konungs, hvárt hann vill eða eigi þenna kost; segja, at þeir hyggja, at Aðalsteinn konungr mundi láta fátt við nema, at sættin tækist. Óláfr konungr játtir því, ok sendir menn sína til Aðalsteins konungs. Ríða þá sendimenn allir saman ok hitta Aðalstein konung í borg þeiri er var næst heiðinni fyrir sunnan. Sendimenn Óláfs konungs bera upp erendi sín fyrir Aðalstein konung ok sættaboð. Aðalsteins konungs menn sögðu ok, með hverjum boðum þeir höfðu farit til Óláfs konungs, ok þat með, at þat var ráðagerð vitra manna, at dvelja svá orrostu meðan konungr kæmi eigi. Enn Aðalsteinn konungr veitti skjótan órskurð um þetta mál, ok sagði sendimönnum svá: „Berið þau orð mín Óláfi konungi, at ek vil gefa honum orlof til þess at fara heim til Skotlands með lið sitt ok gjaldi hann aftr fé þat alt er hann tók upp at röngu hér í landi. Setjum hér síðan frið í millum landa várra ok heri hvárigir á aðra. Þat skal ok fylgja, at Óláfr konungr skal gerast minn maðr, ok halda Skotland af mér ok vera undirkonungr minn. Farið nú“, segir hann, „aftr, ok segið honum svá búit“. Sendimenn sneru aftr leið sína þegar um kveldit, ok kómu til Óláfs konungs nær miðri nótt. Vöktu þá upp konung

ok sögðu honum þegar orð Aðalsteins konungs. Konungr lét þegar kalla til sín jarlana ok aðra höfðingja, lét þá sendimenn koma til ok segja upp erendislok sín ok orð Aðalsteins konungs. Enn er þetta var kunnigt gert fyrir liðsmönnum, þá var eitt orðtak allra, at þat mundi fyrir liggja at búast til orrostu. Sendimenn sögðu ok þat með, at Aðalsteinn hafði fjölda liðs, ok hann hafði þann dag komit til borgarinnar, sem sendimenn kómu. Þá mælti Aðils jarl: „Nú mun þat fram komit, konungr, sem ek sagða, at yðr mundu þeir reynast brögðóttir hinir ensku. Höfum vér hér setit langa stund ok beðit þess er þeir hafa dregit at sér alt lið sitt, enn konungr þeira mun verit hafa hvergi nær, þá er vér kómum hér. Munu þeir nú hafa safnat liði miklu, síðan vér settumst. Nú er þat ráð mitt, konungr, at vit bræðr ríðim þegar í nótt fyrir með okkru liði. Má þat vera, at þeir óttist nú ekki at sér, er þeir hafa spurt, at konungr þeira er nær með herr mikinn. Skulum vit þá veita þeim áhlaup, enn er þeir verða forflótta, þá munu þeir láta lið sitt, enn ódjarfari síðan í atgöngu at móti oss". Konungi þótti þetta ráð vel fundit — „munum vér búa her várn þegar er lýsir, ok fara til móts við yðr". Staðfestu þeir þetta ráð ok luku svá stefnunni.

**53.** (Um bardaga). Hringr jarl ok Aðils bróðir hans bjuggu her sinn ok fóru þegar um nóttina

suðr á heiðina, enn er ljóst var, þá sá varðmenn þeira Þórólfs, hvar herrinn fór. Var þá blásinn herblástr ok herklæddust menn. Tóku síðan at fylkja liðinu ok höfðu tvær fylkingar. Réð Álfgeirr jarl fyrir annarri fylking ok var merki borit fyrir honum. Var í þeiri fylking lið þat er honum hafði fylgt, ok svá þat lið er þar hafði til safnazt ór heruðum. Var þar miklu fleira lið, enn þat er þeim Þórólfi fylgdi. Þórólfr var svá búinn — hann hafði skjöld víðan ok þykkvan, hjálm á höfði allsterkan, gyrðr sverði því er hann kallaði Lang, mikit vápn ok gott; kesju hafði hann í hendi; fjöðrin var tveggja álna löng ok sleginn fram broddr ferstrendr, enn upp var fjöðrin breið, falrinn bæði langr ok digr, skaptit var eigi hæra enn taka mátti hendi til fals, ok furðuliga digrt; járnteinn var í falnum ok skaftit alt járnvafit. Þau spjót vóru köllut brynþvarar. Egill hafði hinn sama búnað sem Þórólfr. Hann var gyrðr sverði því er hann kallaði Naðr. Þat sverð hafði hann fengit á Kúrlandi; var þat it bezta vápn. Hvárgi þeira hafði brynju. Þeir settu merki upp, ok bar þat Þorfiðr strangi. Alt lið þeira hafði norræna skjöldu ok allan norrænan herbúnað. Í þeiri fylking vóru allir norrænir menn, þeir er þar vóru. Fylktu þeir Þórólfr nær skóginum, enn Álfgeirs fylking fór með ánni. Aðils jarl ok þeir bræðr sá þat, at þeir mundu ekki koma

þeim Þórólfi á óvart. Þá tóku þeir at fylkja sínu liði. Gerðu þeir ok tvær fylkingar ok höfðu tvau merki. Fylkti Aðils móti Álfgeiri jarli, enn Hringr móti víkingum. Síðan tókst þar orrosta. Gengu hvárirtveggju vel fram. Aðils jarl sótti hart fram, þar til er Álfgeirr lét undan sígast, enn Aðils menn sóttu þá hálfu djarfligar. Var þá ok eigi lengi, áðr enn Álfgeirr flýði, ok er þat frá honum at segja, at hann reið undan suðr á heiðina ok sveit manna með honum. Reið hann þar til, er hann kom nær borg þeiri er konungr sat. Þá mælti jarlinn: „Ekki ætla ek oss fara til borgarinnar. Vér fengum mikit orðaskak næst, er vér kómum til konungs, þá er vér höfðum farit ósigr fyrir Óláfi konungi, ok ekki mun honum þykja batnat hafa várr kostr í þessi ferð. Mun nú ekki þurfa at ætla til sæmda, þar sem hann er“. Síðan reið hann suðr á landit, ok er frá hans ferð þat at segja, at hann reið dag ok nótt, þar til er þeir kómu vestr á Jarlsnes. Fekk jarl sér þar far suðr um sæ ok kom fram á Vallandi. Þar átti hann kyn hálft. Kom hann aldregi síðan til Englands. Aðils rak fyrst flóttann ok eigi langt, áðr hann snýr aftr ok þar til er orrostan var, ok veitti þá atgöngu. Enn er Þórólfr sá þat, sneri hann í mót jarli ok bað þangat bera merkit. Bað menn sína fylgjast vel ok standa þykt — „þokum at skóginum“, sagði hann, „ok látum hann

hlífa á bak oss, svá at þeir megi eigi öllum megum at oss ganga“. Þeir gerðu svá, fylgdu fram skóginum. Varð þá hörð orrosta. Sótti Egill móti Aðisli, ok áttust þeir við hörð skifti. Liðsmunr var allmikill, ok þó fell meira lið þeira Aðils. Þórólfr gerðist þá svá óðr, at hann kastaði skildinum á bak sér, enn tók spjótit tveim höndum; hljóp hann þá fram ok hjó eða lagði til beggja handa. Stukku menn þá frá tveggja vegna, enn hann drap marga. Ruddi hann svá stíginn fram at merki jarlsins Hrings ok helzt þá ekki við honum. Hann drap þann mann, er bar merki Hrings jarls ok hjó niðr merkistöngina. Síðan lagði hann spjótinu fyrir brjóst jarlinum í gegnum brynjuna ok búkinn, svá at út gekk um herðarnar, ok hóf hann upp á kesjunni yfir höfuð sér ok skaut niðr spjótshalanum í jörðina, enn jarlinn sæfðist á spjótinu ok sá þat allir, bæði hans menn ok svá hans óvinir. Síðan brá Þórólfr sverðinu ok hjó hann þá til beggja handa. Sóttu þá ok at hans menn. Fellu þá mjök Bretar ok Skotar, enn sumir snerust á flótta. Enn er Aðils jarl sá fall bróður síns ok mannfall mikit af liði hans, enn sumir flýðu, enn hann þóttist hart niðr koma, þá sneri hann á flótta ok rann til skógarins. Hann flýði í skóginn ok hans sveit. Tók þá at flýja alt lið þat, er þeim hafði fylgt. Gerðist þá mannfall mikit af flóttamönnum ok dreifðist þá flóttinn víða um heiðina.

Aðils jarl hafði niðr drepit merki sínu, ok vissi þá engi hvárt hann fór eða aðrir menn. Tók þá brátt at myrkva af nótt, enn þeir Þórólfr ok Egill sneru aftr til herbúða sinna, ok þá jamskjótt kom þar Aðalsteinn konungr með allan her sinn ok slógu þá landtjöldum sínum ok bjuggust um. Litlu síðar kom Óláfr konungr með sinn her. Tjölduðu þeir ok bjuggust um, þar sem þeira menn höfðu tjaldat. Var Óláfi konungi þá sagt, at fallnir vóru þeir báðir jarlar hans, Hringr ok Aðils, ok mikill fjöldi annarra manna hans.

**54.** (Fall Þórólfs). Aðalsteinn konungr hafði verit áðr hina næsta nótt í borg þeiri er fyrr var frá sagt, ok þar spurði hann at bardagi hafði verit á heiðinni. Bjóst þá þegar ok allr herrinn ok sótti norðr á heiðina. Spurði þá öll tíðendi glöggliga, hvernig orrosta sú hafði farit. Kómu þá til fundar við konung þeir bræðr Þórólfr ok Egill. Þakkaði hann þeim vel framgöngu sína ok sigr þann er þeir höfðu unnit; hét þeim vináttu sinni fullkominni. Dvöldust þeir þar allir samt um nóttina. Aðalsteinn konungr vakti upp her sinn þegar um morgininn árdegis. Hann átti tal við höfðingja sína, ok sagði hver skipun vera skyldi fyrir liði hans. Skipaði hann fylking sína fyrst, ok þá setti hann í brjósti þeirar fylkingar sveitir þær, er snarpastar vóru. Þá mælti hann, at fyrir því liði

skyldi vera Egill, — „enn Þórólfr“, sagði hann, „skal vera með liði sínu, ok öðru því liði er ek set þar. Skal sú vera önnur fylking í liði váru er hann skal vera höfðingi fyrir, þvíat Skotar eru jafnan lausir í fylkingu; hlaupa þeir til ok frá ok koma í ýmsum stöðum fram. Verða þeir oft skeinusamir, ef menn varast eigi, enn eru lausir á velli, ef við þeim er horft“. Egill svaraði konungi: „Ekki vil ek, at vit Þórólfr skilimst í orrostu, enn vel þyki mér, at okkr sé þar skipat er mest þykir þurfa ok harðast er fyrir“. Þórólfr mælti: „Látum við konung ráða hvat hann vill okkr skipa. Veitum honum svá at honum líki. Mun ek vera heldr, ef þú vill, þar er þér *er* skipat“. Egill segir: „Þér munuð nú ráða, enn þessa skiftis mun ek oft iðrast“. Gengu menn þá í fylkingar, svá sem konungr hafði skipat, ok vóru sett upp merki. Stóð konungs fylking á víðlendit til árinnar, enn Þórólfs fylking fór it efra með skóginum. Óláfr konungr tók þá at fylkja liði sínu, þá er hann sá at Aðalsteinn hafði fylkt. Hann gerði ok tvær fylkingar ok lét hann fara sitt merki ok þá fylking er hann réð sjálfr fyrir, móti Aðalsteini konungi ok hans fylking. Höfðu þá hvárirtveggju her svá mikinn, at engi var munr hvárir fjölmennri vóru, enn önnur fylking Óláfs konungs fór nær skóginum móti liði því er Þórólfr réð fyrir. Vóru þar höfðingjar jarlar

skozkir. Vóru þat Skotar flest ok var þat fjölmenni mikit. Síðan gást á fylkingar ok varð þar brátt orrosta mikil. Þórólfr sótti fram hart ok lét bera merki sitt fram með skóginum, ok ætlaði þar svá fram at ganga, at hann kæmi í opna skjöldu konungs fylkinginni. Höfðu þeir skjölduna fyrir sér, enn skógrinn var til hægra vegs. Létu þeir hann þar hlífa. Þórólfr gekk svá fram, at fáir vóru menn hans fyrir honum, enn þá er hann varði minst, þá hlaupa þar ór skóginum Aðils jarl ok sveit sú er honum fylgdi. Brugðu þegar mörgum kesjum senn á Þórólfi ok fell hann þar við skóginn, enn Þorfiðr er merkit bar hopaði aftr, þar er liðit stóð þykkra, enn Aðils sótti þá at þeim, ok var þar þá orrosta mikil. Æptu Skotar þá sigróp, er þeir höfðu feldan höfðingjann. Enn er Egill heyrði óp þat ok sá at merki Þórólfs fór á hæl, þá þóttist hann vita, at Þórólfr mundi eigi sjálfr fylgja. Síðan hleypr hann til þangat fram í milli fylkinganna. Hann varð skjótt varr þeira tíðenda er þar vóru orðin, þegar hann fann sína menn. Hann eggjar þá liðit mjök til framgöngu. Var hann fremstr í brjóstinu. Hann hafði sverðit Naðr í hendi. Hann sótti þá fram ok hjó til beggja handa ok feldi marga menn. Þorfiðr bar merkit þegar eftir honum, enn annat lið fylgdi merkinu. Var þar hin snarpasta orrosta. Egill gekk fram til þess er hann mætti

Aðisli jarli. Áttust þeir fá högg við, áðr Aðils jarl fell ok mart manna um hann, enn eftir fall hans þá flýði lið þat er honum hafði fylgt, enn Egill ok hans lið fylgdu þeim ok drápu alt þat er þeir náðu, þvíat ekki þurfti þá griða at biðja. Enn jarlar þeir hinir skozku stóðu þá ekki lengi, þegar er þeir sá, at aðrir flýðu þeira félagar; tóku þegar á rás undan. Enn þeir Egill stefndu þá þar til er var konungs fylkingin, ok kómu þá í opna skjöldu, ok gerðu þar brátt mikit mannfall. Riðlaðist þá fylkingin ok losnaði öll. Flýðu þá margir af Óláfs mönnum, enn víkingarnir æptu þá sigróp. Enn er Aðalsteinn konungr þóttist finna at rofna tók fylking Óláfs konungs, þá eggjaði hann lið sitt ok lét fram bera merki. Gerðu þá atgöngu harða, svá at hrökk fyrir lið Óláfs ok gerðist allmikit mannfall. Fell þar Óláfr konungr, ok mestr hluti liðs þess er Óláfr hafði haft, þvíat þeir er á flótta snerust vóru allir drepnir er náð varð. Fekk Aðalsteinn konungr þar allmikinn sigr.

55. (Egill jarðaði Þórólf). Aðalsteinn konungr sneri í brott frá orrostunni, enn menn hans ráku flóttann. Hann reið aftr til borgarinnar ok tók eigi fyrr náttstað, enn í borginni, enn Egill rak flóttann ok fylgdi þeim lengi, ok drap hvern mann er hann náði. Síðan sneri hann aftr með sveitunga sína ok fór þar til er orrostan hafði verit, ok hitti þar Þórólf bróður

sinn látinn. Hann tók upp lík hans ok þó; bjó um síðan, sem siðvenja var til. Grófu þeir þar gröf ok settu Þórólf þar í með vápnum sínum öllum ok klæðum. Síðan spenti Egill gullhring á hvára hönd honum, áðr hann skildist við. Hlóðu síðan at grjóti ok jósu at moldu. Þá kvað Egill vísu:

„Gekk sás óðisk ekki
iarlmanns bani snarla,
þreklundaðr fell, Þundar,
Þórólfr, í gný stórum.
Jörð grær, enn vér verðum,
Vínu nær of mínum,
(helnauð es þat) hylja
harm ágætum barma“.

Ok enn kvað hann:

Valköstum hlóðk vestan
vang fyr merkistangir.
Ótt vas él þats sóttak
Aðils *of* bláum naðri.
Háði ungr við Engla
Áleifr þrumu stála.
Helt, ne hrafnar sultu,
Hringr á vápna þingi.

Síðan fór Egill með sveit sína á fund Aðalsteins konungs ok gekk þegar fyrir konung, er hann sat við drykkju. Þar var glaumr mikill. Ok er konungr sá, at Egill var inn kominn, þá mælti hann, at rýma skyldi pallinn þann enn óæðra fyrir þeim ok mælti, at Egill skyldi sitja þar í öndvegi gegnt konungi. Egill settist þar

niðr ok skaut skildinum fyrir fætr sér. Hann hafði hjálm á höfði ok lagði sverðit um kné sér ok dró annat skeið til hálfs, enn þá skeldi hann aftr í slíðrin. Hann sat uppréttr ok var gneyptr mjök. Egill var mikilleitr, ennibreiðr, brúnamikill, nefit ekki langt, enn ákafliga digrt, granstæðit vítt ok langt, hakan breið furðuliga, ok svá alt um kjálkana, hálsdigr ok herðimikill, svá at þat bar frá því, sem aðrir menn vóru, harðleitr ok grimmligr, þá er hann var reiðr; hann var vel í vexti ok hverjum manni hæri, úlfgrátt hárit ok þykt, ok varð snemma sköllóttr. Enn er hann sat, sem fyrr var ritat, þá hleypti hann annarri brúninni ofan á kinnina, enn annarri upp upp í hárrætr. Egill var svarteygr ok skolbrúnn. Ekki vildi hann drekka, þó at honum væri borit, enn ýmsum hleypti hann brúnunum ofan eða upp. Aðalsteinn konungr sat í hásæti. Hann lagði ok sverð um kné sér, ok er þeir sátu svá um hríð, þá dró konungr sverðit ór slíðrum ok tók gullhring af hendi sér, mikinn ok góðan, ok dró á blóðrefinn, stóð upp ok gekk á gólfit, ok rétti yfir eldinn til Egils. Egill stóð upp ok brá sverðinu ok gekk á gólfit. Hann stakk sverðinu í bug hringinum ok dró at sér; gekk aftr til rúms síns. Konungr settist í hásæti. Enn er Egill settist niðr, dró hann hringinn á hönd sér, ok þá fóru brýnn hans í lag. Lagði hann þá niðr

sverðit ok hjálminn, ok tók við dýrshorni, er honum var borit, ok drakk af. Þá kvað hann:

„Hrammtangar lætr hanga
hrynvirgil mér brynju
Höðr á hauki troðnum
heiðis vingameiði.
Rauðmeldrs kná ek reiða,
ræðr gunnvala bræðir,
gelgju seiðs á galga,
geirveðrs, lofi at meira“.

Þaðan af drakk Egill at sínum hlut ok mælti við aðra menn. Eftir þat lét konungr bera inn kistur tvær. Báru tveir menn hvára. Vóru báðar fullar af silfri. Konungr mælti: „Kistur þessar, Egill, skaltu hafa, ok ef þú kemr til Íslands, skaltu færa þetta fé föður þínum; í sonargjöld sendi ek honum, enn sumu fé skaltu skifta með frændum ykkrum Þórólfs, þeim er þér þykkja ágætastir, enn þú skalt taka hér bróðurgjöld hjá mér, lönd eða lausa aura, hvárt er þú vill heldr, ok ef þú vilt með mér dveljast lengdar, þá skal ek hér fá þér sæmd ok virðing, þá er þú kant mér sjálfr til segja“. Egill tók við fénu ok þakkaði konungi gjafir ok vinmæli. Tók Egill þaðan af at gleðjast, ok þá kvað hann:

„Knáttu hvarms af harmi
hnúpgnípur mér drúpa.
Nú fann ek þanns ennis
ósléttur þær rétti.
Gramr hefir gerðihömrum
grundar upp of hrundit,

sás mér ýgr af augum,
armsíma mér grímu".

Síðan vóru græddir þeir menn er sárir vóru ok lífs auðit. Egill dvaldist með Aðalsteini konungi enn næsta vetr eftir fall Þórólfs, ok hafði hann allmiklar virðingar af konungi. Var þá með honum lið þat alt, er áðr hafði fylgt þeim báðum bræðrum ok ór orrostu höfðu komizt. Þá orti Egill drápu um Aðalstein konung ok er í því kvæði þetta:

„Nú hefir foldgnárr felda,
fellr jörð und nið Ellu,
hjaldrsnerrandi harra
höfuðbaðmr þría jöfra.
Aðalsteinn of vann annat.
Alts lægra kynfrægjum,
hér sverjum þess, hyrjar
hrannbrjótr, konungmanni".

Enn þetta er stefit í drápunni:

„Nú liggr hæst und hraustum
hreinbraut Aðalsteini".

Aðalsteinn gaf þá enn Agli at bragarlaunum gullhringa tvá, ok stóð hvárr mörk, ok þar fylgdi skikkja dýr, er konungr sjálfr hafði áðr borit. Enn er váraði, lýsti Egill yfir því fyrir konungi, at hann ætlaði í brott um sumarit ok til Noregs, ok — „vita hvat títt er um hag Ásgerðar, konu þeirar er átt hefir Þórólfr bróðir minn. Þar standa saman fé mikil, enn ek veit eigi, hvárt börn þeira lifa nökkur. Á ek þar fyrir at sjá, ef þau lifa, enn ek á arf

allan, ef Þórólfr hefir barnlauss andazt“. Konungr sagði: „Þat mun vera, Egill, á þínu forráði at fara heðan á brott, ef þú þykist eiga skyldar erendi, enn hinn veg þyki mér bezt, at þú takir hér staðfestu með mér ok slíka kosti, sem þú vill beiðast“. Egill þakkaði konungi orð sín — „ek mun nú fara fyrst, svá sem mér berr skylda til. Enn þat er líkara, at ek vitjag hingat þessa heita, þá er ek komumst við“. Konungr bað hann svá gera. Síðan bjóst Egill brott með liði sínu, enn mart dvaldist eftir með konungi. Egill hafði eitt langskip mikit ok þar á hundrað manna eða vel svá. Ok er hann var búinn ferðar sinnar ok byr gaf, þá helt hann til hafs. Skildust þeir Aðalsteinn konungr með mikilli vináttu. Bað hann Egil koma aftr sem skjótast. Egill kvað svá vera skyldu. Síðan helt Egill til Noregs, ok er hann kom við land, fór hann sem skyndiligast inn í Fjörðu. Hann spurði þau tíðendi, at andaðr var Þórir hersir, enn Arinbjörn hafði tekit við arfi ok gerzt lendr maðr. Egill fór á fund Arinbjarnar ok fekk þar góðar viðtökur. Bauð Arinbjörn honum þar at vera. Egill þektist þat. Lét hann setja upp skipit ok vista lið. Enn Arinbjörn tók við Agli við tólfta mann, ok var með honum um vetrinn.

**56.** (Kvánfang Egils). Bergönundr, son Þorgeirs þyrnifótar, hafði þá fengit Gunnhildar, dóttur

Bjarnar hölds. Var hún komin til bús með honum á Aski; enn Ásgerðr, er átt hafði Þórólfr Skallagrímsson, var þá með Arinbirni frænda sínum. Þau Þórólfr áttu dóttur eina unga, ok var mærin þar með móður sinni. Egill sagði Ásgerði lát Þórólfs ok bauð henni sína umsjá. Ásgerðr varð mjök ókát við þá sögu, enn svaraði vel ræðum Egils ok tók lítið af öllu; ok er á leið haustit, tók Egill ógleði mikla, sat oft ok drap höfðinu niðr í feld sinn. Eitthvert sinn gekk Arinbjörn til hans ok spurði, hvat ógleði hans ylli, — „nú þó at þú hafir fengit skaða mikinn um bróður þinn, þá er þat karlmannligt at bera þat vel. Skal maðr eftir mann lifa, eða hvat kveðr þú nú? Láttu mik nú heyra“. Egill sagði, at hann hefði þetta fyrir skemstu kveðit:

„Ókynni vensk, ennis
ung þorðak vel forðum
haukaklifs at hefja
Hlín þvergnípur mínar.
Verðk í feld, þás foldar
faldr kemr í hug skaldi
Bergönundar, brúna
brátt miðstalli at hváta“.

Arinbjörn spurði, hver kona sú væri er hann orti mansöng um — „hefir þú fólgit nafn hennar í vísu þessi“? Þá kvað Egill:

„Sef skuldar felk sjaldan
sorg ey vita borgar
í niðerfi Narfa

nafn örvífils drafnar,
þvít geirrótu gauta
gnýþings bragar fingrum
rógs at ræsis veigum
reifendr munu þreifa".

„Hér mun vera", segir Egill, „sem oft er mælt, at segjanda er alt sínum vin. Ek mun segja þér þat er þú spyrr, um hverja konu ek yrki; þar er Ásgerðr frændkona þín, ok þar til vilda ek hafa fullting þitt, at ek næða því ráði". Arinbjörn segir, at honum þykir þat vel fundit, — „skal ek víst leggja þar orð til, at þau ráð takist". Síðan bar Egill þat mál fyrir Ásgerði, enn hon skaut til ráða föður síns ok Arinbjarnar frænda síns. Síðan ræðir Arinbjörn við Ásgerði, ok hafði hon en sömu svör fyrir sér. Arinbjörn fýsti þessa ráðs. Síðan fara þeir Arinbjörn ok Egill á fund Bjarnar, ok hefir Egill þá bónorð ok bað Ásgerðar dóttur Bjarnar. Björn tók því máli vel, ok sagði, at Arinbjörn mundi því mjök ráða. Arinbjörn fýsti mjök, ok lauk því máli svá, at Egill festi Ásgerði, ok skyldi brullaup vera at Arinbjarnar. Enn er at þeiri stefnu kemr, þá var þar veizla allveglig, er Egill kvángaðist. Var hann þá allkátr þat er eftir var vetrarins. Egill bjó um várit kaupskip til Íslandsferðar. Réð Arinbjörn honum þat, at staðfestast ekki í Noregi, meðan ríki Gunnhildar væri svá mikit — „þvíat hon er allþung til þín", segir Arinbjörn, „ok hefir þetta

mikit um spilt, er þér Eyvindr funduzt við Jótland". Ok er Egill var búinn ok byr gaf, þá siglir hann í haf ok greiddist hans ferð vel. Kemr hann um haustit til Íslands ok helt til Borgarfjarðar. Hann hafði þá verit útan tólf vetr. Gerðist þá Skallagrímr maðr gamall. Varð hann þá feginn er Egill kom heim. Fór Egill til Borgar at vistum, ok með honum Þorfiðr strangi, ok þeir mjök margir saman. Vóru þeir með Skallagrími um vetrinn. Egill hafði þar ógrynni fjár. Enn ekki er þess getit, at Egill skifti silfri því er Aðalsteinn konungr hafði fengit honum í hendr, hvárki við Skallagrím né aðra menn. Þann vetr fekk Þorfiðr Sæunnar dóttur Skallagríms, ok eftir um várit fekk Skallagrímr þeim bústað at Langárfossi ok land inn frá Leirulæk milli Langár ok Álftár alt til fjalls. Dóttir Þorfinns ok Sæunnar var Þórdís, er átti Arngeirr í Hólmi, son Bersa goðlauss. Þeira son var Björn Hitdælakappi. Egill dvaldist þá með Skallagrími nökkura vetr. Tók hann til fjárforráða ok búsumsýslu engu miðr Skallagrími. Egill gerðist enn snoðinn. Þá tók heraðit at byggjast víða. Hrómundr, bróðir Gríms hins háleyska, bygði þá í Þverárhlíð ok skipverjar hans. Hrómundr var faðir Gunnlaugs, föður Þuríðar dyllu, móður Illuga svarta. Egill hafði þá verit svá at vetrum skifti mjök mörgum at Borg. Þá var þat á einu sumri, er skip kómu af Nor-

egi til Íslands, at þau tíðendi spurðust austan, at Björn höldr var andaðr. Þat fylgdi þeiri sögn, at fé þat alt, er Björn hafði átt, hafði upp tekit Bergönundr mágr hans. Hann hafði flutt heim til sín alla lausa aura, enn jarðir hafði hann bygt ok skilit sér allar landskyldir. Hann hafði ok sinni eigu kastat á jarðir þær allar, er Björn hafði átt. Ok er Egill heyrði þetta, þá spurði hann vandliga, hvárt Bergönundr mundi sínum ráðum fram hafa farit um þetta, eða hefði hann traust til haft sér meiri manna. Honum var sagt, at Önundr var kominn í vináttu mikla við Eirík konung, ok við Gunnhildi þó miklu kærra. Egill lét þat kyrt vera á því hausti. Enn er vetrinn leið af ok vára tók, þá lét Egill setja fram skip, þat er hann átti, er staðit hafði í hrófi við Langárfors. Hann bjó skip þat til hafs ok fekk menn til. Ásgerðr kona hans var ráðin til farar, enn Þórdís, dóttir Þórólfs, var eftir. Egill sigldi í haf, er hann var búinn. Er frá hans ferð ekki at segja, fyrr enn hann kemr til Noregs. Helt hann þegar til fundar við Arinbjörn, sem fyrst mátti hann. Arinbjörn tók vel við honum, ok bauð Agli með sér at vera, ok þat þektist hann. Fóru þau Ásgerðr bæði þangat ok nökkurir menn með þeim. Egill kom brátt á ræður við Arinbjörn um fjárheimtur þær, er Egill þóttist eiga þar í landi. Arinbjörn segir: „Þat mál þykir mér

óvænligt; Bergönundr er harðr ok ódæll, ranglátr ok fégjarn, enn hann hefir nú hald mikit af konungi ok drotningu. Er Gunnhildr hinn mesti óvinr þinn, sem þú veizt áðr, ok mun hon ekki fýsa Önund, at hann geri greiða á málinu“. Egill segir: „Konungr mun oss láta ná lögum ok réttindum á máli þessu; enn með liðveizlu þinni, þá vex mér ekki í augu, at leita laga við Bergönund“. Ráða þeir þat af, at Egill skipar skútu; fóru þeir þar á nær tuttugu. Þeir fóru suðr á Hörðaland, ok kómu fram á Aski. Ganga þeir þar til húss, ok hitta Önund. Berr þá Egill upp mál sín, ok krefr Önund skiftis um arf Bjarnar, ok segir, at dætr Bjarnar væri jamkomnar til arfs eftir hann at lögum, — „þó at mér þyki“, kvað Egill, „sem Ásgerðr muni þykja ættborin miklu betr enn Gunnhildr kona þín“. Önundr segir þá snelt mjök: „Þú ert furðuliga djarfr maðr, Egill, útlagi Eiríks konungs, er þú ferr hingat í land hans, ok ætlar hér til ágangs við menn hans. Máttu svá ætla, Egill, at ek hefi velta látit slíka sem þú ert ok af minnum sökum, enn mér þykja þessar, er þú telr til arfs fyrir hönd konu þinnar; þvíat þat er kunnigt alþýðu, at hon er þýborin at móðerni“. Önundr var málóði um hríð. Ok er Egill sá, at Önundr vildi engan hlut greiða um þetta mál, þá stefnir Egill honum þing, ok skýtr málinu til Gulaþingslaga. Önundr segir: „Koma

mun ek til Gulaþings, ok munda ek vilja, at þú kæmir þaðan eigi heill í brott". Egill segir, at hann mun til þess hætta, at koma þó til þings alt at einu, — „verðr þá sem má, hversu málum várum lýkr". Fara þeir Egill síðan í brott, ok er hann kom heim, segir hann Arinbirni frá ferð sinni ok frá svörum Önundar. Arinbjörn varð reiðr mjök, er Þóra föðursystir hans var kölluð ambátt. Arinbjörn fór á fund Eiríks konungs; bar upp fyrir hann þetta mál. Konungr tók heldr þungt hans máli, ok segir, at Arinbjörn hefði lengi fylgt mjök málum Egils, — „hefir hann notit þín at því, er ek hefi látit hann vera hér í landi; enn nú mun mér örðigt þykja, ef þú heldr hann til þess, at hann gangi á vini mína". Arinbjörn segir: „Þú munt láta oss ná lögum af þessu máli". Konungr var heldr styggr í þessu máli. Arinbjörn fann, at drotning mundi þó miklu verr viljuð. Ferr Arinbjörn aftr ok sagði, at heldr horfir óvænt. Líðr af vetrinn, ok kemr þar, er menn fara til Gulaþings. Arinbjörn fjölmenti mjök til þings. Var Egill í för með honum. Eiríkr konungr var þar, ok hafði fjölmenni mikit. Bergönundr var í sveit konungs ok þeir bræðr, ok höfðu þeir sveit mikla. Enn er þinga skyldi um mál manna, þá gengu hvárirtveggju þar til, er dómrinn var settr, at flytja fram sannindi sín. Var Önundr þá allstórorðr. Enn þar er dómrinn var

settr var völlr sléttr, ok settar niðr heslistengr í völlinn í hring, enn lögð um utan snæri umhverfis. Vóru þat kölluð vébönd. Enn fyrir innan í hringinum sátu dómendr, tólf ór Firðafylki, ok tólf ór Sygnafylki, tólf ór Hörðafylki. Þær þrennar tylftir manna skyldu þar dæma um mál manna. Arinbjörn réð þvi, hverir dómendr vóru ór Firðafylki. Enn Þórðr af Aurlandi hverir ór Sogni vóru. Vóru þeir allir eins liðs. Arinbjörn hafði haft fjölmenni mikit til þingsins. Hann hafði snekkju alskipaða, enn hafði mart smáskipa, skútur ok róðrarferjur, er búendr stýrðu. Eiríkr konungr hafði þar mikit lið, langskip sex eða sjau. Þar var ok fjölmenni mikit af búöndum. Egill hóf þar mál sitt, at hann krafði dómendr at dæma sér lög af máli þeira Önundar. Inti hann þá upp, hver sannindi hann hafði í tilkalli fjár þess er átt hafði Björn Brynjólfsson. Sagði hann, at Ásgerðr dóttir Bjarnar, enn eiginkona Egils, var til komin arfsins, ok hon væri óðalborin ok lendborin í allar kynkvíslir, enn tíginborin fram í ættir; krafði hann þess dómendr, at dæma Ásgerði til handa hálfan arf Bjarnar, lönd ok lausa aura. Enn er hann hætti ræðu sinni, þá tók Bergönundr til máls: „Gunnhildr kona mín“, sagði hann, er dóttir Bjarnar ok Álofar, þeirar konu, er Björn hafði lögfengit. Er Gunnhildr réttr erfingi Bjarnar. Tók ek fyr þá sök upp fé þat alt, er Björn hafði eftir átt,

at ek vissa, at sú ein var dóttir Bjarnar önnur, er ekki átti arf at taka. Var móðir hennar hernumin, enn síðan tekin frillutaki ok ekki at frændaráði, ok flutt land af landi. Enn þú, Egill, ætlar at fara hér sem hurvetna annarsstaðar, þess er þú hefir komit, með ofkapp þitt ok ójafnað. Nú mun þér þat hér ekki týja, þvíat Eiríkr konungr ok Gunnhildr drotning hafa mér því heitit, at ek skal rétt hafa af hverju máli, þar er þeira ríki stendr yfir. Ek mun færa fram sönn vitni fyr konungi ok dómöndum, at Þóra hlaðhönd móðir Ásgerðar var hertekin heiman frá Þóris bróður síns, ok annat sinni af Aurlandi frá Brynjólfs. Fór hon þá af landi á braut með víkingum ok útlögum konungs, ok í þeiri útlegð gátu þau Björn dóttur þessa Ásgerði. Nú er furða at um Egil, er hann ætlar at gera ómæt öll orð Eiríks konungs; þat fyrst, *er þú, Egill, hefir* verit hér í landi síðan er Eiríkr konungr gerði *þik útlægan*, ok þat þót þú hafir fengit ambáttar, at kalla hana arfgenga. Vil ek þess krefja dómendr, at þeir dæmi mér allan arf Bjarnar, enn dæmi Ásgerði ambátt konungs, þvíat hon var svá getin, at þá var faðir hennar ok móðir í útlegð konungs“. Þá tók Arinbjörn til máls: „Vitni munum vér fram bera, Eiríkr konungr, til þess, ok láta eiða fylgja, at þat var skilit í sætt þeira Þóris föður míns ok Bjarnar hölds, at Ásgerðr dóttir þeira Bjarn-

ar ok Þóru var til arfs leidd eftir Björn föður sinn, ok svá þat, sem yðr er sjálfum kunnigt, konungr, at þú gerðir Björn ílendan, ok öllu því máli var þá lukt, er áðr hafði milli staðit sættar manna". Konungr svarar ekki skjótt máli hans. Þá kvað Egill:

„Þýborna kveðr þorna
þornreið ár horna,
sýslir hann of sína
síngirnd, Önundr, mína.
Naddhristir, ák nistis
norn til arfs of borna.
Þigg þú, auðkonr, eiða,
eiðsært es þat, greiða".

Arinbjörn lét þá fram bera vitnisburðinn tólf menn, ok allir vel til valdir, ok höfðu allir þeir heyrt á sætt þeira Þóris ok Bjarnar, ok buðu þá konungi ok dómöndum at sverja þar eftir. Dómendr vildu taka eiða þeira, ef konungr bannaði eigi. Konungr sagði, at hann myndi þar hvárki at vinna, at leggja á þat lof eða bann. Þá tók til máls Gunnhildr drotning; sagði svá: „Þetta er undarligt, konungr, hvernig þú lætr Egil þenna hinn mikla vefja mál öll fyr þér. Eða hvárt myndir þú eigi móti honum mæla, þótt hann kallaði til konungdómsins í hendr þér? Enn þótt þú vilir enga órskurði veita, þá er Önundi sé lið at, þá skal ek þat eigi þola, at Egill troði svá undir fótum vini mína, at hann taki með rangindi sín fé þetta af Önundi. Enn

hvar ertu Askmaðr? far þú til með sveit þína þar sem dómendrnir eru, ok lát eigi dæma rangindi þessi". Síðan hljóp Askmaðr ok þeir sveitungar til dómsins, skáru í sundr véböndin, ok brutu niðr stengrnar, enn hleyptu á braut dómöndunum. Þá gerðist þyss mikill á þinginu, enn menn vóru þar allir vápnlausir. Þá mælti Egill: „Hvárt mun Bergönundr heyra orð mín?" „Heyri ek", sagði hann. „Þá vil ek bjóða þér hólmgöngu ok þat at vit berimk hér á þinginu. Hafi sá fé þetta, lönd ok lausa aura, er sigr fær, enn þú ver hvers manns níðingr, ef þú þorir eigi". Þá svarar Eiríkr konungr: „Ef þú, Egill, ert allfúss til at berjast, þá skulum vér þat nú veita þér". Egill svarar: „Ekki vil ek berjast við þik eða við ofrefli liðs. Enn fyrir jafnmiklum mönnum þá mun ek eigi flýja, ef mér skal þess unna. Mun ek ok at því gera öngan mannamun". Þá mælti Arinbjörn: „Förum vér á brott, ekki munum vér hér iðna at sinni, þat at okkr vinni". Síðan sneri hann á braut ok alt lið hans með honum. Þá sneri Egill aftr ok sagði svá: „Því skírskota ek undir þik Arinbjörn ok þik Þórðr ok alla þá menn, er nú mega orð mín heyra, lenda menn ok lögmenn ok alla alþýðu, at ek banna jarðir þær allar, er Björn hefir átt, at byggja ok at vinna; banna ek þér, Bergönundr, ok öðrum mönnum öllum, innlenzkum ok útlenzkum, tígnum ok ótígnum, enn hver-

jum manni er þat gerir legg ek við lögbrot landsréttar ok griðarof ok goðagremi". Þá gekk Egill á brott með Arinbirni. Fóru þeir nú til skipa sinna yfir leiti nökkut er ei sá skipin af þinginu. Enn er Arinbjörn kom til skips síns, mælti hann: „Þat er öllum mönnum kunnigt, hver hér hafa orðit þinglok, at vér höfum eigi náð lögum, enn konungr er reiðr svá mjök, at mér er ván at várir menn sæti afarkostum af honum, ef hann má. Vil ek nú, at hverr maðr fari til skipa sinna ok fari heim". Þá mælti hann við Egil: „Gakk þú nú á skip þitt ok þitt föruneyti ok verðið í brottu ok verið yðr, fyrir því at konungr mun eftir leita, at fund yðarn beri saman. Leitið þá á fund várn, hvat sem í kann at gerast með yðr konungi". Egill gerði sem hann mælti. Gengu þeir á skútu þrír tigir manna, ok fóru sem ákafast. Skipit var einkar skjótt. Þá reru fjöldi annarra skipa ór höfninni er Arinbjörn átti, skútur ok róðrarferjur. Enn langskip, er Arinbjörn átti, fór síðast, þvíat þat var þyngst undir árum. Enn skúta Egils gekk skjótt hjá fram. Þá kvað Egill vísu:

„Erfingi ræðr arfi
arfljúgr fyr mér svarfa
mætik hans ok heitum
hótun, þyrnifótar.
Nærgis „simla" sorgar
slík rán ek get hánum,

vér deildum fjöt foldar
fold væringja, goldit".

Eiríkr konungr heyrði ályktar orð Egils, þau er hann mælti síðast á þinginu, ok varð hann reiðr mjök, enn allir menn höfðu vápnlausir gengit á þinginu; veitti konungr því eigi atgöngu. Hann bað menn sína alla ganga til skipa, ok þeir gerðu sem hann mælti. Þá skaut konungr á húsþingi, ok sagði þá fyrirætlan sína — „vér skulum nú láta fara tjöld af skipum várum; vil ek nú fara á fund Arinbjarnar ok Egils. Vil ek ok því lýsa fyrir yðr, at ek vil Egil af lífi taka, ef vér komimst í færi, enn hlífa engum þeim er í móti vill standa". Eftir þat gengu þeir út á skip ok bjuggust sem skjótast ok lögðu út skipunum, ok reru þangat, sem skip Arinbjarnar höfðu verit. Þá lét konungr róa eftir norðr í sundin. Enn er þeir kómu í Sognsæ, sá þeir lið Arinbjarnar; sneru þá langskipin inn til Sauðungssunds, ok sneri þá konungr þangat. Hann hitti þar skip Arinbjarnar ok lagði konungr þegar at, ok köstuðust orðum á. Spyrr konungr, hvárt Egill væri þar á skipinu. Arinbjörn svaraði: „Eigi er hann á mínu skipi. Munu þér ok, konungr, brátt mega þat sjá. Eru þeir einir hér innan borðs, er þér munuð kenna, enn Egill mun eigi felast undir þiljum niðri, þótt fund yðarn beri saman". Konungr spyrr, hvat Arinbjörn vissi síðast til hans, enn hann sagði, at

Egill var við þrítugasta manni á skútu, — „ok fóru þeir leið sína út til Steinssunds“. Þeir konungr höfðu sét, at mörg skip höfðu róit til Steinssunds. Mælti konungr, at þeir skyldi róa í in iðri sundin ok stefna svá móti þeim Agli. Maðr er nefndr Ketill. Hann var hirðmaðr kongs; hann sagði leið fyrir konungs skipinu, enn hann stýrði sjálfr. Ketill var mikill maðr vexti ok fríðr sýnum ok náfrændi konungs, ok var þat mál manna, at þeir konungr væri líkir yfirlits. Egill hafði flota látit skipi sínu, ok fluttan til farminn, áðr hann fór til þingsins, enn nú ferr Egill þar til, er kaupskip var ok gengu þeir á skipit upp, enn skútan flaut við stýris stengr milli lands ok skipsins ok lágu þar árar í hömlu, enn um morgininn, er ljóst var orðit varla, verða þeir varir við, er vörð heldu, at skip stór reru at þeim. Enn er Egill vissi þat, þá stóð hann upp þegar. Sá hann brátt, at ófriðr var at kominn; vóru þar sex langskip ok stefndu at þeim. Þá mælti Egill, at þeir skyldu hlaupa allir í skútuna. Egill tók upp kistur tvær er Aðalsteinn konungr gaf honum; hann hafði þær jafnan með sér. Þeir hljópu í skútuna. Hann vápnaðist skjótt ok allir þeir, ok reru fram í milli landsins ok snekkju þeirar er næst fór landinu, enn þat var skip Eiríks konungs. Enn því at bráðum bar at, at lítt var lýst, þá rendust skipin hjá, ok er lyftingar bar saman, þá skaut

Egill spjóti ok kom á þann mann miðjan, er við stýrit sat. Enn þar var Ketill höðr. Þá kallar Eiríkr konungr ok bað menn róa eftir þeim Agli. Enn er skipin rendu hjá kaupskipinu, þá hljópu menn konungs upp á skipit, enn þeir menn, er eftir höfðu orðit af Egils mönnum ok eigi hljópu í skútuna, þá vóru allir drepnir, þeir er náð varð, enn sumir hljópu á land. Þar létust tíu menn af sveitungum Egils. Sum skipin reru eftir þeim Agli, enn sumir ræntu kaupskipit. Var þar tekit fé þat alt er innan borðs var, enn þeir brendu skipit. Enn þeir er eftir þeim Agli reru, sóttu ákaft, tóku tveir eina ár. Skortir þar eigi lið innanborðs, enn þeir Egill höfðu þunnskipat. Vóru þeir þá átján á skútunni. Þá dró saman með þeim, enn fyrir innan eyna var vaðilsund nökkut grunt milli ok annarrar eyjar; útfall var sjávarins. Þeir Egill hleyptu skútunni í þat it grunna sundit, enn snekkjurnar flutu þar eigi, ok skildi þar með þeim. Sneri þá konungr suðr aftr, enn Egill fór norðr á fund Arinbjarnar. Þá kvað Egill vísu:

„Nú hefir þrymrögnir þegna
þróttharðr, enn mik varðak
víti, várrar sveitar
vígelds tíu felda.
Þvít sárlagar sýrar
sendr ór minni hendi
digr fló beint meðal bjúgra
bifþorn Ketils rifja“.

Egill kom á fund Arinbjarnar ok segir honum þessi tíðendi. Arinbjörn segir, at honum var ekki vildara af ván um skifti þeira Eiríks konungs — „enn ekki mun þik fé skorta, Egill. Ek skal bæta þér skipit ok fá þér annat, þat er þú megir vel fara á til Íslands“. Ásgerðr kona Egils hafði verit með Arinbirni, síðan þeir fóru til þings. Arinbjörn fekk Agli skip þat er vel var haffæranda, ok lét ferma af viði. Býr Egill skip þat til hafs ok hafði þá enn nær þrimr tigum manna. Skiljast þeir Arinbjörn þá með vináttu. Þá kvað Egill:

„Svá skyldi goð gjalda,
gram reki bönd af löndum
(reið sé rögn og Óðinn),
rán míns féar hánum.
Fólkmýgi lát flýja
(Freyr ok Njörðr) af jörðum
(leiðisk lofða stríði)
landáss (þanns vé grandar)“.

57. (Eiríkr konungr drap bræðr sína). Haraldr hinn hárfagri setti sonu sína til ríkis í Noregi, þá er hann tók at eldast; gerði Eirík konung yfirkonung sona sinna allra. Ok er Haraldr hafði verit sextíu ok fimm vetra konungr, þá seldi hann í hendr Eiríki syni sínum ríki. Í þann tíma ól Gunnhildr son, ok jós Haraldr konungr vatni, ok gaf nafn sitt, ok lét þat fylgja, at hann skyldi konungr vera eftir föður sinn, ef honum endist aldr til. Haraldr konungr settist

þá í kyrrsetu ok sat oftast á Rogalandi eða Hörðalandi. Enn þrimr vetrum síðar andaðist Haraldr konungr á Rogalandi, ok var gerr haugr eftir hann við Haugasund. Enn eftir andlát hans var deila mikil milli sona hans, þvíat Víkverjar tóku sér til konungs Óláf, enn Þrændir Sigurð. Enn Eiríkr feldi þá báða bræðr sína í Túnsbergi einum vetri eftir andlát Haralds konungs. Var þat alt á einu sumri, er Eiríkr konungr fór af Hörðalandi með her sinn austr í Vík til bardaga við bræðr sína, ok áðr höfðu þeir deilt á Gulaþingi Egill ok Bergönundr, ok þessi tíðendi, er nú var sagt. Bergönundr var heima at búi sínu, þá er konungr fór í leiðangr, þvíat honum þótti óvarligt at fara frá búi sínu, meðan Egill var eigi ór landi farinn. Þar var bróðir hans Haddr þá með honum. Fróði hét maðr, frændi Eiríks konungs ok fóstrson hans. Hann var hinn fríðasti maðr, ungr at aldri ok þó vaxinn maðr. Eiríkr konungr setti hann eftir til trausts Bergönundi. Sat Fróði á Alreksstöðum at búi konungs ok hafði þar sveit manna. Rögnvaldr er nefndr son Eiríks konungs ok Gunnhildar. Hann var þá vetra tíu eða ellifu, ok var hit fríðasta mannsefni. Hann var þá með Fróða, er þetta var tíðenda. Enn áðr Eiríkr konungr reri þennan leiðangr, þá gerði hann Egil útlaga fyrir endilangan Noreg ok dræpan hverjum manni. Arinbjörn var með

konungi í leiðangri, enn áðr hann fór heiman, þá lagði Egill skipi sínu til hafs ok helt í útver þat er Vitar heita, út frá Alda; þat er komit af þjóðleið. Þar vóru fiskimenn ok var þar gott at spyrja tíðendi. Þá spurði hann, at konungr hafði gert hann útlaga. Þá kvað Egill vísu:

„Lögbrigðir hefir lagða
landalfs, fyr mér sjalfum,
blekkir bræðra søkkva
brúðfang, vegu langa.
Gunnhildi ák gjalda,
greypts hennar skap, þenna,
*enn* getk ok læ launat,
landrekstr, bili grandat“.

Veðr vóru vindlítil, fjallvindr um nætr, enn hafgola um daga. Eitt kveld sigldu þeir Egill út á haf, enn fiskimenn reru þá inn til lands, þeir er til njósnar höfðu settir verit um farar þeira Egils. Kunnu þeir þat at segja, at Egill hafði út látit ok á haf siglt ok hann var á brottu. Létu þessa njósn koma til Bergönundar. Ok er hann vissi þessi tíðendi, hann sendi þá frá sér menn þá alla, er hann hafði áðr haft þar til varúðar. Reri hann þá inn til Alreksstaða ok bauð Fróða til sín, þvíat Bergönundr átti öl mikit heima at sín. Fróði fór með honum ok hafði með sér nökkura menn. Tóku þeir þar veizlu góða ok höfðu gleði mikla. Var þar þá alt óttalaust. Rögnvaldr konungsson átti karfa einn; reru sex menn á borð. Hann var steindr allr fyrir ofan

sjó. Hann hafði með sér menn tíu eða tólf, þá er honum fylgdu einart. Ok er Fróði var heiman farinn, þá tók Rögnvaldr karfann ok reru þeir út til Herðlu tólf saman. Þar var konungsbú mikit ok réð sá maðr fyrir er hét Skegg-Þórir. Þar hafði Rögnvaldr verit á fóstri í barnæsku. Tók Þórir feginsamliga við konungssyni. Skorti þar ok eigi drykk mikinn. Egill sigldi út á haf um nóttina, sem fyrr var ritað, ok er mornaði, fell veðrit ok gerði logn. Lögðu þeir þá í rétt, ok létu reiða fyrir nökkurar nætr, enn er hafgola kom á, sagði Egill skipurum sínum: „Nú munum vér sigla at landi, þvíat ógerla veit, ef hafviðri kemr á hvast, hvar vér náum þá landi, enn heldr ófriðvænt fyrir í flestum stöðum“. Hásetar báðu Egill fyrir ráða þeira ferð. Síðan tóku þeir til seglin ok sigldu inn til Herðluvers. Fengu þeir þar góða höfn ok tjölduðu yfir skipi sínu ok lágu þá um nóttina. Þeir höfðu á skipinu lítinn bát ok gekk Egill þar á við þriðja mann. Reri hann þá inn um nóttina til Herðlu. Sendi þar mann í eyna upp at spyrja tíðenda, ok er sá kom ofan til skips, sagði hann, at þar á bænum var Rögnvaldr konungsson ok hans menn, — „sátu þeir þá við drykkju. Hitta ek einn af húskörlum ok var sá ölóðr, ok sagði at hér skyldi eigi minna drekka enn at Bergönundar, þótt Fróði væri þar á veizlu ok þeir fimm saman“. Ekki kvað

hann þar fleira manna, enn heimamenn, nema Fróða ok hans menn. Síðan reri Egill aftr til skips ok bað menn upp standa ok taka vápn sín. Þeir gerðu svá. Þeir lögðu út skipit um akkeri. Egill lét gæta tólf menn skips. Enn hann fór á eftirbátinn ok þeir átján saman. Reru síðan inn eftir sundum. Þeir stiltu svá til, at þeir kómu um kveldit inn í Fenhring ok lögðu þar til leynivágs eins. Þá mælti Egill: „Nú vil ek ganga einn upp í eyna ok njósna, hvers ek verða víss, enn þér skuluð bíða mín hér“. Egill hafði vápn sín, þau er hann var vanr at hafa, hjálm ok skjöld, gyrðr sverði, höggspjót í hendi. Síðan gekk hann upp í eyna ok fram með skógi nökkurum. Hann hafði dregit hött síðan yfir hjálm. Hann kom þar at, er sveinar nökkurir vóru ok hjá þeim hjarðtíkr stórar, ok er þeir tókust at orðum, spurði hann hvaðan þeir væri, eða fyrir hví þeir væri þar ok hefði hunda svá stóra. Þeir mæltu: „Þú munt vera allheimskr maðr. Hefir þú eigi heyrt, at hér gengr björn um eyna, hinn mesti spellvirki, drepr hér bæði menn ok fénað, ok er lagt fé til höfuðs honum. Vöku vér hér hverja nótt á Aski yfir fé váru, er byrgt er í grindum — eða hví ferðu með vápnum um nætr?“ Hann segir: „Hræðumk ek björninn, ok fáir þyki mér sem nú fari vápnlausir. Hefir björninn lengi elt mik í nótt, eða sjái hann nú; þar er hann

nú í skógarnefinu. Hvárt eru allir menn í svefni á bænum?" Sveinninn sagði, at þeir Bergönundr ok Fróði mundu enn drekka — „þeir sitja nætr allar". „Segit þeim þá", segir hann, Egill, „hvar björninn er, enn ek verð at skynda heim". Hann gekk þá brott, enn sveinninn hljóp heim til bæjarins ok til stufunnar, er þeir drukku í. Var þá svá komit, at allir menn vóru sofa farnir, nema þeir þrír, Önundr ok Fróði ok Haddr. Sveinninn segir, hvar björninn var. Þeir tóku vápn sín er þar hengu hjá þeim, ok hljópu þegar út ok upp til skógar. Þar gengu fram skógarnef af mörkinni, ok runnar í sumum stöðum. Sveinninn segir þeim, hvar björninn hafði verit í runninum. Þá sá þeir at limarnar hrærðust; þóttust þá skilja, at björninn mundi þar vera. Þá mælti Bergönundr, at þeir Haddr ok Fróði skyldu fram renna milli *ok* meginmerkrinnar ok gæta, at björninn næði eigi skóginum. Bergönundr rann fram at runninum. Hann hafði hjálm ok skjöld, gyrðr sverði, enn kesju í hendi. Egill var þar fyrir í runninum, enn enginn björn, ok er hann sá, hvar Bergönundr var, þá brá hann sverðinu, enn þar var hönk á meðalkaflanum ok dró hann hana á hönd sér ok lét þar hanga. Hann tók í hönd sér kesjuna ok rann þá fram á mót Bergönundi, ok er Bergönundr sá þat, þá gæddi hann rásina ok skaut skildinum fyrir sik, ok áðr þeir mættust, þá skaut hvárr

kesju at öðrum. Egill laust skildinum við kesjunni ok bar hallan, svá at reist ór skildinum ok flaug í völlinn, enn Egils spjót kom á miðjan skjöldinn ok gekk í gegnum langt upp á fjöðrina ok varð fast spjótið í skildinum. Varð Önundi þungbærr skjöldrinn. Egill greip þá skjótt meðalkafla sverðsins. Önundr tók þá ok at bregða sínu sverði, ok er eigi var brugðit til hálfs, þá lagði Egill í gegnum hann með sínu sverði. Önundr hrataði við lagit, enn Egill kipti at sér sverðinu hart ok hjó til Önundar ok af nær höfuðit. Síðan tók Egill kesjuna ór skildinum. Þeir Haddr ok Fróði sá fall Bergönundar ok runnu þangat til. Egill snerist í móti þeim. Hann skaut kesjunni at Fróða ok í gegnum skjöld hans ok í brjóstit, svá at yddi um bakit. Fell hann þegar á bak aftr dauðr. Egill tók þá sverðit ok snerist í mót Haddi ok skiftust þeir fám höggum við, áðr Haddr fell. Þá kómu sveinarnir at ok mælti *Egill við þá:* „Gætið hér til Önundar húsbónda yðvars ok þeira félaga, at eigi slíti dýr eða fuglar hræ þeira“. Egill gekk þá leið sína ok eigi langt, áðr félagar hans kómu í móti honum ellifu, enn sex gættu skips. Þeir spurðu, hvat hann hefði sýslat. Hann kvað þá:

„Sátum, lyngs, til lengi,
ljósheims, of, bör þeima
meir varðak fé forðum
fjarðölna, hlut skarðum.

Áðr Bergönund benjum
bensæfðan létk venjask.
Börs niðjar feltk beðju
blóði Hadds ok Fróða“.

Þá mælti Egill: „Vér skulum nú snúa aftr til bæjarins ok fara hermannliga, drepa menn þá alla, er vér náum, enn taka fé alt, þat er vér megum með komast“. Þeir fara til bæjarins ok hlaupa þar inn í hús ok drepa þar menn fimtán eða sextán. Sumir kómust undan af hlaupi. Þeir ræntu þar öllu fé, enn spiltu því er þeir máttu eigi með fara. Þeir ráku búfé til strandar ok hjuggu; báru á bátinn sem hann tók við. Fóru síðan leið sína ok reru út um eyjasund. Egill var nú allreiðr, svá at þá mátti ekki við hann mæla. Sat hann við stýri á bátinum, ok er þeir sóttu út á fjörðinn til Herðlu, þá reri útan í móti þeim Rögnvaldr konungsson, ok þeir þrettán saman á karfanum þeim enum steinda. Þeir höfðu þá spurt, at skip Egils lá í Herðluveri. Ætluðu þeir at gera Önundi njósn um ferðir Egils, ok er Egill sá skipit, þá kendi hann þegar. Hann stýrði sem beinast á þá, ok er skipin rendust at, þá kom barð skútunnar á kinnung karfans; hallaði honum svá, at sjór fell inn á annat borð ok fyldi skipit. Egill hljóp þá upp ok greip kesjuna, hét á menn sína, at þeir skyldu engan láta með lífi á brott komast, þann er á karfanum var. Þat var þá hægt,

þvíat þar var þá engi vörn. Vóru allir þeir á á kafi drepnir, enn engi komst undan. Létust þeir þar þrettán, Rögnvaldr ok förunautar hans. Þeir Egill reru þá inn til eyjarinnar Herðlu. Þá kvað Egill vísu:

„Börðumk vér, ne virðak,
vígleiftr sonar, heiftir,
blóðöxar rauðk blóði
böðmilds ok Gunnhildar.
Þar fellu þó þollar
þrettán lagar mána,
stendr af styrjar skyndi
starf, á einum karfa“.

Ok er þeir Egill kómu til Herðlu, þá runnu þeir þegar upp til bæjarins með alvæpni. Enn er þat sá Þórir ok hans heimamenn, þá runnu þeir þegar af bænum ok forðuðu sér allir, þeir er ganga máttu, karlar ok konur. Þeir Egill ræntu þar öllu fé, því er þeir máttu höndum á koma. Fóru síðan út til skips. Var þá ok eigi langt at bíða, at byrr rann á af landi. Búast þeir til at sigla. Ok er þeir vóru seglbúnir, gekk Egill upp í eyna. Hann tók í hönd sér heslisstöng, ok gekk á bergsnös nökkura, þá er vissi til landsins. Þá tók hann hrosshöfuð ok setti upp á stöngina. Síðan veitti hann formála ok mælti svá: „Hér set ek upp níðstöng ok sný ek þessu níði á hönd Eiríki konungi ok Gunnhildi drotningu“ — hann sneri hrosshöfðinu inn á land — „sný ek þessu níði á landvættir

þær er land þetta byggja, svá at allar fari þær villar vegar, engi hendi né hitti sitt inni, fyrr enn þær reka Eirík konung ok Gunnhildi ór landi". Síðan skýtr hann stönginni niðr í bjargrifu ok lét þar standa. Hann sneri ok höfðinu inn á land, enn hann reist rúnar á stönginni, ok segja þær formála þenna allan. Eftir þat gekk Egill á skip. Tóku þeir til segls ok sigldu á haf út. Tók þá byrrinn at vaxa ok gerði veðr hvast ok hagstætt. Gekk þá skipit mikit. Þá kvað Egill:

„Þel høggr stórt fyr stáli
stafnkvígs á veg jafnan
út með éla meitli
andærr jötunn vandar,
enn svalbúinn selju
sverfr eirarvanr þeiri
Gestils alft *með* gustum
gandr of stáli ok brandi".

Síðan sigldu þeir í haf ok greiddist vel ferð þeira ok kómu af hafi í Borgarfjörð. Helt hann skipi sínu þar til hafnar ok báru föt sín á land. Fór þá Egill heim til Borgar, enn skiparar hans vistuðust. Skallagrímr gerðist þá gamall ok hrummr af elli. Tók Egill þá til fjárforráða ok bús varðveizlu.

58. (Andlát Skallagríms). Þorgeirr hét maðr. Hann átti Þórdísi Ingvarsdóttur, systur Beru móður Egils. Þorgeirr bjó á Álftanesi á Lambastöðum. Hann hafði komit út með Ingvari. Hann

þóttist þar mikils fjár missa, ok eigi at réttu. Fám dögum síðar var þat snemma einn morgin, þá er Arinbjörn var í herbergi sínu, — var þar þá ekki mart manna — þá lét hann kalla þangat Egil, ok er hann kom þar, þá lét Arinbjörn lúka upp kistu ok reiddi þar ór ellifu marka silfrs, ok mælti svá: „Þetta fé geld ek þér, Egill, fyrir jarðir þær er Ljótr enn bleiki hafði átt. Þyki mér þat sannligt, at þú hafir þessi laun af okkr Friðgeiri frændum fyrir þat, er þú leystir líf hans af Ljóti, enn *ek* veit, at þú lézt mín at njóta. Em ek því skyldr, at láta þik eigi lögræning af því máli“. Egill tók við fénu ok þakkaði Arinbirni. Gerðist Egill þá enn einteiti.

69. (Frá Arinbirni). Arinbjörn var þenna vetr heima at búum sínum, enn eftir um várit lýsti hann yfir því, at hann ætlar at fara í víking. Arinbjörn hafði skipakost góðan. Bjó hann um várit þrjú langskip ok öll stór. Hann hafði þrjú hundrut manna. Hafði hann húskarla á skipi sínu ok var þat allvel skipat. Hann hafði ok marga bóndasonu með sér. Egill réðst til farar með honum. Stýrði hann skipi, ok fór með honum mart af föruneyti því er hann hafði haft með sér af Íslandi. Enn kaupskip þat er Egill hafði haft af Íslandi, lét hann flytja austr í Vík. Fekk hann þar manna til at fara með varnað sinn. Enn þeir Arinbjörn

ok Egill heldu langskipunum suðr með landi. Síðan stefndu þeir liðinu suðr til Saxlands ok herjuðu þar um sumarit ok fengu sér fé. Enn er hausta tók, heldu þeir norðr aftr ok lágu við Frísland. Einhverja nótt, þá er veðr var kyrt, lögðu þeir upp í móðu eina, þar er ilt *var* til hafna ok útfiri mikil. Þar vóru á land upp sléttur miklar ok skamt til skógar. Þar vóru vellir blautir, þvíat regn höfðu verit mikil. Þar réðu þeir til uppgöngu, ok létu eftir þriðjung liðs at gæta skipa. Þeir gengu upp með ánni, milli ok skógarins. Þá varð brátt fyrir þeim þorp eitt, ok bygðu þar margir bændr. Liðit rann ór þorpinu á landit, þar er mátti, þegar er vart varð við herinn, enn víkingar sóttu eftir þeim. Var þá síðan annat þorp ok it þriðja. Liðit flýði alt þat er því kom við. Þar var jafnlendi ok sléttur miklar. Díki vóru skorin víða um landit ok stóð í vatn. Höfðu þeir lukt um akra sína ok eng, enn í sumum stöðum vóru settir staurar stórir yfir díkin. Þar er fara skyldi, vóru brúar ok lagðir yfir viðir. Landsfólkit flýði í mörkina. Enn er víkingar vóru komnir langt í bygðina, þá söfnuðust Frísir saman í skóginum, ok er þeir höfðu aukin þrjú hundruð manna, þá stefna þeir í móti víkingum, ok ráða til orrostu við þá. Varð þar harðr bardagi, enn svá lauk at Frísir flýðu, enn víkingar ráku flóttann. Dreifðist bæjarliðit víðs

vegar, þat er undan fór. Gerðu þeir ok svá er eftir fóru. Kom þá svá, at fáir fóru hvárir saman. Egill sótti þá hart eftir þeim ok fáir menn með honum, enn mjök margir fóru undan. Kómu Frísir þar at, er díki var fyrir þeim ok fóru þar yfir. Síðan tóku þeir af bryggjuna. Þá koma þeir Egill at öðrum megin. Réð Egill þegar til ok hljóp yfir díkit, enn þat var ekki annarra manna hlaup, enda réð ok engi til. Ok er Frísir sá þat, þá sækja þeir at honum enn hann varðist, þá sóttu at honum ellifu menn, enn svá lauk þeira viðskiftum, at hann feldi þá alla. Eftir þat skaut Egill yfir brúnni, ok fór þá aftr yfir díkit. Sá hann þá, at lið þeira alt hafði snúit til skipanna. Hann var þá staddr nær skóginum. Síðan fór Egill fram með skóginum ok svá til skipanna, at hann átti kost skógarins, ef hann þyrfti. Víkingar höfðu haft mikit herfang ofan ok strandhögg, ok er þeir kómu til skipanna, hjuggu sumir búféit, sumir fluttu út á skipin fén þeira. Sumir stóðu fyrir ofan í skjaldborg, þvíat Frísir vóru ofan komnir ok höfðu mikit lið ok skutu á þá. Höfðu Frísir þá aðra fylking. Ok er Egill kom ofan ok hann sá, hvat títt var, þá rann hann at sem snarast, þar sem múginn stóð. Hafði hann kesjuna fyrir sér, ok tók hana tveim höndum, enn kastaði skildinum á bak sér. Hann lagði fram kesjunni, ok stökk frá alt, þat er fyrir

stóð, ok gafst honum svá rúm fram í gegnum fylkingina. Sótti hann svá ofan til manna sinna. Þóttust þeir hafa hann ór helju heimtan. Ganga þeir síðan á skip sín ok heldu brott frá landi. Sigldu þeir þá til Danmerkr. Ok er þeir koma til Limafjarðar ok lágu at Hálsi, þá átti Arinbjörn húsþing við lið sitt, ok sagði mönnum fyriræltan sína, — „nú mun ek“, segir hann, „leita á fund Eiríkssona við lið þat er mér vill fylgja. Ek hefi nú spurt, at þeir bræðr eru hér í Danmörku ok halda sveitir stórar, ok eru á sumrum í hernaði, enn sitja á vetrum hér í Danmörk. Vil ek nú gefa leyfi öllum mönnum at fara til Noregs, þeim er þat vilja, heldr enn fylgja mér. Sýnist mér þat ráð, Egill, at þú snúir aftr til Noregs, ok leitir enn sem bráðast til Íslands út, þegar vit skiljumst“. Síðan skiftust menn á skipunum. Réðust þeir til Egils er aftr vildu fara til Noregs, enn hitt var meiri hluti liðs miklu, er fylgdi Arinbirni. Skildust þeir Arinbjörn ok Egill með blíðu ok vináttu. Fór Arinbjörn á fund Eiríkssona ok í sveit með Haraldi gráfeld, fóstrsyni sínum, ok var síðan með honum, meðan þeir lifðu báðir. Egill fór norðr í Víkina ok helt inn í Oslóarfjörð. Var þar fyrir kaupskip hans, þat er hann hafði látit flytja suðr um várit. Þar var ok varnaðr hans ok sveitungar, þeir er með skipinu höfðu farit. Þorsteinn Þóruson kom á

fund Egils, ok bauð honum með sér at vera um vetrinn ok þeim mönnum, er hann vildi með sér hafa. Egill þektist þat, lét upp setja skip sín ok færa varnað til staðar. Enn lið þat er honum fylgdi, vistaðist þar sumt, enn sumir fóru norðr í land, þar er þeir áttu heimili. Egill ferr til Þorsteins ok vóru þar saman tíu eða tólf. Var Egill þar um vetrinn í góðum fagnaði.

**70.** (Sendiferð til Vermalands). Haraldr konungr enn hárfagri lagði undir sik austr Vermaland. Vermaland hafði unnit fyrstr Óláfr trételgja, faðir Hálfdanar hvítbeins, er fyrst var konungr í Noregi sinna kynsmanna, enn Haraldr konungr var þaðan kominn at langfeðgatali, ok höfðu þeir allir langfeðgar ráðit fyrir Vermalandi ok tekit skatta af, enn setta menn yfir til landsgæzlu. Ok er Haraldr konungr var gamall vorðinn, þá réð fyrir Vermalandi jarl sá er Arnfiðr hét. Var þar þá sem mjök víða annarsstaðar, at skattar greiddust verr, enn þá er Haraldr konungr var á léttasta skeiði aldrs, svá ok, þá er synir Haralds deildu um ríki í Noregi. Var þá lítt sét eftir um skattlöndin, þau er fjarri lágu. Enn þá er Hákon sat í friði, þá leitaði hann eftir um ríki þat alt, er Haraldr faðir hans hafði haft. Hákon konungr hafði sent menn austr á Vermaland tólf saman. Höfðu þeir fengit skatt af jarlinum. Ok er þeir fóru aftr um Eiðaskóg, þá kómu at þeim stigamenn

ok drápu þá alla. Á sömu leið fór um aðra sendimenn, er Hákon konungr sendi austr á Vermaland, at menn vóru drepnir enn fé kom eigi aftr. Var þat þá sumra manna mál, at Arnfiðr jarl mundi setja menn sína til at drepa menn konungsins, enn hafa *féit* at færa jarlinum. Þá sendir Hákon konungr hina þriðju menn. Var hann þá í Þrándheimi, ok skyldu þeir fara í Vík austr til fundar við Þorstein Þóruson með þeim orðum, at hann skyldi fara austr á Vermaland, at heimta skatta konungi til handa, enn at öðrum kosti skyldi Þorsteinn fara ór landi, þvíat konungr hafði þá spurt, at Arinbjörn, móðurbróður hans, var kominn suðr til Danmerkr ok var með Eiríkssonum; þat ok með, at þeir höfðu þar miklar sveitir ok vóru í hernaði um sumrum. Þótti Hákoni konungi þeir allir saman ekki trúligir, því at honum var ván ófriðar af Eiríkssonum, ef þeir hefði styrk nökkurn til þess, at gera uppreist móti Hákoni konungi, þá gerði *hann* til allra frænda Arinbjarnar ok mága eða vina, rak hann þá marga ór landi, eða gerði þeim aðra afarkosti. Kom þat ok þar fram, er Þorsteinn var, at konungr gerði fyrir þá sök þetta kostaboð. Maðr sá er erendi þetta bar, hann var allra landa maðr, hafði verit löngum í Danmörk ok í Svíaveldi. Var honum þar alt kunnigt fyrir, bæði um leiðir ok mannadeili. Hann hafði ok víða farit um Noreg. Ok er hann bar

þetta mál Þorsteini Þórusyni, þá segir Þorsteinn Agli, með hverjum erendum þessir menn fóru, ok spurði, hversu fara skyldi. Egill segir: „Auðsætt lízt mér um orðsending þessa, at konungr vill þik ór landi, sem aðra frændr Arinbjarnar, þvíat þetta kalla ek forsending svá göfgum manni, sem þú ert. Er þat mitt ráð, er þú kallir til tals við þik sendimenn konungs, ok vil ek vera við ræðu yðra; sjám þá, hvat í gerist“. Þorsteinn gerði sem hann mælti; kom þeim í talit. Sögðu þá sendimenn alt hit sanna frá erendum sínum ok orðsending konungs, at Þorsteinn skyldi fara þessa sendiför, enn vera útlægr at öðrum kosti. Þá segir Egill: „Sé ek gerla um erendi yðvart, ef Þorsteinn vill eigi fara; þá munu þér fara skulu at heimta skattinn“. Sendimenn sögðu, at hann gat rétt. „Eigi mun Þorsteinn fara þessa ferð, þvíat hann er ekki þess skyldr, svá göfugr maðr, at fara svá órífligar sendiferðir, enn hitt mun Þorsteinn gera er hann er til skyldr, at fylgja konungi innanlands ok útanlands, ef konungr vill þess krefja; svá ok, ef þér vilið nökkura menn hafa heðan til þessar ferðar, þá mun yðr þat heimult, ok allan farargreiða þann, er þér vilit Þorsteini til segja“. Síðan töluðu sendimenn sín í milli, ok kom þat ásamt með þeim, ef Egill vildi fara í ferðina — „er konungi“, sögðu þeir, „allilla til hans, ok mun honum þykja vár ferð allgóð, ef

vér komum því til leiðar, at hann sé drepinn. Má hann þá reka Þorstein ór landi, ef honum líkar". Síðan segja þeir Þorsteini, at þeir láta sér líka, ef Egill ferr, ok siti Þorsteinn heima. „Þat skal þá vera", segir Egill, „at ek mun Þorstein undan ferð þessi *leysa;* eða hversu marga menn þykizt þér þurfa heðan at hafa?" „Vér erum saman átta", sögðu þeir. „Viljum vér, at heðan fari fjórir menn. Eru vér þá tólf". Egill segir, at svá skyldi vera. Önundr sjóni ok þeir nökkurir sveitungar Egils höfðu farit út til sjóvar, at sjá um skip þeira ok annan varnað, er þeir höfðu selt til varðveizlu um haustit, ok kómu þeir eigi heim. Þótti Agli þat mikit mein, þvíat konungsmenn létu óðliga um ferðina, ok vildu ekki bíða.

**71.** (Vermalandsferð). Egill bjóst til ferðar ok þrír menn aðrir, hans förunautar. Höfðu þeir hesta ok sleða, svá sem konungsmenn. Þá váru snjóvar miklir ok breyttir vegir allir. Ráða þeir til ferðar, er þeir vóru búnir, ok óku upp á land, ok er þeir sóttu austr til Eiða, þá var þat á einni nótt, at fell snjór mikill, svá at ógerla sá veguna. Fórst þeim þá seint um daginn eftir, þvíat kafhlaup vóru, þegar af fór veginum. Ok er á leið daginn, dvöldust þeir ok áðu hestum sínum. Þar var nær skógarháls einn. Þá mæltu þeir við Egil: „Nú skiljast hér vegar, enn hér fram undan hálsinum býr bóndi sá, er

heitir Arnaldr, vinr várr. Munu vér förunautar fara þangat til gistingar, enn þér skuluð fara hér upp á hálsinn, ok þá er þér komið þar, mun brátt verða fyrir yðr bær mikill, ok er yðr þar vís gisting. Þar býr stórauðigr maðr, er heitir Ármóðr skegg, enn á morgin árdegis skulu vér hittast, ok fara annat kveld til Eiðaskógs. Þar býr góðr bóndi, er Þorfinnr heitir". Síðan skiljast þeir. Fara þeir Egill upp á hálsinn, enn frá konungsmönnum er þat at segja, at þegar er sýn fal í milli þeira Egils, þá tóku þeir skíð sín, er þeir höfðu haft, ok stigu þar á. Létu síðan ganga aftr á leið, sem þeir máttu. Fóru þeir nótt ok dag, ok sneru til Upplanda ok þaðan norðr um Dofrafjall, ok léttu eigi fyrr enn þeir kómu á fund Hákonar konungs, ok sögðu um sína ferð, sem farit hafði. Egill ok förunautar hans fóru um kveldit yfir hálsinn. Var þat skjótast af at segja, at þeir fóru þegar af veginum; var snjórinn mikill. Lágu hestarnir í kafi annat skeið, svá at draga varð upp. Þar vóru kleifar ok kjarrskógar nökkurir, enn um kjörrin ok kleifarnar var alltorsótt. Var þeim þá seinkan mikil at hestunum, enn mannfærðin en þyngsta. Mæddust þeir þá mjök, enn þó kómust þeir af hálsinum, ok sá þá fyrir sér bæ mikinn, ok sóttu þangat til. Ok er þeir kómu í túnit, þá sá þeir, at þar stóðu menn úti, Ármóðr ok sveinar hans. Köstuðust

þeir orðum á ok spurðust tíðenda. Ok er Ármóðr vissi, at þeir vóru sendimenn konungs, þá bauð hann þeim þar gisting. Þeir þektust þat. Tóku húskarlar Ármóðs við hestum þeira ok reiða, enn bóndi bað Egil ganga inn í stufu, ok þeir gerðu svá. Ármóðr setti Egil í öndvegi á hinn óæðra bekk, ok þar förunauta hans útar frá. Þeir ræddu mart um, hversu erfilliga þeir höfðu farit um kveldit, enn heimamönnum þótti mikit undr, er þeir höfðu fram komizt, ok sögðu, at þar væri engum manni fært, þó at snjólaust væri. Þá mælti Ármóðr: „Þykir yðr eigi sá beini beztr, at yðr sé borð sett ok gefinn náttverðr, enn síðan fari þér at sofa? Munu þér þá hvílast bezt“. „Þat líkar oss allvel“, segir Egill. Ármóðr lét þá setja þeim borð, enn síðan vóru settir fram stórir askar fullir af skyri. Þá lét Ármóðr, at honum þætti þat illa, er hann hafði eigi mungát at gefa þeim. Þeir Egill vóru mjök þyrstir af mæði. Tóku þeir upp askana ok drukku ákaft skyrit, ok þó Egill miklu mest. Engi kom önnur vistin fram. Þar var mart hjóna. Húsfreyja sat á þverpalli ok þar konur hjá henni. Dóttir bónda var á gólfinu, tíu vetra eða ellifu. Húsfreyja kallaði hana til *sín* ok mælti í eyra henni. Síðan fór mærin útar fyrir borðit, þar er Egill sat. Hon kvað:

„Því sendi mín móðir
mik við þik til fundar,

*at* orð bærak Agli,
at ér varir skyldið.
Hildr mælti þat horna:
Haga svá maga þínum,
eigu órir gestir
œðra nest á frestum".

Ármóðr laust meyna ok bað hana þegja — „mælir þú þat jafnan er verst gegnir". Mærin gekk á brott, enn Egill skaut niðr skyraskininum, ok var þá nær tómr. Vóru þá ok brott teknir askarnir frá þeim. Gengu þá ok heimamenn í sæti sín, ok vóru borð upp tekin um alla stufu, ok sett á vist. Því næst kómu inn sendingar, ok vóru þá settar fyrir Egil sem fyrir aðra menn. Því næst var öl inn borit, ok var þat hit sterkasta munngát. Var þá brátt drukkinn einmenningr. Skyldi einn maðr drekka af dýrshorni. Var þar mestr gaumr at gefinn, er Egill var ok sveitungar hans; skyldu drekka sem ákafast. Egill drakk ósleitiliga fyrst langa hríð. Enn er förunautar hans gerðust ófærir, þá drakk hann fyrir þá, þat er þeir máttu eigi. Gekk svá til þess er borð fóru brott. Gerðust þá ok allir mjök drukknir, þeir er inni vóru, enn hvert full, er Ármóðr drakk, þá mælti hann: „Drekk ek til þín, Egill" — enn húskarlar drukku til förunauta Egils ok höfðu hinn sama formála. Maðr var til þess fenginn at bera þeim Agli hvert full, ok eggjaði sá mjök at þeir skyldi skjótt drekka. Egill mælti við förunauta

sína, at þeir skyldi þá ekki drekka, enn hann drakk fyrir þá, þat er þeir máttu eigi annan veg undan komast. Egill fann þá at honum mundi eigi svá búit eira. Stóð hann þá upp ok gekk um gólf þvert, þangat er Ármóðr sat. Hann tók höndum í axlir honum ok kneikti hann upp at stöfum. Síðan þeysti Egill upp ór sér spýju mikla ok gaus í andlit Ármóði í augun ok nasirnar ok í munninn. Rann svá ofan um bringuna, enn Ármóði var við andhlaup, ok er hann fekk öndinni frá sér hrundit, þá gaus upp spýja, enn allir mæltu þat er hjá vóru, húskarlar Ármóðs, at Egill skyldi fara allra manna armastr, ok hann væri enn versti maðr af þessu verki, er hann skyldi eigi ganga út, er hann vildi spýja, enn verða eigi at undrum inni í drykkjustufunni. Egill segir: „Ekki er at hallmæla mér um þetta, þótt ek gera sem bóndi gerir; spýr hann af öllu afli, eigi síðr enn ek“. Síðan gekk Egill til rúms síns ok settist niðr; bað þá gefa sér at drekka. Þá kvað Egill við raust:

„Títt erumk verð at vátta,
vætti berk at hættak
þung til þessar göngu,
þinn, kinnalá minni.
Margr velr gestr þars gistir
gjald, finnumk vit sjaldan,
(Ármóði liggr) œðra
(öldra dregg í skeggi)“.

Ármóðr hljóp upp ok út, enn Egill bað gefa

sér drekka. Þá mælti húsfreyja við þann mann, er þeim hafði skenkt um kveldit, at hann skyldi gefa drykk, svá at þá skyrti eigi, meðan þeir vildu drekka. Síðan tók hann dýrshorn mikit ok fyldi ok bar til Egils. Egill kneyfði af horninu í einum drykk. Þá kvað hann:

„Drekkum ór þótt Ekkils
eykríðr beri tíðum
horna sund at hendi,
hvert full bragar Ulli.
Leifik vætr, þótt laufa
leikstœrir mér fœri
hrostatjörn í horni,
horns, til dags at morni“.

Egill drakk um hríð ok kneyfði hvert horn, er at honum kom, enn lítil var þá gleði í stufunni, þótt nökkurir menn drykki. Síðan stendr Egill upp ok förunautar hans, ok taka vápn sín af veggjum, er þeir höfðu upp fest, ganga síðan til kornhlöðu þeirar, er hestar þeira vóru inni, Lögðust þeir þar niðr í hálm ok sváfu um nóttina.

72. (Egill fann Ármóð skegg). Egill stóð upp um morgininn, þegar er dagaði. Bjuggust þeir förunautar ok fóru þegar, er þeir vóru búnir, aftr til bæjarins ok leita Ármóðs, ok er þeir kómu til skemmubúrs þess, er Ármóðr svaf í ok kona hans ok dóttir, þá hratt Egill upp hurðinni ok gekk til rekkjunnar Ármóðs; hann brá þá sverði, enn annarri hendi greip hann í skegg

Ármóðs ok hnykti honum á stokk fram, enn kona Ármóðs ok dóttir hljópu upp ok báðu Egil at hann dræpi eigi Ármóð. Egill segir at hann skyldi þat gera fyrir þeira sakir — „þvíat þat er makligt, enn hefði hann verðleika til at ek dræpa hann“. Þá kvað Egill:

„Nýtr illsögull ýtir
armlinns konu sinnar
(oss's við ógnar hvessi
óttalaust) ok dóttur.
Þegi munk við þenna
þykkjask verðr fyr drykkju
grepp (skulum á veg vappa
vítt) svá gøru hlíta“.

Síðan sneið Egill af honum skeggit við hökuna. Síðan krækti hann fingrinum í augat, svá at úti lá á kinninni. Eftir þat gekk Egill á brott ok til förunauta sinna. Fara þeir þá leið sína, kómu at dagverðarmáli til bæjar Þorfinns. Hann bjó við Eiðaskóg. Þeir Egill kröfðu dagverðar ok æja hestum sínum. Þorfinnr bóndi lét heimilt skyldu þat. Ganga þeir Egill þá inn í stufu. Egill spurði ef Þorfinnr hefði varr orðit við förunauta hans — „höfðu vér hér mælt mót með oss“. Þorfinnr segir svá: „Fóru hér sex menn saman nökkuru fyrir dag, ok vóru vápnaðir mjök“. Þá mælti húskarl Þorfinns: „Ek ók í nótt eftir viði ok fann ek sex menn á leið, ok vóru þat húskarlar Armóðs, ok var þat miklu fyrir dag. Nú veit ek eigi, hvárt þeir

munu allir einir ok hinir sex menn, er þú sagðir frá". Þorfinnr segir, at þeir menn er hann hafði hitt, höfðu síðar farit, enn húskarlinn kom heim með viðarhlassit. Ok er þeir Egill sátu ok mötuðust, þá sá Egill *at* kona sjúk lá í þverpallinum. Egill spurði Þorfinn, hver kona sú væri, er þar var svá þungliga haldin. Þorfinnr segir, at hon hét Helga ok var dóttir hans, — „hefir hon haft langan vanmátt, ok þat var kröm mikil. Fekk hon enga nótt svefn ok var sem hamstola væri". „Hefir nokkurs í verit leitat", segir Egill, „um mein hennar?" Þorfinnr segir: „Ristnar hafa verit rúnar, ok er sá einn bóndason heðan skamt í brott, er þat gerði, ok er síðan miklu verr enn áðr, eða kantu, Egill, nökkut gera at slíkum meinum?" Egill segir: „Vera kann at ekki spillist við, þó at ek koma til". Ok er Egill var mettr, gekk hann þar til er konan lá, ok ræddi við hana. Hann bað þá hefja hana ór rúminu ok leggja undir hana hrein klæði, ok nú var svá gert. Síðan rannsakaði hann rúmit, er hon hafði hvílt í, ok þar fann hann tálkn, ok vóru þar á rúnarnar. Egill las þær, ok síðan tegldi hann af rúnarnar, ok skóf þær í eld niðr. Hann brendi tálknit alt ok lét bera í vind klæði þau er hon hafði haft áðr. Þá kvað Egill:

„Skalat maðr rúnar rísta,
nema ráða vel kunni.

Þat verðr mörgum manni,
es of myrkvan staf villisk.
Sák á tegldu tálkni
tíu launstafi ristna.
Þat hefir lauka lindi
langs of trega fengit“.

Egill reist rúnar ok lagði undir hægindit í hvíluna, þar er hon hvíldi. Henni þótti sem hon vaknaði ór svefni, ok sagði, at hon var þá heil, enn þó var hon máttlítil, enn faðir hennar ok móðir urðu stórum fegin. Bauð Þorfinnr, at Egill skyldi þar hafa allan forbeina, þann er hann þóttist þurfa.

**73.** (Egill kom til Álfs bónda). Egill segir förunautum sínum, at hann vill fara ferð sína ok bíða eigi lengr. Þorfinnr átti son, er Helgi hét. Hann var vaskligr maðr. Þeir feðgar buðu Agli föruneyti sitt um skóginn. Sögðu þeir, at þeir vissi til sanns, at Ármóðr skegg hafði gert menn sex á skóginn fyrir þá, ok þó líkara, at vera mundi fleiri sátirnar á skóginum, ef hin fyrsta slyppi. Vóru þeir Þorfinnr fjórir saman, er til ferðar buðust. Þá kvað Egill vísu:

„Veizt ef ferk með fjóra,
færat sex, þás vexli
hlífa hneitiknífum
hjaldrgoðs við mik roðnum.
Enn ef ek em með átta,
erat þeir tolf, er skelfi
at samtogi sverða,
svartbrúnum mér hjarta“.

Þeir Þorfinnr réðu þessu, at þeir fóru á skóginn með Agli, ok vóru þeir þá átta saman. Ok er þeir kómu þar er sátin var fyrir, þá sá þeir þar menn. Enn þeir húskarlar Ármóðs, er þar sátu, sá, at þar fóru átta menn, ok þótti þeim þá ekki færi til at ráða. Leyndust þá í brott á skóginn. Enn er þeir Egill kómu þar sem njósnarmenn höfðu verit, þá sá þeir, at ei var alt fritt. Þá mælti Egill, at þeir Þorfinnr skyldu aftr fara, enn þeir buðu at fara lengra. Egill vildi þat eigi ok bað þá fara heim, ok þeir gerðu svá ok hurfu aftr, enn þeir Egill heldu fram ferðinni ok vóru þá fjórir saman. Ok er á leið daginn, urðu þeir Egill varir við, at þar vóru sex menn á skóginum, ok þóttust vita, at þar mundu vera húskarlar Ármóðs. Njósnarmenn hljópu upp ok réðu at þeim, enn þeir í mót, ok varð sá fundr þeira, at Egill feldi tvá menn, enn hinir er eftir vóru hljópu þá í skóginn. Síðan fóru þeir Egill sína leið, ok gerðist þá ekki til tíðenda, áðr þeir kómu af skóginum, ok tóku gisting við skóginn at bónda þess er Álfr hét ok var kallaðr Álfr enn auðgi. Hann var maðr gamall ok auðigr at fé, maðr einrænn, svá at hann mátti ekki hafa hjón með sér, nema fá ein. Góðar viðtökur hafði Egill þar, ok var Álfr við hann málreitinn. Spurði Egill margra tíðenda, enn Álfr sagði slíkt er hann spurði. Þeir ræddu flest um jarl-

inn ok um sendimenn Noregs konungs, þá er fyrr höfðu farit austr þangat, at heimta skatt. Álfr var engi vinr jarls í ræðum sínum.

74. (Egill heimti skatt). Egill bjóst snemma um morgininn til farar ok þeir förunautar, enn at skilnaði gaf Egill Álfi loðólpu. Álfr tók þakksamliga við gjöfinni, ok — „má hér gera mér af loðkápu", — ok bað Egil þar koma til sín, er hann færi aftr. Skildust þeir vinir, ok fór Egill ferðar sinnar ok kom aftan dags til hirðar jarlsins Arnviðar, ok fekk þar allgóðar viðtökur. Var þeim förunautum skipat næst öndvegis manni. Ok er þeir Egill höfðu þar verit um nótt, þá bera þeir upp erendi sín við jarlinn ok orðsending konungs ór Noregi, ok segja, at hann vill hafa skatt þann allan af Vermalandi, sem áðr hefir eftir staðit, síðan Arnviðr var þar yfir settr. Jarlinn segir, at hann hefði af höndum greitt allan skatt ok fengit í hendr sendimönnum konungs — „enn eigi veit ek, hvat þeir hafa síðan við gert, hvárt þeir hafa fengit konungi eða hafa þeir hlaupit af landi á brott með, enn því at þér berið sannar jartegnir til, at konungr hefir yðr sent, þá mun ek greiða skatt þann allan, sem hann á at réttu, ok fá yðr í hönd, enn eigi vil ek ábyrgjast síðan, hvernig yðr ferst með". Dveljast þeir Egill þar um hríð, enn áðr Egill færi í brott, greiðir jarl þeim skattinn. Var þat sumt í silfri,

sumt í grávöru. Ok er þeir Egill vóru búnir, þá fóru þeir aftr á leið. Segir Egill jarli at skilnaði þeira: „Nú munum vér færa konungi skatt þann er vér höfum við tekit, enn þat skaltu vita jarl, at þetta fé er miklu minna, enn konungr þykist hér eiga, ok er þat þó ekki talit, er honum mun þykja, at þér eigit at gjalda aftr sendimenn hans manngjöldum, þá er menn kalla, at þér munuð hafa drepa látit“. Jarl segir, at þat var eigi satt. Skildust þeir at þessu. Ok er Egill var á brottu, þá kallaði jarl til sín bræðr tvá, er hvártveggi hét Úlfr. Hann mælti svá: „Egill sjá hinn mikli, er hér var um hríð, ætla ek at oss muni allóþarfr, er hann kemr til konungs. Megu vér af því marka, hvernig hann mun bera fyrir konung várt mál, er hann jós slíku í augu oss upp, aftöku konungsmanna. Nú sknlu þit fara eftir þeim ok drepa þá alla, ok láta þá ekki bera róg þetta fyrir konung. Þyki mér þat ráðligast, at þér sætið þeim á Eiðaskógi; hafið með yðr menn svá marga, at þat sé víst, at engi þeira komist undan, enn þér fáit ekki mannspell af þeim“. Nú búast þeir bræðr til ferðar, ok höfðu þrjá tigu manna. Fóru þeir á skóginn ok kunnu þeir þar hvern stíg fyrir. Heldu þeir þá njósn um ferð Egils. Á skóginum vóru tvennar leiðir; var önnur at fara yfir ás nökkurn, ok var þar klif bratt ok einstígi yfir at fara; var sú

leiðin skemri, enn önnur var fyrir framan ásinn at fara, ok vóru þar fen stór ok höggnar á lágir, ok var þar ok einstígi yfir at fara, ok sátu fimtán í hvárum stað.

75. (Þeir Egill drápu hálfan þriðja tug manna). Egill fór til þess er hann kom til Álfs, ok var þar um nótt í góðum beinleika. Eftir um morgininn stóð hann upp fyrir dag. Bjóst þá til ferðar, ok er þeir sátu yfir dagverði, þá kom þar Álfr bóndi. Hann mælti: „Snemma búizt þér, Egill, enn hitt mundi mitt ráð, at hrapa ekki ferðinni, sjást heldr fyrir, þvíat ek ætla, at menn muni settir fyrir yðr á skóginn. Ek hefi ekki menn til at fá þér til fylgdar, svá at þér sé styrkr at. Enn þat vil ek bjóða, at þú dvelist hér með mér, þar til er ek kann þat segja þér, at fært mun um skóginn“. Egill segir: „Þat mun ekki nema hégómi einn. Mun ek fara veg minn, sem ek hefi áðr ætlat“. Þeir Egill bjuggust til farar, enn Álfr latti, ok bað hann aftr fara, ef hann yrði varr við, at vegrinn væri troðinn; sagði, at þar hefði engi maðr farit yfir skóginn austan, síðan er Egill fór austr, — „nema þessir hafi farit, er mér er ván at yðr vili finna“. „Hvat ætlar þú, hversu margir þeir muni vera, ef svá er, sem þér segið? Ekki eru vér uppnæmir, þótt nökkurr sé liðsmunr“. Hann segir: „Ek var farinn fram til skógarins ok húskarlar mínir með mér, ok kómu vit á mannafar, ok lá sú slóð fram á

skóginn, ok mundu þeir hafa verit margir saman. Enn ef þú trúir eigi því er ek segi þér, þá far þangat, ok sjá slóðina, enn snú aftr, ef þér sýnist, sem ek segi þér". Egill fór sína leið. Ok er þeir kómu á veginn, þann er á skóginn lá, þá sá þeir bæði manna spor ok hrossa. Þá mæltu förunautar Egils, at þeir skyldu aftr hverfa. „Fara munu vér", sagði Egill; „þyki mér þat ekki undarligt, þótt menn hafi farit um Eiðaskóg, þvíat þat er alþýðuleið". Síðan fóru þeir ok helzt ferillinn, ok var þá fjöldi spora, ok er þeir koma þar, er leiðir skildi, þá skildi ok slóðina, ok var þá jammikil í hváru stað. Þá mælti Egill: „Nú þyki mér vera mega, at Álfr hafði satt sagt. Skulu vér nú búast um, svá sem oss er ván, at fundr várr muni verða". Síðan kasta þeir Egill af sér skikkjum ok öllum lausa klæðum. Leggja þeir þat í sleða. Egill hafði haft í sleða sínum bastlínu mjök mikla, þvíat þat er siðr manna, er aka langar leiðir, *at* hafa með sér lausataugir, ef at reiða þarf at gera. Egill tók hellustein mikinn ok lagði fyrir brjóst sér ok kviðinn. Síðan rábendi hann þar at tauginni ok vafði henni sívafi ok bjó svá alt upp um herðarnar. Þá kvað Egill:

*
* *

*(Eiða)*skógr er á þann veg, at mörk er stór alt at bygðinni hvárritveggju, enn um miðjan skóg-

inn er víða smáviði ok kjörr, enn sumstaðar skóglaust með öllu. Þeir Egill sneru leiðina skemri, er yfir hálsinn lá. Allir höfðu þeir skjöldu ok hjálma ok höggvápn ok lagvápn. Egill fór fyrir þeim, ok er þeir fóru at hálsinum, þá var þar undir niðri skógr, enn skóglaust uppi á klifinu, enn er þeir vóru komnir upp í klifit, þá hljópu sjau menn ór skóginum ok upp í kleifina eftir þeim, ok skutu at þeim. Þeir Egill snerust við, ok stóðu þeir jamfram um þvera götuna. Þá kómu aðrir menn ofan at þeim á hamarinn, ok grýttu þeir þaðan á þá, ok var þeim þat miklu hættara. Þá mælti Egill: „Nú skulu þér fara á hæli undan í kleifina ok hlífast sem þér megið, enn ek mun leita upp á bergit". Þeir gerðu svá. Ok er Egill kom upp ór klifinu, þá vóru þar fyrir átta menn, ok gengu senn allir at honum ok sóttu hann. Enn ekki er at segja frá höggvaviðskiftum; svá lauk, at hann feldi þá alla. Síðan gekk hann á bergit fram, ok bar ofan grjót ok stóð þar ekki við. Lágu þar eftir þrír enir vermsku, enn fjórir kómust í skóginn, ok vóru þeir sárir ok barðir. Síðan tóku þeir Egill hesta sína ok fóru fram á leið til þess er þeir kómu yfir hálsinn, enn þeir enir vermsku, er undan höfðu komizt, gerðu njósn félögum sínum, þeim er við fenin vóru. Stefndu þeir þá fram hina neðri leiðina, ok svá fram fyrir þá Egil á veginn. Þá sagði Úlfr fé-

lögum sínum: „Nú skulu vér fara at ráðum við þá, stilla svá til, at þeir nái eigi at renna. Hér er þannig til farit", segir hann, „at leiðin liggr fram með hálsinum, enn feninu víkr at upp, ok er þar hamarr fyrir ofan, enn brautin liggr þar fram í milli ok er eigi breiðari enn götubreidd. Skulu sumir fara fram um hamarinn, ok taka við þeim, ef þeir vilja fram, enn sumir skulu leynast hér í skóginum ok hlaupa síðan á bak þeim, er þeir koma fram um. Gætum svá til, at engi komist undan". Þeir gerðu svá sem Úlfr mælti. Fór Úlfr fram um bergit, ok tíu menn með honum. Þeir Egill fara sína leið, ok vissu ekki til þessar ráðagerðar, fyrr enn þeir kómu í einstígit. Þá hljópu þar menn á bak þeim, ok báru þegar vápn á þá. Þeir Egill snerust í móti ok vörðust. Nú drífa ok menn at þeim, þeir er verit höfðu fyrir framan hamarinn, ok er Egill sá þat, snerist hann í mót þeim. Var þar skamt höggva í millum, ok feldi Egill þar suma í götunni, enn sumir hurfu aftr, þar er jamlendit var meira. Egill sótti þá eftir þeim. Þar fell Úlfr, ok at lyktum drap Egill þar einn ellifu menn. Síðan sótti hann þar til, er förunautar hans vörðu götuna fyrir átta mönnum. Vóru þar hvárirtveggju sárir. Ok er Egill kom til, þá flýðu þegar hinir vermsku, enn skógrinn var við sjálft. Kómust þar undan fimm, ok allir sárir mjök, enn þrír fellu þar. Egill

hafði mörg sár ok engi stór. Fóru þeir nú sína leið. Hann batt sár förunauta sinna, ok vóru engi banvæn. Settust þeir þá í sleða, ok óku þat er eftir var dagsins. Enn þeir enir vermsku, er undan kómust, tóku hesta sína, ok drógust austr af skóginum til bygða. Vóru þá bundin sár þeira. Fá þeir sér föruneyti, til þess er þeir kómu á fund jarls, ok segja honum sínar ófarar. Þeir segja, at hvártveggi Úlfr er fallinn, ok dauðir vóru hálfr þriði tugr manna, enn fimm enir kómust undan með lífi, ok þó þeir allir sárir ok barðir. Jarl spurði, hvat þá væri tíðenda um Egil ok hans förunauta. Þeir svöruðu: „Ógerla vissu vér, hversu mjök þeir vóru sárir, enn ærit djarfliga sóttu þeir at oss; þá er vér vórum átta, enn þeir fjórir, þá flýðum vér. Kómust fimm á skóginn, enn þrír létust, enn eigi sáum vér annat, enn þeir Egill væri þá spánýir“. Jarlinn sagði, at þeira ferð var orðin en versta — „mundi ek kunna því, at vér hefðim mannalát mikit, ef þér hefðið drepit þá Norðmennina, enn nú er þeir koma vestr af skóginum ok segja þessi tíðendi Noregskonungi, þá eigu vér af honum ván hinna mestu afarkosta“.

76. (Egill kom til Þorfinns). Egill fór til þess er hann kom vestr af skóginum. Sóttu þeir til Þorfinns at kveldi, ok fengu þar allgóðar viðtökur. Vóru þá bundin sár þeira Egils. Nökk-

urar nætr vóru þeir þar. Helga dóttir bónda var þá á fótum ok heil meina sinna. Þakkaði hon ok öll þau Agli þat. Hvíldu sik þar ok eyki sína. Enn maðr sá er Helgu hafði rúnar ristit var þaðan skamt á brott. Kom þat þá upp, at hann hafði beðit hennar, enn Þorfinnr vildi eigi gifta hana. Þá vildi bóndason glepja hana, enn hon vildi eigi. Þá þóttist *hann* rísta henni manrúnar, enn hann kunni þat eigi, ok hafði hann þat ristit henni er hon fekk meinsemi af. Ok er Egill var til brottfarar búinn, þá fylgdi Þorfinnr honum, ok þeir feðgar á götu. Vóru þeir þá saman tíu eða tólf. Fóru þeir þá dag þann allan með þeim til varúðar fyrir Ármóði ok húskörlum hans. Ok er þessi tíðendi spurðust, at þeir Egill höfði barizt við ofrefli liðs á skóginum ok sigrat, þá þótti Ármóði engi ván, at hann mundi mega reisa rönd við Agli. Sat Ármóðr því heima við alla sína menn. Þeir Egill ok Þorfinnr skiftust gjöfum við at skilnaði, ok mæltu til vináttu með sér. Síðan fóru þeir Egill leið sína, ok er ekki sagt, at til tíðenda yrði í ferð þeira, áðr þeir kómu til Þorsteins. Vóru þá grædd sár þeira. Dvöldust þeir Egill þar til várs. Enn Þorsteinn fekk sendimenn til Hákonar konungs, at færa honum skatt þann er Egill hafði sótt til Vermalands. Ok er þeir kómu á konungs fund, þá sögðu þeir honum tíðendi þau er gerzt höfðu í ferð þeira

Egils, ok færðu honum skattinn. Konungr þóttist þá vita, at þat mundi satt vera, er áðr hafði hann grunat um, at Arnviðr jarl mundi hafa látit drepa sendimenn hans tvenna, er hann hafði austr sent. Sagði konungr, at Þorsteinn skyldi þá hafa landsvist ok vera í sætt við hann. Fara sendimenn síðan heimleiðis. Ok er þeir koma aftr til Þorsteins, þá segja þeir honum, at konungr lét vel yfir þessi ferð, ok Þorsteinn skyldi þá vera í sætt ok vináttu við konung.

Hákon konungr fór í Vík austr um sumarit, enn þaðan gerði hann ferð sína austr á Vermaland með mikit lið. Arnviðr jarl flýði undan, enn konungr tók stór gjöld af bóndum þeim, er honum þótti í sökum við sik, svá sem sagt er af þeim er skattinn sóttu. Setti hann þar yfir jarl annan, ok tók gisla af honum ok bóndum. Hákon konungr fór í þeiri ferð víða um Gautland it vestra ok lagði þat undir sik, svá sem sagt er í sögu hans, ok finst í kvæðum þeim er *um* hann hafa ort verit. Þá er ok sagt, at hann fór til Danmerkr ok herjaði þar víða. Þá hrauð hann tólf skip af Dönum með tveim skipum, ok þá gaf hann konungsnafn Tryggva Óláfssyni, bróðursyni sínum, ok vald yfir Víkinni austr. Egill bjó kaupskip sitt um sumarit ok réð þar til föruneyti, enn langskip þat er hann hafði haft um haustit ór Danmörku gaf hann Þorsteini at skilnaði. Þorsteinn gaf Agli góð-

ar gjafir, ok mæltu til mikillar vináttu sín í milli. Egill gerði sendimenn til Þórðar á Aurland, mágs síns, ok fekk honum umboð sitt, at skipa jarðir þær er Egill átti í Sogni ok á Hörðalandi, ok bað hann selja, ef kaupendr væri til. Ok er Egill var búinn ferðar sinnar ok byr gaf, þá sigldu þeir út eftir Víkinni, ok svá leið sína norðr fyrir Noreg, ok síðan í haf út. Byrjaði þeim til góðrar hlítar. Kómu af hafi í Borgarfjörð, ok helt Egill skipinu inn eftir firðinum ok til hafnar skamt frá bæ sínum, ok lét heim flytja varnat sinn, enn ráða skipi til hlunns. Egill fór heim til bús síns. Urðu menn honum fegnir. Dvaldist Egill þar þann vetr.

77. (Dráp Þórðar Lambasonar). Þá er þetta var tíðenda, at Egill var út kominn ór þessi ferð, þá var heraðit albygt. Vóru þá andaðir allir landnámamenn, enn synir þeira lifðu eða sonarsynir ok bjuggu þeir þá í heraði. Ketill gufa kom til Íslands, þá er land var mjög bygt. Hann var hinn fyrsta vetr at Gufuskálum á Rosmhvalanesi. Ketill hafði komit vestan um haf af Írlandi. Hann hafði með sér þræla marga írska. Lönd vóru öll bygð á Rosmhvalanesi þann tíma. Réðst Ketill því þaðan í brott ok inn á nes, ok sat annan vetr á Gufunesi ok fekk þar engan ráðstafa. Síðan fór hann inn í Borgarfjörð, ok sat þar hinn þriðja vetr, er síðan er kallat *at* Gufuskálum, enn áin Gufá, er

þar fellr í ofan, er hann hafði skip sitt í um vetrinn. Þórðr Lambason bjó þá á Lambastöðum. Hann var kvángaðr ok átti son er Lambi hét. Hann var þá vaxinn maðr, mikill ok sterkr at jöfnum aldri. Eftir um sumarit, þá er menn riðu til þings, reið Lambi til þings. Enn Ketill gufa var þá farinn vestr í Breiðafjörð, at leita þar um bústaði. Þá hljópu þrælar hans á brott. Þeir kómu fram um nótt at Þórðar á Lambastöðum, ok báru þar eld at húsum, ok brendu þar inni Þórð ok hjón hans öll, enn brutu upp búr hans ok báru út gripi ok vöru. Síðan ráku þeir heim hross ok klyfjuðu, ok fóru síðan út til Álftaness. Þann morgin um sólarupprásarskeið kom Lambi heim, ok hafði hann sét eldinn um nóttina. Þeir vóru nökkurir menn saman. Hann reið þegar at leita þrælanna. Ríða þar menn af bæjum til móts við hann. Ok er þrælarnir sá eftirför þá, stefndu þeir undan, enn létu lausan ránfeng sinn. Hljópu sumir á Mýrar út, enn sumir út með sjó, til þess at fjörðr var fyrir þeim, þá sóttu þeir Lambi eftir þeim, ok drápu þar þann er Kóri hét — því heitir þar síðan Kóranes — enn Skorri ok ok Þormóðr ok Svartr gengu á kaf ok summu frá landi. Síðan leituðu þeir Lambi at skipum ok reru at leita þeira, ok fundu þeir Skorra í Skorraey, ok drápu hann þar. Þá reru þeir út til Þormóðsskers ok drápu þar Þormóð. Er

við hann skerit kent. Þeir hendu þrælana enn fleiri, þar sem síðan eru örnefni við kend. Lambi bjó síðan á Lambastöðum ok var gildr bóndi. Hann var rammr at afli; engi var hann uppivöðslumaðr. Ketill gufa fór síðan vestr í Breiðafjörð ok staðfestist í Þorskafirði Við hann er kendr Gufudalr ok Gufufjörðr. Hann átti Ýri dóttur Geirmundar heljarskinns. *Váli* var son þeira. Grímr hét maðr ok var Svertingsson. Hann bjó at Mosfelli fyrir neðan Heiði. Hann var auðigr ok ættstórr. Rannveig var systir hans sammæðra, er átti Þóroddr goði í Ölfusi. Var þeira son Skafti lögsögumaðr. Grímr var ok lögsögumaðr síðan. Hann bað Þórdísar Þórólfsdóttur, bróðurdóttur Egils ok stjúpdóttur. Egill unni Þórdísi engum mun minna enn sínum börnum. Hon var hin fríðasta kona. Enn fyrir því, at Egill vissi, at Grímr var maðr göfugr ok sá ráðakostr var góðr, þá var þat at ráði gert. Var Þórdís gift Grími. Leysti Egill þá af hendi föðurarf hennar. Fór hon til bús með Grími ok bjuggu þau lengi at Mosfelli.

78. (Óláfr fekk Þorgerðar). Óláfr hét maðr, son Höskulds Dalakolls sonar ok son Melkorku, dóttur Mýrkjartans Írakonungs. Óláfr bjó í Hjarðarholti í Laxárdal vestr í Breiðafjarðardölum. Óláfr var stórauðigr at fé. Hann var þeira manna fríðastr sýnum, er þá vóru á Íslandi.

Hann var skörungr mikill. Óláfr bað Þorgerðar dóttur Egils. Þorgerðr var væn kona ok kvenna mest, vitr ok heldr skapstór, enn hversdagliga kyrlát. Egill kunni öll deili á Óláfi, ok vissi, at þat gjaforð var göfugt, ok fyrir því var Þorgerðr gift Óláfi. Fór hon til bús með honum í Hjarðarholt. Þeira börn vóru þau Kjartan, Þorbergr, Halldórr, Steindórr, Þuríðr, Þorbjörg, Bergþóra. Hana átti Þórhallr goði Oddason. Þorbjörgu átti fyrr Ásgeirr Knattarson, enn síðar Vermundr Þorgrímsson. Þuríði átti Guðmundr Sölmundarson. Vóru þeira synir Hallr ok Víga-Barði. Özurr Eyvindarson, bróðir Þórodds í Ölfusi, fekk Beru, dóttur Egils. Böðvarr, son Egils, var þá frumvaxta. Hann var hinn efniligsti maðr, fríðr sýnum, mikill ok sterkr, svá sem verit hafði Egill eða Þórólfr á hans aldri. Egill unni honum mikit. Var Böðvarr ok elskr at honum. Þat var þá eitt sumar at skip var í Hvítá, ok var þar mikil kaupstefna. Hafði Egill þar keypt við margan, ok lét flytja heim á skipi, fóru húskarlar, ok höfðu skip áttært, er Egill átti. Þat var eitt sinn, at Böðvarr beiddist at fara með þeim, ok þeir veittu honum þat. Fór hann þá inn á völlu með húskörlum. Þeir vóru sex saman á áttæru skipi, ok er þeir skyldu út fara, þá var flæðrin síð dags, ok er þeir urðu hennar at bíða, þá fóru þeir um kveldit síð. Þá hljóp á útsynn-

ingr steinóði, enn þar gekk í móti útfallsstraumr. Gerði þá stórt á firðinum, sem þar kann oft verða. Lauk þar svá, at skipit kafði undir þeim, ok týndust þeir allir. Enn eftir um daginn skaut upp líkunum. Kom lík Böðvars inn í Einarsnes, enn sum kómu fyrir sunnan fjörðinn ok rak þangat skipit. Fanst þat inn við Reykjarhamar. Þann dag spurði Egill þessi tíðendi, ok þegar reið hann at leita lík*ama Böðvars*. Hann fann rétt lík Böðvars. Tók hann þat upp ok setti í kné sér, ok reið með út í Digranes til haugs Skallagríms. Hann lét þá opna hauginn ok lagði Böðvarr þar niðr hjá Skallagrími. Var síðan aftr lokinn haugrinn, ok var eigi fyrr lokit, enn um dagsetrs skeið. Eftir þat reið Egill heim til Borgar. Ok er hann kom heim, þá gekk hann þegar til lokrekkju þeirar, er hann var vanr at sofa í. Hann lagðist niðr ok skaut fyrir loku. Engi þorði at krefja hann máls, enn svá er sagt, þá er þeir settu Böðvar niðr, at Egill var búinn: hosan var strengd fast at beini, hann hafði fustans kyrtil rauðan, þröngvan upphlutinn, ok lázt at síðu. Enn þat er sögn manna, at hann þrútnaði svá, at kyrtillinn rifnaði af honum ok svá hosurnar. Enn eftir um daginn lét Egill ekki upp lokrekkjuna. Hann hafði þá ok engan mat né drykk. Lá hann þar þann dag ok nóttina eftir. Engi maðr þorði at mæla við hann, enn hinn

þriðja morgin, þegar er lýsti, þá lét Ásgerðr skjóta hesti undir mann, — reið sá sem ákafligast vestr í Hjarðarholt — ok lét segja Þorgerði þessi tíðendi öll saman, ok var þat um nónskeið, er hann kom þar. Hann sagði ok þat með, at Ásgerðr hefði sent henni orð at koma sem fyrst suðr til Borgar. Þorgerðr lét þegar söðla sér hest, ok fylgdu henni tveir menn. Riðu þau um kveldit ok nóttina, til þess er þau kómu til Borgar. Gekk Þorgerðr þegar inn í eldahús. Ásgerðr heilsaði henni, ok spurði, hvárt þau hefði náttverð etit. Þorgerðr segir hátt: „Engvan hefi ek náttverð haft, ok engan mun ek, fyrr enn at Freyju. Kann ek mér eigi betri ráð, enn faðir minn, vil ek ekki lifa eftir föður minn ok bróður". Hon gekk at lokhvílunni, ok kallaði: „Faðir, lúk upp hurðunni. Vil ek at vit farim eina leið bæði". Egill spretti frá lokunni. Gekk Þorgerðr upp í hvílugólfit, ok lét loku fyrir hurðina. Lagðist hon niðr í aðra rekkju, er þar var. Þá mælti Egill: „Vel gerðir þú, dóttir, er þú vill fylgja feðr þínum. Mikla ást hefir þú sýnt við mik. Hver ván er, at ek muna lifa vilja við harm þenna?" Síðan þögðu þau um hríð. Þá mælti Egill: „Hvat er nú, dóttir? Tyggr þú nú nökkut?" „Tygg ek söl", segir hon, „því at ek ætla, at mér muni þá verra enn áðr. Ætla ek ella, at ek muna oflengi lifa". „Er þat ilt manni?" segir Egill. „Allilt", seg-

ir hon, „viltu eta?“ „Hvat man verða?“ segir hann. Enn stundu síðar kallaði hon ok bað gefa sér drekka. Síðan var henni gefit vatn at drekka. Þá mælti Egill: „Slíkt gerir at er sölin etr, þyrstir æ þess at meir“. „Viltu drekka faðir?“ segir hon. Hann tók við ok svalg stórum, ok var þat í dýrshorni. Þá mælti Þorgerðr: „Nú eru vit vélt. Þetta er mjólk“. Þá beit Egill skarð ór horninu, alt þat er tennr tóku, ok kastaði horninu síðan. Þá mælti Þorgerðr: „Hvat skulu vit nú til ráðs taka? Lokit er nú þessi ætlan. Nú vilda ek, faðir, at vit lengdim líf okkart, svá at þú mættir yrkja erfikvæði eftir Böðvar, enn ek mun rísta á kefli, enn síðan deyju vit, ef okkr sýnist. Seint ætla ek Þorstein son þinn yrkja kvæðit eftir Böðvar, enn þat hlýðir eigi, at hann sé eigi erfðr, því at eigi ætla ek okkr sitja at drykkjunni, þeiri er hann er erfðr“. Egill segir, at þat var óvænt, at hann mundi þá yrkja mega, þótt hann leitaði við, „enn freista má ek þess“, segir hann. Egill hafði þá átt son, er Gunnarr hét, ok hafði sá ok andazt litlu áðr. *Síðan hóf Egill upp kvæðit:*

## (Sonatorrek).

1.

Mjök esumk tregt
tungu at hrœra
loftvægi
ljóðpundara.
Esat vænlegt
of Viðurs þýfi,
né hógdrœgt
ór hugar fylgsni.

2.

Esa auðþeystr,
því ekki veldr
höfuglegr,
ór hyggju stað
fagna-fundr
Friggjar niðja
árborinn
ór Jötunheimum.

3.

Lastalauss
*es lifnaði
*á nokkvers
*nökkva bragi.
Jötuns hals
undir þjóta
náins niðr
fyr naustdurum.

4.

Því́t átt mín
á enda stendr
sem hreggbarin
. . . . marka.
Esa karskr maðr,
sás köggla berr
frænda hrers
af fletjum niðr.

5.

Þó munk mítt
ok móður hrer
föðurfall
fyrst of telja,
þat berk út
ór orðhofi
mærðar timbr
máli laufgat.

6.

Grimt vasumk hlið
þats hrönn of braut
föður míns
á frændgarði.
Veitk ófult
ok opit standa
sonar skarð,
es sær mér vann.

7.

Mjök hefir Rán
of rysktan mik.
Emk ofsnauðr
at ástvinum.
Sleit marr bönd
mínnar áttar,
snaran þátt
af sjalfum mér.

8.

Veizt ef sök
sverði rækak,
vas ölsmið

allra tíma.
Hroða vábrœðr
ef viða mættak,
fórk ægis
andvígr mani.

9.

Enn ek ekki
eiga þóttumk
sakar afl
við sonar bana.
Alþjóðu
fyr augum verðr
gamals þegns
gengileysi.

10.

Mik hefir marr
miklu ræntan,
grimt es fall
frænda at telja,
síðans minn
á munvega
áttar skjöldr
af lífi hvarf.

11.

Veitk þat sjalfr,
í syni mínum
vasa ills þegns
efni vaxit,
ef randviðr
röskvask næði
unz hergauts
hendr of tœki.

12.

Æ lét flest,
þats faðir mælti,
þótt öll þjóð
annat segði.
Mér upp helt
of herbergi
ok mítt afl
mest of studdi.

13.

Oft kemr mér
mána brúðar
í byrvind
brœðra leysi.
Hyggjumk umb,
es hildr þróask,
nýsumk hins,
ok hygg at því,

14.

hverr hugaðr
á hlið standimk
annarr þegn
við óðræði.
þarfk þess oft
. . . . . . . .

verðk varfleygr,
es vinir þverra.

15.

Mjök 's torfyndr,
sás trúa knegim
of alþjóð
elgjar galga.
Þvít niflgóðr
niðja steypir
bróður hrer
við baugum selr.

16.

Finnk þat oft,
es féar beiðir

* * *

17.

Þat 's ok mælt,
at mangi getr
sonar iðgjöld,
nema sjalfr ali,
né þann enn
es öðrum sé
borinn maðr
í bróður stað.

18.

Esumka þekt
þjóðar sinni,
þótt sér hverr
sátt of haldi.
Burr 's býskeiðs
í bœ kominn
kvánar sunr
kynnis leita.

19.

Enn mér fens
í föstum þokk
hrosta höfundr
á hendi stendr.
Máka upp
*í aróar grímu
rýnnis reið
réttri halda.

20.

Sízt sun minn
sóttar brími
heiftuglegr
ór heimi nam,
þanns ek veit
at varnaði,
vamma vanr,
við námæli.

21.

Þat mank enn
es upp of hóf
í goðheim
Gauta spjalli
áttar ask,
þanns óx af mér,

ok kynvið
kvánar mínnar.

22.

Áttak gótt
við geirs dróttin.
Gerðumk tryggr
at trúa hánum,
áðr vinun
vagna rúni,
sigrhöfundr,
of sleit við mik.

23.

Blœtka því
bróður Vílis,
goðjaðar,
at gjarn séak
þó hefir Míms vinr
mér of fengnar
bölva bœtr,
es et betra telk.

24.

Gafumk íþrótt
ulfs of bági,
vígi vanr,
vammi firrða,
ok þat geð,
es gerðak mér
vísa fjándr
af vélöndum.

25.

Esumk torvelt.
Tveggja bága
njörvanift
á nesi stendr.
Skalk þó glaðr
góðum vilja
ok ó-hryggr
Heljar bíða.

Egill tók at hressast, svá sem fram leið at yrkja kvæðit. Ok er lokit var kvæðinu, þá færði hann þat Ásgerði ok Þorgerði ok hjónum sínum. Reis hann þá upp ór rekkju ok settist í öndvegi. Kvæði þetta kallaði hann Sonatorrek. Síðan lét Egill erfa sonu sína eftir fornri siðvenju, enn er Þorgerðr fór heim, þá leiddi Egill hana með gjöfum í brott. Egill

bjó at Borg langa æfi ok varð maðr gamall, enn ekki er getit, at hann ætti málaferli við menn hér á landi. Ekki er ok sagt frá hólmgöngum hans eða vígaferlum, síðan er hann staðfestist hér á Íslandi. Svá segja menn, at Egill færi ekki í brott af Íslandi, síðan er þetta var tíðenda, er nú var áðr frá sagt, ok bar þat mest til þess, at Egill mátti ekki vera í Noregi af þeim sökum, sem fyrr var frá sagt, at konungar þóttust eiga við hann. Bú hafði hann rausnarsamligt, þvíat fé skorti eigi. Hann hafði ok gott skaplyndi til þess. Hákon konungr Aðalsteinsfóstri réð fyrir Noregi langa stund, enn hinn efra hlut æfi hans, þá kómu synir Eiríks til Noregs ok deildu til ríkis í Noregi við Hákon konung, ok áttu þeir orrostu saman, ok hafði Hákon jafnan sigr. Ena síðarstu orrostu áttu þeir á Hörðalandi í Storð á Fitjum. Þar fekk Hákon konungr sigr ok þar með banasár. Eftir þat tóku þeir konungdóm í Noregi Eiríks synir. Arinbjörn hersir var með Haraldi Eiríkssyni, ok gerðist ráðgjafi hans, ok hafði af honum veizlur stórliga miklar. Var hann forstjóri fyrir liði ok landvörn. Arinbjörn var hermaðr mikill ok sigrsæll. Hann hafði at veizlum Fjarðafylki. Egill Skallagrímsson spurði þessi tíðendi, *at* konungaskifti var orðit í Noregi, ok þat með, at Arinbjörn var þá kominn í Noreg til búa sinna, ok hann var þá í

virðing mikilli. Þá orti Egill kvæði um Arinbjörn, ok er þetta upphaf at:

## (Arinbjarnarkviða).

1.

Emk hraðkveðr
hilmi at mæra,
enn glapmáll
of gleggvinga,
opinsnjallr
of jöfurs dáðum,
enn þagmælskr
of þjóðlygi.

2.

Skaupi gnœgðr
skrökberöndum,
emk vilkveðr
of vini mína.
Sótt hefk mörg
mildinga sjöt
með grunlaust
greps of œði.

3.

Hafðak endr
ynglings burar,
ríks konungs,
reiði fengna.
Drók djarfhött
of dekkva skör,
létk hersi
heim of sóttan,

4.

þars allvaldr
und ýgs hjalmi
ljóðfrömuðr
at landi sat.
Stýrði konungr
við stirðan hug
í Jórvík
úrgum . . . .

5.

Vasa tunglskin
trygt at líta,
né ógnlaust
Eiríks bráa,
þás ormfránn
ennimáni
skein allvalds
œgigeislum.

6.

Þó bolstrverð
of bera þorðak
‚maka hœings
markar‘ drótni.

Yggjar full
ýranda kom
at hvers manns
hlusta munnum.

7.

Ne hamfagrt
hölðum þótti
skaldfé mítt
at skata húsum,
þás ulfgrátt
við Yggjar miði
hattar staup
at hilmi þák.

8.

Við því tókk,
enn tiru fylgðu
sökk svartleit
síðra brúna,
ok sá muðr,
es mína bar
höfuðlausn
fyr hilmis kné.

(Þars tannfjöld
með tungu þák,
ok hlertjöld
hlustum göfguð.
Enn sú gjöf
gulli betri
hróðigs konungs
of heitin vas).

9.

Þar stóð mér
mörgum betri
hodd . . . .
á hlið aðra,
tryggr vinr mínn,
es trúa knáttak,
heiþróaðr
hverju ráði.

10.

Arinbjörn
oss einn of hóf,
knía fremstr,
frá konungs fjónum,
vinr þjóðans,
es vætki ló
í herskás
hilmis garði.

11.

Ok . . . .
. . . . lét
margfrömuðr
mínna dáða,
sem . . . . .
. . . . . . . . . . . . . .
at í væri
áttar . . . .

12.

Munk vinþjófr
verða heitinn,
ok váljúgr
at Viðurs fulli,
hróðrs örverðr
ok heitrofi,
nema þess gagns
gjöld of vinnak.

13.

Nús 's þat sét,
hvar setja skalk
bratt stiginn
of bragar fótum
fyr mannfjöl
margri sjónir
hróðr máttigs
hersa kundar.

14.

Erumk auðskœf
ómunlokri
magar Þóris
mærðar efni,
vinar míns,
þvít valið liggja
tvenn ok þrenn
á tungu mér.

15.

Þat telk fyrst,
es flestr of veit,
ok alþjóð
eyrum sœkir,
hvé mildgeðr
mönnum þótti
bjóða björn
birkis ótta.

16.

Þat alls heri
at undri gefsk,
hvé yrþjóð
auði gnœgir.
Enn grjótbjörn
of gœddan hefir
Freyr ok Njörðr
at féar afli.

17.

Enn Hróalds
at höfuðbaðmi
auðs iðgnótt
. . . . sifja,
sem vinreið
af vegum öllum
á vindkers
víðum botni.

18.

Hann drógseil
of . . . gat
sem hildingr

heyrnar spanna,
goðum ávarðr
með gumna fjöl,
vinr Véþorms
veklinga tös.

19.

Þát hann viðr,
es þrjóta mun
flesta menn,
þótt fé eigi.
Kveðka skamt
meðal skata húsa,
né auðskeft
almanna spjör.

20.

Gekk engi
at Arinbjarnar
ór legvers
löngum knerri
háði leiddr
né heiftkviðum,
með atgeirs
auðar tuftir.

21.

Hinn 's fégrimmr,
es *í* Fjörðum býr.
Sá 's of dolgr
Draupnis niðja,
sökunautr
of sona hvinna,
hringum hættr
hoddvegandi.

22.

Hann aldrteig
of eiga gat
fjölháinn
of friðarspjöllum.

23.

Þat 's órétt,
es orpit hefir
á máskeið
mörgu gagni
ramriðit
rökkva stóði,
vellvönuðr,
þvís veitti mér.

24.

Vaskr árvakr,
bark orð saman
með málþjóns
morginverkum.
Hlóðk lofköst,
þanns lengi stendr
ó-brotgjarn
í bragar túni.

Einarr hét maðr. Hann var son Helga Óttarssonar, Bjarnarsonar hins austræna, er nam lönd í Breiðafirði. Einarr var bróðir Ósvífrs ens spaka. Einarr var þegar á unga aldri mikill ok sterkr ok enn mesti atgervimaðr. Hann tók at yrkja, þegar er hann var ungr, ok var maðr námgjarn. Þat var eitt sumar á alþingi, at Einarr gekk til búðar Egils Skallagrímssonar, ok tókust þeir at orðum, ok kom þar brátt talinu, at þeir ræddu um skáldskap. Þótti hvárumtveggja þær ræður skemtiligar. Síðan vandist Einarr oftliga at ganga til tals við Egil. Gerðist þar vinátta mikil. Einarr hafði litlu áðr komit út ór för. Egill spurði Einarr mjök austan tíðenda ok at vinum sínum, svá ok at þeim er hann þóttist vita, at óvinir hans vóru. Hann spurði ok mjök eftir stórmenni. Einarr spurði ok í móti Egil *at* þeim tíðendum, er fyrr höfðu gerzt um ferðir Egils ok stórvirki hans, enn þat tal þótti Agli gott, ok rættist af vel. Einarr spurði Egil, hvar hann hefði þess verit staddr, at hann hefði mest reynt sik, ok bað hann þat segja sér. Egill kvað:

„Börðumk einn við átta,
enn við ellifu tysvar,
svá fengum val vargi,
varðk einn bani þeira.
Skiftumk hart af heiftum
hlífar skelfikuífum,

létk af emblu aski
eldi valbasta kastat“.

Þeir Egill ok Einarr mæltu til vináttu með sér at skilnaði. Einarr var löngum ýtanlendis með tignum mönnum. Einarr var örr maðr ok oftast félítill, enn skörungr mikill ok drengr góðr. Hann var hirðmaðr Hákonar jarls Sigurðarsonar. Í þann tíma var í Noregi ófriðr mikill ok bardagar með þeim Hákoni jarli ok Eirikssonum, ok stukku ýmsir ór landi. Haraldr konungr Eiríksson fell suðr í Danmörk at Hálsi í Limafirði, ok var hann svikinn. Þá barðist hann við Harald Knútsson, er kallaðr var Gull-Haraldr, ok þá Hákon jarl. Þar fell ok þá með Haraldi konungi Arinbjörn hersir, er fyrr var frá sagt. Ok er Egill spurði fall Arinbjarnar, þá kvað hann:

„Þverra nú, þeirs þverðu,
þingbirtingar ingva,
hvar skalk manna mildra,
máreitar dag, leita?
Þeira's hauks fyr handan
háfjöll dígulsnjávi
jarðar gjörð með orðum
eyneglda mér hegldu“.

Einarr Helgason skáld var kallaðr skálaglam. Hann orti drápu um Hákon jarl, er kölluð er Vellekla, ok var þat mjök lengi, at jarlinn vildi eigi hlýða kvæðinu, þvíat hann var reiðr Einari. Þá kvað Einarr:

„Gerðak *veig* of virða
vörð, þanns sitr at jörðu,
(iðrumk þess) meðan aðrir,
örváfaðar, sváfu.
Hykk, at hodda stekkvi
(hinig sóttak gram) þóttu
(fýsinn) frœknum vísa,
ferri, skáld in verri“.

Ok enn kvað hann:

„Sœkjum jarl þanns auka
ulfs verð þorir sverðum,
skipum borðróinn barða
baugskjaldum Sigvalda.
Drepr *eigi* sá sveigir
sárlinns, es gram finnum,
(rönd berum út á andra
Endils) við mér hendi“.

Jarlinn vildi eigi, at Einarr færi á brott, ok hlýddi þá kvæðinu, ok síðan gaf hann Einari skjöld, ok var hann en mesta gersemi. Hann var skrifaðr fornsögum, enn alt milli skriftanna vóru lagðar yfir spengr af gulli, ok settr steinum. Einarr fór til Íslands ok til vistar með Ósvífi bróður sínum. Enn um haustit reið Einarr vestan ok kom til Borgar ok gisti þar. Egill var þá eigi heima, ok var hann farinn norðr til heraða, ok var hans þá heim ván. Einarr beið hans þrjár nætr, enn þat var engi siðr, at sitja lengr enn þrjár nætr at kynni. Bjóst Einarr þá í brott, ok er hann var búinn, þá gekk hann til rúms Egils, ok festi þar upp skjöldinn

þann enn dýra, ok sagði heimamönnum, at hann gaf Agli skjöldinn. Síðan reið Einarr í brott, enn þann sama dag kom Egill heim. Enn er hann kom inn til rúms síns, þá sá hann skjöldinn, ok spurði, hverr gersemi þá ætti. Honum var sagt, at Einarr skálaglam hafði þar komit, ok hann hafði gefit honum skjöldinn. Þá mælti Egill: „Gefi hann allra manna armastr. Ætlar hann, at ek skyla þar vaka yfir ok yrkja um skjöld hans? Nú taki hest minn. Skal ek ríða eftir honum ok drepa hann“. Honum var þá sagt, at Einarr hefði riðit snemma um morgininn, — „mun hann nú kominn vestr til Dala“. Síðan orti Egill drápu, ok er þetta upphaf at:

„Mál es lofs at le*y*f*a*
ljósgarð, es þák, barða,
mér kom heim at hendi
hoddsendis boð, enda.
Skulut *of* grundar *gylf*a
glaums misfengnir taumar,
hlýðið ér til orða,
erðgróens mér verða“.

Egill ok Einarr heldu vináttu sinni meðan þeir lifðu báðir. Enn svá er sagt at færi skjöldrinn um síðir, at Egill hafði hann með sér í brúðför, þá er hann fór norðr á Víðimýri með Þorkatli Gunnvaldssyni ok þeir Rauða-Bjarnarsynir, Trefill ok Helgi. Þá var spilt skildinum ok kastat í sýruker. Enn síðan lét Egill

taka af búnaðinn, ok vóru tólf aurar gulls í spöngunum.

**79.** (Af Þorsteini Egilssyni). Þorsteinn son Egils, þá er hann óx upp, var allra manna fríðastr sýnum, hvítr á hár ok bjartr álitum. Hann var mikill ok sterkr, ok þó ekki eftir því, sem faðir hans. Þorsteinn var vitr maðr ok kyrrlátr, hógvær, stiltr manna bezt. Egill unni honum lítit. Þorsteinn var ok ekki við hann ástúðigr, enn þau Ásgerðr ok Þorsteinn unnust mikit. Egill tók þá at eldast mjök. Þat var eitthvert sumar, er Þorsteinn reið til alþingis, enn Egill sat þá heima. Enn áðr Þorsteinn færi heiman, stiltu þau Ásgerðr um, ok tóku ór kistu Egils silkislæður Arinbjarnar nauta, ok hafði Þorsteinn til þings. Ok er hann hafði á þinginu, þá vóru honum dragsíðar, ok urðu saurgar neðan, þá er þeir vóru í lögbergsgöngu. Ok er hann kom heim, þá hirði Ásgerðr slæðurnar, þar sem áðr vóru, enn mjök miklu síðar, þá er Egill lauk upp kistu sína, þá fann hann at spilt var slæðunum, ok leitaði þá máls um við Ásgerði, hverju þat gengdi. Hon sagði þá it sanna til. Þá kvað Egill:

„Átkak erfinytja
arfa mér til þarfan,
mik hefir sonr of svikvinn,
svik telk í því, kvikvan.
Vel mætti þess va*t*na
viggríðandi bíða,

es hafskíða hlœði
hljótendr of mik grjóti".

Þorsteinn fekk Jófríðar, dóttur Gunnars Hlífarsonar. Móðir hennar var Helga, dóttir Óláfs feilans, systir Þórðar gellis. Jófríði hafði átt fyrr Þóroddr, son Tungu-Odds. Litlu eftir þetta andaðist Ásgerðr. Eftir þat brá Egill búi, ok seldi í hendr *Þorsteini*, enn Egill fór þá suðr til Mosfells til Grims mágs síns, þvíat hann unni mest Þórdísi, stjúpdóttur sinni, þeira manna, er þá vóru á lífi. Þat var eitt sumar, at skip kómu út í Leiruvági, ok stýrði sá maðr, er Þormóðr hét. Hann var norrænn ok húskarl Þorsteins Þórusonar. Hann hafði með at fara skjöld, er Þorsteinn hafði sent Agli Skallagrímssyni, ok var þat ágætagripr. Þormóðr færði Agli skjöldinn, enn hann tók við þakksamliga. Eftir um vetrinn orti Egill drápu um skjaldargjöfina, er köllut er Berudrápa, ok er þetta upphaf at:

„Heyri fúss á forsa
fallhadds vinar stalla
(hyggi) þegn (til þagnar
þinn lýðr) konungs mína.
Oft skal arnar kjafta
örð góð of tröð Hörða
hrafnstýrandi ‚hræra'
‚hregna' mín of fregnask".

Þorsteinn Egilsson bjó at Borg. Hann átti tvá laungetna sonu, Hriflu ok Hrafn, enn síðan hann

kvángaðist áttu þau Jófríðr tíu börn. Helga hin fagra var þeira dóttir, er þeir deildu um Skáld-Hrafn ok Gunnlaugr ormstunga. Grímr var ellztr sona þeira, annarr Skúli, þriði Þorgeirr, fjórði Kollsveinn, fimti Hjörleifr, sétti Halli, sjaundi Egill, áttundi Þórðr. Þóra hét dóttir þeira, er átti Þormóðr Kleppjárnsson. Frá börnum Þorsteins er komin kynslóð mikil ok mart stórmenni. Þat er kallat Mýramannakyn, alt þat er frá Skallagrími er komit.

**80.** (Af Önundi sjóna). Önundr sjóni bjó at Ánabrekku, þá er Egill bjó at Borg. Önundr sjóni átti Þorgerði, dóttur Bjarnar hins digra af Snæfellsströnd. Börn þeira Önundar vóru þau Steinarr ok Dalla, er átti Ögmundr Galtason, — þeira synir Þorgils ok Kormákr. Ok er Önundr gerðist gamall ok sýndr lítt, þá seldi hann af hendi bú. Tók þá við Steinarr son hans. Þeir feðgar áttu auð fjár. Steinarr var allra manna mestr ok rammr at afli, ljótr maðr, bjúgr í vexti, fóthár ok miðskammr. Steinarr var uppivöðslumaðr mikill ok ákafamaðr, ódæll ok harðfengr, enn mesti kappsmaðr. Ok er Þorsteinn Egilsson bjó at Borg, þá gerðist þegar fátt um með þeim Steinari. Fyrir sunnan Háfslæk liggr mýrr, er heitir Staksmýrr. Standa þar yfir vötn á vetrinn, enn á várit, er ísa leysir, þá er þar útbeit svá góð nautum, at þat var kallat jafnt ok stakkr töðu. Háfslækr réð þar landamerkj-

um at fornu fari. Enn á várum gengu naut Steinars mjök á Staksmýri, er þau vóru rekin útan at Háfslæk, enn húskarlar Þorsteins vönduðu um. Steinarr gaf at því engan gaum, ok fór svá fram it fyrsta sumar, at ekki varð til tíðenda. Enn annat vár, þá helt Steinarr beitinni, enn Þorsteinn lagði þá í umræðu við hann, ok ræddi þó stillilega, bað hann Steinarr halda beit búfjár síns svá sem at fornu hafði verit. Steinarr segir, at fé mundi ganga, þar sem þat vildi. Hann ræddi um alt heldr festiliga, ok skiftust þeir Þorsteinn við nökkurum orðum. Síðan lét Þorsteinn hnekkja nautunum út á mýrar yfir Háfslæk, ok er Steinarr varð þess varr, þá fekk hann til Grana þræl sinn, at sitja at nautunum á Staksmýri, ok sat hann þar alla daga. Þetta var enn efra hlut sumars. Beittust þá upp allar engjar fyrir sunnan Háfslæk. Nú var þat einn dag, at Þorsteinn hafði gengit upp á borg at sjást um. Hann sá, hvar naut Steinars fóru. Hann gekk út á mýrar; þat var síð dags. Hann sá, at nautin vóru þá komin langt út í holta sundit. Þorsteinn rann út um mýrarnar, ok er Grani sá þat, þá rak hann nautin óvægiliga, til þess er þau kómu á stöðul. Þorsteinn kom þá eftir, ok hittust þeir Grani í garðshliðinu. Þorsteinn vá hann þar. Þat heitir Granahlið síðan; þat er á túngarðinum. Þorsteinn hratt garðinum ofan á Grana, ok huldi

svá hræ hans. Síðan fór Þorsteinn heim til Borgar, enn konur þær er til stöðuls fóru, fundu Grana, þar er hann lá. Eftir þat fóru þær heim til húss ok sögðu Steinari þessi tíðendi. Steinarr leiddi hann uppi í holtunum, enn síðan fekk Steinarr til annan þræl at fylgja nautunum, ok er sá eigi nefndr, Þorsteinn lét þá sem hann vissi eigi um beit þat sem eftir var sumarsins. Þat varð til tíðenda, at Steinarr fór enn fyrra hlut vetrar út á Snæfellsströnd, ok dvaldist þar um hríð. Steinarr sá þá þræl, er Þrándr hét. Hann var allra manna mestr ok sterkastr. *Steinarr falaði* þræl þann, ok bauð til verð mikit, enn sá er átti þrælinn, mat hann fyrir þrjár merkr silfrs, ok mat hann hálfu dýrra, enn meðalþræl, ok var þat kaup þeira. Hann hafði Þránd með sér heim. Ok er þeir kómu heim, þá ræðir Steinarr við Þránd: „Nú er svá til komit, at ek vil hafa verknað af þér; er hér skipat áðr til verka allra. Nú mun ek verk fyrir þik leggja, er þér er lítit erfiði í. Þú skalt sitja at nautum mínum. Þyki mér þat miklu skifta, at þeim sé vel til haga haldit. Vil ek at þú hafir þar engis manns hóf við, nema þitt, hvar hagi er beztr á mýrum. Má ek eigi á manni sjá. ef þú hefir eigi til þess hug eða afl, at halda til fulls við einn hvern húskarl Þorsteins“. Steinarr seldi í hendr Þrándi exi mikla, nær álnar fyrir munn, ok var hon hár-

hvöss. „Svá lízt mér á þik, Þrándr“, segir Steinarr, „sem eigi sé sýnt, hversu mikils þú metr goðorð Þorsteins, ef þit sjáist tveir á“. Þrándr svarar: „Engan vanda ætla ek mér á við Þorstein, enn skilja þykjumst ek, hvert verk þú hefir fyrir mik lagt. Muntu þykjast litlu til verja, þar sem ek em. Enn ek ætla mér vera góðan kost, hvárr sem upp kemr, ef vit Þorsteinn skulum reyna með okkr“. Síðan tók Þrándr til nautagæzlu. Honum hafði þat skilizt, þótt hann hefði eigi lengi verit, hvert Steinarr hafði nautum sínum látit halda, ok sat Þrándr at nautum á Staksmýri. Ok er Þorsteinn varð þess var, þá sendi hann húskarl sinn til fundar við Þránd, ok bað segja honum landamerki með þeim Steinari, ok er húskarl hitti Þránd, þá sagði hann honum erendi sín, ok bað hann halda nautunum annan veg, sagði at þat var land Þorsteins Egilssonar, er nautin vóru þá í komin. Þrándr segir: „Þat hirði ek aldri hvárr þeira land á. Mun ek naut hafa, þar sem mér þykir hagi beztr“. Síðan skildust þeir. Fór húskarl heim, ok segir Þorsteini svör þrælsins. Þorsteinn lét þá kyrt vera, enn Þrándr tók þá at sitja at nautum nætr ok daga.

81. (Dráp Þrándar) Þorsteinn stóð upp einn morgin við sól, ok gekk upp á borg. Hann sá hvar naut Steinars vóru. Síðan gekk Þorsteinn út á mýrar, til þess er hann kom til nautanna.

Þar stendr skógarklettr við Háfslæk, enn uppi á klettinum svaf Þrándr, ok hafði leyst af sér skúa sína. Þorsteinn gekk upp á klettinn, ok hafði exi í hendi ekki mikla ok engi fleiri vápn. Þorsteinn stakk exarskaftinu á Þrándi, ok bað hann vaka. Hann spratt upp skjótt ok hart, ok greip tveim höndum exina ok reiddi upp. Hann spurði, hvat Þorsteinn vildi. Hann segir: „Ek vil segja þér, at ek á land þetta, enn þér eiguð hagabeit fyrir útan lækinn. Er þat eigi undarligt, þóttu vitir eigi landamerki hér". Þrándr segir: „Engu þykir mér skifta, hverr land á. Mun ek láta naut vera, er þeim þykir bezt". „Hitt er líkligra", segir Þorsteinn, „at ek muna nú ráða vilja fyrir landi mínu, enn eigi þrælar Steinars". Þrándr segir: „Miklu ertu Þorsteinn óvitrari maðr *enn* ek hugða, ef þú vilt eiga náttból undir exi minni ok hætta til þess virðingu þinni. Mér sýnist, at ætla til, sem ek muna hafa tvau öfl þín, enn mik skortir eigi hug. Ek em ok vápnaðr betr enn þú". Þorsteinn mælti: „Á þá hættu mun ek leggja, ef þú gerir eigi at um beitina. Vænti ek, at mikit skili hamingju okkra, svá sem málaefni eru ójöfn". Þrándr segir: „Nú skaltu sjá, Þorsteinn, hvárt ek hræðumst nökkut hót þín". Síðan settist Þrándr niðr, ok batt skó sinn, enn Þorsteinn reiddi upp exina hart, ok hjó á háls Þrándi, svá at höfuðit fell á bring-

una. Síðan bar Þorsteinn grjót at honum ok huldi hræ hans; gekk síðan heim til Borgar. Enn þann dag kómu seint heim naut Steinars, ok er þrotin ván þótti þess, þá tók Steinarr hest sinn ok lagði á söðul. Hann hafði alvæpni sitt. Hann reið suðr til Borgar, ok er hann kom þar, hitti hann menn at máli. Hann spurði, hvar Þorsteinn væri. Honum var sagt, at hann sat inni. Þá bað Steinarr, at Þorsteinn kæmi út, kvaðst eiga erendi við hann, ok er Þorsteinn heyrði þetta, tók hann vápn sín ok gekk út í dyrr. Síðan spurði hann Steinar, hver erendi hans væri. „Hefir þú drepit Þránd þræl minn?“ segir Steinarr. „Svá er víst“, segir Þorsteinn, „þarftu þá ekki öðrum mönnum at ætla“. „Þá sé ek, at þú munt þykjast harðhendliga verja land þitt, er þú hefir drepit þræla mína tvá. Enn mér þykir þat ekki svá mikit framaverk. Nú mun ek gera þér á þessu miklu betra kost, ef þú vilt með kappi verja landit þitt, ok skal ekki öðrum mönnum nú at hlíta, at reka natin, enn vita skaltu þat, at nautin skulu bæði dag ok nótt í þínu landi vera“. „Svá er“, segir Þorsteinn, „at ek drap fyrr í sumar þræl þinn, þann er þú fekt til at beita nautunum í land mitt, enn síðan lét ek yðr hafa beit, sem þér vilduð, alt til vetrar. Nú hefi ek drepit annan þræl þinn fyrir þér. Gaf ek þessum hina sömu sök, sem

hinum fyrra. Nú skaltu hafa beit heðan í frá í sumar, sem þú vill, enn at sumri, ef þú beitir land mitt, ok fær menn til þess, at reka hingat fé þitt, þá mun ek enn drepa fyrir þér einnhvern mann, þann er fénu fylgir, svá þó at þú fylgir sjálfr. Mun ek svá gera á hverju sumri, meðan þú heldr teknum hætti um beitina". Síðan reið Steinarr í brott ok heim til Brekku, ok litlu síðar reið Steinarr upp í Stafaholt. Þar bjó þá Einarr. Hann var goðorðsmaðr. Steinarr bað hann liðs ok bauð honum fé til. Einarr segir: „Þik mun litlu skifta um mína liðsemd, nema fleiri virðingamenn veiti at þessu máli". Eftir þat reið Steinarr upp í Reykjardal á fund Tungu-Odds, ok bað hann liðs, ok bauð honum fé til. Oddr tók við fénu, ok hét liðveizlu sinni, at hann skyldi efla Steinar at koma fram lögum við Þorstein. Steinarr reið síðan heim. Enn um várit fóru þeir Oddr ok Einarr með Steinari stefnuför, ok höfðu fjölmenni mikit. Stefndi Steinarr Þorsteini um þræladráp, ok lét varða fjörbaugsgarð um hvárt vígit, þvíat þat vóru lög, þar er þrælar vóru drepnir fyrir manni, enda væri eigi færð þrælsgjöldin fyrir hina þriðju sól, enn jafnt skyldu mætast tvær fjörbaugssakir ok ein skóggangssök. Þorsteinn stefndi engum sökum í mót, ok litlu síðarr sendi Þorsteinn menn suðr á Nes. Kómu þeir til Mosfells til Gríms, ok sögðu

þar þessi tíðendi. Egill lét sér fátt um finnast, ok spurði þó at í hljóði vandliga um skifti þeira Þorsteins ok Steinars, ok svá at þeim mönnum, er Steinar höfðu styrkt til þessa máls. Síðan fóru sendimenn heim, ok lét Þorsteinn vel yfir þeira ferð. Þorsteinn Egilsson fjölmenti mjök til várþings, ok kom þar nótt fyrr enn aðrir menn, ok tjölduðu búðir sínar ok þingmenn hans, er þar áttu búðir. Ok er þeir höfðu um búizt, þá lét Þorsteinn ganga til þingmannalið sitt, ok gerðu þar búðarveggi mikla. Síðan lét hann búð tjalda miklu meiri enn aðrar búðir, þær er þar vóru. Í þeiri búð vóru engir menn. Steinarr reið til þings ok fjölmenti mjök. Þar réð Tungu-Oddr fyrir liði, ok var allfjölmennr. Einarr ór Stafaholti var ok fjölmennr. Tjölduðu þeir búðir sínar. Var þingit fjölment. Fluttu menn fram mál sín. Þorsteinn bauð engar sættir fyrir sik, enn svaraði því þeim mönnum er um sættir leituðu, at hann ætlaði at láta dóms bíða; sagði, at honum þóttu mál lítilsverð, þau er Steinarr fór með um dráp þræla hans, enn taldi þræla Steinars hafa nógar sakir til gert. Steinarr lét stórliga yfir málum sínum. Þóttu honum sakir lögligar, enn liðsafli nógr at koma lögum fram. Var hann því framgjarn um sín mál. Þann dag gengu menn í þingbrekku, ok mæltu menn málum sínum, enn um kveldit skýldu

dómar út fara til sóknar. Var Þorsteinn þar með flokk sinn. Hann réð þar þingsköpum mest, þvíat svá hafði verit meðan Egill fór með goðorð ok mannaforráð. Þeir höfðu hvárirtveggju alvæpni. Menn sáu af þinginu, at flokkr manna reið neðan með Gljúfrá, ok blikuðu þar skildir við. Ok er þeir riðu á þingit, þá reið þar maðr fyrir í blárri kápu, hafði hjálm á höfði gullroðinn, enn skjöld á hlið gullbúinn, í hendi krókaspjót, var þar gullrekinn falrinn, hann var sverði gyrðr. Þar var kominn Egill Skallagrímsson *með* átta tigu manna, alla vel vápnaða, svá sem til bardaga væri búnir. Þat lið var valit mjök. Hafði Egill haft með sér ena beztu bóndasonu af Nesjum sunnan, þá er honum þóttu vígligstir. Egill reið með flokkinn til búðar þeirar er Þorsteinn hafði tjalda látit ok áðr var auð. Stigu þeir af hestum sínum. Ok er Þorsteinn kendi ferð föður síns, þá gekk hann í móti honum með allan flokk sinn, ok fagnaði honum vel. Létu þeir Egill bera inn fargervi sína í búð, enn reka hesta í haga. Ok er þetta var sýslat, gekk Egill ok Þorsteinn með flokkinn allan upp í þingbrekku, ok settust þar sem þeir vóru vanir at sitja. Síðan stóð Egill upp ok mælti hátt: „Hvárt er Önundr sjóni hér í þingbrekkunni?“ Önundr kvaðst þar vera — „ek em feginn orðinn, Egill, er þú ert kominn. Mun

þat alt bæta til um þat er hér stendr milli máls manna". „Hvárt ræðr þú því, er Steinarr son þinn sækir sökum Þorstein son minn, ok hefir dregit saman fjölmenni til þess, at gera Þorstein at urðarmanni". „Því veld ek eigi", segir Önundr, „er þeir eru ósáttir. Gæti ek þar til lagt mörg orð, ok beðit Steinar sættast við Þorstein, þvíat mér hefir verit í hvern stað Þorsteinn son þinn sparari til ósæmdar, ok veldr því sú forna ástvinátta, er með okkr hefir verit, Egill, síðan er vér fæddumst hér upp samtýnis". „Brátt mun þat", segir Egill, „ljóst verða, hvárt þú mælir þetta af alvöru eða hégóma, þótt ek ætla þat síðr vera munu. Man ek þá daga, at hvárumtveggja okkrum mundi þykja ólíkligt, at vit mundim sökum sækjast, eða stilla eigi sonu okkra, at þeir fari eigi með fíflsku slíkri, sem ek heyri at hér horfist til. Sýnist mér þat ráð, meðan vit erum á lífi ok svá nær staddir deilu þeira, at vit takim mál þetta undir okkr ok setim niðr, enn látim eigi þá Tungu-Odd ok Einarr etja saman sonum okkrum sem kapalhestum. Látum þá hafa annat heðan í frá til févaxtar sér, enn taka á slíku". Þá stóð Önundr upp ok mælti: „Rétt segir þú, Egill, ok þat er okkr ófallit, at vera á því þingi, er synir okkrir deila. Skal okkr ok aldri þá skömm henda, at vera þeir vanskörungar at sætta þá eigi.

Nú vil ek, Steinarr, at þú selir mér mál þessi í hendr, ok látir mik með fara, sem mér líkar". „Eigi veit ek þat", segir Steinarr, „hvárt ek vil svá kasta niðr málum mínum, þvíat ek hefi áðr leitað mér liðsemdar af stórmenni. Vil ek nú svá at einu lúka málum mínum, at þat líki vel Oddi ok Einari". Síðan ræddu þeir Oddr ok Steinarr sín í milli. Sagði Oddr svá: „Efna vil ek, Steinarr, liðsemd við þik, þá er ek hét at veita þér til laga eða þeira málalykta, er þú vilt taka þér til handa. Muntu mest í ábyrgjast, hvernig mál þín eru tilkomin, ef Egill skal um dæma". Þá mælti Önundr: „Ekki þarf ek at eiga þetta undir tungurótum Odds. Hefi ek af honum haft hvárki gott né ilt, enn Egill hefir mart stórvel gert til mín. Trúi ek honum miklu betr enn öðrum, enda skal ek þessu ráða. Mun þér þat hæfa, at hafa eigi alla oss í fangi þér. Hefi ek enn hér til ráðit fyrir okkr, ok skal enn svá vera". „Ákafr ertu um þetta mál, faðir, enn oft ætla ek, at vit iðrimst þessa". Síðan seldi Steinarr í hendr Önundi málit, ok skyldi hann þá sækja eða sættast á, svá sem lög kendu til. Ok þegar er Önundr réð fyrir málum þessum, þá gekk til hann fundar við þá feðga Þorstein ok Egil. Þá mælti Önundr: „Nú vil ek, Egill, at þú skapir einn ok skerir um þessi mál, svá sem þú vill, þvíat ek trúi þér bezt til at skipa

þessum mínum málum ok öllum öðrum". Síðan tókust þeir Önundr ok Þorsteinn í hendr, ok nefndu sér vátta ok þat með váttnefnunni, at Egill Skallagrímsson skyldi einn gera um mál þessi, svá sem hann vill alt óskorat þar á þingi, ok lauk svá þessum málum. Gengu menn svá heim til búða. Þorsteinn lét leiða til búðar Egils þrjú yxn, ok lét höggva til þingnests honum. Ok er þeir Tungu-Oddr ok Steinarr kómu heim til búðar, þá mælti Oddr: „Nú hefir þú, Steinarr ok þit feðgar ráðit fyrir lykt mála ykkarra. Nú teljumst ek ór lauss við þik, Steinarr, um liðveizlu þá er ek hét þér, því at svo var mælt með okkr, at ek skylda veita þér svá, at þú kæmir málum þínum fram, eða til þeira lykta, er þér hugnaði, hvernig sem þér gefst sættargerð Egils". Steinarr segir, at Oddr hefir honum vel veitt ok drengiliga, ok þeira vinátta skal nú vera miklu betri enn áðr — „vil ek kalla, at þú sér ór lauss við mik um þat er þú vart í bundinn". Um kveldit fóru dómar út, ok er ekki getit, at þar yrði til tíðenda.

82. (Af Agli ok Önundi sjóna). Egill Skallagrímsson gekk í þingbrekku um daginn eftir, ok með honum Þorsteinn ok allr flokkr þeira. Þar kom þá ok Önundr ok Steinarr. Tungu-Oddr var ok þar kominn ok þeir Einarr. Ok er menn höfðu þar mælt lögmálum sínum, þá stóð Egill upp ok mælti svá: „Hvárt eru þeir Steinarr ok Önundr

feðgar hér, svá at þeir megi skija mál mitt?“ Önundr segir, at þeir vóru þar. „Þá vil ek lúka upp sættargerð milli þeira Steinars ok Þorsteins. Hef ek þar upp þat mál, er Grímr faðir minn kom hingat til lands, ok nam hér lönd öll um Mýrar ok víða herað ok tók sér bústað at Borg ok ætlaði þar landeign til, enn gaf vinum sínum landakosti þar út í frá, svá sem þeir bygðu síðan. Hann gaf Ána bústað á Ánabrekku, þar sem Önundr ok Steinarr hafa hér til búit. Vitu vér þat allir, Steinarr, hvar landamerki eru milli Borgar ok Ánabrekku, at þar ræðr Háfslækr. Nú var eigi þat, Steinarr, at þú gerðir þér óvitandi at beita land Þorsteins ok lagðir undir þik eign hans, ok ætlaðir, at hann mundi vera svá mikill ættleri, at hann mundi vera vilja ræningi þinn, — þvíat þú, Steinarr ok þit Önundr meguð þat vita, at Áni þá land at Grími feðr mínum, — enn Þorsteinn drap fyrir þér þræla tvá. Nú er þat öllum mönnum auðsýnt, at þeir hafa fallið á verkum sínum, ok eru þeir óbótamenn, ok at heldr, þótt þeir væri frjálsir menn, þá væri þeir þó óbótamenn. Enn fyrir þat, Steinarr, er þú hugðist ræna mundu Þorstein son minn landeign sinni, þeiri, er hann tók með mínu ráði ok ek tók í arf eftir föður minn, þar fyrir skaltu láta laust þitt land at Ánabrekku ok hafa eigi fyrir fé. Þat skal ok fylgja, at þú skalt eigi hafa bústað né vistafar

hér í heraði fyrir sunnan Langá, ok vera brottu frá Ánabrekku, áðr fardagar sé liðnir, enn falla óheilagr fyrir öllum þeim mönnum, er Þorsteini vilja lið veita, þegar eftir fardaga, ef þú vill eigi brott fara eða nökkurn hlut eigi halda þann er ek hefi lagt á við þik“. Enn er Egill settist niðr, þá nefndi Þorsteinn vátta at gjörð hans. Þá mælti Önundr sjóni: „Þat mun mál manna, Egill, at gjörð sjá, er þú hefir gjört, ok upp sagt, sé heldr skökk. Nú er þat frá mér at segja, at ek hefi allan mik við lagt, at skirra vandræðum þeira, enn heðan af skal ek ekki af spara þat er ek má gera til óþurftar Þorsteini“. „Hitt mun ek ætla“ segir Egill, „at hlutr ykkarr feðga mun æ því verri, er deildir várar standa lengr. Hugða ek, Önundr, at þú mundir þat vita, at ek hefi haldit hlut mínum fyrir þvílíkum svá mönnum, sem þit eruð feðgar. Enn Oddr ok Einarr, er dregizt hafa svá mjök til þessa máls, hafa hér af fengit skapnaðar virðing“.

83. (Af Þorgeiri). Þorgeirr blundr var þar á þinginu, systurson Egils, ok hafði mikit lið veitt Þorsteini í þessum málum. Hann bað þá feðga gefa sér land nökkut út þar á mýrunum. Hann bjó áðr fyrir sunnan Hvítá fyrir neðan Blundsvatn. Egill tók vel á því, ok fýsti Þorstein, at hann léti hann þangat fara. Þeir settu Þorgeir niðr at Ánabrekku, enn Steinarr færði bústað sinn út yfir Langá ok settist niðr at Leirulæk.

Enn Egill reið heim suðr á Nes, ok skyldust þeir með blíðskap feðgar. Maðr var með Þorsteini er Íri hét, hverjum manni fóthvatari ok allra manna skygnastr; hann var útlendr ok lausingi Þorsteins, enn þó hafði hann fjárgæzlur ok þær mest, at safna geldfé upp til fjalla á várum, enn á haust ofan til réttar. Enn nú eftir fardaga lét Þorsteinn safna geldfé því er eftir hafði verit um várit, ok ætlaði at láta reka þat til fjalls. Íri var þá í fjárréttinum, enn Þorsteinn, ok húskarlar hans, reið upp til fjalls, ok vóru þeir átta saman. Þorsteinn lét gera garð um þvera Grísartungu milli Langavatns ok Gljúfrár; lét hann þar at vera marga menn um várit. Ok er Þorsteinn hafði litit yfir verk húskarla sinna, þá reið hann heim, ok er hann kom gegnt þingstöð, þá kom Íri þar hlaupandi í móti þeim, ok sagði at hann vill mæla við Þorstein einmæli. Þorsteinn mælti, at förunautar hans skyldu ríða fyrir, meðan þeir talaði. Íri segir Þorsteini, at hann hafði farit upp á Einkunnir um daginn ok sét til sauða — „enn ek sá“, segir hann, „í skóginum fyrir ofan vetrgötu, at skinu við tólf spjót ok skildir nökkurir“. Þorsteinn segir hátt, svá at förunautar hans heyrðu svá beint: „Hví mun honum svo ant at hitta mik, at ek mega eigi ríða heim leiðar minnar, enn þó mun Ölvaldi þykja ósannligt, at ek synja honum máls, ef hann er sjúkr“.

Íri hljóp þá sem mest mátti hann til fjalls upp. Þorsteinn segir förunautum sínum: „Lengja ætla ek nú leiðina, ef vér skulum fyrst ríða suðr til Ölvaldsstaða. Ölvaldr sendi mér orð, at ek skylda finna hann. Mun honum þó eigi miklu þykkja launaðr uxinn, er hann gaf mér í fyrra haust, at ek hitta hann, ef honum þykir máli skifta“. Síðan riðu þeir Þorsteinn suðr um mýrar fyrir ofan Stangarholt ok svá suðr til Gufár, ok ofan með ánni reiðgötur. Ok er hann kom niðr frá Vatni, þá sá þeir fyrir sunnan ána naut mörg ok mann hjá. Var þar húskarl Ölvalds. Spurði Þorsteinn, hvernig þar væri heilt. Hann sagði, at þar var vel heilt ok Ölvaldr var í skógi at viðarhöggvi. „Þá skaltu“, segir Þorsteinn, „segja honum, ef hann á við mik skylt erendi, at hann komi til Borgar, enn ek mun nú ríða heim“. Ok svá gerði hann. Enn þat spurðist þó síðan, at Steinarr Sjónason hafði þann sama dag setit uppi við Einkunnir með tólfta mann. Þorsteinn lét sem hann hefði ekki spurt, ok var þat kyrt síðan.

84. (Heimboð við Þorstein). Þorgeirr er maðr nefndr. Hann var frændi Þorsteins ok enn mesti vin. Hann bjó í þenna tíma á Álftanesi. Þorgeirr var vanr at hafa haustboð hvert haust. Þorgeirr fór til fundar við Þorstein Egilsson, ok bauð honum til sín. Þorsteinn hét ferðinni ok fór Þorgeirr heim. Enn at ákveðnum degi bjóst

Þorsteinn til farar, ok vóru þá fjórar vikur til vetrar. Með Þorsteini fór austmaðr hans ok húskarlar hans tveir. Grímr hét son Þorsteins. Hann var þá tíu vetra, ok fór ok með Þorsteini, ok vóru þeir fimm saman, ok riðu út til Fors ok þar yfir Langá, síðan út, sem leið lá til Örriðaár. Enn fyrir útan ána var Steinarr á verki ok Önundr ok húskarlar þeira. Ok er þeir kendu Þorstein, þá hljópu þeir til vápna sinna ok síðan eftir þeim Þorsteini. Ok er Þorsteinn sá eftirför Steinars, þá riðu þeir út af Langaholti. Þar er hóll einn hár ok óvíðr. Þar stigu þeir Þorsteinn af hestunum ok sækja upp á hólinn. Þorsteinn mælti, at sveinninn Grímr skyldi fara í skóginn ok verða eigi við staddr fundinn. Ok þegar er þeir Steinarr koma at hólnum, þá sækja þeir at þeim Þorsteini, ok varð þar bardagi. Þeir Steinarr vóru sex saman vaxnir menn, enn enn sjaundi son Steinars tíu vetra gamall. Þenna fund sá þeir menn, er vóru á engiteigum, af öðrum bæjum, ok runnu til at skilja þá. Ok er þeir vóru skildir, þá vóru látnir húskarlar Þorsteins báðir. Fallinn var ok einn húskarl Steinars, enn sárir sumir. Ok er þeir vóru skildir, leitar Þorsteinn at, hvar Grímr var, ok finna þeir hann. Var Grímr þá sárr mjök, ok son Steinars lá þar hjá honum dauðr. Ok er Þorsteinn hljóp á hest sinn, þá kallaði Steinarr á hann og mælti: „Rennr þú

nú, Þorsteinn hvíti“, segir hann. Þorsteinn segir: „Lengra skaltu renna, áðr vika sé liðin“. Síðan riðu þeir Þorsteinn út yfir mýrina, ok höfðu með sér sveininn Grím. Ok er þeir kómu út í holt þat er þar verðr, þá andast sveinninn, ok grófu þeir hann þar í holtit, ok er þat kallat Grímsholt, enn þar heitir Orrustuhváll, sem þeir börðust. Þorsteinn reið á Álftanes um kveldit, sem hann hafði ætlat, ok sat þar at boði þrjár nætr, enn síðan bjóst hann til heimferðar. Menn buðust til at fara með honum, enn hann vildi eigi. Riðu þeir tveir saman. Ok þann sama dag, er Steinarr vissi ván, at Þorsteinn mundi heim ríða, þá reið Steinarr út með sjó. Ok er hann kom á mela þá, er verða fyrir neðan Lambastaði, þá settist hann þar á melinn. Hann hafði sverð þat, er Skrymir hét, allra vápna bezt Hann stóð þar á melnum með sverðit brugðit, ok horfði þá á einn veg, þvíat hann sá þá reið Þorsteins útan um sandinn. Lambi bjó á Lambastöðum, ok sá, hvat Steinarr hafðist at. Hann gekk heiman ok ofan á bakkann, ok er hann kom at Steinari, þá greip hann aftan undir hendr honum. Steinarr vildi slíta hann af sér. Lambi helt fast, ok fara þeir nú af melunum á sléttuna, enn þá ríða þeir Þorsteinn it neðra götuna. Steinarr hafði riðit stóðhesti sínum, ok hljóp hann inn með sjó. Þat sá þeir Þorsteinn ok undruðust, þvíat þeir höfðu

ekki varir vorðit við för Steinars. Þá þveraðist Steinarr fram á bakkann, þvíat hann sá eigi at Þorsteinn hefði um riðit. Ok er þeir kómu á bakkann framanverðan, þá hratt Lambi honum fyrir melinn ofan, enn þat varaðist Steinarr ekki; hann rasaði ofan á sandinn, enn Lambi hljóp heim. Ok er Steinarr komst á fætr, þá rann hann eftir Lamba. Enn er Lambi kom at dyrum, þá hljóp hann inn, enn rak aftr hurðina. Steinarr hjó eftir honum, svá at sverðit stóð fast í vindskeiðunum. Skildust þeir þar. Gekk Steinarr heim. Enn er Þorsteinn kom heim, þá sendi hann um daginn eftir húskarl sinn út til Leirulækjar at segja Steinari, at hann færði bústað sinn um Borgarhraun, enn at öðrum kosti mundi hann njóta þess við Steinar, at hann ætti fleira manna-forráð — „ok mun þá eigi kostr brottferðar“. Enn Steinarr bjó ferð sína út á Snæfellsströnd, ok þar setti hann bú saman, er heitir at Elliða, ok lýkr þar viðskiftum þeira Þorsteins Egilssonar.

Þorgeirr blundr bjó at Ánabrekku. Hann veitti Þorsteini illar búsifjar í öllu því er hann mátti. Þat var eitt sinn, er þeir hittust Egill ok Þorsteinn, at þeir ræddu mart um Þorgeir blund frænda sinn, ok kómu allar ræður ásamt með þeim. Þá kvað Egill:

„Spandak jörð með orðum
endr Steinari ór hendi.

Ek þóttumk þá orka
arfa Geirs til þarfar.
Mér brast minnar systur
mögr, hétumk þó fögru,
máttit böls of bindask
Blundr, ek slíkt of undrumk".

Þorgeirr blundr fór í brott frá Ánabrekku, ok fór suðr í Flókadal, þvíat Þorsteinn þóttist ekki mega við hann eiga, enn hann vildi þó vægjast þar við. Þorsteinn var maðr órefjusamr ok réttlátr ok óáleitinn við menn, enn helt hlut sínum, ef aðrir menn leituðu á hann, enda veitti þat heldr þungt flestum, at etja kappi við hann. Oddr var þá höfðingi í Borgarfirði fyrir sunnan Hvítá. Hann var hofsgoði, ok réð fyrir hofi því er allir menn guldu hoftoll til fyrir innan Skarðsheiði.

85. (Andlát Egils Skallagrímssonar). Egill Skallagrímsson varð maðr gamall, enn í elli hans gerðist hann þungfærr, ok glapnaði honum bæði heyrn ok sýn. Hann gerðist ok fótstirðr. Egill var þá at Mosfelli með Grími ok Þórdísi. Þat var einn dag, at Egill gekk úti með vegg ok drap fæti ok fell; konur nökkurar sá þat ok hlógu at ok mæltu: „Farinn ertu nú, Egill, með öllu, er þú fellr einn saman". Þá segir Grímr bóndi: „Miðr hæddu konur at okkr, þá er vit vórum yngri". Þá kvað Egill:

„Vals hefk váfur helsis,
váfallr em ek skalla,

blautr erumk bergifótar
borr, enn hlust es þorrin“.

Egill varð með öllu sjónlauss. Þat var einnhvern dag, er veðr var kalt um vetrinn, at Egill fór til elds at verma sik. Matseljan ræddi um, at þat var undr mikit, slíkr maðr sem Egill hafði verit, at hann skyldi liggja fyrir fótum þeim, svá at þær mætti eigi vinna verk sín. „Ver þú vel við“, segir Egill, „þótt ek bökumst við eldinn, ok mýkjumst vér við um rúmin“. „Stattu upp“, segir hon, „ok gakk til rúms þíns, ok lát oss vinna verk vor“. Egill stóð upp ok gekk til rúms síns ok kvað:

„Hvarfak blindr of branda,
biðk eirar Syn geira
þanns berk harm á hvarma
hnitvölum mér sitja.
Es jarðgöfugr orðum
orð mín konungr forðum
hafði grams at gamni
geirs Hamðis mik framði“.

Þat var enn eitt sinn, er Egill gekk til elds at verma sik, þá spurði maðr hann, hvárt honum væri kalt á fótum, ok bað hann eigi rétta of nærri eldinum. „Svá skal vera“, segir Egill, enn eigi verðr mér nú hógstýrt fótunum, er ek sé eigi, ok er of daufligt sjónleysit“. Þá kvað Egill:

„Langt þykki mér,
likk einn saman
karl afgamall

*firr* konungsvörnum;
eigum ekkjur
allkaldar tvær,
enn þær konur
þurfu blossa".

[Þat var á dögum Hákonar ens ríka öndverðum, þá var Egill Skallagrímsson á níunda tigi, ok var hann þá hress maðr fyrir annars sakir enn sjónleysis. Þat var um sumarit, er menn bjuggust til þings, þá beiddi Egill Grím at ríða til þings með honum. Grímr tók því seinliga. Ok er þeir Grímr ok Þórdís töluðust við, þá sagði Grímr henni, hvers Egill hafði beiðzt — „vil ek at þú forvitnist, hvat undir mun búa bæn þessi". Þórdís gekk til máls við Egil frænda sinn. Var þá mest gaman Egils at ræða við hana. Ok er hon hitti hann, þá spurði hon: „Er þat satt, frændi, er þú vilt til þings ríða? Vilda ek, at þú segðir mér, hvat væri í ráðagerð þinni". „Ek skal segja þér", kvað hann, „hvat ek hefi hugsat. Ek ætla at hafa til þings með mér kistur þær tvær, er Aðalsteinn konungr gaf mér, er hvártveggju er full af ensku silfri. Ætla ek at láta bera kisturnar til lögbergs, þá er þar er fjölmennast. Síðan ætla ek at sá silfrinu, ok þyki mér undarligt, ef allir skifta vel sín í milli. Ætla ek at þar mundi vera þá hrundningar eða pústrar, eða bærist at um síðir, at allr þingheimrinn berðist".

Þórdís segir: „Þetta þyki mér þjóðráð, ok mun uppi meðan landit er bygt“. Síðan gekk Þórdís til tals við Grím, ok sagði honum ráðagerð Egils. „Þat skal aldri verða, at hann komi þessu fram, svá miklum firnum“. Ok er Egill kom á ræðu við Grím um þingferðina, þá taldi Grímr þat alt af, ok sat Egill heima um þingit. Eigi líkaði honum þat vel. Var hann heldr ófrýnn]. At Mosfelli var höfð selför, ok var Þórdís í seli um þingit. Þat var eitt kveld, þá er menn bjuggust til rekkna at Mosfelli, at Egill kallaði til sín þræla tvá, er Grímr átti. Hann bað þá taka sér hest — „vil ek fara til laugar“. Ok er Egill var búinn, gekk hann út, ok hafði með sér silfrkistur sínar; hann steig á hest. Fór síðan ofan eftir túninu fyrir brekku þá, er þar verðr, er menn sá síðast. Enn um morgininn, er menn risu upp, þá sá þeir, *at* Egill hvarflaði á holtinu fyrir austan garð ok leiddi eftir sér hestinn. Fara þeir þá til hans, ok fluttu hann heim. Enn hvárki kom aftr síðan þrælarnir né kisturnar, ok eru þar margar gátur á, hvar Egill hafi fólgit fé sitt. Fyrir austan garð at Mosfelli gengr gil ofan ór fjalli. Enn þat hefir orðit þar til merkja, at í bráðaþeyjum er þar vatnfall mikit. Enn eftir þat er vötnin hafa fram fallit, hafa fundizt í gilinu enskir peningar. Geta sumir menn þess, at Egill muni þar féit hafa fólgit. Fyrir neðan

tún at Mosfelli eru fen stór ok furðuliga djúp. Hafa þat margir fyrir satt, at Egill muni þar hafa kastat í fé sínu. Fyrir sunnan ána eru laugar ok þar skamt frá jarðholur stórar, ok geta þess sumir, at Egill mundi þar hafa fólgit fé sitt, þvíat þangat er oftliga sénn haugaeldr. Egill sagði, at hann hefði drepit þræla Gríms, ok svá þat, at hann hafði fé sitt fólgit, enn þat sagði hann engum manni, hvar hann hefði fólgit. Egill tók sótt eftir um haustit, þá er hann leiddi til bana, enn er hann var andaðr, þá lét Grímr færa Egil í klæði góð. Síðan lét hann flytja hann ofan í Tjaldanes, ok gera þar haug, ok var Egill þar í lagðr ok vápn hans ok klæði.

**86.** (Grímr tók trú). Grímr at Mosfelli var skírðr þá er kristni var í lög leidd á Íslandi. Hann lét þar kirkju gera, enn þat er sögn manna, at Þórdís hafi látit flytja Egil til kirkju, ok er þat til jartegna, at síðan er kirkja var ger at Mosfelli, enn ofan tekin sú kirkja, er Grímr hafði gera látit, *firr bænum,* þá var þar grafinn kirkjugarðr, enn undir altarisstaðnum þá fundust manna bein. Þau vóru miklu meiri, enn annara manna bein. Þykjast menn þat vita af sögn gamalla manna, at mundi verit hafa bein Egils. Þar var þá Skafti prestr Þórarinsson, vitr maðr. Hann tók upp hausinn Egils ok setti á kirkjugarðinn. Var haussinn undarliga mikill,

enn hitt þótti þó meir frá líkendum, hvé þungr var. Haussinn var allr báróttr útan, svá sem hörpuskel. Þá vildi Skafti forvitnast um þykkleik haussins. Tók hann þá handexi vel mikla ok reiddi annarri hendi sem harðast, ok laust hamrinum á hausinn ok vildi brjóta, enn þar sem á kom, hvítnaði hann, enn ekki dalaði né sprakk, ok má af slíku marka, at hauss sá mundi ekki auðskaddr fyrir höggum smámennis, meðan svörðr ok hold fylgdi. Bein Egils vóru lögð niðr í útanverðum kirkjugarði at Mosfelli.

87. (Endir Egils sögu). Þorsteinn Egilsson tók skírn, þá er kristni kom á Ísland, ok lét kirkju gera at Borg. Hann var maðr trúfastr ok vel siðaðr. Hann varð maðr gamall, ok sóttdauðr, ok var jarðaðr at Borg at þeiri kirkju, er hann lét gera. Frá Þorsteini er mikil ætt komin ok mart stórmenni ok skáld mörg, ok er þat Mýramanna kyn, ok svá alt þat er komit er frá Skallagrími. Lengi helzt þat í ætt þeiri, at menn vóru sterkir ok vígamenn miklir, enn sumir spakir at viti. Þat var sundrleitt *mjök, því at í* þeiri ætt hafa fæðzt þeir menn, er fríðastir hafa verit á Íslandi, sem var Þorsteinn Egilsson ok Kjartan Óláfsson, systurson Þorsteins, ok Hallr Guðmundarson, svá ok Helga hin fagra, dóttir Þorsteins, er þeir deildu um Gunnlaugr ormstunga ok Skáld-Hrafn, enn fleiri vóru Mýramenn manna ljótastir. Þorgeirr, son

Þorsteins, var þeira sterkastr bræðra, enn Skúli var mestr. Hann bjó at Borg eftir dag Þorsteins föður síns. Skúli var lengi í víking. Hann var stafnbúi Eiríks jarls á Járnbarðanum, þá er Óláfr konungr Tryggvason fell. Skúli hafði átt í víking sjau orrustur.

---

# Vísnaskýringar.

24, 58[1] *(Kveldúlfr).* Nú frák Þórólf fóru[1] und lok[2] norðr í eyju. Norn erum grimm[3]. Þundr[4] kaus þremja skyndi[5] til snimma. Þung fangvina Þórs[6] létumk brugðit at ganga at málmgnáarþingi. Skjótt munat hefnt, þótt hugr hvettimk.

1. *fóru,* nafnháttr þátíðar (infinitivus præteriti) af **fara** (sbr. **knáttu, mundu, skildu, vildu**). — 2. Þórólf fóru und *lok,* líða undir lok, deyja. — 3. *erum,* er mér. — 4. = Óðinn. — 5. þremjar (flt. kvk.), partr af sverðsblaði, þremja *skyndir,* sverðknýjandi, mannkenning. — 6. *fangvina Þórs,* Elli, ellin. — 7. *malmgná,* málmásynja, valkyrja, málmgnáar *þing,* orrusta.

Nú spurði ég Þórólf dáinn norðr í eyju (Álöst). Nornin er mér grimm. Of snemma kaus Óðinn sér kappann. Ellin meinaði mér að ganga í bardagann. Mun því ekki fljótt hefnt, þótt ég hafi fullan hug á því.

27, 69 *(Skallagrímr).* Nús hersis hefnd efnd við hilmi; ulfr ok örn gengr of börn ynglings[1]; hræ Hallvarðs flugu höggvin á sæ; grön ara[2] slítr und Snarfara.

1. *ynglingr,* konungr. — 2. *ari,* örn.

Nú er hefnd hersis efnd við konung; úlfr og örn ganga á börnum konungs. Hræjum Hallvarðs var þeytt sundrhöggnum á sjó út; grár örn slítr sár Snarfara.

1) Fyrri talan kapítulatala, síðari talan blaðsíðutala.

**30, 78** *(Skallagrímr).* Mjök ár verðr ísarnmeiðr[1] at rísa, sás leggja skal aura. Veðrs váðir kveðja Vidda bróður[2]. Lætk sleggjur gjalla á heitu golli, meðan hreggsvindfrekar geislanjóts hrœrikytjur[3] þjóta.

1. *ísarn*, járn, ísarn*meiðr*, járnviðr, mannkenning, einkanlega járnsmiðr. — 2. *Viddi*, jötunn, hér: sjór eða eldr, Vidda *bróðir*, vindrinn. — 3. *geislanjótr* eldrinn, geislanjóts *hrœrikytjur* = hreyfikot eldsins = smiðjubelgir.

Mjög snemma verðr sá járnsmiðr að rísa úr rekkju, sem safna skal peningum. Vindklæðin, (smiðjubelgirnir) knýja fram vindinn. Eg læt sleggjurnar dynja á heitu gullinu, meðan bráðvindfrekar eldkytjur (= smiðjubelgirnir) þjóta.

**31, 80** *(Egill).* Emk kominn ern til arna Ingvars, þess's gefr drengjum lyngva fránþvengjar beð[1]. Vark fúss at finna hann. Þú mun eigi, þægir ljósundinna[2] linns landa[3], finna þrévetran óðarsmið betra mér.

1. *lyngva fránþvengr*, gljáandi þvengr í lyngum, ormr, lyngva fránþvengs *beðr*, gull. — 2. *ljósundinn*, ljósi vafinn. — 3. *linnr*, ormr, linns *lönd*, gull, *þægir* ljósundinna linns landa, gullsgjafi, mannkenning.

Ég er kominn heill á húfi til heimkynna Ingvars, sem gefr mönnum gull. Mig fýsti að finna hann. Þú sem býtir glóanda gullinu, munt eigi finna þrévetrt skáld fremra mér.

**31, 81** *(Egill).* Hagr hirðimeiðr sárgagls[1] gaf söglum Agli þría síþögla brimrótar[2] gagra við hróðri, ok borðvallar blakka kennimeiðr[3], sás kunni gleðja Egil, gaf fjorða: körbeð bekkþiðurs[4].

1. *sárgagl*, sár-gæsarungi = ör, hirði*meiðr* sárgagls, mannkenning. — 2. *brimrót*, sædjúp, brimrótar *gagarr*

(= hundr), kúfungr. — 3. *borðvöllr*, byrðingavöllr, sjór, borðvallar *blakkr* (= hestr), skip, borðvallar blakks *kennimeiðr*, mannkenning. — 4. *körbeð*, rekkja; *bekkþiðurr* (= lækjarþiðurr) önd; beðr andarinnar er hér = egg.

Hinn hagi maðr gaf (mér) Agli, sem tala svo margt, þrjá þegjandi kúfunga fyrir vísu mína, og sjógarprinn, sem vissi, hvernig hann átti að gera mér glatt í gleði, gaf fjórða (hlut): eitt andaregg.

38, 96 *(Skallagrímr).* Margar flösur liggja í eggju ýgs undvargs[1]; ilt fox[2] es í exi. Ák deigja sveigjar kör[3]. Lát arghyrnu[4] með roknu skafti árna aftr. Þat vas ingva gjöf[5]. Þörfgi væri þeirar hingat.

1. *undvargr*, sáraúlfr = öxi. — 2. *fox*, hér: svik (öxin er svikin). — 3. *sveigr*, svigi, viðr; sveigjar *kör*, viðareyðing = öxi. — 4. *hyrna*, öxi, *arg*hyrna, deig öxi *(argr*, deigr). — 5. ingvi = Ingvi = konungsheiti, ingva *gjöf*, konungsgjöf.

Margar veilur eru í hinni skæðu exi. Hún er svikin. Ég á deiga exi. Lát hina deigu exi með sótuga skaftinu fara aftr þangað sem hún er frá komin. Það var konungsgjöf! Það var ekki þörf að senda hana hingað.

40, 99. Þessi vísa þarf eigi skýringar við.

44, 107 *(Egill).* Sögðuð, herkumla sverriflagða brjótr[1], sumleklu[2] þars blétuð dísir; því telk þik bragðvísan. Leynduð alls ókunna hjörrunna[3] hugarfári til illa; ilt bragð hafið of brugðit, Bárøðr.

1. *herkuml*, hjálmr, *sverriflagð*, þjótandi flagðkona, herkumla sverriflagð = öxi, öxarbrjótr, mannkenning. — 2. *sumlekla*, ölskortr. — 3. *hjörrunnr*, mannkenning.

Þú sagðir, maðr, að ölskortr væri við dísablót yðvart.

Ég tel þig brögðóttan. Þú dróst dulur á þinn illa hug fyrir alls ókunnum mönnum, og það var illa gert. Þú hefir gert með því ilt bragð, Bárðr.

44., 108 1 *(Egill).* Ristum rún á horni, rjóðum spjöll[1] í dreyra. Þau orð velk til eyrna róta viðar[2] óðs dýrs. Drekkum veig vel glýjaðra[3] þýja, sem viljum, vita, hvé öl, þats Báreðr signdi, of eiri oss.

1. *spjöll*, rúnir. — 2. *eyrna rætr*, höfuðið, eyrnaróta *viðr*, horn. Hið *óða dýr* ætlaði dr. Scheving og aðrir síðan vera úruxa, og að Norðmenn hafi drukkið af úrarhornum; sbr. næstu vísu. — 3. *glýjaðr*, kátr.

Ég skal rísta rúnir á hornið og rjóða rúnirnar í blóði. Þau orð vel ég til að setja á horn villidýrsins. Ég skal drekka eftir vild drykk þann sem kátar ambáttir hafa byrlað, og vita, hversu mér eirir ölið, sem Bárðr hefir signt.

44, 108 2 *(Egill).* Ber mér öl, því öl gervir nú Ölvi fölvan, lætk úrar atgeira ýring[1] skýra[2] of grön. Kant nýsa[3] öllungis illa fyr þér, oddskýs regnbjóðr[4], gervir rigna regni Hávars þegna[5].

1. *úrr* (ýrr) úruxi; úrar *atgeirr*, horn; *ýring* smáregn; hornaregn = öl. — 2. *skýra* (af skúr), streyma. — 3. nýsa = hnýsa. — 4. *oddský*, skjöldr; oddskýs regn, örvadrífa; oddskýs *regnbjóðr* mannkenning. — 5. *Hávarr* = háarr = Hárr = Óðinn; Óðins þegnar, Æsir; regn þeirra, skálda drykkrinn.

Ber mér öl, því að ölið gerir nú Ölvi fölvan, enn ég læt spjótaregn úruxans rigna á varir mér. Þú hefir alls ekki gát á hverju fram fer, maðr. Nú tekr rigna Ása regni (= nú yrki ég).

**44, 112** *(Egill).* Svá hefk leystsk ór garði dáðmilds Lista[1] láðvarðaðar[2] ok Gunnhildar — ne ek fága drjúgan dul[3] —, at nakkvarir þrír þjónar hlakkar þrifreynis[4] dvelja för, helgengnir til Heljar hásalar.

1. *Listi*, landshluti í Noregi, á Ogðum, nú Listeramt. — 2. *láðvarðaðr,* láðvörðuðr, láðvörðr = konungr. — 3. *fága dul*, fara dult með, dylja. — 4. *hlökk*, orrusta, hlakkar *þrifreynir*, orrustu frjóviðr, mannkenning.

Þannig hefi ég sloppið úr garði hins hrausta Listalands varðar (Noregs konungs) og Gunnhildar — ég dreg alls engar dulur á það —, að einhverir þrír menn hafa orðið að halda kyrru fyrir. Þeir eru komnir til hinna háu Heljar sala.

**47, 118** *(Egill).* Skulum, ulfstannlituðr[1], glitra órum sverðum upp. Eigum at drýgja dáð í fiska dal-miskunn[2]. Hverr lýða leiti sem bráðast upp til Lundar. Gerum þar ófagran vigra seið[3] fyr sólarsetr.

1. *ulfstannlituðr,* sá sem litar tennr úlfsins (í blóði), (bardaga)maðr. — 2. *fiska dal-miskunn* = *dalfiska miskunn; dalfiskr*, ormr, ormamiskunn = ormalífgjafi = sumarið. — 3. *vigr* (kvk.), spjót, vigra *seiðr,* spjótasöngr, bardagi.

Vér skulum, bardagamaðr, láta sverð vor blika í lofti. Vér skulum vera hraustir í sumar. Vér verðum allir að fara sem bráðast upp til Lundar; heyjum þar orrustu fyrir sólsetr.

**48, 120** *(Jarlsdóttir).* Hvat skalt sveinn í sess minn? sjaldan hefr þú gefnar vargi varmar bráðir. Vilk vesa ein of mína. Sáttaðu hrafn gjalla of hræsolli[1] í hausti. Vastaðu at, þars skelþunnar eggjar runnusk á.

1. *hræsoll* (hvk.) blóð.

Hvað viltu, sveinn, í mitt sæti? Þú hefir sjaldan barizt. Ég vil vera ein um mín sæti (eða mína hitu). Þú sást ekki hrafn gjalla yfir val í haust; þú varst þar ekki sem sverðseggjarnar runnust á.

48, 121 (*Egill*). Hefk farit blóðgum brandi — benþiðurr[1] fylgði mér — ok gjallanda geiri. Harðr gangr vas á víkingum. Gerðum reiðir róstu. Eldr rann of manna sjöt[2]. Ek lét blóðga búka sœfast í borghliðum.

1. *benþiðurr*, sárafugl = hrafn. — 2. *sjöt*, sæti (af sitja), hér = hús.

Ég hefi farið með blóðugu og gjallanda sverði; hrafninn fylgdi mér. Vér víkingar gengum hart fram. Vér vórum reiðir. Hús manna brunnu. Ég lét blóðuga búka sofna í borghliðum.

49, 127 (*Egill*). Gerðum helzti harða hríð fyr Jótlands síðu. Víkingr sás varði Dana ríki barðisk vel, áðr snarfengr Eyvindr skreyja of hljóp œstr af unnar hesti[1] á sund fyr sandi.

1. *unnar hestr*, báruhestr, skip.

Vér áttum harða orrustu við strönd Jótlands. Víkingrinn, sem varði Dana ríki, barðist vel, áðr enn hinn röskvi Eyvindr skreyja hljóp í ofboði með mönnum sínum fyrir borð í sjóinn við sandinn.

52, 131 (*Egill*). Áleifr of kom flótta ótt á bak jöfri, enn feldi annan. Spyrk þann þengil vígsharðan. Goðrekr lét gnóga glapstigu troðna á mó. Engla skerðir spenr halfa jörð Alfgeirs und sik.

Áleifr kom fljótlega flóttanum á bak konungi (fekk konung fljótt til að flýja), enn feldi annan (konunginn).

Hann er sagðr harðr í bardögum. Goðrekr fór á marga glapstigu. Fjandmaðr Englendinga dregr undir sig hálft land Álfgeirs.

55, 144 1 *(Egill).* Jarlmanns bani, sás óðisk ekki, gekk snarla í stórum Þundar gný[1]. Þreklundaðr Þórólfr fell. Jörð grœr of mínum ágætum barma[2] nær Vínu[3]. Þat es helnauð, enn vér verðum hylja harm.

1. *Þundr*, Óðinn, Þundar *gnýr*, orrusta. — 2. *barmi* (af barmr, brjóst), bróðir. — 3. *Vína* = Vínuheiðr eða Vínuheiði, þar sem orrustan var.

Bani jarlsins, sá er ekkert hræddist, gekk rösklega fram í hinni miklu orrustu; hinn hugaði Þórólfr fell. Jörðin grær yfir mínum ágæta bróður í grend við Vínu. Þetta er þungr harmr, enn ég verð að bera hann í hljóði.

55, 144 2 *(Egill).* Hlóðk vang vestan valköstum fyr merkistangir. Ótt vas él þats sóttak Aðils of báum naðri. Ungr Áleifr háði stála þrumu við Engla. Hringr helt á vápna þingi. Hrafnar ne sultu.

Fyrir vestan haf hlóð ég valköstum fram af merkistöngunum. Það var harðr bardagi, er ég sótti Aðils með sverði mínu (Naðri). Áleifr, hinn ungi maðr, háði orrustu við Englendinga og Hringr barðist. Hrafnar sultu þá ekki.

55, 146 1 *(Egill).* Brynju Höðr[1] lætr hrammtangar hrynvirgil[2] hanga mér á hauki troðnum heiðis vingameiði[3]. Ek kná reiða rauðmeldrs gelgju[4] á geirveðrs seiðs galga[5]. Gunnvalabræðir ræðr[6] at meira lofi.

1. *brynju Höðr*, mannkenning. — 2. *hrammtöng*, fingr, hrammtangar *hrynvirgill*, hljómandi snara fingrsins = hringr. — 3. *heiðir*, valr; *vingameiðr* tré það er Óðinn

hekk á í níu nætr, hér = tré = haukstré = handleggr. — 4. *rauðmeldr*, rauðmél, gull; *gelgja* (sbr. galgi) mjó stöng eða band. — 5. *geirveðr*, orrusta, geirveðrs *seiðr*, orrustu fiskr, sverð; geirveðrs seiðs *galgi*, handleggr. — 6. *gunnvalr*, hrafn, gunnvala *bræðir* (af bráð) sá er gefr hrafninum bráð, bardagamaðr.

Konungr gefr mér hring á hendina, sem ég hefi borið haukinn á. Ég ber gullhring á hendi mér. Gefandinn á að meira lof skilið.

55, 146 2 *(Egill)*. Hvarms hnúpgnípur[1] knáttu drúpa mér af harmi. Nú fann ek þanns rétti þær ennis ósléttur. Gramr hefir of hrundit upp grímugrundar gerðihömrum[2] mér armsíma[3]. Sá ýgr[4] es af augum mér.

1. *hvarms hnúpgnípur*, brattar gnípur augnaloksins, brattar augabrýr (sbr. „að láta síga brýnnar"). — 2. *grímugrund*, andlit, grímugrundar *gerðihamrar*, hamrar, sem girða andlitið, brýr. — 3. *armsími* = armband = gullhringr. — 4. *ýgr*, ógn.

Gnípur augnaloksins slúttu á mér af harmi. Nú fann ég þann sem sléttí úr þeim. Konungr hefir lyft brúnunum á mér með gullhringnum. Nú er sá þungi kominn af augum mér.

55, 147 *(Egill)*. Nú hefr foldgnárr[1] hjaldrsnerrandi[2], höfuðbaðmr[3] harra[4], felda þría jöfra. Jörð fellr und nið Ellu[5]. Aðalsteinn of vann annat. Hér sverjum þess, hyrjar hrannbrjótr[6]. Alt 's lægra kynfrægjum konungmanni.

1. *foldgnárr*, líkl. sá sem gnæfir yfir landið (J. Þ.) — 2. *hjaldr*, orrusta, hjaldr*snerrandi*, orrustuhvetjandi, mannkenning. — 3. *höfuðbaðmr*, ættingi. — 4. *harri*, konungr. — 5. *Ella*, fornkonungr á Englandi. — 6. *hyrr*, eldr, *hrann*hyrjar*brjótr*, gullsbrjótr, mannkenning.

Nú hefir bardagahetjan, sem gnæfir yfir landið (hefir það í vernd sinni), afkomandi konunganna, felt þrjá konunga. Landið kemr undir afkomanda Ellu konungs. Aðalsteinn gerði og fleira. Ég sver þess, gjöfuli höfðingi: allir standa undir hinum ættfræga konungi.

**55, 147** *(Egill).* Nú liggr hæst hreinbraut[1] und hraustum Aðalsteini.

1. *hreinbraut,* vegr hreindýranna, fjalllendi.

Hæstu fjalllendi liggja nú undir hinn hrausta Aðalstein konung.

**56, 149** 1 *(Egill).* Ung haukaklifs Hlín[1] vensk ókynni[2]. Þorðak vel forðum at hefja ennis þvergnípur[3] mínar. Verðk brátt at hváta[4] brúna miðstalli[5] í feld, þás Bergönundar foldar faldr[6] kemr í hug skaldi.

1. *haukaklif,* handleggr, haukaklifs *Hlín,* hér kvenkenning. — 2. *ókynni,* ókunnleikr, enginn kunningskapr. — 3. = brýr. — 4. *hváta,* stinga. — 5. *brúna miðstallr,* nefið. — 6. *Bergönundar foldar faldr.* Í þessum orðum ætti að vera bundið nafn Ásgerðar, enn hvernig það verðr skýrt, er vafasamt, enda getr verið að þessi orð sé úr lagi færð. Líklega er bergönundar ekki rétt; sum hdr. hafa bergóneris eða eitthvað svipað því, sem verðr heldr ekki skilið.

Hin unga stúlka á enga kunningja. Áðr þorði ég að líta upp á fólk. Nú verð ég að stinga nefinu í feld minn, þegar mér kemr Ásgerðr í hug.

**56, 149** 2 *(Egill).* Felk sjaldan nafn í Narfa niðerfi[1] ‚sef skuldar sorg ey vita borgar örvífils drafnar'[2] því geirrótu götva gnýþings reifendr[3] munu þreifa bragarfingrum at veigum rógs ræsis[4].

1. *Narfi,* jötunsheiti, Narfa*niðr,* Suttungr; erfi (veizla)

hans = skáldskapr. — 2. *dröfn*, sjór; hér er einhver kenning, sem ekki verðr skýrð. — 3. *geirróta*, valkyrja, geirrótu *götvar*, valkyrju klæði, brynja; brynju *gnýþing* = orrusta; orrustu *reifendr*, bardagamenn. — 4. *rógs ræsir*, Óðinn, Óðins*veigar*, skáldskapr.

Þau orð sem hér eru höfð milli tilvísunarmerkja verða ekki skýrð.

Ég fel sjaldan (manns?) nafn í skáldskap, því að menn munu með skáldafingrum rannsaka hann.

56, 157 *(Egill)*. Horna þorna á(a)r[1] kveðr mína þornreið[2] þýborna. Hann Önundr sýslir of sína síngirnd. Naddhristir[3] ák nistis norn[4] of borna til arfs. Þat es eiðsœrt. Þigg þú, auðkonr[5], greiða eiða.

1. hér er einhver mannkenning, sem ekki verðr skýrð; *ár* er of stutt, *áar* verðr heldr ekki skilið. — 2. *þornreið*, kvenkenning. — 3. *naddr*, spjót, nadd*hristir*, mannkenning. — 4. *nistis norn*, kvenkenning. — 5. = auðmaðr.

Maðrinn segir konu mína þýborna. Hann Önundr þjónar síngirnd sinni. Maðr, ég á konu, sem er borin til arfs. Það er hægt að sverja. Heyr nú, auðmaðr, þegar á eiðana.

56, 159 *(Egill)*. Arfljúgr[1] erfingi þyrnifótar[2] ræðr svarfa arfi[3] fyr mér, — mætik hans hótum ok heitum —, nærgis ek get goldit hánum slík rán ‚simla sorgar'[4]. Vér deildum fold foldar fjöt væringja[5].

1. *arfljúgr*, sá sem lýgr til arfs. — 2. Þorgeirr þyrnifótr var faðir Bergönundar. — 3. *svarfa*, ná undir sik. — 4. *simla sorg* á að vera einhver kenning gulls eða auðæfa, enn verðr ekki skýrð. — 5. *foldarfjöt væringja* er óvíst hvað er, og verða orðin: v é r d e i l d u m f o l d f o l d a r f j ö t v æ r i n g j a ekki skýrð. Hugsunin er líklega: vér deildum um gullið.

Erfingi þyrnifótar, sem lýgr til arfs, hefir náð undir sig arfi mínum, — hvenær sem ég get goldið honum slíkt férán. Vér höfum deilt um gullið(?)

56, 162 (*Egill*). Nú hefir þróttharðr vígelds-þrymrögnir[1] felda tíu þegna várrar sveitar, enn mik varðak víti, þvít digr Sýrar sárlaxa bifþorn[2], sendr ór minni hendi, fló beint meðal bjúgra rifja Ketils.

1. *vígeldr*, sverð, vígelds *þrymr* orrusta, vígelds þrymrögnir, mannkenning (Rögnir = Óðinn). — 2. *sárlax,* sverð, sárlaxa *Sýr*, valkyrja, sárlaxa Sýrar *bifþorn*, spjót.

Nú hefir bardagamaðrinn (Eiríkr konungr) felt tíu menn af sveit vorri, enn ég varðist slysum, því digrt spjót, sem ég kastaði úr hendi mér, fló beint milli bjúgra rifja á Katli.

56, 163 *(Egill)*. Bönd[1] reki gram af löndum. Svá skyldi goð gjalda hánum rán míns féar. Rögn[2] sé reið ok Óðinn. Landáss[3], lát fólkmýgi[4] flýja af jörðum. Freyr ok Njörðr leiðisk[5] lofða stríði[6], þanns grandar vé.

1. *bönd* (hin bindandi, ákvarðandi goðmögn), goð. — 2. *rögn* (hin hreyfandi goðmögn), goð. — 3. *landáss* er annaðhvort = landvættr, eða landsins áss (guð) = Óðinn eða Þórr. — 4. *fólkmýgir,* sá sem mýgir, kúgar, harðstjóri. — 5. *leiðisk*, leiði sér, geri sér leiðan. — 6. *lofðar*, menn, lofða *stríðir*, sá sem stríðir mönnum, stendr í móti þeim.

Goðin reki konung úr landi. Svo skyldu þau gjalda honum rán eigna minna. Goðmögnin séu (honum) reið og Óðinn. Verndari landsins, láttu harðstjórann flýja úr landinu. Sé Freyr og Njörðr leiðr óvini þjóðarinnar, sem spillir helgidómunum (véunum).

57, 165 *(Egill).* Lögbrigðir[1] hefir lagða langa vegu fyr mér sjálfum. Brúðfang[2] lindalfs[3] blekkir brœðra søkkva[4]. Ák Gunnhildi gjalda þenna landrekstr. Greypt[5] 's skap hennar. Enn getk grandat bili[6] ok launat læ[7]

1. *lögbrigðir*, sá er bregðr af lögum, brýtr lög. — 2. *brúðfang*, kvonfang, hér: = kona (Gunnhildr). — 3. *lindalfr* er eflaust réttara enn *landalfr*, sem stendr í vísunni, og hefir dr. F. J. getið þess til í skýringum sínum; *lind* er = skjöldr, lind*alfr* því mannkenning. — 4. *brœðra sökkvir,* bræðra bani, Eiríkr konungr. — 5. *greypt*, grimt. — 6. *at granda bili*, að flýta sér. — 7. *lœ* (hvk), lævísi, undirferli.

Lögbrjótrinn hefir ætlað mér að fara langa vegu (í brott). Kona hans, sem drap bræðr sína, hefir blekt hann. Ég á að launa Gunnhildi þenna landrekstr. Skap hennar er grimt. Enn þá get ég notað tímann og flýtt mér að launa henni lævísina.

57, 169 *(Egill).* Sátum til lengi of skarðum hlut, — meir varðak fé forðum þeima[1] lyngs fjarðölna ljósheims Bör[2] — áðr létk Bergönund bensœfðan venjask benjum. Feltk[3] beðju Bors niðjar[4] blóði Hadds og Fróða.

1. = þessum. — 2. *lyngs fjörðr* þurt land; *ölunn*, fiskr; lyngsfjarðölunn, landfiskr = ormr; *ljósheimr* orma, gull; *bör*, viðr; gullsviðr, mannkenning. — 3. = ég faldaði. — 4. *Bors niðr* (sonr) = Óðinn, *beðja* (kona) hans, Jörð, = jörðin.

Ég hefi helzti lengi setið yfir skörðum hlut — betr hefi ég áðr varið fé mitt fyrir þeim manni — þar til ég veitti Bergönundi banasárið. Ég faldaði jörðina með blóði Hadds og Fróða.

57, 171 *(Egill).* Vér börðumk, rauðk vígleiftr[1] blóði

sonar böðmilds[2] blóðöxar ok Gunnhildar. Ne virðak heiftir. Þó fellu þar á einum karfa þrettán lagar mána þollar[3]. Starf stendr af styrjar skyndi[4].

1. *vígleiftr*, sverð. — 2. *böðmildr*, bardagagjarn. — 3. *lagar máni*, gull, *þollr*, (furu)viðr; gullsviðr, mannkenning. — 4. *styrr*, orrusta; styrjar *skyndir*, orrustufrömuðr, bardagamaðr.

Vér börðumst. Ég rauð sverð mitt blóði sonar hins bardagagjarna (Eiríks) blóðöxar og Gunnhildar. Ég skeyti ekki um heiftir (þeirra). Þar fellu á einum karfa þrettán manns. Bardagamaðrinn hefir ekki verið iðjulaus.

57, 172 *(Egill).* Stórt höggr jafnan andærr[1] vandar jötunn[2] út þél[3] með éla meitli[4] fyr stáli[5] á stafnkvígs veg[6]. Enn svalbúinn selju gandr[7] sverfr eirarvanr[8] þeiri Gestils alft[9] með gustum of stáli ok brandi.

1. *andærr*, annaðhvort = móðr, eða af and-, á móti og ár = sá sem rær á móti. — 2. *vandar jötunn*, vindr (eða skip). — 3. *þel*, á að líkindum að vera *þél*, og hefir Brynjólfr Jónsson frá Minnanúpi líka bent mér á það. Það var áðr venja að höggva út þjalir með meitlum og hefir verið gert til skamms tíma. — 4. *éla meitill* er óvíst hvað á að vera. — 5. *stál* = stefni. — 6. *stafnkvígr*, skip, stafnkvígs *vegr*, sjór. — 7. *seljugandr*, viðarvargr, vindr. — 8. *eir*, hlífð, vægð, eira*vanr*, hlífðarlaus. — 9. *Gestill*, sækonungsheiti, gestils*alft*, skip. — Í vísunni er að líkindum orðaleikr, sem ekki er auðvelt að skýra.

Stórt höggr hinn móði jötunn (vindrinn) út þélina (ölduna) með éla meitlinum fyrir stáli (stefninu) á sjónum. Enn hinn kaldi vindr sverfr vægðarlaust um stafn og brand skipsins.

59, 180 *(Egill).* Emk kominn langan ölduveg á angr-

beittum[1] Ívu jó[2] at vitja atsitjanda enskrar foldar. Nú hefr undarbliks sískelfir[3] of fundinn viðr yfrinn ofrhuga sjalfan snarþátt Haralds áttar[4].

1. *angr*, fjörðr (sbr. kaupangr) hér líkl. = sjór, *angrbeittr*, sà sem beitt er á sjó. — 2. *Íva*, fljót á Helsingjalandi, Ívu*jór*, fljótshestr = skip. — 3. *undarblik*, sverð, undarbliks *sískelfir*, mannkenning. — 4. = ætt.

Ég er kominn langan sjóveg á skipinu að vitja konungs í Englandi. Nú hefir bardagamaðrinn verið svo djarfr að koma á fund hins öfluga kynsmanns Haralds konungs.

**Höfuðlausn.** 1. 1. *ver* = sjór. — 2.—3. *Viðris munstrandarmarr* = Óðins brjóstlögr, Suttungs mjöðr = skáldskapr. — 5. *eik*, hér: skip. — 7. *mærð*, skáldskapr. — 8. *hugarknörr* = hugr.

2. 1. *buðumk* = bauð mér; *hilmir*, höfðingi, konungr; *löð*, gisting. — 3. *Óðins mjöðr* = skáldskapr. — 4. *þjóð*, land. — 5. *vísi*, konungr.

3. 3. *þylja fet*, geri þylja (fat af feta). — 7. *Viðrir*, Óðinn.

4. 1. *hjörva hlam*, sverðahljóð. — 2. *hlíf*, skjöldr; *þram*, = þröm, af þrömr = rönd, *hlífarþrömr*, skjaldarrönd. — 5.—7. *malmhríðar spá*, skothríðarsöngr. — 6.—7. *mækis á*, sverðastraumr. — 8. = sem lá þyngst á.

5. 2. *vefr Darraðar* = orrusta. — 4. *geirvangr*, spjótaland, skjöldr, geirvangs *raðir*, skjaldaraðir. — 6.—7. *brimis röllr*, sjór; *þrymja*, vera kyrr, óbifanlegr. — 8. *vé*, fáni.

6. 1. *fit*, strönd. — 2. *hnit*, árekstr.

7. 2. *firar*, menn. — 5. *æxla*, láta vaxa. — 7. *brandar*, sverð. — 8. *randar*, skildir.

8. 1. *hlima*, glymja. — 1.—2. *hrynsöðull* og *hjalmröðull* er í hdr. einnig *heinsöðul* og *hjaldrröðul*, enn hvað þau

orð eiga að þýða er óvíst. — 3. *bengrefill*, sverð. — 4. *blóðrefill*, sverðsoddr. — 6. *fetilsvell*, sverð. — 7.—8. *Óðins leikr*, orrusta, *ísarns eiki*, járnviðr, mannkenning.

9. 2. *gnat*, glamr.

10. 2. *gør*, ger, hópr. — 4. *spjör*, spjót. — 5. *flagðs goti*, flagðhestr = úlfr. — 7. *Nari*, sonr Loka, *nift*, systir Nara, Hel. — 8. *ari*, örn, *náttverðr* ara, hræ.

11. 1. *hjaldrtranar*, hrafnar eða hræfuglar. — 2. *hræs lanar*, (af lön) valkestir. — 4. *benmár*, hrafn. — 5. *oddbreki*, odda (sverða) bára, blóð. — 6. *freki*, úlfr. — 8. *höfuðstafn*, nef

12. 1. *gráðar læ*, hungreyðing, saðning. — 2. *Gjölp*, tröllkona, *skær*, hestr; tröllkonuhestr, úlfr.

13. 2. *loginn* = brotinn. — 3. *almr*, bogi. — 7. *hörvar*, (flt. af hörr) bogastrengir.

14. 1. *broddflet*, skjöldr. — 2. *baugset*, hönd. — 3. *hjörleiks hvati*, bardagamaðr. — 4. *blóðskati* = ör á blóði.

15. 1. *ýr* (upphafl. trjáteg.) bogi. — 2. *unda bý*, sáraflugur, örvar.

16. 2. *skilja* = greina. — 3. *skapleikr*, lunderni. — 5. *snót saka*, Hildr, hér: orrusta. = 6. *sverðfreyr*, mannkenning — 7. *Haki*, sækonungsheiti, Haka *skær* (= hestr) skip. — 8. *skíðgarðr* sá er hér er nefndr, mun eiga að vera = skildir, því skipin vóru sköruð skjöldum.

17. 1. *bógviti* = armeldr, gull. — 2. *hrammþviti* = handarsteinn, gull; *bjóðr* hrammþvita, mannkenning. — 3. *hoddr*, gull, hodd*dofi*, nízka. — 4. *hringbrjótr*, mannkenning. — 5. *glaðar* = gleðr; *flotnar*, menn; *fjöl* = fjöld. — 6. *Fróða mjöl*, gull. — 8. *haukstrandarmöl* = armsteinar, gull.

18. 1. *folkhagi*, þjóðhagi, listamaðr. — 2. *fjörlag*, dauði. — 3. *ýbogi*, sbr. 15. er. — 4. *eggtog*, orrusta. — 5. *árbrandar* = árlogar, gull. — 7. *hornklof* er óvíst hvað er.

19. 6. *munar* grunnr, hugargrunnr. — 8. *jara*, orrusta, jöru *fægir* (af fága) mannkenning.

20. 2. *þagnar rof*, ræða. — 3. *mála mjöt* (sbr. meta) orðval. — 4. *sjöt*, sæti, heimkynni. — 5. *hlátra hamr*, brjóst.

**61, 189** 1 *(Egill)*: Þessi vísa er auðskilin. *Hjalmaklettr* er = höfuð.

**61, 189** 2 *(Egill)*. Hugins vára magnaðr[1] lét Egil fagna svartbrúnum sjónum. Sannspár hugr mága[2] tjáðumk[3] mjök. Knák ráða Ála hattar arfstóli[4] nú sem áðan fyrir attgöfguðum[5] ‚regnaðar regni'[6].

1. *Huginn*, hrafn; *várar*, eiðar; Hugins vára magnaðr, sá sem eflir heit sín við hrafninn, bardagamaðr. — 2. *mága*, flt. af mágr. — 3. *tjáðumk* = tjáði mér, hjálpaði mér. — 4. *Áli*, sækonungr, Ála *hattr*, hjálmr, hjálm*stóll* = höfuð. — 5. *attgöfgaðr* = ættgöfgaðr, frægr af ætt sinni. — 6. *regnaðar regn* er óskiljanlegt.

Bardagamaðrinn lét Egill fagna því að fá sín svartbryndu augu að gjöf. Framsýni mágs míns dugði mér vel. Nú hefi ég höfuð mitt sem áðr.

**64, 196** *(Egill)*. Urðumk[1] en ljóta reiði landbeiðaðar leið. Gaukr sígrat[3], ef veit glamma gamm[4], þramma of sik. Þar nautk enn arnstalls sjötulbjarnar[5] sem oftar. Hnígrat allr[6] sás gjalpar[7] holla hjalpendr of för.

1. *urðumk*, varð mér. — 2. *landbeiðaðr*, landkrefjandi. — 3. *sígrat*, sígr ekki, lækkar ekki flugið. — 4. *glamma gammr*. hundr (?). — 5. *arnstallssjötul*-björn, arnstallssætisbjörn = steinbjörn = Arinbjörn. — 6. = algerlega. — 7. *gjalpa*, líkl. sagnorð, sem þýði að hrósa sér af e-u.

Hin ljóta reiði landkrefjandans (Eiríks) varð mér leið. Gaukrinn lækkar ekki flugið, ef hann veit, að hundr eltir hann. Þar naut eg enn sem fyrri Arinbjarnar. Sá er ekki frá með öllu, sem hefir því láni að fagna, að hafa holla hjálparmenn.

**64, 198** *(Egill).* Era Friðgeiri mjök fœri at heyja örlygi[1] — förum á vit[2] hólms. Skulum gørva[3] banna manni mey, — við Göndlar élhvötuð[4], þanns bítr skjöld ok blótar bönd[5]. Of bauga œgir[6] skýtr alfeigum augum.

1. *örlygi*, orrusta. — 2. *fara á vit* = vitja. — 3. *gørva* = algerlega. — 4. *Göndul*, valkyrja; valkyrju *élhvötuðr*, bardagamaðr. — 5. *bönd*, goð. — 6. *bauga œgir*, gjöfull maðr.

**64, 199** 1 *(Egill).* Erat rétt at synja Ljóti lítillar bœnar. Ek leik við bleikan hal við brynju bifteini[1]. Búmk[2] til vígs, enn ek lætka hánum ván vægðar. Skapa vildum vér skjalda skœru[3] dreng á Mœri.

1. *brynju bifteinn*, spjót. — 2. = ég bý mig. — 3. *skœra*, senna, *skjalda* skæra, bardagi, hér: einvígi.

Það er eigi rétt, að synja Ljóti lítillar bænar. Ég vil leika við hinn bleika mann með spjóti mínu. Ég bý mig til einvígsins, og gef honum enga vægðar von. Vér viljum láta hann fá að berjast (hér) á Mæri.

**64, 199,** 2 *(Egill).* Þessi vísa þarf varla skýringar við: *arnum* er = örnum.

**64, 200** *(Egill).* Flóðs fúra stekkvandi[1], kappi þykki mér fara nekkvat fyr. Happlauss hodda[2] beiðir hæðisk. Fleindöggvar stafr[3], sás frestar höggum, vegrat fast. Vábeiðan[4] fer víðan vall fyr rotnum skalla.

1. *flóðs fúrr* (eldr), gull, gulls*stekkvandi*, mannkenning. — 2. *hoddar*, gull; gulls *beiðir*, mannkenning. — 3. *fleindöggvar stafr*, spjótaregns viðr, mannkenning. — 4. *vábeiða* (af vá og beiða), sá sem vill öðrum ilt.

Maðr, mér þykir kappinn hopa nokkuð á hæli. Vesalings maðrinn er hræddr. Sá sem lætr höggin bíða, berst

ekki braustlega. Illmennið flýr um völlinn undan skalla mínum.

64, 201 *(Egill).* Ulfgrennir[1] sás hefr unnit flest et illa fell —, skald hjó fót af Ljóti —. Veittak Friðgeiri eir[2]. Séka til launa í móti, lóns logbrjótandi[3]. Geira gnýr vas mér jafn gamanleik við bleikan hal.

1. *ulfgrennir,* úlfafæðir, mannkenning. — 2. = hlífð. — 3. *lónslog,* gull; gullsbrjótandi, mannkenning.

Sá maðr, er flest ilt hefir unnit, fell — skáldið hjó fót af Ljóti. Ég veitti Friðgeiri vörn. Ég sé ekki til neinna launa fyrir það. Það var sem gamanleikr fyrir mig, að berjast við hinn bleika mann.

65, 205 *(Egill).* Blár dragvandill[1], sás brugðum fram, beitat rú randir, af þvít Atli hinn skammi deyfði eggjar. Neittak afls við örmálgastan hjörva ýti[2]. Létk jaxlbróður eyða, 'ek bar sauð'[3] með nauðum.

1. *dragvandill,* sverð. — 2. *hjörva ýtir,* mannkenning. — 3. *ek bar sauð* er óvíst hvað á að þýða. — Að öðru leyti er vísan ljós.

67, 208 *(Egill).* Drengr lét of fengit sjálfráði greppi[1] gullknappaðar silkislœður. Getk aldri betra vin. Arinbjörn hefr of árnat[2] eirarlaust[3] oddvita[4] ríki. Sið man of fœðask seggr slíkr eða meiri.

1. *greppr,* skáld. — 2. = þjónað. — 3. = hvíldarlaust. 4. *oddviti,* höfðingi, konungr. — Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

71, 221 *(Dóttir Ármóðs).* *Hornahildr,* í 5 vo., er kvenkenning. — Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

71, 223 *(Egill).* Erumk[1] títt at vátta verð þinn. Berk þung vætti at hættak til þessa göngu kinnalá[2] minni. Margr gestr velr œðra gjald þars gistir. Vit finnumk sjaldan. Ármóði liggr öldra[3] dregg í skeggi.

1. = er mér. — 2. *kinnalá,* líkl. vín. — 3. *öldra* (eign.-fall af öldr), öls.

Mér er ljúft að vitna um beinann, sem mér hefir verið veittr. Ég vitna að ég hætti víninu, sem ég hafði drukkið, [í þessari göngu. Margr gestr borgar með dýrara gjaldi, þar sem hann gistir. Öldreggjarnar eru í skeggi Ármóðs.

71, 224 *(Egill).* Drekkum hvert full ór, þótt Ekkils eykríðr[1] beri tíðum hornasund[2] at hendi bragar Ulli[3]. Leifik vætr[4] horns, þótt laufa leikstœrir[5] fœri mér hrostatjörn[6] í horni til dags at morni.

1. *Ekkill,* sækonungr; Ekkils *eykr,* skip; Ekkils ey*kríðr,* mannkenning. — 2. *hornasund* = öl, vín. — 3. *bragar Ullr,* kvæða-Áss, skáldið. — 4. = ekkert. — 5. *laufi,* sverð; laufa *leikstœrir,* mannkenning. — 6. *hrosti,* „meskjað" malt, hrosta*tjörn,* öl.

Ég tæmi hvert horn, þótt mér sé borið hvert af öðru. Ég skil ekki eftir í horninu, þótt maðrinn færi mér öl í horni til morguns.

72, 225 *(Egill).* Illsögull armlinns ýtir[1] nýtr konu sinnar ok dóttur. Oss 's óttalaust við ógnar hvessi. Þeygi munk þykkjask verðr hlíta svo gøru við þenna grepp fyr drykkju. Skulum vappa vítt á veg.

1. *armlinnr,* armhringr; armlinns *ýtir,* mannkenning.

Hinn illmálgi maðr nýtr konu sinnar og dóttur. Ég er ekki hræddr við þann kappa. Ég þykist ekki mega

hlíta svo búnu við þenna mann fyrir beina hans. Vér skulum nú fara af stað.

72, 226 *(Egill).* *Laukalind* í 7. vo. er kvenkenning. — Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

73, 227 *(Egill).* Veizt, ef ferk með fjóra, færat sex, þás vexli við mik roðnum hlífa hjaldrgoðs hneitiknífum[1]. Enn ef ek em með átta, erat þeir tolf, er skelfi mér svartbrúnum hjarta at samtogi sverða.

1. *hlífa hjaldr,* bardagi, hlífa hjaldr*goð,* mannkenning; *hneitiknífar,* sverð.

Vita máttu, að ef ég fer með fjóra, fær ekki þá sex menn, er geti átt vopnaviðskifti við mig. Enn ef ég er með átta, er ekki kostr á tólf, sem skelfa hjarta mitt (hins svartbrýnda) í bardaga.

**Sonatorrek.** 1. 6. *Viðurs þýfi* = Óðins þýfi = skáldskapr.

2. 2. *ekki,* grátr, sorg. — 6. *Friggjar niðjar* = Æsir, *fagnafundr* þeirra er hér = skáldskaprinn.

3. Fyrri hluti vísunnar er eitthvað aflagaðr og verðr ekki skýrðr. — 5.—8. *Jötuns hals undir* er = jötuns (Ýmis) blóð, sjór; *náinn* = ættingi. — Sjórinn dunar fyrir naustdyrum ættingjans.

4. 3.—4. vo. getr próf. Bugge til að eigi að vera: *læbarnar | sem limar marka.* — 5. *karskr,* glaðr. — 6.—8. *kögglar frænda hrers.* limir frænda líks *(hrer* af hrjósa).

5.—7. þarf varla skýringar við.

7. 2. *ryskja,* taka hart á (sbr. ryskingar).

8. 3.—4. *vas ölsmið allra tíma* = væri ölsmið (Ægi) ævin liðin (?) — 5.—6. *hroði,* líkl. stormr, og hroða *vábræðr* eru þá = sjávargoðin; *viða,* eiga við. — 7.—8. *Ægis man.* kona Ægis = Rán.

9. Þarf ekki skýringar við.

10. 6. *munvegar*, sæluvegar, sæluheimkynni (hjá Óðni).

11. 5. *randviðr*, mannkenning. — 7.—8. *Hergautr* = Óðinn; enn reyndar eru ekki síðustu vísuorðin fullljós.

12. 1. *láta*, hér = vera eftirlátr.

13. 2.—3. *mána brúðar byrvindr*, tröllkonu byr, = hugr

14. 4. *við óðræði*, þegar skjótra ráða þarf.

15. 4. *elgjar galgi*, er óvíst hvað er. — 6. *niflgóðr* heldr dr. F. J. að sé = ógóðr = illr.

17. þarf eigi skýringar við.

18. 5.—6. *burr*, sonr; *býskeið*, loft, loft*bær*, himininn.

19. 1.—4. *hrosta fens höfundr stendr mér á hendi í föstum þokk* (dr. F. J.); hrosta fen = vín, höfundr þess = Ægir; á þá líklega að skiljast: Ægir stendr mér á hendi (sbr. liggja á hálsi, standa á sporði) í þungri þykkju. — 6. *óróar gríma*, er eitthvað aflagað. — 7. *rýnnis reið*, (*rýnni* af rún) vitsmuna vagn, höfuð.

20. 2. *sóttar brími*, sóttar eldr, brennandi sótt. — 8. *námæli* = orð sem ganga nærri manni.

21. 4. *Gauta spjalli* = Gauta málvinr = Óðinn.

22. 6. *vagna rúni* = vagna vinr = Óðinn.

23. 2. *bróðir Vílis* = Óðinn. — 3. *goðjaðarr*, hinn æðsti goðanna = Óðinn. — 5. *Míms vinr* = Óðinn.

24. 2. *úlfs bági*, sá sem úlfum er andvigr = Óðinn.

25. 2.—3. *Tveggja bága njörva nift.* *Tveggi*, Óðinn; hans *bági* = Fenrir; *nift*, systir, *njörva nift*, alsystir; alsystir Fenris = Hel.

**Arinbjarnarkviða.** 1.4. *gleggvingr*, féglöggr maðr, nízkr maðr. — 8. *þjóðlygi*, höfuðlygi.

2. 1. *skaup*, háð.

3.—5. þurfa varla skýringar við.

6. 1. *bolstrverð*, rekkjulaun Gunnlaðar, skáldskapr. —

3.—4. *maka hæings markar drótni* er ekki fullljóst. — 6. *Yggjar* (Óðins) *full*, skáldskapr.

7. þarf eigi skýringar við.

8. 2. *tira,* er óvíst hvað er, sýnist tákna höfuðið. — 3. *sökk*, dæld.

9. 7. *heiþróaðr* er óvíst hvað er; hefir verið getið til að vera ætti *heiðþróaðr* (af heiðr og þróast).

10. 3. *kníar,* menn. — 4. *fjón*, hatr. — 5. *þjóðan*, höfðingi, konungr. — 6. *vætki ló* = ekki laug.

11. vantar svo í, að engin meining fæst úr.

12. 3. *váljúgr* (sbr. vonarlygi), svikull. — 5. *örverðr,* ekki verðr.

13. 3.—7. *bratt stiginn hróðr,* hinn örðugi skáldskapr.

14. 2. *ómun,* rödd; *lokarr*, hefill, ómunlokarr = rödd. — 3. *mögr Þóris* = Arinbjörn.

15. 7.—8. *bjóð* borð; *birkis-ótti,* eldr; birkis ótta *borð*, arinn; *bjóða björn birkis ótta* = Arinbjörn.

16. 3. *yrþjóð* = verþjóð. — 5. *grjótbjörn* = Arinbjörn.

17. 7.—8. *vindker*, loft, vindkers *botn* jörðin. Miðhluti vísunnar verðr eigi skilinn.

18. Fyrri hluti vísunnar verðr eigi skýrðr, og seinni hlutinn er óljós. — 2. *höfuðbaðmr* er = ættingi. — 5. *ávarðr* = verndaðr. — 7.—8. *Véþormr* er mannsnafn; *veklinga tös* er óvíst hvað vera á.

19. *viðr* = vinnr. — 6. *skati,* örlátr maðr. — 8. *spjör* spjót. Hugsunin líklega þessi: Ég segi að ekki sé skamt milli húsa örlátra manna, né auðskeft hvers manns spjót.

20. 3.—4. *legver*, líkl. rekkja, legvers *knörr*, hús. — 7. *atgeirs tuftir,* atgeira tóttir, hendr; *með auðar atgeirs tuftir* = tómhendr.

21. 1. *fégrimmr,* örlátr. — 3. *dólgr,* óvinr. — 4. *Draupnis niðjar* = afkvæmi Draupnis, gullhringar. — 6. *synir hvinna* = þjófar.

22. 1. *aldrteigr*, lífskeið. — 3.—4. *fjölháinn friðarspjöllum*, sem friðspjöll hafa oft verið háð á.

23. 3. *máskeið*, mávaskeið, sjór. — 6. *Rökkva stóð*, sækonungs hestar = skip. — 7. *vellvönuðr* (af vell = gull og vana), mannkenning. Hugsunin: Það væri rangt, ef mörgu gagni, því sem hinn örláti maðr veitti mér, væri varpað í sjóinn (fjölfarinn skipum).

24. 3. *málþjónn*, tunga.

78, 254 *(Egill)*. Börðumk einn við átta, enn tysvar við ellifu. Varðk einn bani þeira. Svá fengum val vargi. Skiftum hlífar skelfiknífum[1] hart af heiftum. Létk kastat valbasta eldi[2] af emblu aski[3].

1. *hlífar skelfiknífar*, sverð. — 2. *valböst* er óvíst hvað er; *valbasta eldr*, spjót. — 3. *emblu askr* virðist vera = hönd.

Ég barðist einn við átta, enn tvisvar við ellefu. Varð ég einn bani þeirra. Vopnaviðskiftin vóru hörð og grimm. Ég kastaði spjóti af hendi.

78, 255 *(Egill)*. Nú þverra Ingva þingbirtingar[1], þeirs þverðu máreitar dag[2]. Hvar skalk með orðum leita mildra manna, þeira 's hegldu mér hauks háfjöll[3] dígolsnjávi[4] fyr handan eyneglda jarðar gjörð[5].

1. *Ingvi*, sækonungsheiti, Ingva *þingbirtingar*, bardagamenn. — 2. *máreitar* (sjávar) *dagr*, gull. — 3. *hauks háfjöll*, hendr. — 4. *dígulsnjár*, gull. — 5. *eyneglд* (eyjótt) *jarðargjörð*, sjór.

Nú fækka þær hetjur, sem eru örvar á fé. Hvar skal ég snúa máli mínu til örlátra manna sem þeirra, er létu gullið dynja sem hagl á hendr mér fyrir handan hafið?

78, 256 1 *(Einarr skálaglamm)*. Gerðak veig örváfaðar[1] of virða vörð þanns sitr at, jörðu, meðan aðrir sváfu. Iðrumk þess. Hykk ferri[2], at hodda stekkvi[3], frœknum vísa[4], þóttu skald in verri. Fýsinn sóttak gram hinig.

1. *Gerðak veig örváfaðr* heldr dr. F. J. að eigi að vera: *Gerðak veig örr Váfaðar*: Ég gerða bráðr veig Óðins (*Váfaðr* = Óðinn). — 2. = fjarri. — 3. *hodda stekkvir*, gullstekkvir, mannkenning. — 4. *vísi*, höfðingi, konungr.

Ég lét ekki bíða að yrkja um konung meðan aðrir sváfu. Þess iðrast ég nú. Hygg ég fjarri því, að hinum frækna konungi þyki skáld verri enn aðrir menn. Ég var fús að heimsækja konung hingað.

78, 256 2 (*Einarr skálaglamm*). Sækjum jarl, þanns þorir auka ulfs verð sverðum. Skipum borðróinn barða baugskjaldum[1] Sigvalda. Sá sveigir sárlinns[2] drepr eigi hendi við mér es finnum gram. Berum rönd út á Endils[3] andra[4].

1. *baugskjaldr*, baugskjaldaðr, sem hefir skjöld með baugi (máluðum). — 2. *sárlinnr*, sárormr, sverð; sárlinns *sveigir*, mannkenning. — 3. *Endill*, sækonungsheiti. — 4. *andra*, þolf. flt. af öndurr, skíð; Endils skíð, skip.

Nú vil ég sækja heim þann jarl, sem þorir að veita úlfinum bráð með sverði sínu. Ég ætla að skipa hinn borðróna barða Sigvalda hins baugskjaldaða. Hann drepr eigi hendi við mér er ég finn höfðingjann. Nú ber ég skjöld minn á skip út.

78, 257 (*Egill*). Mál es at leyfa barða ljósgarð[1], es þák, lofs enda[2]. Boð hoddsendis[3] kom mér heim at hendi. Taumar erðgróins gylfa of grundar glaums[4] skulut mér verða misfengnir. Hlýðið ér til orða.

1. *barði*, skip, barða *ljósgarðr*, skjöldr. — 2. *lofs endir* (sbr. málsendir) lof. — 3. *hoddsendir*, gullsendir, mannkenning. — 4. *erðgróinn*, jarðgróinn; *gylfi*, sækonungr; hans *grund* er sjórinn; *glaumr*, hestr; sækonungs hestr er = skip. Taumar á hesti jarðgróins sækonungs = taumar á dvergafarinu = skáldskapnum.

79, 258 *(Egill).* Átkak[1] arfa erfinytja[2] mér til þarfan. Sonr hefr of svikvinn mik kvikvan. Telk svik í því. Vel mætti vatna viggríðandi[3] bíða þess, es hafskíða hljótendr[3] hlœðu grjóti of mik.

1. = áttak-a-k = ég átti eigi. — 2. *erfinytjar*, erfðafé; *arfi* erfinytja, sonr. — 3. *vatna viggríðandi*, vatna hestríðandi, mannkenning. — 4. *hafskíð*, skip, hafskíða *hljótendr*, menn.

Ég átti ekki erfingja, sem væri mér mjög þarfr. Sonr minn hefir svikið mig í lifanda lífi; þetta kalla ég svik. Vel hefði hann mátt bíða þess er menn hlœðu grjóti yfir mig (er ég væri dáinn).

79, 259 *(Egill).* Heyri þegn konungs fúss á mína forsa fallhadds stalla vinar[1]. Þinn lýðr hyggi til þagnar. Oft skal mín góð arnar kjafta örð[2] of fregnask of Hörða tröð[3] 'hrœra hregna' hafnstýrandi[4].

1. *stalla* vinr, vinr goðastallanna = Óðinn; *fallhaddr*, síðhœrðr; *forsar* Óðins, skáldskapr. — 2. *arnar kjafta* (nefja) örð (sáð) = skáldadrykkr, skáldskapr. — 3. = Hörðaland. — 4. *hrœra hregna* er óskiljandi; *hrafnstýrandi* er síðari hluti af mannkenning.

Heyri þegn konungs fúslega á kveðskap minn; lýðrinn þegi. Oft mun kveðskapr minn spyrjast á Hörðalandi.

84, 278 *(Egill).* Spanðak endr jörð með orðum ór hendi Steinari. Ek þóttumk þá orka til þarfar arfa Geirs. Mögr systur minnar brast mér. Hétumk þó fögru. Blundr máttit of bindask böls. Ek of undrumk slíkt.

Áðr dró ég úr hendi Steinari jörð hans með orðum einum. Ég þóttist þá gera syni Geirs þarft verk. Systursonr minn brást mér. Ég hét mér þó (öllu) fögru. Blundr

gat eigi á sér setið að gera ilt af sér. Mig furðar á því.

85, 279 *(Egill).* Hefk váfur vals helsis[1]. Ek em skalla váfallr[2]. Blautr erumk bergifótar borr[3], enn hlust es þorrin.

1. *váfa* líkl. samrætt sögninni váfa, veifast, dingla; *vals helsi*, líkl. = hönd. — 2. *váfallr*, sem er hætt við að falla; váfallr *skalla*, hætt við að falla á höfuðið. — 3. *bergifótr*, líkl. kjálki, bergifótar *borr*, er þá = tönn.

Ég hefi riðu á höndunum; mér hættir við að detta á skallann. Tennrnar eru orðnar veikar og heyrnin er þrotin.

86, 280 *(Egill).* Hvarfak blindr of branda[1]. Biðk geira Syn eirar[2] sitja[3] mér harm, þann berk á hvarma hnitvölum[4]. Jarðgöfugr konungr framði mik Hamðis geirs grams orðum[5], es hafði forðum orð mín at gamni.

1. *brandar*, eldar. — 2. *geiri*, eldr; geira *Syn* eldakona. — 3. *eir*, vægð, friðr. — 3. = þola. — 4. *hvarma hnitvölur* (af hnita rekast á og vala) augu. — 5. *Hamðir*, sonr Guðrúnar Gjúkadóttur; var grýttr; Hamðis *geirar* því = steinar; steina *gramr* jötunn; jötna *orð*, gull.

Ég hvarfla blindr kringum eldinn. Ég bið eldakonuna að þola mér, þótt ég sé blindr. Göfugr þjóðkonungr gæddi mig fyrrum gulli, því að hann hafði gaman af orðum mínum.

87, 281 *(Egill).* Langt þykki mér. Likk, afgamall karl, einnsaman firr konungsvörnum[1]. Eigum tvær allkaldar ekkjur[2], enn þær konur þurfu blossa.

1. fjarri konungs vernd. — 2. *ekkja*, hæll.

Mér þykir tíminn langr. Ég ligg einnsaman, afgamall karl, fjarri vernd konungs. Ég á tvo ærið kalda hæla, sem þarf að verma.

# Nöfn.

## Athugasemdir og leiðréttingar.

---

Bls. $V_1$. ofanverðum, rétt: *öndverðum*. — $58_{28}$ ‚Létumk' er í einu hdr. *letiomc* og virðist það vera rétt: ‚ellin letr mik', enn vísan verðr ekki öllu skilmerkilegri fyrir það. $78_{20}$ hrærikytjur r.: *hrœrikytjur*. $96_{18}$ ingva r.: *Ingva*. $123_8$ lista r. *Lista*. $120_{21}$ skaltu r. *skalt*. $120_{22}$ hefir r. *hefr*. $121_8$ sæfask r. *sœfask*. $127_7$ æstr r. *œstr*. $144_{12}$ græer r. *grœr*. $144_{20}$ ‚of' virðist ekki nauðsynlegt rímsins vegna, því að hér mun vera að ræða um undantekningu frá reglunni, af því blásandi *(ð)* er í samstöfuninni. $150_2$ gauta r. (samkv. því sem stendr í skýringunum) *götva*. $151_{23}$ ‚Egill gerðist enn snoðinn'. Þetta er óviðkunnanlega að orði komizt, enda sleppa mörg handrit þessum orðum. $157_{14}$ eiðsært r *eiðsœrt*. $159_{27—28}$ þyrnifótar. Nærgis r. *þyrnifótar*. nærgis. $162_{10}$ sumir r. *sum*. $165_9$ bræðra r. *brœðra*. $186_{15}$ (2 dálkr) ís arns r. *ísarns*. $189_{29}$ ‚regnaðar' heldr Hjalmar Falk að eigi að vera *rógnaðra*. *Rógnaðra reginn* er rétt mannkenning. $196_{19}$ Gjalpar r. *gjalpar*. $208_{24}$ slæður r. *slœður*. $227_6$ ‚of trega' getr líka verið *oftrega*. $242_{10}$ rétt = rekit. $252_{11}$ Nús r. *nú*. $255_4$ ýtanlendis r. *útanlendis*. $255_{19}$ ingva r. *Ingva*. $256_1$ örváfaðar (sbr. skýringarnar) r. *örr Váfaðar*. $278_{11}$ fyrir ‚vindskeiðunum' hafa sum handr. *hurðinni*, sem virðist vera réttara. — Ætlast var til, að í vísunum væri fylgt fornari stafsetningu enn í meginmálinu, enn

það hefir gleymzt á sumum stöðum, og hefir þótt réttast að leiðrétta það. Þannig á t. d. að vera ritað *œ* og *ø* í vísunum, þar sem upphafleiki bendir til, og *hefr* (af sögninni ‚hafa‘, ekki *hefir*), sem er algengt í fornum kveðskap.



